# ÍSLENZK

# LJÓÐABÓK

JÓNS ÞORLÁKSSONAR

prests að Bægisá.

---

SÍÐARI DEILD.

KAUPMANNAHÖFN.

Prentað á kostnað *Þorsteins* stúdents *Jónssonar*

hjá *J. D. Kvisti*, bóka-prentara og nótna.

1843.

## TIL LESENDA.

Með deild þessari er lokið öllum íslenzkum ljóðmælum Jóns prests Þorlákssonar, sem nú hafa fengizt til prentunar, og er ljóðmælum í þessari deild skipt þannig í flokka:

Í *fyrsta* floski eru *sálmar*, og þótti helzt til hlýða að hafa þá í flokki sèr, og láta nætast með þeim hið útlagða og frumkveðna, þareð ekki var ætíð hægt að segja hverjir útlagðir væri og hverjir frumkveðnir. Sálmar þeir sem standa í enni nýju sálmabók eru prentaðir hèr eptir handritum, og vísað að eins til sálmabókarinnar; geta þeir sem vilja síðan borið saman við sálmabókina og sèð hversu breytt hefir verið sálmunum og hve heppiliga, og má þar af ráða hvað skáldið hefir haft fyrir sèr þegar hann reiddist forstjóra prentsmiðjunnar.

Í *öðrum* flokki eru *erfiljóð*, og eru þau því tekin sèr, að þau eru blönduð að efninu til, og eru sum líkari sálmum en sum vísum. Þeim er raðað eptir áratali svo mörgum sem varð, en hin eru sett aptast sem óvíst er hvenær ort hafi verið.

Í *þriðja* flokki eru *brúðkaupskvæði*, og líkjast þau framar vísum enn sálmum.

Í *fjórða* flokki eru *ýmislig kvæði*, og hefir verið reynt til að skipa þeim eptir efni, þareð aldursröðin er óvíss, og er þó auðvitað að slík röð mætti vel vera öðruvísi, þareð efnið er svo margvísligt, svo náliga mundi hverr maður raða öðruvísi enn annarr.

Í *viðbæti* standa enn sálmar nokkrir og erfiljóð, og ein útlögð staka, sem voru á handriti nokkru er mèr barst fyrst í hendur eptir að tveir enir fyrstu flokkar í deild þessari voru prentaðir. — Að lyktum hefir þótt aðgengiligra fyrir lesendur að bæta við registri allra kvæðanna í báðum deildum eptir upphafsstafaröð; bætir það nokkuð úr þar sem menn kynni að leita kvæða eða einstöku vísu á öðrum stöðum enn þær eru settar hèr í bókinni, og svo til að finna þar sem mörgum vísum er steypt í hóp saman.

Ekki hefir heppnazt að ná til útgáfu þessarar öllum ljóðmælum skáldsins; sakna eg, eptir registrum þeim sem eg hefi komizt yfir: brúðkaupsvísna til Björns Gottskálkssonar í Hrappsey, sem prentaðar voru þar 1793 (sjá æfisögur Hrappseyjar feðga bls. 58 ath. gr.). Af sálmum og vísum vanta 12 eða 13, sem registrin hafa upphaf að. Tvær lánglokur: "*Fagurt skín á firði Eyja*" og "*Ei sèst duggan Dana*", eru eignaðar Jóni presti Þorlákssyni í kvæðasafni ens íslenzka bókmentafèlags, en eg hefi sleppt þeim þessvegna

að eg efast um að þær sè honum rèttiliga eignaðar, fyrrenn meiri rök koma fyrir því, þaraðauki eru vísur þessar auðsjáanliga rángfærðar hèr og hvar og að líkindum ekki heilar. Þegar útgáfa þessi er komin í hendur alþýðu, og fróðir menn og kunnugir hafa sèð hvað safnað er, mun mega vænta að þeir sýni útgefandanum og mèr þá velvild, að senda okkur alla þá viðuranka og leiðrèttíngar sem hverr einn fær til leiðar komið, og mun það verða hagnýtt síðarmeir; má þá vænta að verk eins hins helzta þjóðskálds Íslendínga komist á prent svo vel að sæmiligt verði minníngu hans.

Handrit þau, sem útgáfa deildar þessarar er bygð á, eru að mestu leiti hin sömu og hagnýtt hafa verið við ena fyrri deild, og þykir ekki þörf að lýsa þeim framar enn þar er gjört. — Allbúið er að sumum þyki það óþarfi að getið sè handritanna við sèrhverja vísu, en þar af má þó marka að nokkru hversu mönnum hafa fallið ljóðmælin eður þótt kveða að þeim á Íslandi, því þau sem flestum hafa þótt bezt eru optastnær í flestum handritum. Það mun og mörgum þykja óviðurkvæmiligt, að teknar eru lèligar stökur og klúrar, og þykja þær niðra minníngu skáldsins, en það er gjört vegna þess: að mèr fyrir mitt leiti þykir rèttast að tekið sè allt það sem hvert það skáld hefir ort sem kveður að, og má þá hverr sneiða hjá því sem honum þykir ósvinna að hafa yfir: þaraðauki ætti ekki að taka burt hið klúra, nema

menn tæki einnig hið ónýta eður lèttvæga, og yrði þá opt svo mjótt mundángshófið og vandratað, að eg treysti mèr ekki til að gjöra það svo að ekki yrði mikil spjöll á. Ekki eru heldur kvæði þessi klúrari enn mart sem prentað er eptir en frægustu skáld annarstaðar í veröldu, t. a. m. Horatius, Ovidius, Pope o. fl., og þareð heill mannsaldur er liðinn síðan þau voru kveðin er síður enn ekki að vænta að nokkurr muni skoða þau öðruvísi enn vott mannligs breiskleika þeirrar aldar, enda hefir og skáldið sjálft sýnt í öðrum kvæðum sínum að þau hafa verið framar "eptirleikur" heldur enn heiptræknis og illsku vottur, því mannelska og hjartagæzka og græzkulaust gaman hefir verið ríkast í skapferði hans þegar hann mátti njóta sín.

Fáein ljóðmæli á latínu hafa mèr borizt í hendur, sem sèra Jón hefir ort, en mèr þykir ekki hlýða að bæta þeim við safn þetta, nema skíra að eins stuttliga frá þeim í ágripi æfisögu hans, sem hèr fylgir einsog lofað var.

Kaupmannahöfn 8da d. Júnímán. 1843.

*Jón Sigurðsson.*

## YFIRLIT.

# ÁGRIP ÆFISÖGU
## JÓNS PRESTS ÞORLÁKSSONAR.

Ef lesendur hefði sèð mann, meðallagi að hæð og grannvaxinn, nokkuð lotinn í herðum, með gult, slegið hár, breiðleitan og brúnamikinn en þó lítið höfuðið, snareygan og harðeygan, sem í tinnu sæi, bólugrafinn mjög með mikið skeggstæði, söðulnefjaðan og hafið mjög framanvert, meðallagi munnfríðan, útlimanettan og skjótan á fæti, málhreifinn og kvikan, svo líkaminn allur væri jafnan sem á iði — þá hefði þeir sèð þjóðskáld Íslendínga Jón prest Þorláksson á þroskaárum sínum.

Hefði Jón Þorláksson sjálfur mátt segja æfi sína mundi hann að vísu hafa getað sagt frá mörgu fróðligu og merkiligu betur enn hèr verður auðið, því mart hefir drifið á daga hans bæði blídt og strídt framar enn flestra á hans reki, en hann hefir ekki, það menn vita, látið eptir sig neinar aðrar frásagnir um æfi sína, enn smá-atvik þau sem fram koma hèr og hvar í kvæðum hans, og þeir sem hafa ritað nokkuð um hann hafa verið mjög fáorðir, og lítt getið

þess sem helzt lýsti manni sjálfum, og áhrifum þeim sem skóli lífsins hafði á geð hans og skáldskapargáfu; er því ekki að vænta að þetta verði hèr svo greiniliga rakið, eða með svo mikilli vissu sem vera bæri. En þeir sem hafa ritað ágrip æfi hans eru fyrst Halldór Hjálmarsson, ástvinur hans, sem var kennari *(conrector)* á Hólum, og Hallgrímur djákni á Þíngeyrum í prestatali úr Hóla biskupsdæmi, en eptir þeim hefir ritað stutt ágrip Jón prófastur Konráðsson á Mælifelli, og er það hagnýtt hèr það sem það náði. Þaraðauki er byggt á vitnisburði Bjarna Jónssonar skólameistara og skjölum ens íslenzka lærdóms-lista fèlags og bókmentafèlags; hliðsjón er og höfð af ymsum ritum sem geta skáldsins eða eru verk hans, t. a. m. Miltons Paradísar missis (með litlu æfiágripi), Messíasdrápu Klopstokks, Túllínskvæða, Tilraunar um manninn, Rita lærdóms-lista fèlagsins, Eptirmæla átjándu aldar, Minnisverðra tíðinda, Sagnablaða og Klausturpósts, og svo ferðabóka þeirra Mackenzies og Hendersons. Að rekja hið helzta af ættum er gamall vani og góður í æfisögum Íslendínga, sem með engu móti ætti niður að falla, og fyrir því vilda eg fyrir engan mun sleppa að telja hið helzta af ættbálki skáldsins bæði í föður og móður ætt.

---

Jón Þorláksson var fæddur í Selárdal í Arnarfjarðardölum á Luciumessu, 13da dag December mánaðar 1744; þá var þriðji sunnudagur í Jólaföstu. Faðir hans var Þorlákur prestur Guðmundarson, sem fyrst var kapellán í Selárdal hjá föður sínum þrjú ár (1735—38), en síðan prestur þar um 10 ár, þángað til hann var dæmdur af prestskap 1749; síðan var hann á ymsum stöðum og hafði ymsar sýslanir á hendi: var hann fyrir Ísafjarðar sýslu um tvö ár (1754—56) í útistöðum Erlendar sýslumanns Ólafssonar; Þykkvabæjar klaustur fékk hann 1759; árið eptir var hann settur fyrir Vestmannaeyja sýslu, og 11 árum síðar (1771) fyrir Árness sýslu, en hann andaðist skömmu eptir (1772). Bræður Þorláks Guðmundarsonar voru þeir Þórður prestur að Grenjaðarstað (1735—42), sem tók attestaz í guðfræði með Finni biskupi 1730, og fengu þeir þá einir hezta vitnisburð *(laudabilem)* af öllum þeim sem undir próf gengu [1]); annarr var Vernharður prestur í Otrardal, móðurfaðir Þorkels prests á Stað í Hrútafirði, föður Vernharðar prests í Hitarnessþíngum. Þorlákur Guðmundarson átti Guðrúnu Tómasdóttur úr Tálknafirði, og var faðir hennar einn af enum svonefndu Sellátrabræðrum, sem nafnfrægir voru

[1]) Það er haft eptir háskólakennara þeim sem prófið hélt, að hann hafi sagt: "Ætíð verði þér Íslendingar hlutskarpari enn *vorir* landar" *(Vos Islandi semper præripitis palmam nostratibus)*.

fyrir afl og þrek, á sinn hátt og Hafnarbræður í Austfjörðum. Börn þeirra Þorláks prests og Guðrúnar, systkin Jóns, voru þau Hólmfríður og Páll, sem síðan var prestur á Þíngvöllum, faðir þeirra Einars prests á Reynivöllum og Bjarnar prests á Þíngvöllum. Guðmundur faðir Þorláks og þeirra bræðra var fyrst prestur í Gufudal (1708) og síðan í Selárdal (1734—38) og prófastur í Barðastrandar sýslu um 11 ár (1727—38). Faðir hans var Vernharður prestur á Stað í Aðalvík (1659 og þareptir)[1]; hann misti prestskap fyrir galdra-áburð. Faðir hans var Erlendur, mikilhæfur bóndi og lögrèttumaður, Bjarnason, Jónssonar prófasts í Vatnsfirði, Loptssonar. Jón Loptsson var fyrst prestur á Mosfelli í Grímsnesi (1555), og kallaður með enum lærðari mönnum um siðabótar tímana; var hann um hríð settur forstöðumaður skólans í Skálholti, en síðan fèkk hann Garða á Álptanesi (1562) og seinast Vatnsfjörð (1564); þar eptir var hann officialis um hríð á Vestfjörðum, þángaðtil Oddur biskup tók af honum Vatnsfjörð fyrir sakir elli og vanheilsu, 1596. Jón Loptsson átti Guðríði dóttur Jóns prests á Öndyerðareyri, er hrakti Þjóðverja á Grundarmöl; Jón prestur var laungsonur Ásmundar, sem kallaður var enn betri, bróður Stephána biskups, Jónssonar, Egilssonar.

---

[1]) Veitíngarbrèf hans og vígslubrèf er dagsett 16 Nóv. 1658, og gefið af Brynjólfi biskupi.

Móðir Þorláks Guðmundarsonar var Margrèt Arngrímsdóttir, Jónssonar frá Sælíngsdal, Arngrímssonar prests ens lærða á Mel, sem Vídalíns ætt er frá komin, Jónssonar á Auðunarstöðum, Jónssonar, Hallvarðssonar. Móðir Margretar var Ólöf, dóttir Ólafs Ólafssonar á Suðureyri, Björnssonar, Eggertssonar hirðstjóra, Hannessonar hirðstjóra, Eggertssonar þess er riddarabrèf fèkk af Hans Danakonúngi, Eggertssonar úr Víkinni í Noregi; móðir Ólafar var Vigdís Bjarnadóttir Þorleifssonar á Mýrum í Dýrafirði; móðir Vigdísar var Ólöf Ólafsdóttir, Jónssonar úr Hjarðardal í Dýrafirði, Ólafssonar, Guðmundarsonar, Þórðarsonar úr Skötufirði; Jón Ólafsson í Hjarðardal hafði Ísafjarðar sýslu og átti þóru Bjarnardóttur Guðinasonar frá Ögri, Jónssonar og þóru, laundóttur Bjarnar ens ríka hirðstjóra, Þorleifssonar; en kona Ólafs Guðmundarsonar var Sophía dóttir Narfa ábóta á Helgafelli. Móðir Arngríms Jónssonar var Gunnhildur Ólafsdóttir prests í Miklabæ, Jónssonar prests, Björnssonar prests, Jónssonar biskups, Arasonar; móðir Gunnhildar var Guðrún Þórðardóttir, Þorlákssonar frá Marðargnúpi. Móðir Jóns Arngrímssonar ens lærða var Solveig, dóttir Gunnars Gíslasonar frá Seilu í Skagafirði, bróður Árna á Hlíðarenda; faðir þeirra var Gísli lögmaður Hákonarson, Hallssonar, Sveinssonar, Jónssonar lángs úr Axarfirði norður; en móðir Solveigar var Guðrún Magnúsdóttir, prests á

Grenjaðarstað, Jónssonar biskups, Arasonar [1]). Jón á Auðunarstöðum átti Íngibjörgu Loptsdóttur prests, Þorkelssonar. Jón Hallvarðsson átti Guðrúnu, systur Helgu, móður Guðbrandar biskups; faðir þeirra var Jón lögmaður Sigmundarson prests, Steindórssonar; en móðir Jóns lögmanns var Solveig, systir Bjarnar ens ríka, dóttir Þorleifs Árnasonar og Vatnsfjarðar-Kristínar, Bjarnar dóttur Jórsalafara, Einarssonar, Eirekssonar riddara, Sveinbjarnarsonar riddara úr Súðavík. Frá því sem hèr er talið taka miklir ættbálkar við í sögum Íslendínga, og yrði það oflángt að telja.

Um æsku Jóns Þorlákssonar er lítið kunnugt, og vita menn ekki glöggt hvort hann hefir verið hjá foreldrum sínum þángað til þau fóru frá Selárdal (1750) eður síðan, en um nokkurn tíma æsku sinnar hefir hann verið á fóstri hjá góðri konu og ráðvandri, sem Sigríður hefir heitið [2]),

[1]) Sigurður prestur á Grenjaðarstað, sonur Jóns biskups, hefir talið ætt sína til Möðruvellínga á þann hátt: Móðir Jóns biskups var Elin, dóttir Þóru, dóttur Elínar, dóttur Oddnýjar skerkerlingar, Steindórs dóttur; móðir Steindórs var Oddný Brandsdóttir Eirekssonar, Einarssonar, Guðmundarsonar ens dýra, Þorvaldssonar ens auðga; móðir Þorvaldar var Þuríður Guðmundardóttir, Eyjólfssonar ens halta, Guðmundarsonar ens ríka á Möðruvöllum, en þaðan er talið í móðurætt til Ragnars loðbrókar og Danakonúnga og Svíakonúnga.

[2]) Sjá 13du erfiljóð, bls. 181; ókunnugt er mèr hvort 12tu erfiljóðin eru eptir ena sömu konu.

og haft þar ástfóstur. Ekki er heldur neitt kunnugt um nám hans í uppvexti, nema hvað sjá má af vitnisburði hans úr Skálholts skóla [1]). Eptir því sem þar segir hefir hann komið í skóla um haustið 1760, en ekki er getið hvort hann hafi verið undirhúinn úr heimaskóla eður ekki. Eptir því sem þar segir hefir hann komið í skóla um haustið 1760, en ekki er getið hvort hann hafi verið undirbúinn úr heimaskóla eður ekki. Eptir þriggja vetra skólakennslu var hann útskrifaður með þeim orðstír, að hann sè "engum skólabræðra sinna síðri í vísindum og túngumálum, heldur flestum fremri". Hann er talinn vel að sèr í grisku og latínu, og svo í nokkrum greinum guðfræðinnar, grundvallar-fræðum heimspekinnar, og reikníngi. Fyrir siðferði fær hann góðan vitnishurð. Hann var þá á 19da ári, en árið eptir varð hann skrifari hjá Magnúsi amtmanni Gíslasyni og fluttist með honum frá Leirá að Bessastöðum 1766. Þá andaðist Magnús amtmaður um haustið og fór Jón Þorláksson þá til Ólafs amtmanns Stephánssonar og var hjá honum þángað til Gísli prestur Jónsson í Saurbæjar þíngum í Dala sýslu kallaði hann sèr til kapelláns, og var hann vígður þángað 1768. Skömmu síðar andaðist Gísli prestur, og fèkk þá Jón

[1]) Vitnisburðinn hefir ritað Bjarni skólameistari Jónsson í Skálholti 15da d. Aprilmán. (XVII. cal. Maj.) 1763.

Þorláksson brauðið, og var þar prestur tvö ár. Þá bjó í Fagradal gildur bóndi sem Brynjólfur hèt, sonur Bjarna ens ríka frá Skarði, Pèturssonar frá Tjaldanesi, Bjarnasonar sýslumanns, Pèturssonar, sonar Staðarhóls-Páls og Helgu, Aradóttur lögmanns, Jónssonar biskups, Arasonar; kona hans var Íngibjörg, dóttir Páls prests á Melstað, Jónssonar sýslumanns á Reykjahólum, Magnússonar á Reykjahólum, Arasonar frá Ögri og Kristínar, dóttur Guðbrands biskups. Jórunn hèt ein af dætrum Brynjólfs, álitlig stúlka og efnilig; til hennar felldi Jón prestur Þorláksson mikla ást, og vildi eiga hana, en faðir hennar vildi ekki, mun honum hafa þótt prestur óefniligur til búskapar. Litlu síðar ól Jórunn sveinbarn (1770) og varð Jón prestur þá að sleppa kjóli og kalli; var hann þá ýmist að Hjarðarholti í Borgarfirði hjá Þorgrími sýslumanni Sigurðarsyni og Halldóri syni hans, enum mesta ástvini sínum, en stundum var hann með Ólafi prófasti Einarssyni á Ballará í nánd við Fagradal. Annann vetur (1771—72) var hann í Nesi hjá Bjarna landlækni Pálssyni, og skrifaði fyrir hann; fèkk hann þá uppreisn um vorið og var veittur Staður í Grunnavík. Þángað fór hann og tók við staðnum, en var þar skamma stund, því þá ól Jórunn Brynjólfsdóttir barn að nýju, og kenndi honum, og var þá þegar lokið prestskap hans. Fór hann þá aptur til Breiðafjarðar og vistaðist þar. Á þessu ári misti hann föður sinn, en móðir hans var önduð áður

og orti hann minníngarljóð eptir hana með mikilli ást [1]).

Þegar í æsku hefir Jón Þorláksson ort ymsar stökur, en fátt er til af þeim nú, og er sú einna fyrst, að menn kunna, sem hann orti 12 vetra gamall á alþíngi [2]; ort hefir hann og vísur í skóla, því það má sjá af vitnisburði hans, að Bjarna skólameistara hefir þótt hann "ekki ólagligt skáld" [3], og við latínu-skáldskap mun hann að vísu hafa fengizt þar einsog þá var tídt. Frá því hann var hjá Magnúsi Gíslasyni og Ólafi Stephánssyni eru og til nokkrar vísur [4], sem kunnugar hafa orðið um allt land. Síðan eru fáeinar mansaungsvísur til sem hann hefir ort á árunum 1768—72, og útleggíng hans á enum nafnfræga útfararsálmi Prúdentíus mun vera frá þeim árum. Vísa sú sem hann kvað Þorstein prest Þórðarson með úr garði á Stað í Grunnavík hefir einnig orðið hverju mannsbarni kunnug. Þó vísur þessar sè ekki margar lýsa þær þó að hann hefir þá þegar haft lipurleik þann bæði í hugsunum og orðfæri, og náttúrliga fundni, sem öllum hefir þótt einkenna mest skáldskap hans. Skaplyndi hans lýsir sèr og, að hann hefir um þær

---

[1]) Erfiljóð, 60, II. bls. 325.

[2]) II. bls. 411.

[3]) Þar stendur: *"Callet enim jam philologiam græcam et latinam, poëta non ineptus"*. Vera má að hèr sè einkum litið til skáldskapar í latínu.

[4]) II. bls. 431.

mundir verið léttlyndur og síglaður, hugsað lítt fram en tekið hverja stundargleði með báðum höndum, og ekki allsjaldan verið gjálífur og léttúðigur í orðum, en þó jafnan góðlyndur og viðkvæmur. Það var eðliligt, bæði eptir skaplyndi hans og ásigkomulagi, þareð hann var, að kalla má, á sífeldum hrakníngum, að hann tæki sér ekki fyrir um þessar mundir neitt verk sem nokkuð kvað að, og ekki er heldur að sjá að hann hafi hugsað um að taka sér fram í skáldskap, öðruvísi enn að yrkja eptir því sem honum annaðhvort datt í hug í hvert skipti, eða vinir hans heiddu hann, enda var fátt til um þær mundir, og allrasízt svo að það gæti verið honum innanhandar, sem mátti glæða skáldskaparanda eða laga skáldskaparsmekk.

Sama árið sem hann misti prestskap í Grunnavík fékk Ólafur Ólafsson (Olavius) leyfi konúngs til að setja prentsmiðju í Hrappsey, og var hún flutt til Íslands 1773. Þá orti Jón Þorláksson fagnaðar-ósk til þeirra Ólafs og Boga Benediktssonar[1], og kemur þar fram áþekkur skáldskaparbragur einsog hjá Gunnari Pálssyni, en þess verður maður hvergi varr annarstaðar nema ef vera skyldi í vísunni um Lovísu drottníngu[2]. Það er ekki ólíkligt, að Ólafur Ólafsson hafi einna fyrstur flutt kvæði Túllíns út til Íslands, er þá þóttu skara framúr öllum dönskum kvæðum,

[1] II, bls. 414.

[2] II, 423.

og að hann hafi fengið Jón Þorláksson til að íslenzka þau. Lestrarlyst alþýðu var ekki mjög mikil á Íslandi um þær mundir, nema til andligra bóka sem menn voru vanastir við, og því hafa þeir sem prentverkinu stýrðu, af því þeim var bannað að gefa út andligar bækur, talið helzt til að fá kaupendur í Danmörku; er þessvegna mest á dönsku og með dönskum og latínskum útleggíngum það sem prentað var framaneptir. Eitt af því sem fyrst var prentað var útleggíng Jóns Þorlákssonar á nokkrum kvæðum Túllíns og öðrum smákvæðum dönskum (1774), bæði á dönsku og íslenzku, og hefir Ólafur Ólafsson ritað formála fyrir þeim. Þó töluverðir gallar sè á málinu á útleggíngu þessari skaraði hún mikið framúr því sem menn þekktu þá á Íslandi, einkum af prentuðum kvæðum, og ekki leið á laungu að kvæðin voru prentuð upp aptur og fleirum við bætt (1783). Þó er ekki auðið að sjá, að skáldskaparlag Túllíns hafi haft neinar töluverðar áhrifur á kveðskap Jóns Þorlákssonar. Hann starfaði þá jafnframt að útgáfu bóka þeirra sem prentaðar voru og las prófarkir; hefir hann snúið á latínu nokkru í fyrri hluta annála Bjarnar frá Skarðsá, og litið yfir útleggíngu þriðju og sjöttu bókar í norsku lögum, en ekki er útleggíngin hans verk í upphafi. Annað liggur ekki eptir hann um þessi ár nema brúðkaupsvísur, erfiljóð nokkur og fáeinir sálmar, auk nokkurra smákveðlínga sem lítið kveður að.

Meðan Jón Þorláksson var í Hrappsey felldi hann ást til Margrètar dóttur Boga bónda og fèkk hennar, fóru þau að búa í Galtardal og gekk búskapur þeirra mæðuliga og samfarir eigi síður; dóttur áttu þau eina sem Guðrún hèt, og giptist hún Eyjólfi presti Gíslasyni, Ólafssonar biskups. Andstreymi það sem sífelt þreytti hann á þessum árum hefir mikið bugað glaðlyndi hans, og gjört hugarfar hans alvarligra, en þó ekki svo að hann yrði hugsjúkur, hversu sem gekk, og mun hann hafa litið til þess, að hann var gamansamur og ræðinn, þegar hann kallaði sig í gamni Galtardalskrumma. Ekki lítur út sem Ólafur Stephánsson hafi látið sèr mjög annt að styrkja hann til að ná aptur prestskap og brauði, og helzt er þess getið að Benedikt Bogason á Staðarfelli hafi styrkt hann í hágindum hans, þángaðtil Árni prófastur Þórarinsson bar fram mál hans öflugliga þegar hann fór utan til biskupsvígslu 1784. Hann fèkk þar á eptir uppreisn með konúngsbrèfi, dagsettu 11ta Aug. mán. 1786, með því skilyrði að hann mætti ekki prestur vera í Skálholts biskupsdæmi. Árni biskup var kjarkmikill maður, og vandlátur mjög að kenníngum og siðferði; er auðsèð að hann hefir ásett sèr að bæta skólann og alla kennslu, og lærdóm og framferði klerka, mundi honum og hafa tekizt mikið um það ef honum hefði orðið lengra lífs auðið, því hann var röksamur maður og vel að sèr. Hann tók fyrir sig að styrkja Jón Þorláksson til brauðs

og betri hagsælda, og hvetja hann jafnframt til að verja enni fögru gáfu sem honum var veitt guði til dýrðar, og fósturjörðu sinni, en einkum kristnum söfnuðum, til nytsemdar; einn hinn mesti mótlætiskafli á æfi sèra Jóns var það, að hann sviptist öllum þessum styrk: Árni biskup veitti syni hans, sem hann hafði átt fyrst með Jórunni Brynjólfsdóttur, hálfa ölmusu í Hóla skóla, en sveinninn andaðist sama haust áður enn hann skyldi norður fara, og var það föður hans enn mesti harmur sem von var[1]; þaraðauki ætlaði Árni biskup að sjá honum sjálfum fyrir sæmiligu brauði á Norðurlandi, en áður enn honum varð þess auðið andaðist hann (5ta Júlí 1787). Þær einu menjar þekkja menn, að sèra Jón hefir sent honum með brèfi 3 Marts 1787 fimm sálma sem hann hafði lagt út úr dönsku, og má einnig ráða á því brèfi að hann hefir sent honum ljóðmæli áður.

Sumarið eptir (1788) andaðist Árni prestur Tómasson að Bægisá í Eyjafjarðar sýslu, og fèkk sèra Jón þá brauð þetta; hann fór þá þegar um haustið norður þángað, og kom að Hólum nokkru eptir veturnætur, fátækliga til fara og gángandi. Heim að Bægisá kom hann kvöldið fyrir jólaföstuinngáng, og var settur inn þriðja sunnudag í jólaföstu; þá hafði hann fjóra um fertugt. Hann var þá um veturinn hjá ekkju fyrirrennara síns,

[1]) "Sorgin í Nain" er ort eptir hann (II, 306—309).

en tók við staðnum um vorið. Ekki vildi Margret kona hans fara norður þángað, og var kansellíinu ritað um það mál, en það leyfði að nefndir væri menn til að dæma milli þeirra og gjöra skilnað eptir málavöxtum; er sagt að til þess hafi verið nefndir sýslumenn tveir (Vigfús Schevíng og Ísleifur Einarsson) og tveir prófastar (Þorkell Ólafsson og Pètur Pètursson). Nefndarmenn hreifðu að eins við málinu en komu engum lyktum á það, og enginn skilnaðardómur varð milli þeirra hjóna, en Margrèt hjó að því sem þau áttu fyrir vestan þángaðtil hún andaðist um veturinn 1808.

Fljótt varð sèra Jóni til vina þegar hann kom norður, og urðu þeir honum miklir aðstoðarmenn: Stephán amtmaður Þórarinsson, Magnús prófastur Erlendsson, Þorlákur bóndi Hallgríms son á Skriðu og Einarr Hjaltesteð á Akureyri; má sjá á kvæðum til þeirra, að þeir hafa gefið honum og styrkt hann á allan hátt, og þó óbeðnir, því aldrei kvartaði hann hversu bágt sem hann átti, og ætti hann nokkuð var það öðrum eins heimilt og sjálfum honum. Þeir bræður Halldór og Páll, Hjálmarssynir, voru honum og drjúgir aðstoðarmenn, og Halldóri átti hann fyrst að þakka frægð þá sem hann vann sèr með útleggíngu Paradísarmissis. 29 Sept. 1791 skrifaði Halldór lærdóms-lista fèlaginu að hann hafi eignazt árið áður danska útleggíngu Miltons Paradísar missis og lèð hana "góðu skáldi og gáfumanni"

kunnugum sèr; segist hann síðan hafa sèð sýnishorn af að hann sè farinn að íslenzka kvæðið, og þyki sèr vel hafa tekizt; síðan stíngur hann uppá við fèlagið að prenta eina bók kvæðisins í hverju bindini rita sinna, og kveðst þá mundu áfýsa skáldið "bæði til að halda áfram og vanda sig, því það er illt að snoturt verk liggi niðri og maðurinn fari á mis velforþèntrar æru og kannske hagnaðar, hvers hann sem bláfátækur er þurfandi". Haustið eptir sendi Halldór fèlaginu útleggíngu fyrstu bókarinnar, og sagði hverr höfundurinn var. 13da December 1793 var sèra Jón kosinn til "yfirorðu-fèlaga", og gefinn laus við allt tillag til fèlagsins með því að hann sendi því á hverju ári eina bók íslenzkaða af kvæðinu. Þetta var eptir frumvarpi Johnsonius, og var skáldinu send um vorið skrá fèlagsins, og svo 13da bindini rita þess, þar sem fyrsta bókin er í. Fèlagið lýsir gleði sinni yfir fyrirtæki þessu og hvetur mikiliga að því sè fram haldið, vonar það og með tímanum að geta launað verkið að nokkru. Þaraðauki býður það að senda hvort heldur frumritið með enskri orðabók, eður þjóðverska útleggíngu, og leggur ríkt á að hann kosti kapps um að málið sè sem fagrast og hreinast, og háttur kveðanda sem næstur enum forna, svo og að skipt sè um eins-atkvæðis-orð og tveggja-atkvæða-orð í niðurlögum vísu framar enn í sýnishorninu var. Að öðru leiti játar fèlagið í formála 13da bindinis, að sèra Jón hafi

sumstaðar komizt nær frumritinu enn enn danski þýðari, þó hann hefði aldrei frumritið sèð. Sèra Jón þakkaði fèlaginu með fögrum orðum sóma þann sem það hafði gjört honum og tekur með þökkum að fá þýzka útleggingu kvæðisins, "en með höfuðritið á engelsku mun eg ei hafa mikið að gjöra", segir hann, — "þó eg einhverntíma á fyrri árum mínum hefði fengið litla þekkíng á lèttri og óhundinni engelsku". Hann sendi þá um haustið aðra bókina, en fèkk ekki svar um vorið 1795, sendi hann þessvegna ekki þriðju bókina það haust einsog áformað var í upphafi. Um vorið 1796 fèkk hann fyrst þýzka útleggíngu Paradísarmissis frá Johnsonius, og yfirfór hann þá á ný og leiðrètti meiri hluta þriðju bókarinnar og sendi um haustið. Það er kunnugt, að um þetta mund hnignaði svo lærdóms-lista fèlaginu, að 15da bindi rita þess varð aldrei fullprentað, þar sem þriðja bókin er í, en þó varð sèra Jón frægari af því verki enn af nokkru öðru, og allir enir helztu fræðimenn Íslendínga og skáld dáðust að snild hans og gáfum. Þó ekki yrði útgáfu kvæðisins framar ágengt enn þetta, hèlt hann samt áfram kappsamliga, og endaði kvæðið 1805. Frá því 1789 og þángaðtil hefir hann og ort fjölda kvæða og snúið úr dönsku og þýzku: er þar helzt að geta "Tilraunar um manninn", sem hann hefir snúið 1789—1796, og tileinkað velgjörðamanni sínum Stepháni amtmanni Þórarinssyni; af kvæðum danskra skálda

hefir hann snúið 8 eptir Baggesen, 2 eptir Vessel, 3 eptir Thaarup og nokkrum sálmum, og svo einstöku kvæðum eptir ymsa aðra; úr þýzku hefir hann snúið mestu eptir Gellert (að vísu 29 kvæðum og sálmum) og fáeinum kvæðum eptir Hagedorn og. v. Bar; virðist svo sem hann hafi snúið kvæðum hans með lyst, því hann kvartar yfir að hann hafi ekki rit hans og geti því ekki snúið meiru enn hann hefir gjört. Það er eptirtektar vert, að flestum mun finnast lakara mál á kvæðum þeim allmörgum sem hann hefir snúið úr dönsku, einkanliga á sumum Baggesens kvæðum, enn hinum sem úr þýzku eru snúin. Flest eru kvæði þau, sem hann hefir snúið, eptir en heldri skáld sem kölluð hafa verið. Nokkur af kvæðum þessum voru þegar prentuð í ritum þeim sem þá komu út á Leirárgörðum; litur svo út sem séra Jóni hafi fyrst framaneptir litizt vel á framkvæmdir landsuppfræðíngar-fèlagsins, og svo er að sjá sem nokkur kvæði hans sè ort til að setja niður í þeim sem móti því mæltu og ritum þess[1], en eptir að hann sá að sálmum hans var breytt að honum fornspurðum, og stundum á þann hátt sem hann vildi sízt kosið hafa, þá hlífði hann ekki neinu í kvæðum sínum, og spannst þar útaf ein hin snarpasta rimma sem verið hefir á Íslandi, og snarpari enn útúr Skautaljóðum og

[1] Villu vitran, Áragæla en skamma, Bardaginn við ljósið, o. fl.

Varúðarvísu; er ekki þörf að lýsa henni nákvæmar þareð kvæðin bera þess sjálf vitni, en öllum hefir þótt sèra Jón vera þar ærið þúnghöggur, og senda hvassa fleina; má þó sjá á "Skopi og alvöru" að hann hefir þá þegar iðrazt eptir og viljað gjarnan bæta. En ekki er það kynligt þó honum rynni til rifja, að sjá engan annann árángur margra ára iðju sinnar enn nokkur sálmvers, snúin á ymsa vegu af öðrum móti vilja hans og vitund, þar sem margur hefði fyrir slík störf verið sæmdur fullum launum, en hann sat fèlaus og armæddur og ellimóður, án alls styrks nema þess sem fáeinir vinir hans veittu honum sem ölmusu.

Um sextugs aldurinn er að sjá sem nokkur breytíng hafi orðið á hugarfari hans, og hann hafi þá farið að finna til ellinnar þúnga; því lýsir sálmur sá sem hann hefir ort um það bil, og kallar annál árs síns 61ta[1]. Þá hefir hann orðið þúnglyndari og önruligri enn fyrri, og sýnir það sig í bitrari orðatiltækjum þegar honum þótti fyrir, og meiri gremju við veröldina og við marga menn, sem honum þóttu ekki meta störf sín að makligleikum. Þúngur veikleiki lagðist og á hann um þetta mund, og þjáði hann alltaf þaðanaf, iktsýki og helti, svo hann varð að taka sèr kapellán 1803[2]. Samt sem áður brá ekki sjaldan

[1]) II, bls. 91.

[2]) Fyrst sèra Hallgrím Þorsteinsson, 1803, og síðan sèra Bjarna Pálsson 1817.

fyrir glaðlyndi hans, og hafði hann þá veikleika sinn og fátækt að gamni, og orti um það optlega, kallaði sjálfan sig Bæsár-Skalla og fót sinn ymsum nöfnum, en drá spár af þegar hann tók í lærið, og líkti sèr við lóniun, sem sumir kalla veðurspáan, en kenndi Miltoni um helti sína, að hefði þeyst sèr um alla heima í gandreið, og því væri hann haltur orðinn.

Það lýsir geysi miklum krapti og áhuga, að hann skyldi takast á hendur um þessar mundir að íslenzka önnur enn lengri kvæði enn Miltons á þeim aldri og með slíkri kröm, og ekki síður hitt, að verkin sjálf lýsa engri hnignun í fjöri andans. Þegar Milton var búinn er líkligt hann hafi fyrst byrjað á söguljóðum Hertz um frelsun Israels af Egiptalandi, en hætt við þau þegar fyrsta bók var búin, annaðhvort af því honum hefir ekki þótt kvæðið svo gott sem hann vildi, eða hann hefir heldur kosið Klopstokk þegar hann fèkk hann, og var það reyndar ekki að undra.

Þegar ófriðurinn varð milli Danmerkur og Englands, komst nokkurr kunníngskapur á milli Íslands og Englands, því jafnskjótt og Englar komust þar að verzlun fóru ymsir að ferðast þángað og lètu síðan prenta ferðabækur sínar. Það var að líkindum að þeim þætti merkiligt, að Íslendíngar skyldi eiga útleggíngar af merkisskáldum þeirra á sínu máli, og hafa þá ekkert átt við þá að sælda um lángan aldur. Þeir tala og um það með ánægju, og taka sýnishorn af

útleggíngum sèra Jóns: hefir Mackenzie [1]) tekið upphaf 4ða brèfs í "Tilraun um manninn", en Henderson [2]) þrjá lánga kafla úr fyrstu og annarri bók Paradísarmissis; hann hefir og sett í ferðabók sína kvæði sèra Jóns til ens enska biblíufèlags [3]) og vísuna: "Fátæktin var mín fylgjukona" [4]). Útleggíng Paradísarmissis segir hann sè ekki einúngis betri enn allar aðrar sem til sè, heldur sè hún á við frumritið sjálft, og víða virðist sèr hún jafnvel betri, þarsem eddukenníngar sè við hafðar, og margvísligar samsetníngar orða, sem hið fagra og fullkomna móðurmál skáldsins leyfi framar öllum öðrum túngum, og kveðst hann hafa í hyggju, ef sèr verði þess auðið, að láta prenta útleggínguna í Englandi eptir handriti sem hann átti. Þegar Henderson sótti sèra Jón heim (9 Aug. 1814) var hann búinn med 14 bækur af Klopstokk og byrjaður á enni fimtándu. Sama sumar fèkk hann að sjá annann gest, sem honum var ekki síður velkominn, og það var Rask; þótti honum svo mikið til sèra Jóns koma að hann byrjaði að safna kvæðum hans öllum sem hann náði, og hefir skrifað upp mörg af þeim sjálfur; honum afsalaði og sèra Jón (24ða Júní 1815) rètt til að láta prenta Paradísarmissi. Eptir þetta hèlt

[1]) Ferðabók hans er prentuð 1811.

[2]) Hans ferðabók er prentuð 1818.

[3]) II, 361.

[4]) II, 523.

hann áfram og lauk við Messíasdrápu Klopstokks; hefir hann eignað hana Magnúsi Stephensen með vísu þessari:

Hèrmeð er herra
hávelbornum,
Magnúsi (miklum
að makt sem nafni)
Stephensen, stillis
stjórnarráði,
Íslands ypparligs
yfirrèttar
forseta', og fèlags
sem fræðir lýð,
óður útlagður
á aðra þessi
oss tama túngu
tileinkaður.

Eptir að hann hafði lokið þessum enum miklu störfum var og lokið ætlunarverki hans í þessu lífi, því hann hvíldist 21 Okt. 1819, á 75ta aldurs ári. Sama árið voru honum send 30 pund sterlínga (270 dala) frá fèlagi nokkru á Englandi sem launar skáldum og rithöfundum, og Danakonúngur ánafnaði honum 40 dala styrk á ári hverju meðan hann lifði — þar voru starfslaun hans að peníngunum til, og hann naut þeirra fáeina mánuði.

Ekki auðnaðist sèra Jóni heldur það, sem hann þráði allra mest, og það var að sjá prentaðar útleggíngar sínar af Milton og Klopstokk. Í brèfi til bókmentafèlagsins 22 Júlí 1818[1] bendir hann til þess svo hógværliga sem orðið gat, og segir: "Mig brestur nú dug en ekki hug til að minnast á Milton og Klopstokk". Fèlagið var þá nýstofnað og hafði lítil efni, svo það þóttist

[1]) Fèlagið sendi sèra Jóni rit sín að fyrra bragði meðan hann lifði, til virðíngarmerkis.

verða að meta annað meira í bráð, en ætlaði þó að láta prenta Milton, og geymdi Rask handritið. En það flýtti fyrir að enskur fræðimaður, efnaður vel, sem hèt Jón Heath (Hiþ) og víða hafði ferðazt um norðurlönd, bauð fè til prentkostnaðar fyrir Paradísarmissi, og kom hann út í Kaupmannahöfn 1828, en Klopstokk gaf fèlagið út 1834—1838.

Margir ortu minníngarljóð eptir Jón Þorláksson, og eru mönnum kunnug nokkur þeirra: þau sem Magnús Stephensen orti[1] og þau sem standa í Sagnablöðum 1820—21, bls. 75, og sumir eigna Sigurði Pèturssyni; tvö önnur minníngarljóð hefi eg sèð eptir hann, sem ekki kveður að. Pètur prófastur Pètursson á Víðivöllum kvað þetta þegar hann heyrði lát hans:

Seraf lægsti sig má vara
saungva þegar kemur í skara
þjóðskáldið Jón Þorláksson;
ef hann hafði engils túngu
yfir klæddur dupti þúngu:
hvers mun síðar verða von?

Etazráð Finnur Magnússon hefir og minnzt fagurliga Jóns prests Þorlákssonar í "Minnisljóðum um Jón Milton og Jón Þorláksson til Herra Jóns Heath frá Íslendíngum", sem kom út í Kaupmannahöfn 1829.

---

[1]) Klausturp. 1819, bls. 191. Þar er heppiliga til orðs tekið: "suða taka hásir gæsa rómar".

Það er að vísu óheppiliga farið, að kvæði sèra Jóns Þorlákssonar urðu ekki prentuð meðan hann lifði, og ekki fyrri enn svo laungu eptir andlát hans, því mart er það sem nú þykir ekki allskostar gott sem þá mundi hafa þótt prýðiligt, en samt sem áður mun enginn neita að víða komi fram viðkvæm og náttúrlig tilfinníng og fjörugar hugsanir á hreinu máli og tilgjörðarlausu. Þó hann hafi framar stundað að vera túlkur annarra enn að skapa sjálfur, þá má þó fullyrða, að verk hans skari frammúr bæði að vöxtum og gæðum, og verði bókmentum Íslendínga til ennar mestu sæmdar meðan íslenzk túnga er uppi, enda er og víst að þau hafa gladt og frædt margan mann. Á ljóðmælum þeim sem hann hefir ort sjálfur lýsir sèr sjaldnast nein eptirbreytni eptir öðrum, heldur skoðunarmáti sem var honum sjálfum og þjóð hans eðliligur, og víðast hvar í náttúrligum, heppnum og fjörugum orðum, helzt í gamni eða í snörpu háði. Helzt hefir hann tekið enn forna skáldskap sèr til fyrirmyndar, og því framar sem hann eldtist meira, enda hefir hann náð mikilli þekkíngu og liðugleik til að yrkja á móðurmáli sínu, framar enn flestir aðrir. Jón prestur Þorláksson verður því með sanni kallaður þjóðskáld Íslendínga.

Þegar sèra Jón var úngur þótti mikið varið í að yrkja á latínu, og náði hann töluverðum framförum í þeirri list. Fáein ljóðmæli eru til, sem hann hefir ort á latínu, og eru tvö af þeim

prentuð: 1) til Túllíns, (útleggíng á Túllíns minníng, II, 349) prentað með ljóðmælum séra Jóns í Hrappsey 1774; 2) til Magnús Stephensens, þegar hann varð doktor í lögfræði (prentað í Sagnablöðum, III. D., bls. 61; útleggíng er í IV. D., bls. 71—73); 3) þakklætiskvæði til eins manns í Danmörku sem gaf fè til verðlauna i Norðurlandi (sbr. II, bls. 356)[1]. Vísu þessa kvað hann eittsinni til sèra Hallgríms Thorlacius:

Optime Thorlaci! duplex Thorlacius esto:
cor, caput; os, oculus; pesque manusque mihi!

Náttúrufari sèra Jóns er áður lýst í fám orðum, eptir því sem það sýnir sig í kvæðum hans, en þess eins má geta að hugur hans var fastur við skáldskapinn einan, og gaf öllu öðru minni gaum; hann varð aldrei frægur fyrir kenníngar sínar, og búskapur hans var aldrei i lagi; þó starfaði hann mikið og lifði sparsamliga, en örlæti hans og góðmennska leyfði honum ekki að spara við neinn það sem hann gat í tè látið. Margrædt hefir verið um kvennhylli hans, og fèkk hann ekki sjaldan fósturbörn úr nágrenni sínu; henti hann sjálfur gaman að því og færði til hversu lík þau væri feðrum sínum. Eitt af fósturbörnum hans er Jón prestur Sigurðsson í Reynisþíngum í Skaptafellssýslu.

[1] Eg hefi þó nokkurn efa um að kvæði þetta sè eptir séra Jón.

*J. S.*

## 1. LOFSAUNGUR.

Snúinn úr Dönsku eptir Thomas Thaarup og prentaður áður í Gamni og alvöru II, bls. 1—4. Hèr eru 2 handrit hagnýtt auk bókarinnar.

*Lagið er hið danska.*

---

Guð Jehóva! þig göfgum vèr,
guð! til þín hjartað lyptir sèr!
ó, þú, sem ert, og varst og varir!
við þig, farsældar ör gjafari!
hverr jafnast? vèr þig, Jehóva!
játum vorn guð, hallelúja!

Guð! þín makt skelfir himna hart,
hjaðna sólirnar við þitt skart;
allt þinna fullt er ærukvæða;
allir lofa þig skarar hæða!
auka hljóm jörð og ægir þann;
allt, já gjörvallt, er samhljóðan.

Ljómandi' af dýrðar sinnar sól
sèr drottinn niður af háfum stól:
allstaðar lífs að urmull sveimar;
en sólir, jarðir, himna-geymar!
hvað eru þèr fyrir anda hans
almáttkum? dropi' í hendi manns.

Hátt sýngið, jörð og himin! þið:
heilagur guð! já, þrítekið!
öll ríki jarðar á þú litur
eins þánkann, sem í hjartað flýtur;
eins stórt og nálægt allt er þèr;
hjá öllu' er guð; vor guð er hèr!

Fram krjúp auðmjúkur, fursti lands!
fyrir augliti tilbið hans!
guð drottinn blessun gefur krónum,
guð drottinn andar burtu trónum!
gleym því ekki, þú guð á fold!
guð er drottinn, en þú ert mold!

Fram krjúp með þínum fursta, þjóð!
full af hugtrausti, lotníng bjóð!
vor, guð Jehóva! viss ert faðir,
vor faðir einnig þó refsaðir!
hverr boð þín, faðir! heldur trú
honum sem guð umbunar þú.

Allt lífs samhópað upp til þín
augu vonandi hefur sín;
þá mildri hendi þinni' upp lýkur
þú, orms og serafs faðir ríkur!
hefst gæzka ný með hverri sól;
þín hýr velþóknan sèrhvað ól.

Vorið framgengur frá þèr blítt,
að fái jörð, sem brúði, prýdt,
fyrir þèr kornax frjóft sig beygir;
fagnandi haust þèr lofgjörð segir;
þú ver með klæðum ullar oss
á móti þínu vetrarfrosts.

Sjá, herrar stoltir herklæðast
hótandi stríði' og tjóni fast;
hernaðar-skruggan heyrist hitra,
hrynja smábýli, slotin titra;
í blóðstraum troðið brauðs er ax;
bendir þú, guð! er friður strax!

Ó, guð! þig prísa byljir hert,
buldra skruggur að guð þú sèrt;
nær móts-við himin öldur ærast,
og undirstöður jarðar hrærast,
er jöfurs-boð þitt, Jehóva!
jörð heillaboð, hallelúja!

Sjá í náð á vort samfèlag!
seð gjörvöll hrjóst þíns friðar hag!
heyr Tví-ríkisins[1] heilu skara,
Herra! sem lætur tróna vara;
veit heill og blessun vísis dáð!
vísdómi gæð þú allt hans ráð!

Þjóða von, alla þengils ætt,
þitt tak í verndar skjól dýrmætt!
lát oss aldrei þann lávarð bresta,
er lýð þínum stjórni heilli bezta!
blessa vort land! svo fold sè frjó;
framgaungu' í stríði' og iðn í ró!

Guð alvaldi! þig göfgum vèr,
gæzkunnar föður þakklátir;
vert, jörð! altari hans fyri' heiður,
himininn tjald þar yfir breiður!

---

[1]) þ. e. Danmerkur og Noregs.

jöfn *von* alls lífs er Jehóva,
jöfn *raust* alls lífs, hallelúja!

## 2. LOFSAUNGUR.

Sami og hinn næsti á undan. Eptir einu handriti.
*Lag: Faðir vor! sem á himnum ert.*

Guð, Jehóva! vèr göfgum þig,
glöð til þín hjörtun hefja sig,
sem varst og ert og verður hinn
velsældar mildi gjafarinn;
hverr er sem þú, ó Jehóva!
ert þú vor guð, hallelúja!

Við skinið af þinni skæru dýrð
skær fellur fram öll engla hirð
og sambljóð fögur eilífðar
og himnesk júbil sjatna þar:
ei til saungraddar endast hljóð,
allt þegir, samtilbiður guð.

Guð! himnar þína hræðast makt,
hver sól fyrir þinni dvínar prakt,
allt með þinn heiður er uppfyllt,
öll prísar þig mergð himna stillt;
samsýngur jörð og sjór ávallt,
samstemma hrein er allt gjörvallt.

Þú bendtir — myrkra' af móður sekk
mær skínandi hver sól fram gekk

og heimar hófu hringskeið sitt,
hið mikla allt saung valdið þitt:
almáttkur ertu, Jehóva!
og hverr þèr jafn? hallelúja!
Skínandi' í sinni sælu dýrð
sèr niðraf tróni guð með hýrð
allt fullt af lífsins ótila;
en hvel öll, himnar himnanna,
hvað eru þèr fyrir almakt hans?
það einn er dropi' í hendi manns.
Hef voldug, jörð og himin! hljóð
sýng: helgur, helgur, helgur guð!
heims ríkin yfir horfir þú
hverra hjartans þánka sèr, og nú
allt er jafnnærri' og eins stórt þèr;
hjá öllu' er guð! — vor guð er hèr!
Fram fall, þjóðstýrir! auðmýkt í
fyrir augsýn drottins, tilhið fri!
kórónur Jóva blessar blítt,
burt andar Jóva trónum títt;
ó hauðurs guð! það hugfest þú:
að hann er drottinn — mold ertú!
Fram krjúp með þínum fylki, þjóð!
full trúartrausts og göfgun bjóð!
vor faðir, Jehóva! þú ert,
vor faðir eins þá hirtir hert,
en þeim, sem rækir þín góð boð,
þú, faðir! launar svosem guð.
Þitt boð er friður og himna-hóp,
því hefur sig vort gleði hróp:

þèr, drottinn! veri vegsemd ljós!
veg sannleiks kenna gjörðir oss;
hverr er sem þú, ó Jehóva!
ó faðir! guð! hallelúja!

Allt lífið, sem í söfnuði,
sèr upp til þín í voninni
þá milda opnar mund hvert sinn,
þú maðks og serafs faðirinn!
hvern morgun upp þín mildi rann,
þú mettar allt með velþóknan.

Út frá þèr vorið yndælt fer
að prýða jörð, sem brúði, hèr;
þèr hneigir axið ólètt sig
og haustsins gleðir mikla þig;
þú klæðir oss með ullu lambs
mót ásókn vetrar kuldasams.

Bragðstoltir jöfrar búast út
og boða stríð, foreyðíng, sút;
herskruggu þegar þrumar org
þá hrynja bæir, skelfur borg,
blóðs- treðst í -vaðli blessað ax;
nú bendir guð — og ró er strax.

Þig skíra stormar skæðir: guð!
og skruggur duna: þú ert guð:
þá hafið reisist himni mót
og hristist jarðar megin-rót
er það þitt boð, ó Jehóva!
er þitt boð heill — hallelúja!

Í náð vorn samfund álít, guð!
uppfyll hvert hjarta með þinn frið!

heyr þú vors ríkis herja-fjöld,
ó herra! er grundar tróna völd;
með lukku blessa mildíngs dáð!
með vizku blessa kóngsins ráð!
Von fólksins, kónga- vorn -ættstaf
í verndun þinni, drottinn! haf,
lát aldrei vanta verðan, er
vel stjórni fólki þínu hèr!
vort land með frjósemd velsign! styð
vorn hug í stríði' og von í frið!
Algæzku guð! vèr þökkum þèr,
þig, guð almættis! prísum vèr;
til vegs þèr altari veri jörð
vor, himininn lyptíng þessu gjörð!
alls lífsins von er Jehóva,
alls lífsins raust, hallelúja!

## 3. LOFGJÖRÐAR SÁLMUR.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 12; í enni íslenzku Nr. 27, mjög lítið breyttur. Eptir einu handriti auk sálmabókarinnar.

*Lag: Ó drottinn allsvaldandi!*

Lofið drottinn lifanda,
ljúfur, sterkur og vís sem er,
kyn honum keypt til handa!
komum, með saung hann prísum vèr!

hverr mun jafn
honum vera,
heilagt nafn
veldis bera?
allt lífs safn,
æ prísi þann herra!

Lofið drottinn lifanda!
sem lèt oss skína dásemd á,
býr oss heilsu til handa
og hvað sem farsæld efla má;
en þótt neyð
á oss stríði,
öld þó deyð
fyrir kvíði,
herrans greið
hjástoð verndar lýði.

Lofið drottinn lifanda!
ljúf drýpur blessan himnum af;
hjá oss við störf rèð standa
og styrk í allri mæðu gaf
augu manns
öll, sem kjósa,
æ sjá hans
fórsjón ljósa
borg- og lands-bygðum á sèr hrósa.

Lofið drottinn lifanda!
sem leiðir, stýrir, hagar til
og lætur einnig standa
af illu gott, oss þrátt í vil!

Himnakór, hauðrið svarar:
"hátign stór er skapara!"
gjörvallt sór
guðs lof ei að spara.
Lofið drottinn lifanda,
láðbyggendur! með eitt samtak;
hans lofgjörð himnar vanda
hann þiggur og vort bænakvak;
guð vor er
guð alvaldur,
göfgum vèr
hann um aldir,
heill lífs her
hèr til *amen* gjaldi!

## 4. LOFGJÖRÐAR SÁLMUR.

**Sami og hinn næsti á undan. Eptir einu handriti.**

***Lag: Þökk sè þèr góð gjörð.***

HÁTT lofið heims smið
(enn) hrausta, góða, vísa!
komið friðkeypt lið!
kór hans látum rísa!
hvar er guð vorn við
voldugur, helgur? prísa
skal gjörvallt fýsa.
Upphefjið alls smið!
er oss með dásemd prýðir,

heilsu lið gaf, grið
og gæfu hvað til hlýðir;
neyð ervið, hels hlið
og háski nær á stríðir
með líkn verjast lýðir.

Upphefjið alls smið!
af draup blessan hæðum;
erviðið vort við
var, og styrkti' í mæðum,
ódulið allt skrið
hans umsjár lýsir gæðum
á borg og hersvæðum.

Hátt lofið heims smið!
sem hagar, stýrir, leiðir,
gott sem mið, vont við
nær vendir, oss tilreiðir [1];
himna-klið hauðrið
um höfunds stærð útbreiðir,
hans dýrð gjörvallt greiðir.

Upphefjið alls smið!
öld af jörðu samin,
himnar þið! heiðrið
og hugnast raust vor kramin;
almættið er guð,
æ skal dýrð hans framin;
seg allt lífs: amen!

---

[1]) Hann tilreiðir oss gott mið, takmark, þegar hið vonda vendir við, þ. e. snýr að oss.

## 5. LOFSAUNGUR UM SKÖPUNARVERKIÐ.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 48; í enni íslenzku Nr. 20, nokkuð breyttur, líkliga eptir Magnús Stephensen; einnig í Vinagleði, bls. 52. Hèr er eitt handrit hagnýtt auk bókanna.

*Lag: Í dag eitt blessað barnið er.*

Hátt stíg, minn saungur! hauðrið mèr
hljóm byrji með lofkvæða!
"vor drottinn stór frá eilífð er!"
yppurstu himnar ræða;
já, yfir allt er herrann hár,
hann bauð, og guðdóms skipan klár
ein tilbjó allt veranda:
sól, stjörnur, lauf og grös vel gjörð,
gaf hann, útdreifð sem fis á jörð
og sandkorn sjáfarstranda.

Gakk hátt mín saunglist glöð! í fylgd
guðs eingla júbil-hljóma,
"guð, skaparinn, er gæzka mild!"
gelli við þúsund róma;
guð, skaparinn, er eilíf ást,
við orð hans streyma lífið sást,
í lík öll, sem lifa kunna;
guð er sjálf elskan, guð vor, já!
gengur öflugur hróður sá
af mergð ótaldra munna.

Mín lofgjörð hærra lypti sèr,
á land, sem aldrei þrotnar:
guð! hverr er jafn meðal guða þèr,
þú guð! allstaðar drottnar. —
Góður, vís er vor guð og stór,
greinir himins og jarðar kór,
hvað skapt er hann bauð væri,
allt stóð þá prýði' og orðu í,
óendanligum guði því
hans öll verk heiður færi.

## 6. LOFSAUNGUR UM GUÐS FORSJÓN.

Ortur á ensku í upphafi af Addison, en snúinn á íslenzku eptir danskri útleggíngu. Prentaður hèr eptir þrem handritum.

*Lag: Ó guð vor faðir! sem í himnaríki ert.*

Uppvakin þegar andar minnar íhugun
fyrir sèr virðir, góði guð!
grunnlausa miskun þína:
frá mèr numinn eg fyllist helgri forundrun,
ást og þökk hèr við upptendruð,
inntekur hugsun mína.
Hve túngan veik í munni mèr
má hjartans ljúfum anda
fylgja, svo greiði fulla þèr
fórn þakklætis til handa?

þó em eg viss, að þánkarnir
þínni sjón opnir standa.
Meðan eg hulinn móðurlífs í myrkri var
fóstraði mig þín forsjón trú
og fulla næríng veitti;
hún mig þaðan í heimsins ljós á höndum bar,
eins gættir minnar þarfar þú
þá brjóstamjólkur neytti;
barnsópi mínu gegndi greitt
þín guðdóms heyrn frábæra,
meðan þèr bænar andvarp eitt
ei kunnu þánkar færa;
ástar hönd þín var aldrei þreytt
aðhjúkrun mèr að tæra.
Efldi mitt hugskot umsorgun þín elskurík
sinnis-djörfúng og megni með,
mín únga fyrr enn kynni
önd skynja hvaðan öll mèr kæmi orka slík,
þótt eg um háskablandinn beð
bernskunnar gálaus rynni;
allt á fullorðins aldurs skeið
ósèð þín hönd mig leiddi
og gegnum hættur, hel og neyð
hún mína stigu greiddi,
já, fram hjá glæstri lasta leið
lángt verra neti sneiddi.
Þrásamliga mitt þjakað hold af þúngri sótt
með heilsugjöf þú hefir reist,
og hjálpað sálu minni
þá sokkin var í saur-foræði synda ljótt,

hana þú fèkkst af löstum leyst
og lífgað gæzku þinni;
líkamans þarmeð auðlegð af
yfirfljótanlig gæði
mèr þín ástvinar-elska gaf,
örlát og trúföst bæði,
og þau með verndar sterkum staf
studdi, svo aukast næði.

Þúsund, já ótal þúsund gáfur þèr eg á
minn guð! að þakka og muna til,
mest fyrir þakklátt sinni,
sem næsta glaðvært nægðar þeirrar njóta má;
augnablik sèrhvert eg því vil
á allri lífstíð minni
vegsama gæzku þinnar þel,
þig, drottinn! víðfrægjandi,
og nær mig síðan hefir hel
heim flutt að dýrðar landi
sönnu lofgjörðar vönduð vel
vers skal eg ítrekandi.

Nær öll um síðir niður hrynur náttúran,
nær framar ei þín vísdómsverk,
voldugur heims skapari!
dags-ljós og nætur-dymmu sundur deila kann,
hjartans þó iðja mín skal merk:
með nýju hugarfari
að prísa þína, herra hár!
heilaga náðar dóma,
eilífðin meðan yfir stár
englarödd sú skal hljóma

hverr mun þó hennar öll um ár
úttalað fá þinn sóma?

## 7. GUÐS FORSJÓN.

Eptir sálmi Gellerts: *"Auf Gott, und nicht auf meinen Rath"* í *"Geistliche Oden und Lieder"* bls. 122; Nr. 42 í enni íslenzku sálmabók er útlegging sèra þorsteins Sveinbjarnarsonar á Hesti á þessum sama sálmi. Hèr er sálmurinn prentaður eptir eiginhandar riti sèra Jóns og tveim afskriptum.

*Lag: Verði ætíð hvað vill minn guð.*

Uppá minn guð, en ei mitt ráð,
eg kýs mèr gæfu reista,
og þeim mig skóp, af allri dáð
andar vil eg fulltreysta;
sú öllum við
æ fær haldið
almáttug heimi vera
mína lífstíð
mig fyrr og síð
mun sem guð, faðir bera.

Hann sá frá eilífð, hversu mèr
til hjálpar mikið yrði,
lèt mèr skorðaðar lífs-stundir,
lán mitt og rauna byrði.
Hvað fær þig deigt
mitt hjarta veikt!

mun hörmúng þá að finna,
er sælli trú
til sæmdar nú
sè þèr ofsterk að vinna?
Guð, mína hjartans girnd sem veit,
gefið mèr eflaust hefði,
fyrr enn eg bað, hvers fór á leit,
svo framt hans vizka krefði [1].
Hans föðurlig
forsorgar mig
fyrr og síð ástar-mildi.
Verði mèr það
hann vill, en hvað
vil eg ei henda skyldi!
Er ei lukku hlaup óhindrað
opt miklu þýngra' að bera
enn sjálft mótlætis álag það,
ofraun sem köllum vera.
Bitrustu neyð
hurt tekur deyð;
her eg ei, jörð þá hylur,
tign, lukku nè
hið fagra fè,
fyrri það við mig skilur.
Hvað gæfu sanna gaf í skaut,
guð lætur engan bresta.
Heilsa, tign, lukku-happ og skraut
heill er ei sálar hezta.

---

1) *leyfði* er nær þýzkunni, en litið skothent. *Höf.*

Guðs vegi sá
er gengur á
góðrar samvizku mæti
ber harmi mót;
sú hugarbót
hans gjörir sætt mótlæti.
 Hvað er þessa lífs hátign öll?
hversu fljótt burtu runnin?
hvað er og tímans hrygð gjörvöll?
hversu skjótt yfirunnin?
Vert óefuð,
vonandi' á guð,
veik sál! þann hjálpargjarna,
sért þú og kát,
ó sál réttlát!
sinna líkn er hann barna.

## 8. GUÐS FORSJÓN.

Í enni íslenzku sálmabók Nr. 40, töluvert breyttur.
Eptir einu handriti.

*Lag: Jesú! þínar opnu undir.*

Guð umsorgun fyrir fasta
farsæld hverrar skepnu ber;
vantrúar með vílsamasta
vin skal aldrei spurt af mér:
hvaðan snauðum björg að berst?
bitri nauð eg hvernig verst?

heiti Krists sá hyggst að bera
hugsjúkur má ekki vera.
Nei, áhyggju, minn guð! mína
og mig eg fel í hendur þèr,
öruggur fyrir umsjá þína
er eg farsæll þar og hèr;
eilíf speki' er allt þitt ráð,
öll þín hreytni gæzka' og náð!
eg veit ei sjálfur hvað mèr hagar,
í höndum þínum ekkert bagar.
Vernd yfir mèr nær veit eg þína,
vel fyrir öllu borgið er;
óró skal mig engin pína,
örugg fórsjón þín sem ver,
vont þorir ei að sýna sig,
sèrhverr fjandi hræðist mig,
sjálfur dauðinn sízt mèr grandar
í sælu guðs, míns föðurs, handa.

## 9. GUÐS FORSJÓN.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 75. Eptir einu handriti.
*Lag: Mitt hjarta! því svo hryggist þú?*

Lífs augnabliki fyrsta frá,
faðir alvaldi himnum á!
kríngum mig vernd þín var;

við mitt barndóms veika skar
velgjörð framdir aðhjúkrunar.
Þá spurði' eg ei, hverr mundi mèr
miðla næríng; og liðs af þèr
ei túngan óskað gat;
þjónkun alla þar eg sat
þú mèr sendir, fóstur og mat.
Umsorgun bar eg enga þá
inni nè hvíldarstað að fá;
þú sást um það, eg svaf;
voða sál mín vissi' ei af,
verndar- hurt hann rakstu með -staf.
Hvað er vort fjör í fullum styrk?
fellir það dauðans koma myrk,
sem ljárinn blómsturblað;
mitt í hættum þúsund það
þín náð hefir æ bevarað.
Þú varst, og ert, og verður guð,
víst hinn sami; mín kollvörpuð
von hvenær verður þá?
lífs, og þótt eg falli frá,
faðir! þig eg reiði mig á.

## 10. UM TRAUST TIL GUÐS FORSJÓNAR.

Eptir einu handriti.

*Lag: Ó, Guð, minn herra! aumka mig!*

Ó, hversu faðmur frelsarans
fagnaðarsæll er öndu manns!
ó, sæll er sá þar hvílir!
sem barn, því kjölta skýlir;
og við hans náðar blíða brjóst
blessunar svölun þiggur ljóst,
yndæla værð og varma
viðskilinn sorg og harma!
Hvað óttast þú svo, aumur mann!
einn guð fyrir þèr sorga kann,
hvers trygð og miskun eilíf er,
eigin blóðs handskript gaf hann þèr
lífs uppá leiðsögn rètta.

Hvarfyrir villtu þreingja þèr
þyrna búksorgar inní hèr,
sálina sárt stíngandi,
sem er heiðíngja vandi?
þeim eptirláttu það ómak,
þinn góða Jesúm að þèr tak,
faðmaðan ástararmi,
er þá víst lokið harmi.
Ó, hversu mun þá loga ljóst,
lífsæt ánægja þèr um brjóst,

af yfirvegun elskunnar,
frá eilífð sem hann til þín bar,
og mun um eilífð vara!
Fyrir lífinu því villt þú
þig með áhyggju kvelja nú,
og því sem þar til þènar?
þèr sá hið fyrra lènar,
guð, eins það seinna gefa vill,
gjörir það aldrei búksorg ill;
hann þína sálu seður
sætleik himneskum meður.
Rósfögrum brúður reifast sú
rèttlætis skrúða síns Jesú,
því mun ei gæzku þelið hans
þörfum forgleyma líkamans,
ókvíðinn á það treystu!
Mállausar skepnur mega hèr,
sem meistarar, undirvísa þèr,
guðs forsjón klárt að kenna,
í kóngsstjórn maktarinnar.
Forsorgar drottinn fuglinn smá,
fullnægju sinni lýsir sá,
glaðværr, með hýru hjarta,
heyrist um neitt ei kvarta;
skógana fyllir unun af,
æru sýngjandi þeim, er gaf;
á háfum kvistum hörpu slær
herrans lofgjörðar, betur enn vær;
hugsjúkum blygðast bæri.

Hásumars lilju horfðu á!
hverr hefir skrýdda brúði þá?
þig mundi' hún þistil kalla,
þarum ef mætti spjalla;
og meðal þyrna, yndislig,
uppsprottin rós skal fýsa þig
skaparans gæzku' að gæta,
með gleði' og trú ilmsæta.
Já, hvert eitt blómstur, sem þú sèr,
í sama máta kennir þèr,
höfði vendandi himins til,
herrans almætti verdug skil
með ást og göfgun greiða.

Sem hýrt brosandi sjást þau þar
sífelt í standi prýðinnar,
Salómon svo hinn ríki
sýndist ei þeirra liki.
Nú ef guð á svo háfan hátt
hvervetna prýðir grasið smátt,
sál min! þú veglig vera!
villtu þá saurflík bera?
ó, hvað dýrðligri' ert þú enn þaug,
þvegin í helgri skírnarlaug!
hin æðsta tign er arfleilð þín,
á þèr purpura farfi skín
af Jesú dýrstum dreyra.

Vor skerfur ei í heimi hèr
hugsýki stórrar verður er;
eitt er þörf rètt að rækjum:
ríki guðs eptir sækjum.

Margur sèr þúnga mæðu jók
með því, hann sorgir á sig tók
um það, er annast vildi
eilíf guðs sonar mildi;
hjálpar von öll þá hulin er,
harðast aðþrengdir kveinum vèr,
sú gæzkuríka herrans hönd
hörmúnginni, sem sturlar önd,
umsnýr í eptirlæti.

Svo hvíl, mín önd, af sorgum frí
sætu lausnarans skauti í!
sú rósemd raskast eigi
þó rotni hold og deyi;
unun sè þèr það æfinlig,
útvaldi guð í Kristó þig;
gjörvöll þín tár hann telur,
trúfestin hans þig elur
og mælir öll þín mæðuspor;
minnstu þess æ, að drottinn vor,
hverr þig forsorgar, er sá einn,
sem aldrei kann að svíkja neinn;
já, einn guð engan tælir.

## 11. GUÐS GÆZKA.

Eptir sálmi Gellerts: "*Wie gross ist des allmächtigen Gute!*" í "*Geistliche Oden und Lieder*" bls. 31; Nr. 18 í enni íslenzku sálmabók er útlegging Einars prests Jónssonar frá Fellsmúla á þessum sama sálmi; hèr er hann prentaður eptir eiginhandar-riti sèra Jóns og tveim afskriptum.

*Lag sem við Gellerts sálm.*

Ó! gæzku stærð ens almáttuga
er nokkurr sá, hún fái' ei smelt?
sá, skyldu mót, af hertum huga
hennar þökk geti niður fellt?
nei! elsku guðs að yfirvegi
önn mín sè jafnan tíðust sú;
guð minn hefir mèr gleymt aldregi,
gleym honum ei, mitt hjarta, þú!

Hverr gjörði mig með dásemd dýrri?
drottinn, sem ekki þarf mín við.
Hverr leiðir mig með lánglund hýrri?
lögum þess opt eg burtu ryð.
Hverr eflir sátt í samvizkunni?
hvort sækir andinn nýjan krapt?
svo mikils góða mèr hverr unni?
mun ei þess hönd, er allt fèkk skapt?

Lít, sál mín! inn í líf á hæðum,
líf, sem ert sköpuð fyrir þú,
hvar þú munt sjá umgirt með gæðum
guð, sem hann er, um eilíft nú!

þú hefir rètt til þeirrar gleði,
þín er hún fyrir drottins náð;
sjá, Kristí pína sár því skeði,
af sællri dýrð að yrðir fjáð.
Og eg þann guð ei göfga skyldi?
gæzku nægð ekki skynja þá?
hann skyldi kalla', en heyrn eg dyldi?
hann sýndi veg, eg gengi frá?
hans vilji er mèr í hjarta skráður,
hans orð um eilífð vottar þann.
Ást guðs [1] eg umfram allt er háður,
og elska jafnt mèr náúngann.
Sú er mín þökk, hann sama kjöri,
sè eg fullkominn eins og hann;
þegar eg skipan þessa gjöri
þá sýni' eg guði líkan mann.
Sönn ást til guðs í sál ef lifir,
sú mig til allrar skyldu knýr;
þó mèr sjáist af óstyrk yfir
ei drottnar syndin, heldur býr.
Ó guð! lát náð og elsku þína
æ vera fyrir sjónum mèr!
ástundun góðs hún efli mína,
allt mitt líf svo eg helgi þèr:
hún huggi mig þá harmar svíða,
hún stjórni mèr þá gengur vel,

[1]) þ. e. ást til guðs. *"Gott soll ich über alles lieben"* segir Gellert. Í eiginhandar-riti sèra Jóns stendur *guð*, en það getur varla verið rètt.

hún sigri minnar sálar kvíða
við síðstu stund, þá grípur hel.

## 12. VERS UM GUÐS GÆZKU.

Snúið úr dönsku; prentað áður í Hrappsey 1783 meðal Ljóðmæla sèra Jóns, bls. 78—79.

*Lag: Eilíft lífið er æskilegt.*

Augnablik hvert sem eg er til
á heimsins rauna stig,
gæzku þína eg göfga vil,
guð! og vegsama þig;
og nær mig síðan hefir hel,
heim flutt í dýrðar sal,
sömu lofgjörðar- vönduð vel,
-vers þèr eg kveða skal.
Náttúran hjöðnuð öll þá er,
aðgreiníng dags og nætur þver,
hjartans ný-elldur kraptur klár
kynna skal verk þín mild;
eilífð gjörvalla yfir stár
sú engla raddar snild;
hve má þó hennar öll um ár
æra þín verða fylld!

## 13. GUÐS GÆZKA.

Snúið eptir versi Vaðskjærs, háskólakennara í Kaupmannahöfn. Prentað í Hrappsey 1783 meðal Ljóðmæla séra Jóns, bls. 88.

*Lag: Þér, mikli guð! sè mesti prís.*

Skynsemin fellur undrun af,
upp gefast sálarkraptarnir
nær guðs stórmerki, hauður, haf,
himin, sól, mána skoða fer.
Óvirðíng reikna mesta má
maðurinn sèr, ef ekki fær
af skepnum þessum skynjað þá
skaparans gæzku', er tilbjó þær.

## 14. VON OG TRAUST Á GUÐI.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 76. Prentaður hèr eptir tveim handritum.

*Lag: Allfagurt ljós oss birtist brátt.*

Mín von er drottinn! á þèr öll,
ángistar þrátt mín heyrðir köll,
bölið þó mína byrgði raust
að brjósts-andvarpi niður lautst.
Mein, sem þegjandi mæða geð,
miskunsamliga fær þú sèð;
þó hjálpartíminn þroki við,
það er ei nema stundar-bið.

Eymda byrðin þá ofþúng mèr
ætlar að verða, glöggt þú sèr,
og gefur krapt að þola þær,
þángaðtil lausnin kemur nær.
Finn eg: á tíma frelsunar
forgefins að mitt traust ei var,
líknsami guð! og lofa þig,
að leystir svo frá nauðum mig.
Lágt eg í dupti ligg fyrir þèr,
lof og dýrð þinni miskun ber,
til verndar að þèr tókstu mig;
tíminn og eilífð prísi þig!

## 15. ELSKA OG TRAUST Á GUÐI.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 288; í enni íslenzku Nr. 164 nokkuð breyttur, líkliga eptir Magnús Stephensen. Prentaður eptir einu handriti.

*Lag: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.*

Burt með heimsins ónýtt yndi!
ei er veröld mèr svo kær,
aldrei fannst þar leika' í lyndi
lángvinn tign og ró glaðvær;
allur í hæð er hugurinn,
hefur sig þángað andi minn;
helzt til lètt er heims ágæti,
himinsælu þýngd að mæti.

Eg vil, guð minn! glaður afsegja,
guð minn! það sem stundligt er,
minn skal enginn hlutr hneigja
hug frá skyldu, dygð og þèr;
allan heim þó eignaðist,
en útilukt frá himnavist
sál mín gengi villt í voða,
vildi lítið hitt mig stoða.

Gleði mín sèrtu, guð alríkur!
gnógt eg á, nær hefi þig,
frá mèr ei, eg veit, þú víkur,
voldug hönd þín leiðir mig;
ef þá kann að mæta mèr
mein, sem þúngt og biturt er —
þó tár flóðu þrátt af kvíða —
þitt er að bjóða, mitt að hlýða. [1]

Gegnum lífsins eymd og ama
óhræddur eg þreyti gáng,
augað horfir trúartama
til þess lífs er veit í fáng:
sönn hvar gleði' og sæluhnoss
sonar þíns gjöf er búin oss,
sigur, frið og sæmd um aldir
í sitt hlutskipti fá útvaldir.

---

[1]) Þetta vers er ekki í enum danska sálmi, og mun sèra Jón hafa ort það sjálfur.

## 16. ELSKA OG TRAUST Á GUÐI.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 102; í enni íslenzku Nr. 159 nokkuð breyttur, líkliga eptir Magnús Stephensen. Eptir einu handriti.

*Lag: Óvinnanlig borg er vor guð.*

Þú ert minn guð! ei óttumst eg
og ei skal heyrast kveina,
þótt eg færist um þyrna-veg
unz þrýtur æfin meina;
vísliga veit eg nú
við mig allt breytir þú,
æ huggar mjúkast mig
miskun þín föðurlig,
er eg svo opt fæ reyna.

Þèr og náð þinni mig og mitt
minn guð! eg fel á hendur,
allt hvað eg hefi, það er þitt,
og þèr í valdi stendur;
há stjórn þín heill mín er,
hollasta viltu mèr
Jehóva gæzkugjarn!
til góðs er fyrir þitt barn
á öllu sigur sendir.

Guð fær ei sínum gleymt, í hrygð
geð mitt sá þánki nærir,
von sem á þig er vel uppbygð
víst ei kinnroða færir;
burt ángist öll og sorg!
örugg er guð mín borg,

hans eru vel gjör verk,
ver mig hans geymsla sterk
hvað sem sál og líf særir.

## 17. ELSKA OG TRAUST Á GUÐI.

Ort eptir 103ðja sálmi í enni dönsku sálmabók; sálmur þessi er Nr. 155 í enni íslenzku. Eptir einu handriti.

*Lag: Gleð þig, guðs sonar brúð!*

Hví skal mèr veiklast von?
veit eg guðs mildi son
er hjá oss allar tíðir,
unz heimur þverr um síðir;
óskelfð min augun mæna
á makt hans hjálpar væna.
Heims treð eg gleði' og glis,
glepur mig ei það fis,
skjótt missi' eg skemtun slíka,
skymp met eg hans viðlíka,
það má lètt hismi heita
hjá því eg eptir leita.[1]
Leggi guð ok mig á
og harða reynslu-þrá,
ó, eg vil ekkert kæra, —
opt gaf hann stund glaðværa;

[1] Þetta vers er ekki í enni dönsku sálmabók, og mun sèra Jón hafa ort það sjálfur.

skal mèr ei líka að líða
ljúft, nær hann vill hið stríða.

Sál og hold, fjör og fè,
fjærlægt er mitt að sè,
þú, guð! átt það sem lèðir,
og þótt snarliga rèðir
líkamann lífi svipta,
lund vil eg ekki skipta.

Dauðinn ei deyðir oss —
dal þann til eilífs hnoss
beinleiðis gegnum gaungum,
gröfin er svefnhús laungum
sem limu lúna hvílir
og lífs frá mæðu skýlir.

Nær tímans hlaup er tapt
tignar með hæstan krapt
vor Jesús Kristur kemur,
kær minn frelsari nemur
mig í dýrð þá ei þrotnar,
þar hann um eilífð drottnar.

Ó, skyldi' eg örvílnast?
ó nei! eg trúi fast,
já! amen! Jesú orðum,
jafnan þau standa' í skorðum;
þú ert minn þrautum kraminn,
þinn eg er, hallelúja! amen!

## 18. ELSKA OG TRAUST Á GUÐI.

Eptir 310da sálmi í enni dönsku sálmabók. Prentað hèr eptir tveim handritum.

*Lag: Kristnir menn! umfram allar tíðir.*

---

Til þín, minn guð! í trú eg kalla,
tjáandi mínar raunir þèr,
með von um hjálp og huggun alla;
herra! þú aldrei gleymir mèr;
mig heyrir þú í mildri vægð,
og mèr án efa sendir hægð.

Þú heyrir mig í hljóði kvarta,
harmstunum þagnar gætir að;
nær byrgt mèr synjar bræðra hjarta
bjargar og ráða, sèr þú það;
minn vonar-háska vel þú sèr,
við örvílnun þá liggur mèr.

En eg misvirti, minn guð! tíðum
mjög svo þitt vísa gæzkuráð;
í efa hvarf og ótta stríðum
af þèr mitt traust, að mannadáð;
já, guð! eg skepna víst er veik,
veittu mèr krapt og stöðugleik!

Stöðva mitt traust, og styrk mitt hjarta
við strítt og blítt, sem mætir hèr!
af þèr, við sorg og unun bjarta,
allt gef eg skamtað sjái mèr!
trú, iðju-lyst og von, mèr veit,
völd hafi mínum geðs í reit!

Vil eg svo glaður viðurkenna
í velgengninni þína náð,
og í treganum til þín renna
með teitri sál, er þèr skal háð;
áhánga þèr án afláts fast,
sem öllu stjórnar vísligast.

## 19. LOFSAUNGUR Á JÓLUM.

Eptir 136ta sálmi í enni dönsku sálmabók. Prentaður eptir tveim handritum.

*Lag: Ó drottinn allsvaldandi!*

*Saungflokkur:*

Sjá! Jesús Kristur kemur,
knè fyrir honum beygist öll!
sá kenníng sannleiks fremur
sendist þèr, manna þjóð gjörvöll!
æðstum frá
allsráðanda,
offur há
dýrðar vanda!
ljós ber sá
og lífið oss til handa.

*Söfnuðurinn:*

Sjá! til vor son guðs kemur,
syndanna burt að taka gjöld;
og náðar sáttmál semur
seka við Adams barna fjöld;

Jesús bjó
jörð hjálpræði;
jómfrúr, ó!
hann varð sæði;
Jesús dó
jörð svo heillum næði.

*Samsaungur:*

Kom, dýrðar-kóngur góði!
kennir sannleiks og frelsari!
jörðin er þín og þjóðir,
þökk ber og lof þèr goldið sè;
allir því,
er knè sveigja
á jörð frí,
skulu þau beygja
náðar- í
-nafni Jesú! — Eia!

## 20. LOFSÁLMUR Á JÓLUM.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 137. Eptir tveim handritum.

*Lag: Guðs son kallar: komið til mín.*

Jesú! þú komst, vèr þökkum það,
þinn söfnuður, í helgum stað,
auðmjúku' og glöðu geði;
æ, gef tilbeiðsla sè þèr sú

sannþóknanlig, og verðug nú
heilög hátíðar-gleði.
Oss ljós og sælu fært þú fèkkst
fallinna til þá niður stègst,
við guð svo veröld sættir;
port oss opnaðir himins bá,
hvar þig drottnanda munum sjá:
þínar útvaldar ættir.
Vèr þá með engla sýngjum sveit:
sæmd er, ó Jesú! þín háleit,
þú ert, þú varst, munt vara;
hallelúja! hallelúja!
hann var, er, varir Jehóva!
himnanna himnar svara.

## 21. PÍSLAR SÁLMUR.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 144; í enni íslenzku er Nr. 70 útlegging Magnús Stephensens á þessum sálmi. Eptir einu handriti.

*Lag: Heimsins þjóð í öllum áttum,*
*eða: Stabat mater dolorosa.*

Knoss á negldur meðal manna
mög'r guðs, drottinn upphæðanna,
reiði þrumur bistar bar,
yfirgaf hann í ángist sinni
eilíft föðurs gæzku sinni,
og grátbæn aumri gaf ei svar.

Hversu full var harms og nauða,
hversu sturluð allt í dauða
Jesú elsku-særða sál!
skuli veitt að framgáng fái
frelsun mín, sem efnda þráir,
heiptar tæma skal hann skál.

Hverr má hugsa' um þjáníng þessa
þeim hún ei sè tára pressa?
þóað sekur þyldi neyð;
en hèr leið enn allrabezti —
augu mín og hjarta bresti! —
sjálfur heilagleikinn leið.

Vor guð sjálfur varð að gjalda
veraldarinnar sekt margfalda,
sár þolandi brixl og bönd;
loksins sá, er líf nam skapa,
lífi hlaut og vildi tapa,
lífshertoginn uppgaf önd.

Geti' eg krapt af guðdóms hreinum
geisla þínum staðizt einum,
sæti Jesú! send mèr hann!
heilags fullur ils og anda
elskublossann þig steykjanda
gef eg finni gjörvallan! [1]

Lát ei gálgann mèr úr minni
mega falla nokkru sinni,

---

[1]) Þetta vers er hvorki í dönskunni nè í útleggingu þeirri sem sálmabókin hefir, og mun sèra Jón hafa bætt því við.

sem þig, frelsis fursti! bar;
kross og deyð með kvalaþjósti
kalli sífelt mèr í brjósti:
hversu dýr mín velferð var.
Veit mèr drýgða glæpi' að gráta,
gleðjast þó í varan máta
við mitt frelsi' á hæð og hèr! —
Eg er keyptur, sè þèr sómi!
samt með ærnum helgídómi; —
veri það syndavörun mèr!
Gef mèr krapt af gæzku þinni
góði Jesú! svo eg kynni
lifa, það eg lifi, þèr;
þèr, sem dóst, mig láttu lifa!
já, lifa þig, sem mig rèðst skrifa —
lát fyrir þitt — með lífsins her!
Lát mig vera, þèr svo þakki,
þakki fórn, ó lífsforsprakki!
vígðan þinni velþóknun;
á þeim mikla degi dóma,
dauða þíns í krapti' og sóma,
þèr þá hress eg mæta mun.[1]
Víst eg, Jesú! vel þèr treysti,
vona fast, þínn endurleysti;
styð þú mig og styrk í trú!
sèr í gröf þá holdið hallar
hugga mína sál, er kallar
heim til dýrðar hana þú!

[1]) Þessu versi mun sèra Jón einnig hafa bætt við.

## 22. PÍSLAR SÁLMUR.

Sami og hinn næsti á undan. Eptir einu handriti.

*Lag: Guðs son kallar: komið til mín!*

Negldur við kross á hauðri hèkk
nær heiptar þruman yfir gekk
sonur guðs, herra' á hæðum;
hans föðurs eilíf gæzku gnægð
gaf hann ofur í hels óvægð,
hugði' ei að harms vankvæðum.

Hvílíka særíng hjartað leið!
hversu var sturluð allt í deyð
önd Jesú, elsku lostin!
skál heiptar má og skal út tæmd,
skal girnd hans veitt: mín sál frídæmd
aldrei að öðrum kosti.

Hverr má um refsíng þenkja þá,
þótt legið hefði sekum á,
svo hún ei hugann veiki? —
En hátign æðsta hèr leið pín —
hjarta smeltist og augun mín!
hèr kvaldist heilagleiki.

Gjörvallt, sem veröld glæpug braut,
guðs sonur kvalinn borga hlaut:
sár, spott og bönd að bera;
loksins uppsprettan lífs Jesús
líf hlaut að missa' og vildi fús;
önd gaf upp voldug vera.

Geti staðizt af geisla krapt
guðdóms einum mitt hysmi skapt,
gef mèr hann, Jesú góði!
svo helgum kyndtur anda og il
alls þess kærleika finni eg til
sem þínu brann í blóði.

Gef! að mèr aldrei gálgi sá
gleymist, sem þú varst hengdur á,
ó frelsis furstinn sæti!
ræði kross, hel og kvöl á þèr,
já, kalli sífelt í brjósti mèr
minnar lausnar dýrmæti!

Gef eg af hjarta gráti brot
glaður við þinnar píslar not
og gætinn æ framfari;
lof sè þèr, eg veit leystan mig,
en lausnin dýrt hefir kostað þig;
gef eg því gáng minn vari.

Svo líf mitt gjörvallt lofi þig
lát þinn náðarkrapt styrkja mig
það lifi' eg hèr í holdi!
lát þú, sem dóst, mig lifa þèr!
líf þú sem aptur veittir mèr
með dauða þeim er þoldir.

Í lof og þökk, minn lausnari!
lifandi' og heilög fórn eg sè,
þèr sú er þóknast megi!
ó! þá skal eg með öruggt brjóst
í augsýn þèr, sem fyrir mig dóst,
mæta' á þeim mikla degi.

Fús vil eg bíða, frelsari minn!
frelsíngi vona' eg stöðugt þinn,
elsku trú á þig mína;
hold mitt nær dauðans höggur stál
hugga kallaða mína sál
heim í himin-ró þína.

## 23. PÍSLAR SÁLMUR.

Snúinn úr þýzku. Eptir einu handriti.
*Lag: Á þig alleina Jesú Krist!*

Ó, sjá hann píndan! blóðugt bað
og heiskan deyð þolanda;
sjá hann, og gæt þar, önd mín! að,
ástarþökk honum vanda!
einka-son guðs og erfíngjann,
ó, hvað sárt knúði mannelskan!
hvar þekkir nokkurr vin, sem vann
viðlíkt og hann?
er svo dó fyrir sakaðan.

Hve dymm var þèr sú harmastund!
hvert farg þig, vinur, nísti!
hve streymdi blóði hver ein und!
hverr dropi sig þó lýsti
helltan út til að hugga mig,
og heyra lætur enn nú sig,
hátt svo kallanda heims um stig:

hjartkæran þig
gæzkan sú hefir guðdómlig.
Þú varðst að líða, það hlaut ske,
þinn fyrir dauða kunnur
kætir mig föður kærleiki,
klár er sá gleði brunnur,
signet eilífa sátt á þrykkt,
svo víst faðirinn guðdómligt
gaf mèr þig offur, gildt að vigt,
get eg á hyggt:
að hann sjálfur mig elskar tryggt.
Eign þín og föðurs erfingi
er eg nú frá þeim degi,
hans eg djúpt inní hjarta sè,
harm þótt eg líði' og deyi;
til mín nær aldrei töpun hörð,
þó túngl forgángi, sól og jörð,
óhifanligan á eg vörð
í sáttargjörð,
sem nú er þinni svarin hjörð.
Já til huggunar hæstu mèr,
en heiðurs þèr og sóma,
þitt gjörvallt stríð og andlát er
eiður þinna lærdóma;
huggar það mig í hverri neyð,
þinn heilagleiki saklaus leið;
já, þegar stríð og sorg, er sveið,
sakleysið heið,
eign þess er prís og æra greið.

Þitt vinardæmi, Kriste kær!
kenna skal mèr þá fræði:
að hreint sakleysi og hegðun skær
heiðurs sè bezta klæði;
raust þína' eg vil, sem hugþyrst hjú,
heyra, gjöra hvað býður þú;
ásönnun þakklát æ og nú
eggja skal trú;
hverr meir verðskuldar það, enn þú?

Hefndum vil eg minn óvin á
afdrei, nè hatri, kasta —
líka það af þèr læra má
ljúfmennið hógværasta, —
ei lasta skikkun skaparans,
þó skyggi dymmt á fótspor hans;
þú gekkst á þyrnum rauna-ranns;
að ráðnum kraus
mèr ber för rekja meistarans.

Hví dauðans ógn mig skelfa skal
skamma stund? ástvin góði!
svafst þú í grafar dvala-dal;
dupt mitt þó hennar sjóði,
nær helstund kemur, hyljist í,
herrann, sem gaf þèr líf á ný,
frá legstað, þar eg látinn bý,
ljúft treysti' eg því,
veltir steini, svo verði' eg frí.

Þigg, minn lausnari! þakkir nú,
af þeli kærleiks fróma
fyrir pínu, sem þoldir þú;

þær munu fegur hljóma
með englakór, þá andi minn
eilífan sýngur lofstír þinn,
heill þegar bræðra herskarinn
hefur róm sinn,
og öll samvitnar upphæðin.

## 24. SAMTAL KRISTS OG SÁLARINNAR
### útaf písl endurlausnarans.

Tekið eptir riti meistara Matthíasar Bajlí, Biskups í Bangodt, er kallað er "*Praxis pietatis*", og snúið á íslenzk ljóðmæli eptir þjóðverskri útleggíngu. Sálmur þessi er prentaður áður í Hrappsey 1783, aptanvið "Diaríum" séra Jóns Vigfússonar, bls. 98. Hèr er eitt handrit hagnýtt til samanburðar.

*Lag: Kom hèr, mín sál! og kynntu þèr.*

*Sálin*: Hvers vegna forðum þvoðir þú,
þá kvala-nótt að bar,
sveinanna fætur? sæll Jesú!
*Kristur*: Svo dæmið auðmýktar
af mèr að læra hefðir hèr,
og hversu tilreiddum bæri þèr
að neyta míns náttverðar.
*Sál.* Andlát hvar fyrir undir þitt
aptans-verð þann tilbjóst?

*Kr.* Svo heldur dauða-minni mitt
mætti þitt vekja brjóst;
og svo þú vitir efalaust:
öll mín verðskuldan sè þitt traust
og gjald til lausnar ljóst.

*Sál.* Hvar fyrir vildir, herra! þú,
hafa þig í þann stað,
vel hvar þig fengi, vissir nú,
vèlarinn uppleitað?

*Kr.* vottar það ljúfan vilja minn,
vondan að bæta lifnað þinn;
fús dó eg fyrir það.

*Sál.* Hvar fyrir hefir þèr þóknazt það:
þín skyldi í aldinreit
uppbyrjast, held'renn öðrum stað,
ángist og kvölin heit?

*Kr.* Af því þín synd, sem illt af rís,
uppsprottin var í Paradís,
sú mína sál á beit.

*Sál.* Sveinar hvar fyrir sváfu þrír,
sem voru nálægir
í ángist þinni, drottinn dýr!
þá dauðinn sókti' að þèr?

*Kr.* Svo vitir þú fyrir utan ef:
einnsaman þig eg frelsað hef
og enginn meður mèr.

*Sál.* Hvar fyrir Júðar hèldu ráð
heiptarfull þèr á mót,
ótal svikræðis-brögðin bráð
bruggandi' af vondsku rót?

*Kr.* Eflaust þar fyrir er það skeð:
að eg frelsaði þig hèr með
úr fjandans flærðar nót.

*Sál.* Hvar fyrir, herra! þáðir þú,
þann falska Júdas-koss?

*Kr.* Svo eg afmáði sjálfur nú
syndina fyrir minn kross,
sem með eitraðri svika-flærð
af satan var í heiminn færð,
fèkkst þú því frelsis hnoss.

*Sál.* Hvar fyrir varst þú, herra sæll!
hèr fyrir þrjátiger,
silfur-peninga, svo sem þræll,
seldur guðlausum her?

*Kr.* Svo eg eilífri þrældóms þrá,
þínu sem yfir höfði lá,
loks fengi lètt af þèr.

*Sál.* Hví mundi, herra! þreytt af þèr
þrásækin bænagjörð,
með tíðu hrópi' og tárum hèr,
sem töppuðust út á jörð?

*Kr.* Svo guðs rèttferðugt reiði-bál,
ránglátri búið þinni sál,
slökkti mín hörmúng hörð.

*Sál.* Hví leiðst þú ángist, ógn og fár,
ofboð og dauðans stríð?

*Kr.* Uppá það gjöldin synda sár
og sjálfs guðs heipt óþýð
á mig hlæðist, en ekki þig,

og til svölunar skoðir mig
á hels og hryggðar-tíð.
*Sál.* Hvar fyrir beiddir þú svo þrátt:
þèr mætti líða hjá
þíns föðurs reiði-bikar brátt?
*Kr.* Bezt kanntu þar af sjá:
hvað orðið hefði þúngbært þèr
það að bera, sem lá á mèr,
og þú ert frelsuð frá.
*Sál.* Hvar fyrir gafstu þetta þó
þíns föðurs allt í vild?
*Kr.* Hegðunar form þèr heilagt bjó,
hörmúng þá særir gyld,
hversu ljúfri þèr líða ber
lifanda drottins tiptanir;
nægi þèr náð hans mild!
*Sál.* Hvar fyrir dundu' af helgum þèr,
Herra! við dauðans fár,
blóðsveita hnyklar blessaðir?
*Kr.* Banvænlig glæpa sár
svo læknuð yrði þarmeð þín;
þessi heilnæma blóð-laug mín
öllum frí opin stár.
*Sál.* Hvar fyrir þig, minn herra! lèzt
handtaka' og setja' í bönd;
umflúið gatst þó allra-bezt
óvina grimdar-hönd?
*Kr.* Svo fjötur djöfuls fèlli' af þèr,
frjáls skuli' og liðug þjóna mèr
líf þitt og líka önd.

*Sál.* Hvar fyrir varst þú öllum af
ástvinum forlátinn,
einn og sèrhverr þig yfirgaf,
eins sveina-flokkur þinn?
*Kr.* Svo þú öðlaðist sannan frið
og sameiníng minn föður við,
þèr föllnum fráborfinn.
*Sál.* Hví þig svo Pèturs mæddi mjög
meinsæri' og neitun þrá?
*Kr.* Meðkenna svo að mætti jeg,
mínum þig föður hjá,
og þú lærir, að ekki sè
uppá neinn mann sig reiðandi,
svo treystir einn mig á.
*Sál.* Hvar fyrir lèzt þú hana-gal
hug Pèturs vekja þar?
*Kr.* Enginn því lítils akta skal
anda míns bendíngar,
sem fyrir minnstu meðöl kann
margopt að leiða syndarann
á veg umvendunar.
*Sál.* Því leitst þú, drottinn! hýr til hans
hógværðar augliti?
*Kr.* Svo vitir þú, að megni manns
möguligt ekki sè
iðrunarverk að efna sitt,
án þess að náðar tillit mitt
að eins hann uppveki.
*Sál.* Hvar fyrir yfir hold þitt var
hengd ein purpura flik?

*Kr.* Illgjörðir þínar alrauðar
afmáði forsmán slík;
skal og rèttlætis möttull minn
misverknað allan hylja þinn
og brotin blóði lík.

*Sál.* Því var stíngandi þyrni-krans
þitt höfuð settur á?

*Kr.* Því bölvan guðs fyrir misgjörð manns
mèr gjörvöll yfir lá;
kóróna dýrðar eilíf er
afsíðis lögð til handa þèr
lífs eptir liðna þrá.

*Sál.* Hvar fyrir þèr, minn herra! reyr,
í hendur fenginn var?

*Kr.* Mín við þig, sem ert mold og leir,
miskun er teiknuð þar;
brákaðan reyr ei brjóta vil,
blæs eg að veikum trúar-yl
hreldum til hressíngar.

*Sál.* Hvar fyrir leiðst þú háð og spè?
himnanna sterki guð!

*Kr.* Tignarlig vegsemd svo þèr sè
sælunnar útveguð.
Djöflanna spott þig sakar sízt
sjálfur því afmáð hef' eg víst
allan þann ófögnuð.

*Sál.* Hvar fyrir var með hrákum lýtt
heilögust ásján þín?

*Kr.* Afmynduð þú svo álit frítt
öðlist í guðs augsýn;

og svo hann framar aldrei þèr
út skirpa nái' af vörum sèr,
á harmkvæli minntur mín.

*Sál.* Hvar fyrir auglit huldi þitt
háðskálka flokkur sá?

*Kr.* Svo náðar auglit megir mitt
í mannraun þinni sjá,
og að mín dýrðlig andlits sól
ununarfull við lambsins stól
þig skini' um eilífð á.

*Sál.* Þræla hvar fyrir þoldir slög
þú knefum af og reyr?

*Kr.* Svo bölvan lögmáls, bitur mjög,
herði þig aldrei meir;
Sathans freistínga sefast pín,
samvizku lemstur græddi' eg þín;
burt eru böðlar þeir.

*Sál.* Hvar fyrir ávörp heiptarlig
heyrðir þú, brígsl og spè?

*Kr.* Svo mæli faðir minn við þig
í miskun og ástsemi,
og heilags anda harðla blíð
huggunar-ræða' á mótgángs tíð
þíns hjarta svölun sè.

*Sál.* Hvar fyrir var þèr heiptug gjörð
húðstroka svipum með?

*Kr.* Samvizku vondrar hýðíng hörð
hèr svo þig fái' ei skeð,
nè fyrir drýgðra synda sekt

síðan þig húðlát kvelji frekt
töpuðum tilbúið.

*Sál.* Því lètst þú fánginn færa þig
fyrir dóm Pílati?

*Kr.* Uppá það verk þín órèlig
afplánist svo sem ský,
svo fyrir strángan drottins dóm
dregin ei verðir, heldur fróm
metin á þíngi því.

*Sál.* Áklögun falska, lýgi' og last
því leiðst þú? drottinn kær!

*Kr.* Að skyldu þar með ónýtast
ákærur sannar þær,
sem fyrir eyru föður míns
fram koma glæpugs vegna þíns
athæfis, ótal nær.

*Sál.* Meðkenna hví þú mundir það:
minnst hefði vald á þèr
Pílatus, honum ofan að
utan það gæfist hèr?

*Kr.* Eins skalt þú vita' að engin makt
undir fær mína kristni lagt
meir enn er leyft af mèr.

*Sál.* Dauðans hví felld þig yfir er
ályktan þeigi slök,
þó mættu finnast móti þèr
misgjörðar engin rök?

*Kr.* Er það bevísing, öflug þó:
að eg víst fyrir þína dó,
en ekki sjálfs míns sök.

*Sál.* Utan Jórsala því er þín,
þjáníng og helför skeð?
*Kr.* Að eg í hina', er uppi skín,
inn leiddi þig hèr með,
hvar þú skalt laus við synd og sorg
sífelt í þeirri friðarborg
lifa með glaðvært geð.
*Sál.* Því mundi krossins þúnga trè
þreyngt til að undirgá
Símoni vera' af Sýrene,
sem þig var lagt uppá?
*Kr.* Hversu örmagna' eg orðinn var
undir misgjörðum veraldar
þú kannt af því að sjá.
*Sál.* Hvers vegna Símon þessi þann
þinn hitti krossburð á,
af akri kominn mæddur mann,
meinandi hvíld að fá?
*Kr.* Því sá má vænta kross og kífs,
sem kýs af akri þessa lífs
til hvíldar guðs að gá.
*Sál.* Hvers vegna fötum færður af
frelsari minn! þú vart?
*Kr.* Allt vegna þín eg yfirgaf,
út lagði gjald óspart,
uppá það tötur lasta ljót
leystust af þèr, en hèr á mót
öðlist þú æðra skart.
*Sál.* Því varst þú, herra! hengdur á
háðugligt gálga-trè?

*Kr.* Svo þú mættir í himin há
hefjast af jörðunni,
og bölvan sú, sem barst á mig,
blessaðan skyldi gjöra þig
í drottins augliti.

*Sál.* Morðíngja tveggja milli þig,
minn guð! því hengja lètst?

*Kr.* Svo þú, unnustan elskulig!
englunum samlíkist,
og miðt í skærum skara þeim,
skilin við þennan vonda heim
á hæðum unir bezt.

*Sál.* Hvers vegna negldur, herra! þú
hegníngar varst á trèð?

*Kr.* Svo frjálsar hendur fengir nú
að fremja rèttlætið,
og svo þín fótspor gjörðust greið,
að gánga rètta friðar-leið;
þessvegna það er skeð.

*Sál.* Hvers vegna skeði' á Hausastað,
herra! þinn dauði sár?

*Kr.* Merk vel, að hann er meðal það,
er mýkir heljar fár;
líka fyrir þá læt eg grein
lifandi verða' hin dauðu bein
sem myrdti synd óklár.

*Sál.* Hvar fyrir mundi, herra hreinn!
heill látinn kyrtill þinn?

*Kr.* Fyrir því, eg vil eignast einn
óskiptan söfnuð minn:

lærdóms. misklíð og villa verst
vil eg öldúngis burtrýmist
frá honum sèrhvert sinn.

*Sál.* Gallblandað edik þyrstum þèr
því var, minn Jesú! fært?

*Kr.* Svo heilags anda svölun hèr
sætust þig fái nært;
en síðan himneskt engla-brauð
útvalin fæði þig, minn sauð,
og vellystar vatnið skært.

*Sál.* Hví náðir hrópa þannig þú:
*því yfirgafst þú mig?*
*minn guð! minn guð!* nær mæða sú
mest yfir dundi þig?

*Kr.* Svo heyrast aldrei þyrfti' af þèr,
sem þetta víst forskuldaðir,
sú klögun sár-aumlig.

*Sál.* Hversvegna yfir lètst þú lýst
lát fyrr enn þitt var skeð:
að það fullkomnað væri víst?

*Kr.* Vel færðu þar af sèð:
að krafa lögmáls uppfyllt er
og lausn fullkomin gefin þèr
krossdauða mínum með.

*Sál.* Hvar fyrir myrkur huldi jörð,
herra minn! þegar dóst?

*Kr.* Afmáluð verður hèrmeð hörð
helvítis pína ljóst,
sem dauði minn þig frelsti frá;

formyrkvun sú því vekja má
þitt til þakklætis brjóst.

*Sál.* Herra minn Jesú! hvar fyrir
hendur og armleggi
alblóðuga þú útbreiddir
á krossins hörðu trè?

*Kr.* Að eg þig heitt með elsku-bál,
allra kærust og dýrmæt sál!
af alúð umfaðmi.[1]

*Sál.* Hví leiddi andláts iðran bráð
illvirkja' í Paradís?

*Kr.* Enginn svo drottins efi náð,
sá upp af syndum rís,
þó kvöldi lífs sè komið að,
kraptur míns anda verkar það,
er trúin æ sèr kýs.

*Sál.* Ásjá hvar fyrir enga fèkk
illræðismaður sá,
eins nærri þèr og hinn sem hèkk?

*Kr.* Hans dæmi skelfa má
óguðliga, sem illan sið
ei vilja gráta' og skiljast við,
nær herrann hirtir þá.[2]

*Sál.* Hvar fyrir raust þú hárri með
hrópaðir þegar lètst?

*Kr.* Þaraf fær gjörla sèrhverr sèð
sálin mig viðskildist

---

[1]) Þetta vers er fellt undan í Hrappseyjar útgáfunni.

[2]) Þessu versi sleppir Hrappseyjar útgáfan.

ei fyrir nokkurs annars makt,
af fèkk eg hana sjálfur lagt
þegar mèr þóknaðist.[1]

*Sál.* Hvar fyrir þína helgu önd,
holdi nær skildist frá,
fólt þú í guðs þíns föðurs hönd?

*Kr.* Fagra svo breytni þá
í tíma skulir temja þèr:
til þinnar eins að búast hèr
heimferðar hæðir á.

*Sál.* Hvar fyrir sundur hrökk í tvennt
helgidóms fortjaldið?

*Kr.* Þèr verður gjörla þar með kennt:
þann vegg, er stóð í mið
og aptur byrgði aðgáng þinn
inn í guðs náð og himininn,
á braut eg opið blið.[2]

*Sál.* Hví skulfu lönd og brustu björg
bitran við dauða þinn?

*Kr.* Skelfdist að líta skepnan mörg
skapara píndan sinn;
þau máttu' og heldur vikna við
vondt það eg leið fyrir mannkynið
enn sjálfur syndarinn.

*Sál.* Hví voru ei þín blessuð bein
brotin, sem hinna þar?

---

[1]) Þessu versi sleppir Hrappseyjar útgáfan.

[2]) Þetta vers og öll þau er eptir koma, *nema* hið seinasta, fellir Hrappseyjar útgáfan undan.

*Kr.* Ekkert mig snerta mátti mein,
meir enn ályktað var
til friðþægíngar fyrir heim;
framar ei leiðst að gjöra þeim
enn ræddu ritníngar.
*Sál.* Hvar fyrir signuð síða þín
særð meður spjóti var?
*Kr.* Svo þú, ó dúfa mætust mín!
megir þig fela þar
miskunar hjarta mínu nær,
musteris dyr þig leiða þær,
ángráðum opnaðar.
*Sál.* Hvar fyrir dreyra' og vatni var
veitt út af þessum stíng?
*Kr.* Mitt heilagt blóð þèr handsalar
helgun og rèttlætíng;
með vatni framin skírnin skær
skaðligan synda burtu þvær
óhreinleik allt umkríng.
*Sál.* Hvar fyrir opnast gjörðu greitt
grafirnar, þegar dóst?
*Kr.* Fyrir því dauðans afl var eydt,
öllum það skyldi ljóst:
að hann í sigur svelgdur þá
sízt megi skelfa hèðan í frá
neitt minna barna brjóst.
*Sál.* Látin því jarða lètst þú þig?
lifandi Jesú minn!
*Kr.* Svo vissuliga vitir mig,

að vera framliðin,
og minníng þinna synda sè
sokkin af reiknings-bókinni,
um eilífð útskafin.

*Sál.* Vegna hvers gröf sú var þèr ný
valin, ó Jesú hreinn!
sem fyrr var lagður enginn í?

*Kr.* Er þetta vottur beinn:
að eg hef verið sjálfur sá,
sem upp nam rísa dauðum frá,
en annarr ekki neinn.

*Sál.* Hví þú, minn drottinn! aptur ert,
upprisinn dauðum frá?

*Kr.* Um frelsi þitt svo fullviss sèrt,
friðþægíng guði hjá,
sigrað við hel og Sathan stríð,
sjálfs þíns upprisu dóms á tíð,
og heimvon himnum á.

*Sál.* Hvar fyrir helgra lifnuð lík
lètu sig verða sèð,
nær þín upprisa náðar-rík
nú var frá dauðum skeð?

*Kr.* Í hennar krapti' á efsta dag
uppbyrjar nýan lífsins hag
allt hold, sem rotna rèð.

*Sál.* Hvað skal eg aptur hèr á mót,
herra minn! gjalda þèr?

*Kr.* Að þú af hjartans innstu rót
elskir mig, svo sem ber;

guðhræðslu' og trúar iðkun í
eflist, og verðir skepna ný,
þolug og þakknæm mèr.

## 25. LOFSAUNGUR Á PÁSKUM.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 165. Eptir tveim handritum.

*Lag: Sá ljósi dagur liðinn er.*

*Saungflokkur:*

Görga þú, saunglist glöð og há!
guðs miskunsemd og náð,
honum kom heill og frelsi frá,
friðkeypt hann prísa láð!
Hallelúja! hallelúja!

*Söfnuðurinn:*

Vèr lofum guð, því hans er há
og harðla dásöm náð;
honum kom heill og frelsi frá,
friðkeypt hann prísa láð!
Hallelúja! hallelúja!

*Saungflokkur:*

Ofhlýðnir syndar vèlum vær
villtumst og fèllum því;
frelsarinn Jesús Kristur kær
kom, og oss reisti' á ný.
Hallelúja! hallelúja!

*Söfnuðurinn:*

Drottinn bænheyrði duptsins von
djúpt leit til vor með náð,
og sinn ástkæra sendi son,
sá er friðkeypti láð.
Hallelúja! hallelúja!

*Saungflokkur:*

Vor Jesús krossins dauða dó,
dymma gröf sökktist í,
en hann brautst út af þeirri þró
þá líf sitt tók á ný.
Hallelúja! hallelúja!

*Söfnuðurinn:*

Ó heill! þá sigurhetjan ber
heimi, guðs mikli son!
Jesú Kriste! vèr þökkum þèr,
þú gafst oss lífsins von.
Hallelúja! hallelúja!

*Samsaungur:*

Með gleði hljóm þig göfgum vèr,
ó guðs hjartkæri son!
þín vegna fögur erfð vor er,
oss bjóstu trausta von.
Hallelúja! hallelúja.

Og kalli' oss hèðan dapur deyð,
dofnar ei trú vor þó;
þú hefur oss frá hrygð og neyð
himins í glaða ró.
Hallelúja! hallelúja!

## 26. PÁSKA-VERS.

Eptir Ljóðmælum, prentuðum í Hrappsey 1783, bls 79.

*Lag: Eilíft lífið er æskiligt.*

Ó Jesú! hjartans unun fríð,
upprisa' og lífið manns,
sálar hugsvölun blessuð, blíð,
blómstur ódauðleikans!
þú, sem harmkvæli, hrygð og böl,
hefir þolað á kross,
djöful sigrandi' og dauðans kvöl
dýrðligur fyrir oss!
Unn oss jafnan í anda hèr,
upp að rísa með sjálfum þèr,
svo vèr, grafanna fylsknum frá
fram leiddir dóms á tíð,
sigur hróss megum sóma ná,
sorga gleymandi hríð,
með eilífu páska-haldi hjá
heilögum engla lýð.

## 27. VERÐSKULDAN JESÚ KRISTS.

Lagt út af 1 Pèt. br. 1 kap. 3 v. Eptir einu handriti.

*Lag: Heimsins stýrir forsjón fasta.*

Sannkristinna saungur hljómi!
sætt guð faðir vegsamist!

himin og jörðin hans að dómi
hófst, og síðast umbreyttist;
gaf hann son sinn, gleðihnoss,
gaf sig í honum föður oss; —
í synd og dauða sártapaðir,
til sælu-vonar nýskapaðir.

Jesús synda fórn oss fyllti
forlíkun með dauðans þraut,
þá loks dómarann stránga stillti,
er sterkt fángelsi grafar braut;
deyði' hann, það vor dómur var,
dýrð sè Kristó aptur þar!
ódauðleiks kom alinn blóma,
oss hann bauð að stunda sóma.

Sá má deyja', er syndgað hefur,
sekt og dauðinn vort það er,
lífið af náð guð oss gefur
greitt í Jesú píslum hèr;
hel þótt daga hepti tal,
herfáng grafar sál ei skall
hjúpi steypir hún, segjandi:
holdið rotnar — eg fagnandi.

Eg einn andi, eg og fæðist
úng í dauða, ligg mitt hold!
hvíl sjúkdómur hvar þinn græðist!
hverf eg rèttlát upp af fold,
anda-föðurs andlits blóm
að sjá, heyra' hans náðardóm,
aldrei syndin meir fær mædda
mig, guðs dýrðar líking klædda.

Voldugi Jesú! ó, þau undur
þín endurlausn oss gjöra kann,
í gröfinni rotnar syndin sundur,
sefast allt, hvað blygðun vann;
samvizkunni safna fyr
sakleysinu rósfagrir
engla-kröptum efldir hljótum,
yndi guðs og himins njótum.

Þar mun, ó, sú lífsins lindin
lifandi guð! oss opinber,
engin villa meir skal myndin
myrk sem var og óljós hèr,
allt það girntumst utan rýrð:
endurlausn, náð, himnadýrð,
í von og trú hvað veikir sáum
veitist þar, og skoða fáum.

Foldin, lilju fegruð klæðum,
fótskör herrans, mildi ber;
rigna skýin ríkdóms gæðum,
rós guðs dýrðar sólin er;
það sem hefir þánka' og önd
þýð Alföðurs mettar hönd,
ef dupt og hjúm svo dýrð hans sýna,
drottinn! hvað mun himininn skína?

Fest, mín sál! í þánka þetta:
þín af himnum fæðíng er,
anda-krapt og líf upp lètta
láttu nú til drottins þèr,
blóm þitt aðgæt! bið guð! vak!
burtu synd og lesti tak!

elska trúuð orð hans vísa!
í dygðum þinn föður prísa!
Eg sanntrúuð af skal rækja
auðlegð heims, já lífið nú,
að sjá guð mest eptir sækja;
en, mitt hold! þó rotnir þú,
í gröfinni þitt gleður ráð:
geymir þú þar lífsins sáð,
loks það grær, þèr lènast kraptur, —
líkami kær! við þekkjumst aptur.
Ó þann dag, guðs andi hraður
um hvern þýtur legstaðinn!
ó þann morgun, eg sè glaður
upp af dupti í himininn!
eilíf fyrr enn uppskeran
upp hefst, gjör mig forsjálan
og hegðan mín' svo hvern dag vísa,
að hèr og síðar megi þig prísa!

## 27. ENDURLAUSN VEGNA JESÚ.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 135; i enni íslenzku er prentuð útlegging Magnús Stephenseus á þessum sálmi, Nr. 48. Eptir einu handriti.

*Lag: Í dag eitt blessað barnið er.*

Í nafni Jesú sómir sè
sèrhver vor framin iðja,

ef hún sannarligt ágæti,
en ei vort tjón, skal styðja;
hvert verk, sem byrjað í því er,
áfram jafnan til góða fer,
unz mið á ratar rètta,
að lífs og sálar farsæld fríð
framist, og guðs dýrð hverja tíð
allt viður eflist þetta.

Í nafni Jesú, eptir hans
eigin skikkun, vèr köllum
á dýrðligt nafn þess drottnarans
drottnum sem hærri' er öllum;
gott kemur allt frá guði þeim,
gnæfir hans dýrð yfir allan heim,
allt sem hann skipar skeður;
öll gæzka' og vizka guði' er hjá,
gjört hvað er þannig, treysta má:
að lykti lukku meður.

Í nafni Jesú hjörum hèr
og heim við skilið segjum,
hans skaut lifendum athvarf er
oss faðmar hann nær deyjum;
vor drottinn Jesús mun oss með
máttugri raust af grafar beð
í rètta rósemd kalla,
hvar endurleystra sálna safn
með saungvum engla Jesú nafn
prísar um eilífð alla.

## 29. ENDURLAUSN VEGNA JESÚ.

*Sami sálmur og hinn næsti á undan. Eptir einu handriti.*

*Lag: Ó guð vor faðir! sem í himnaríki ert.*

Í nafni Jesú allt hvað gjörum á að ske
skuli nytsemi nóg og sönn
ei neyð vor þaraf spretta;
til góðs fram heldur farsælliga frumhlaupi
sèrhver á þann veg alin önn,
unz miði nær því rètta,
sem er: að lukkusæl vilkjör,
sál og líf áhrærandi,
blessist með hárri blómaför,
blekkt ei af neinu grandi,
og guðs lofdýrðar efling ör
af öllu jafnan standi.

Í nafni Jesú, eigin skipun eptir hans,
á drottins allra drottna nöfn
dauðligur kallar lýður;
gott allt af skauti guðs út flýtur, gjafarans,
að magt er honum enginn jafn,
allt skeður sem hann býður;
gæzku nægð öll er guði hjá,
gjörvöll dýpt vizku-sjóða,
sú stöðug von oss styrkja má:
stofni hvað þessum góða
byrjað látum og byggt vèr á,
blessunar færir gróða.

I nafni Jesú öndum bæði' og öndumst vèr.
lífs er hans fáng vor friðargjöf
faðmar hann oss deyjandi;
Jesús vor guð, hvers vara boð alvoldugt er,
burt kallar oss af byrgðri gröf
í bygð á föðurlandi;
þá munu fagrar fylkíngar,
fríkeyptar með hans dreyra,
engla saung fullan fagnaðar
fá bæði að líta' og heyra
af Jesú nafni æðstu þar;
aldrei kann hugsast meira.

## 30. JESÚ EPTIRBREYTNI.

Eptir einu handriti.

*Lag: Upp hef eg augun mín.*

Hvað kemur heimurinn
og hans það er við mig
nær fús og fastheldinn
fremgeng eg Jesú stig,
mjög trúr í minni stètt
og meinlaus eins og hann,
heiðra guð, hefst að rètt —
um heim hvað varðar þann?

Hve keppist heimur því,
sem hátt er sagt, að ná?
öll vegsemd veröld í
völt hvað er, gleymist þá.
Eg leita lofstýrs mèr,
lausnari minn sem ann,
hann einn minn heiður er —
um heim hvað varðar þann?

Það blekkir heimskan heim:
hann meinar óvalt gull;
en jarðar engan seim
eignast gröf moldarfull;
eg treysti á ekkert hèr
utan það vara kann;
Jesús mín auðlegð er; —
um heim hvað varðar þann?

Heimurinn metur mest
munaði' að kætast í,
en öndin aldrei sèst
una til lengdar því;
mig fær ei vín og vist
vèlað, sem ríka mann,
einn Jesús er mín lyst; —
um heim hvað varðar þann?

Hvað snertir heimur mig?
hann frelsi' er einkis manns,
nær dauðinn sýnir sig
sökkur öll maktin hans;
gull hans er glærnskin,
gleðihljóm brátt af rann; —

eg Jesúm á að vin —
um heim hvað varðar þann?

## 31. GUÐS ANDI OG ORÐ.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 191; í enni íslenzku Nr. 103, mjög lítið breyttur. Eptir einu handriti.

*Lag: Gjörvöll kristnin skal gleðjast nú.*

Hver má í ríki herrans nauð
hjá vorum föður oss granda,
svo framt trú í því sem hann bauð
sál vor og hjörtu standa?
svo stór hans föður-alúð er:
orðsins ljós tendrað fyrir oss ber,
vèr leiðumst af hans anda.

Ó guð! vèr þökkum orðsins gjöf,
oss það um sannleik fræði!
veit, að það allt að vorri gröf
virðum sem himnesk gæði!
efl þú hjá oss það andartraust:
óskelfður hverr og hræsnislaust
þess krapt meðkenna næði.

Vèr ef frá dygða víkjum sið
en veljum illsku ljóta
þitt heilagt orð oss varar við
og vekur til yfirbóta;
nær þúngbær oss þín hirtir hönd

huggan orðsins þá styrkir önd,
trú, von og traust ei þrjóta.
Lát, guð! þitt voldugt vísdóms mál
vort breiska styrkja sinni,
svo vafa-trú og villan hál
viðnám þar aldrei finni;
andi þinn veiti, oss öflugt geð:
öruggum fæti gaungum með
á sannleiks þjóðbraut þinni.
Gefi það miskun guðs og náð,
gjörvöll unz tíð er samin:
að við hans orðs og anda náð
öll kristin hjörð sè tamin,
þá eignumst himna vísa vist,
veit oss það, guð! fyrir Jesúm Krist;
heyr og bænheyr oss, amen!

## 32. GUÐS ORÐ.

Eptir sálmi Gellerts: *"Gott ist mein Hort"* i *"Geistliche Oden und Lieder"* bls. 63. Útleggingin er hèr prentuð eptir eiginhandar-riti sèra Jóns og tveim afskriptum.

*Lag: Bú þig, sál mín!*

Guð hjálp er há!
hans orðs — uppá
önd mín sig reiðir — boðun;

:|: guð minn! eg hèr :|:
geng fyrir þèr
í trú, en ekki skoðun.
Satt er þitt orð,
sífelt það borð
sætum merg lát mig fæða!
:|: gef, ekkert háð, :|:
guð, ríkur af náð!
gjöri frá trú mig hræða.
Hverr mundi mèr,
nema mál þitt hèr
mig fræddi' á sönnu, lýsa?
:|: guð! án þess eg :|:
ei vissi veg
verðugan, þig að prísa.
Ljóst fær það skírt,
hve líf er dýrt
og lætst ei, sálar minnar;
:|: að fjör mitt er :|:
fengið af þèr,
forspil eilífðarinnar.
Þitt eilíft ráð,
illverk í náð
að afmá syndaranna,
:|: eg þekkti sízt, :|.
nema það upp lýst
þíns orðs skin hefði sanna.
Sál mín þarf ei
í výl og vei
úr von af synd að falla,

:|: þú leysir bönd :|:
og lærir önd
ljúf-trúað Abba' að kalla.
Mig nýjan þèr
að helga hèr,
heill mín sèr annt um lætur;
:|: mín ákefð heit :|:
er engu neyt,
orð þitt nema vinni bætur.
Ó guð! vor stoð!
geym oss þín boð,
sem gafst, hvað sem á dálpar;
:|: það kýs eg fè :|:
krossrauna blè
og krapt til sáluhjálpar.

## 33. GUÐS ORÐ.

Eptir einu handriti.

*Lag: Lofið guð! lofið hann hverr sem kann!*

Huggun sú
háleit og kröptug er:
orðs Jesú
æ eru farsælir
tilheyrendur trúandi,
sem tal hans varðveita;
ljúfi Jesú! lát það ske,
laungun brennheita

og alúð skjótt
oss gef til þessa!
orðs með gnótt
ilmsætra vessa
vöxt og þrótt
vorn auk og blessa!
frá einni dýrð til annarar
:|: efldir svo vèr hefjumst hátt
af handleiðslu þinni. :|:

## 34. BÆNARSÁLMUR
um syndanna fyrirgefníngu.

Snúinn úr dönsku og prentaður meðal Ljóðmæla sèra Jóns í Hrappsey 1783, bls. 66. Hèr er eitt handrit samanborið við bókina.

*Lag: Í Jesú nafni uppstá.*

Fyrir hástól náðar nú
eg vil niður flatur falla,
um frið og miskun guð ákalla,
mín, ó drottinn, minnist þú!
ótal þúsund ógna skuldar,
illgjörðir, sem framið hef,
opinberar eins sem huldar,
afmá þú og fyrirgef!
Leggi drottinn dóm mig á,
skuli synda tal upp teiknast,

til ef misgjörðirnar reiknast,
blygðun af eg blikna má.
Ó, minn guð! eg því skal þegja,
þína kyssa maktar hönd,
og þeim tíma eptir þreyja,
að af mèr greiðir lasta bönd.

Verður ei að vísu er
að náðar mola nokkurn þiggi,
nè við drottins fótskör liggi,
þar svo marga misgjörð ber;
heldur þess, að hann mèr greiði
hefndargjöld og öfug svör;
já, með sinni sekan deyði
sárt skerandi heiptar ör.

Flokkur sá á festíng skín,
droparnir á afgrunns öldum,
ögn á marar botni köldum:
færri eru' enn misgjörð mín;
færri enn það furðu svarta
fúlla synda registrið,
uppteiknuð hvar illa skarta
afbrot þau eg fremja rèð.

Samt skal eg ei þenkja: þitt
mèr sè lokað ástar-eyra,
eða neitir þú að heyra
ángurs kvein og andvarp mitt,
þótt eg hafi þrásamlega
þínum orðum móti breytt,
og með syndum alla vega
ofmjög þig til hefnda reitt.

Eg með Júdas aldrei skal
örvæntíngar veg á villast,
výli sízt til dauða fyllast,
heldur klappa' á himna sal;
þar er nóga náð að finna,
nær sem hennar leita kann
undir byrði synda sinna
sveittur yfirtroðslu-mann.

Föður blíða fætur við
eg því ligg með ekka sárum,
útausandi hrygðar-tárum,
ljúfan drottinn líknar bið;
mèr vesælum mun ei varpa
mildin hans í burt frá sèr,
af því sorgar-eggin skarpa
öndu mína þannig sker.

Mína' að vísu miskun hans
náðar molum sálu seður,
sundur kramið hjarta gleður,
fyrir pínu frelsarans;
Jesú blóð því orkar æðsta:
að míns herra gæzku þel
afbrot mín og illgjörð stærsta,
útslèttir og kvittar vel.

Hvað eg gjört hef guði' á mót,
þótt að væri miklu meira,
mun þó kraptur Jesú dreira
á því vinna öllu bót;
þetta náðar-gjaldið góða
getur borgað mína sekt,

þèr, ó faðir! það skal bjóða
þá mèr syndin ógnar frekt.
Veit eg því í traustri trú
það, eg muni fulla finna
fyrirgefníng synda minna,
hverjar loksins hata nú,
af því gæzku geðið blíða
guðs það ekki líða kann:
hans að dynji heiptin stríða
hrelldan yfir syndarann.
En, ó guð! lát aldrei mig
brúðkaups klæði framar flíka,
svo falli' eg ei í vonzku slíka,
hvarmeð stygðan hefi þig:
heldur lát mig fúsan feta
feril lífs, sem bezt eg kann,
og engu sinni orðið geta
útaf honum lokkaðan.
Líð ei djöfli: optar í
lastanna mig gildru ginna!
guð, lát mig ei svoddan finna
andar voða uppá ný!
flærðar-dregg hins illa anda
ætíð gef að sè mèr leið!
meir svo aldrei mèr til handa
megi brugga sálar deyð.
Ó! að guðdóms andi þinn
mitt balstýrugt hjarta hræri,
helgan sannleiks veg á færi!
dýrstur veit það, drottinn minn!

sá min verk og vilja hneigi:
vel að leggja kapp þar á
þèr sem bezt að þóknast megi,
því svo aldrei víki frá.
Lát hann tendra trúar skar!
mèr svo heit í brjósti brenni,
brynjuð megi sál mín henni
fyrir þèr stá án forsmánar;
send mèr styrk, að staðið fái
stöðugur, þar til lífið þver,
og um síðir öðlast nái
endalausa vist hjá þèr!
Drottni ávallt dýrð sè tjáð,
mèr sem veitti miskun sanna,
mildiríkur náði banna:
að eg djöfuls yrði bráð.
Æðstur guð! í eilífðinni
og himneskum dýrðar sal,
með líkama, sál og sinni,
sífellt þig eg lofa skal.

## 35. BÆNARSÁLMUR.

Snúinn úr þjóðversku eptir Zachariä. Eptir tveim handritum.

*Lag: Líknarfullur guð og góður!*

Guð almáttugi! hverr á hæstum
himni ríkir með krapti stærstum,

æ! heyr mig, jarðar auman nið,
eg í duptinu þig tilbið.

Dupt skópstu mig, og dupt lètst þetta
dauðligt til engils sèr upp lètta,
herfáng rotnunar hèr, svo þar
hjá þèr lifi til eilífðar.

Hvað er maðurinn? hversu snauður!
hversu nakinn! sem á þó hauður;
hvað er maðurinn? frjáls og frór,
framvegis óðauðlig'r og stór.

Hvílika gjöf af hendi þinni
hef' eg þegið í skynseminni?
þekkíngar guðligt þegar hèr
þú ljós í sálu tendraðir.

Inngef þann vísdóm önd og sinni,
eilífa heill eg mína finni,
um vilja' og dugnað eg bið þig:
að yfirvinna sjálfan mig.

Kenn mèr samvizku raust hvað ræðir
rètt að virða, sem dýrðar hæðir,
en forðast hvað hún mælir mót
meir enn helvíti', af innstu rót.

Gjörðu viðkvæmt mitt harða hjarta,
um harm þá mínir bræður kvarta,
og gef, óvina minna mein
mèr aldrei sèu skemtan nein.

Ofdirfsku lát þú aldrei mína
út kalla reiði-skruggu þína,
engum, sem ekki þekkir þig,
þenkja lát fordæmíngu mig.

Ugg í velgengni, megn í mæðum,
mèr læt eg allt sem kýs af gæðum;
gott er allt hvað þú, guð minn! villt,
gjörist æ jafnan vild þín fyllt!
Gef mèr mitt brauð af gæzku þinni
að geta hreppt, og eljun minni!
list þá sem mest af listum er:
að lifa og deyja, kenn þú mèr!
Kóngur, þeim Seraf knè sín beygir
og Kerúbflokkur hríng um sveigir!
fyrr öllum stjörnum lèt sín ljóð
lofa þig heilög engla þjóð.
Drottinn! fyrir þèr drýp eg niður,
dupt hófstu mitt og rèttir viður,
heill mèr! því líka andi' eg er,
öllum mönnum þig prísa ber!

## 36. BÆNARVERS.

Eptir einu handriti.

*Lag: Ris upp min sál! og bregð nú blundi.*

VEIT mér, ó guð! að við mig segi
þá veröld dæmist, ein hólpin önd:
Sæll vertu! sem frá vondum vegi
vísaðir mèr á dýrðar lönd; —
það verður lofsælt líknar mál
leiðrètt að hafa villta sál.

## 37. BÆNARVERS

í enda prèdikunar á Lángafrjádag.

Eptir einu handriti.

*Lag: Væri nú guð oss ekki hjá.*

Fram leið og styrk þú faðir mig,
fullbúinn hèr svo kynni
þar að framleiðast fyrir þig
og fögnuð himins vinni!
gef mèr um tímann svo að sá,
að sælurika megi fá
uppskeru í eilífðinni.

## 38. BÆNARVERS

á Lángafrjádag.

Eptir einu handriti.

*Lag: Hjarta, þánkar, hugur, sinni.*

Þrykk mèr, Jesú, þitt á hjarta,
þú, konúngur minn og guð!
ei sú verði blóðfá bjarta
við böl nè vellyst afplánuð!
yfirskrift þú svo á mig set:
einn Jesús af Nazaret
á krossi dáinn er mín æra,
og mèr sáluhjálp mun færa.

## 39. BÆNARVERS.

Eptir einu handriti.

*Lag: Sælir eru þeir allir nú.*

Ástríki Jesú! eg mig styð
eiðsvarna þína lofun við,
sannleiks þá mæltir munni:
"Biðjið, leitið og bángið á,
bænheyrast skuluð, finna' og ná
efalaust inngaunguuni!"
Eg, sem kanverska kvinnan, vil
kalla þín, guð! án afláts til
þartil þú meinin mildir,
og uppá bænar ákall mitt
andsvar huggandi gefur þitt:
"verði þèr sem þú vildir!"

## 40. IÐRUNAR ÁMINNÍNG.

Snúin úr dönsku. Eptir Ljóðmælum sèra Jóns, prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 64—66.

*Lag: Rís upp mín sál! og bregð nú blundi.*

Vakna, mín sál! og værðum hafna,
voða íhuga búinn þèr!
vogar þú enn nú synd að safna?
sjá! hvað eilífðin nálæg er!

vakna og grunda vel þinn hag,
hverr verða muni' á efsta dag!

Ef ei í tíma villt heim venda
og við þinn guð forlíkun ná,
burt skúfuð muntu utan enda
augliti drottins verða frá;
hans reiði svo ei rammi þig
réttan betrunar feta stig!

Enn nú dyr náðar opnar standa;
enn er kostur á heilsubót;
enn nú vill eyrað allt heyranda
andvarpi þínu taka mót.
Ef þú iðrunar forðast frest
fær þú guðs miskun reynda bezt.

Þessvegna, sál mín! far með flýti,
friðarins klappa dyr uppá,
að ei þíns herra náð ónýtir,
nú sem er kostur enn að fá!
Burt frá þér kasta þánka þeim:
þér sé nóg tíð að snúa heim.

Hvað margur hefir útför illa
með uggleysinu bakað sér,
er svoddan þánka sig lèt villa!
sálin og líf því tapað er
að í lastanna svæður sið
síðast hann skildi heiminn við.

Hvernig gekk þeim, sem pelli prýddur
í prakt og vellyst líf fram dró?
kafinn auðlegð og skarti skrýddur
skúfaður varð frá guði þó;

sinn fyrr ei þenkti endir á
enn í helvíti' og kvölum lá.

Hverju þær jómfrúr heimskar sættu,
er höfðu ei sín tendrað blys?
brúðgumans reiði bitri mættu,
boðinnar náðar fóru' á mis,
útiluktar frá sælu sal
sátu í myrkum hrygðar dal.

Lát þèr því, kæra sál! það segja:
sanna betrun ei undan drag!
þèr leyfist ekki tíð að teygja;
tak nú að iðrast strax í dag!
Máske komandi morgunstund
með sèr færi þinn efsta blund.

Eilífan pínu-loga' að líða,
lausn af harmkvælum aldrei fá,
ei að líta guðs ásýnd blíða,
engum svölunar dropa ná,
er það hègómi? er það spil? —
iðrunar-dags því hugsa til!

Fyrir hvað, sál mín! fèkk þig lausa
frelsari þinn? sitt dýra blóð,
sem hann á krossi út lèt ausa;
æðst það guðs sonar benja flóð
uppvakning sè, og þrýsti þèr:
þinni betrun að flýta hèr.

Kom nú! við Jesú fleyg þèr fætur!
flóði tára þær væta ber;
hann þig ei burtu hrekjast lætur
því hjartanliga góður er;

hans blóðstreymandi benja lind
bót er við þinni' og allra synd.

## 41. IÐRUNAR ANDVARPAN.

Snúin úr dönsku. Eptir Ljóðmælum séra Jóns, prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 69—71.
*Lag: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.*

Vei mèr, undir syndir seldum!
sjá, hvar gefst nú aumum ráð?
að því steðjar anda hreldum
örvæntíng um herrans náð;
samvizkan mig sök á ber,
segir dóminn yfir mèr:
drottins líknar að eg eigi
upp frá þessu vænta megi.

Veit eg: guðs orð gjörir heita
glæpamönnum herrans náð,
þeim sem hennar ljúfir leita,
ef lifnað bæta sinn og ráð;
en eg þartil ófær er:
af eigin krapti' að snúa mèr
lastanna frá vondum vegi,
vægð og hjálp svo öðlast megi.

Orku hefi' eg illt að vinna,
ærið stóra, þèr ígegn,
en til bótar brota minna
bæði skortir ráð og mégn;

náðarverk er þetta þitt,
þrí-einn guð! en ekki mitt;
anda þíns ef ekki nyti,
óumvendtur deyja hlyti.

Eg, því miður! allt of lengi
illum stig hefi gengið á,
því er makligt þó eg fengi
þúnga refsíng drottni hjá;
en eg kasta aumur mèr,
ó minn guð! að fótum þèr,
biðjandi þig burt að venda
bitri heipt, og náð mèr senda.

Gef mèr náð! svo ljúfur læri
lifnaðarins sanna bót,
gef þinn andi hjartað hræri!
hlekki djöfuls sundur brjót!
gef mèr rètt að gráta synd!
gef eg tapi lasta mynd!
gef mèr sèrhvern glæp að hata!
gef mèr allt sem kann að bata!

Gef, að hjálp og huggun finni,
hjartað mitt í Jesú und!
gef, hans dauði mèr í minni
megi vera hverja stund!
gef, eg fái fyrir hann
fögnuð öðlast himneskan!
hvar eg þèr um aldir alda
æ skal lof og þakkir gjalda.

## 42. IÐRUNAR OG BÆNAR SÁLMUR.

Frumkveðinn. Eptir einu handriti.

*Lag: Eitt á enda ár vors lífs er runnið.*

Eg er maður eymda blaðinn safni,
á alla vegu svara eg því nafni;
en það rèð bæta
guðs ágæta
gæzkan sæta,
svo dáðir mætar dafni.

Treginn svíður, tíminn bíður eigi,
tárin falla, æfi hallar degi,
góðviljaður
guð og maður,
gæzku hraður!
friðar faðm þinn þreyi.

Orð guðs sanna engla' og manna hróður,
allra dáða bezti náðar-sjóður,
sól rèttlætis!
sálar kæti
svölun bætir
vel, ágætis-góður.

Ofseint, ofseint elskaði' eg þig, herra!
úngur og gamall gjörði hitt eð verra:
samt mín gáðir,
líkn á láði
lífs mèr tjáðir;
þín rèð náð ei þverra.

Það mig gleður: þig fæ sèð í anda
þín vill náðin mínum ráða vanda,
fyrir mèr
þú forsjón ber,
hún farsæl gjörist,
hvar sem er til handa.

Fæ eg eigi fullþakkað þá mildi
faðir góður! sem auðsýna vildir,
fjötrin leystir,
fallinn reistir,
fèkkst mèr hreysti,
svo til þín treystast skyldi.

Finn eg þig nú, frelsari minn góður!
fagnandi, sem barnið sína móður;
þú mèr býður
faðminn fríður,
furðu þýður,
svosem blíður bróðir.

Leystu mig af líkama þessa dauða!
lofaðu mèr í tölu þinna sauða!
sælu greiði
en syndir deyði,
sorgum eyði,
linni leiðir nauða.

Jeg er hèr, sem Jósef í fángelsi,
jeg er allur reyrður synda helsi;
ó! mèr vægi,
hrygðum hægi
herrann frægi!
hvenær fæ eg frelsi?

Ekki muntu, elsku-faðirinn góði!
yfirgefa mig í syndaflóði,
þar með prýði
leysti lýði
lausnarinn fríði
með sínu blíða blóði.

Fyrir það einnig frelsarinn minn biður
föðurinn sinn: að haldast megi viður
eikin fúna,
eplum rúna,
eymdum lúna;
styrkir búna og styður.

Heilags anda huggun til mín sendi,
hver mèr rèttan lífsins veginn kenndi;
dag frá dægri
þykir mèr þægri
og þúsundvægri
drottins hægri hendi.

Hver mèr varð svo harðla þúng í leynum,
að hafði engan frið í mínum beinum
af ógnun þinni
og misgjörð minni
mörgu sinni;
lát þeim linna meinum!

## 43. IÐRUNAR OG BÆNAR SÁLMUR.

Frumkveðinn 1805. Þenna sálm nefndi Skáldið "Annál árs síns 61ta". Eptir tveim handritum, og hefir Rask skrifað annað eptir "tveimur eiginhandar exemplörum".

*Lag: Kominn er veturinn kaldi.*

Jesú, sem læknar lýði,
líku mèr og gæzku sýn!
hjartans í hörðu stríði
um hjálp eg leita þín.
Flækt önd í sekt synda,
sökkt vonda makt undir,
veikt andvarp sýkt sendir:
sjáðu, guð, til mín!

Óró, sem amar hjarta,
útvortis dreifir sèr,
líkamans lasna parta
lýr hún og sundur mer;
ofþjáðum líf leiðist,
ljúf gleði' er afhroðin.
Ef dauðinn töf tíðar
teigir, ægir mèr.

Nema þinn náðar kraptur
nýjan mèr veiti þrótt,
fellur minn, fold af skaptur,
fyrir illgjarni drótt.
Heimlyndur húm-andi
ham leyndum um skundar;

lem sendi-vom vondan
vítis útaf skjótt!
Þess bið eg, hæsti herra!
helgasta veldi þitt:
bæt, áður verður verra,
volæðis ástand mitt!
græð nauðir, gleð hrjáðan,
grið boða stríð-móðum,
eyð sköðum aðknúðum,
auma tíma stytt!
Ofsókn með illum túngum,
óforþènt brixli' og háð
af heimskum oflátúngum
er mèr til launa sáð.
Mæl jöfnuð málefnum,
myl svafnis hól kífna;
el-dofnað yl lifni
eðli' af böðlum hrjáð!
Ratar úr raunum eigi
ráðvillur hugur minn,
uppreisnar alla vegi
eg mèr tillukta finn.
Lít niður, lát, faðir!
leit stoðar not bíða,
sæt gæði sút eyði,
send mèr anda þinn!
Loksins eg læri' að játa,
lyndi með hrelldu þó:
því má eg gamall gráta
að gjálíf æskan hló.

Hæst sumar geyst geymir
gjóstnæmum haust-tíma
köst ama; kost auman
í koll mèr ellin dró.

Ástríki faðir friðar!
forskulduð mýktu gjöld!
sól gengna senn til viðar
sýnir hið dymma kvöld.
Væg beinum veglúnum!
vog rauna sig lini!
dugvana' á daglínu
dettur nóttin köld.

Kom Jesú! tilsjón trúa
tak að þèr minn um hag.
Kom! mig á burtu' að búa
í betra samfèlag.
Dvöl vora' í dal tára
deil, nær til helfarar
mál sèr, en mæl fyrir
mèr um væran dag!

Sjá, kvöldar, hæsti herra
hjá mèr því bið eg sèrt,
allt hlýtur þá að þverra
það mèr fær yndi skert.
Lýs blóði rósrauðu
rás brúðar! læs síðan
fis láði! fús hæðum
felist sál, þar ert!

Svo finn eg sefast þegar
sút, þá er mæðir önd,

allt böl til vegligs vegar
voldug þín greiðir hönd.
Væn lifnar von hafnar;
vanefna kvein dofnar;
mín úfna mun jöfnuð
mæðu-leið, svo vönd.

Opnaðan inngáng hæða
æ veittu mèr að sjá!
svo skal hin mesta mæða
mèr verða glaðníng há.
Drag jörð frá hug-hrærðum!
hneig storð að mig dýrðar!
hæg verður hág byrði
brjósti hrestu þá.

Nær burt af heimsins hálu
hættuslóð kallar mig,
mót taktu minni sálu,
er með því huggar sig!
hún stynur án unaðs,
en launin mun seinust.
Sjón mænir vön vonar,
vissa hnoss! á þig.

## 44. BÆNARVERS ÖRMÆDDRA.

Eptir einu handriti.

*Lag: Sælir eru þeir allir nú.*

Ó, hvenær fæ eg hvíld hjá þèr?
hvenær mun byrði lètt af mèr
sem mína sálu þvíngar?
Nær mun elskuligt auglit þitt,
ó Jesú! lífga hjarta mitt?
kom! mýktu mótlætíngar!
Rís upp og hasta' á rauna-sjó,
rèttláti drottinn! vakna þó!
dylst mèr um eilífð eigi!
himneskum dýrðar-höfnum ná
háska veraldar leystur frá
gef þú, ó guð! eg megi.

## 45. FALLVELTI LÍFSINS GÆÐA.

Ályktunarvers í enda prèdikunar 1ta Sunnud. eptir Trinitatis. Eptir einu handriti.

*Lag: Öldúngar Júða annars dags.*

Æra veraldar, auður, makt,
öll hennar lukka, gleði' og prakt,
forgengiligt og fánýtt var
til farsældar,
eigandan stoðar ekki par.

## 46. LÍFSINS FALLVELTI.

Eptir ennar dönsku sálmabókar Nr. 400. Eptir tveim handritum.

*Lag: Kristnir menn! umfram allar tiðir.*

---

SEM döggfall burtu líf mitt líður,
líkt straumi tíðin flýtir sèr;
næsta dags þegar skin fram skríður
ske má það ekki lýsi mèr,
hjálpa þú, svo mitt háttalag
herra minn! líki þèr hvern dag.

Hve jarðar öll eru hverful gæði:
hvatleikur, æska, styrkur manns,
margopt, þá uggir minnst ónæði,
moldin og dauðinn krefjast hans;
kenn mèr þá brúkun eins við allt
einsog það sem er harla vallt!

Eitt er nauðsynligt! eins þess vegna
oss settir þú á jarðhnöttinn,
í trú og sannleik þèr sem þegnar
þjónum og verðum góðir menn;
æ! lát hvern dag, sem endar sig,
undirbúa til himins mig!

Ó, faðir! þú sem drottnar, dæmir
og dögum ræður, vert mèr hjá!
svo mig ei lífsins kvöld, þó kæmi,
kalli varbúinn heimi frá;
miskuna þú, miskuna mèr
minn guð! þegar eg hèðan fer.

---

## 47. BÆNARSÁLMUR

um farsælt andlát, eptir Faðirvor.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 421, sbr. íslenzku sálmabókarinnar Nr. 203. Eptir einu handriti.

*Lag: Sælir eru þeir allir nú.*

Ó, guð og faðir allra' og minn!
eg kem, barnúngi sem er þinn,
til þín, og tvistur kvaka:
brátt jörð þessari fer eg frá,
faðir! æ minnstu barn þitt á!
veik andvörp virðst meðtaka! —
þú mig bænheyrðir þrátt í neyð;
þú heyr og mína bæn í deyð!
opna þinn himin, herra!
fær þú mig sjálfur fram við hönd,
og föður- unz eg kemst á -lönd
lát eigi leiðsögn þverra!

Hæsti guð! nafn þitt heilagt er,
hátt yfir allt, sem þenkjum vèr,
hjá mèr það heilagt verði,
efl hjarta' og skilníng! unn að mál
upphefji þig í minni sál
sannleikans, sem kunngjörðir!
svo mèr í hjarta sjálfur allt
sèrtú, minn guð! nær helið kalt
sprengja vill það og þjáir. —
Æ, gef þú mèr, að andvörpun,

út er síðasta fleytir stun,
vegsama nafn þitt nái!
Ó, lát með himneskt eðli sitt
auglýsast náðar-ríkið þitt
í sál innvortis minni!
þín ástrík föður-hönd og há
holdsins gjörvöllum breiskleik á
umbót og endíng vinni!
afhuga gjör æ meir og meir
míg ósk og lund, sem heiminn þreyr!
frá böli tímans tregu
þitt tignar-ríki tak mig í!
tilbiðjandi hvar þína frí
lít eg nú leynda vegu.
Verði, guð faðir! vilji þinn,
vertú þolgæðis fræðir minn!
bæn og trú lát mig læra!
aldrei bregðst oss þín hjástoð hlý,
hjartað þar jafnan finnur í,
raunamætt, rósemd væra.
Minni vild engan gáng eg gef,
geyst holds sjálfræði niður kef,
þú vílt og veizt hið bezta;
þó verði bein mín vanmegnuð,
veik er eg mold, en þú ert guð,
alls afdrif farsæld festa.
Guð minn! dagligt mèr gafstu brauð,
og greiddir hjálp, þá bað í nauð;
föðurliga mig fæddir;
krapta, saðníng og glaðvært geð

gefið hefir þar ætíð með;
sèrhverju góðu gæddir;
allar faðir! eg þakka þèr
þínar meðteknar velgjörðir,
hvern mola' af hendi þinni.
Með náðargáfum al og önd!
öll jarðnesk þörf nú linnir vönd;
við betra' eg býst heimkynni.

En fram að koma fyrir þig,
faðir heilagi! skelfir mig,
nær reiknings-kall þitt krefur;
eg hvernig stendst í augsýn þèr?
æ, góði faðir! tilgef mèr
allt, hvað á orðið hefur!
Í Jesú nafni vægð mèr veit!
virðst að uppfylla náðarheit,
að syndum gleymir gjarna!
álít mitt hjartans ángur nú,
ákall mitt heyr, og styrktu trú,
von mína við lát hjarna!

Að fyrirgefa fús eg er,
faðir! þeim ofsókn veita mèr,
hjá mèr skal óvild eigi;
bljúgt fyrir honum bið eg þig,
bróðir minn er, þó hati mig,
leið hann af vondum vegi!
gef honum ljúft til sátta sinn!
í samneyti þitt fær hann inn!
efl lífs og andar bezta!
ef náúnganum eg órètt vann,

uppgjafar þará bið eg hann
og þína miskun mesta.
  Þreyttur um lífsins þúnga veg
þessi síðustu spor geng eg,
á hverjum opt mig felldu
forn synda vani' og freistíngar,
en föðurs hendur náðugar
þínar mèr þó við hèldu;
eg veit þú lítur enn til mín,
almáttug varni gæzkan þín
að eg meir freistni finni;
þó skelfing spenni sál og sút,
sjá til eg endi stríðið út
og af þèr efldur vinni!
  Í harla margri hættu-þraut
hjálpar og styrks eg af þèr naut,
sem frambauðst föðurliga;
þótt eg í snöru festi fót,
frelsun þín var til reiðu skjót,
að leysa lífsins trega;
brátt mun síðasta nálgast neyð;
nær mèr ógnar hinn harði deyð
mig frelsa, minn verndari!
öll vonin, drottinn! er til þín,
efsta raun gef að stutt sè mín
og eg í friði fari.
  Amen! já, ríkið þitt er því,
þinn undirsáti hvar eg bý
ofríki og hrekkjum hrjáður;
en fjendur sigrað þú fèkkst þá;

þín er maktin, sem orkar hár
meir enn það menn um báðu.
Allt þú dýrðliga fullgjört fær
framyfir það sem skynjum vær
undur-hæð ótalfalda.
Drottinn! vor guð! þín dýrðin er,
dýrð og vegsemd sè goldin þèr
nú og um aldir alda!

## 48. VISSA DAUÐANS.

Eptir 402 sálmi í enni dönsku sálmabók. Eptir einu handriti.

*Lag. Nú bið eg guð! þú náðir mig.*

Ó! þú sem lífið lèntir mèr
og lífsins allar glaðværðir!
minnar vegferðar mark og tíð
mældir þú, fyrr enn sá eg lýð;
ske má: í nótt, eða strax í stað,
stefna þíns dóms mèr berist að;
ótt mínir dagar fljúga frá,
faðir! kenn mèr að telja þá!

Allt vorskrúð jarðar visnar burt,
vex til að falla sèrhver jurt;
hvert fölnað blómstur sem eg sè
sýnir: eg hnígi' að moldinni.
Náttúru tilkall andlát er,
og hver ein gröf, sem fyrir mig ber,

spáir, að eptir tæpa töf
taki við mèr ein þvílík gröf.

Gef, að eg meðal grafa hèr
grundi hvað mèr til friðar er!
eg dey, en hver mín athöfn skeð,
orð og hugrenníng fylgja með;
ei tefur þeirra gröfin gáng;
geldur þinn dómur mèr í fáng
verðlaun, sem til eg vann með þeim,
við mína komu' í annann heim.

Dómari minn og drottinn þú!
drýgð fyrirgef mèr afbrot nú!
svo lítt eg rækti lög þín blíð;
lát mína sál á dauðans tíð,
guð allrar náðar! fundið fá
fullting og huggun þèr í hjá;
efl mèr þá trú, að sjáir sút
og sízt mèr kastir frá þèr út.

Alla lausnarans ást og deyð
augum og hug fyrir sjónir leið!
sálin upplyptir sèr við það
í sælan himins anda stað;
hafinn lángt yfir hel og gröf
háleita lífs og frelsis gjöf
eg mun um eilífð þakka þèr,
þínar prísandi dásemdir.

## 49. LAUNGUN TIL DAUÐANS.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 406; í enni íslenzku Nr. 220, óbreyttur. Eptir einu handriti.

*Lag: Allteins og blómstrið eina.*

Hversu mig leysast lángar
lifandi guð þú sèr,
og frá holds fjötrum gánga
í frelsi mitt hjá þèr.
Ef finn eg ángist eina,
ótalfalt böl og vei,
harm sál og hjartað reyna,
hægist þeim nær eg dey.

Fús heli fáng eg breiði,
fæla mig það ei kann,
fyrst Jesús drottinn deyði,
dyr lífs sem opna vann.
Nær guð svo vill mèr vegni
viljugt eg dey með þel,
hans kalli glaður eg gegni;
gott er að deyja vel.

Allt þó mèr veita vildi
veröld ágæti sitt,
en eg hèr ei við skildi,
óhapp það væri mitt.
Á himnum allt er betra,
eg fagna þegar má,

fara til feðra setra,
fyrr komnum búa hjá.[1]
Mín burtför máske græti
mèr lèntra vina geð,
og þeir eg við skil væti
veinandi minn ná-beð;
ef dauðinn út mig kallar
öflug sú huggun er:
þá finn eg aptur alla,
sem ástkærir voru mèr.
Í stríði' ens stránga dauða
styrk veittu, faðir! mèr,
lát böli linna nauða,
lífs neyð þá hættust er;
svali, nær síðast anda,
sálunni friður þinn,
þá sendri þèr til handa
þæg verður burtförin.

[1]) Þetta vers er ekki í enum danska sálmi.

## 50. ÚTFARAR-SÁLMUR PRÚDENTIUS.

Nova hymni exequialis: "Jam moesta quiesce querela" versio, ad vim et verba fontis Prudentiani paulo magis quam antiqua illa: "syrgjum ekki sáluga bræður", et ad ejusdem melodiam (forsan etiam levem venæ poëticæ fluxum) quam Stephania: "þennan tíð" —, accommodata, quum tamen censuræ et animadversioni optime sapientis Præpositi, Domini Olai Euaræi, humilis submittit

*Interpres Tertius.* [1]

*Lag: Syrgjum ekki sáluga bræður!*

Klögun hepti syrgendur sára!
sinna bindist mæðurnar tára!
börn sín enginn burtdáin gráti!
betra líf þeim gefst í andláti.

---

[1]) þ. e. Ný útlegging útfarar-sálmsins: *Jam m.*, sem að meiníngu og orðfæri stælir nokkru nær frumriti Prúdentíus enn hin forna útlegging: *syrgjum e*, og að laginu til (einnig að liðugleik ef til vill) nær enn útlegging Stefáns [þ. e. sèra Stefáns í Vallanesi]: *þennan tíð*, o. s. frv. — samt leggur hana undir dóm og rannsókn vellærðs prófastsins sèra Ólafs Einarssonar [þ. e. sèra Ólafs á Ballará] auðmjúkliga

túlkur *Inn Þriðji.*

Sálmur Prúdentíus á latínu er prentaður í flestum eða öllum gröllurum og í öllum enum seinni útgáfum sálmabókarinnar með útleggíngu Magnús Stephensens; til er líka útlegging sèra Kristjáns Jóhannssonar, prentuð aptanvið "sigurljóðin", og sèra Þorvaldar Böðvarssonar. Hèr er fylgt einu handriti.

Höggnir steinar hvað skulu þýða?
hvað mun teikna grafir að prýða?
utan: það sem á þar hýbýli
ei sè dautt, en sofandi hvíli.

Því í hold, er án skyns og anda
iðjulaust hèr sjáum hvílanda,
skamt mun til að skært föruneyti
skilníngar- heim -vitanna leiti.

Meðskapaður manns hita-kraptur
mun í beinin vitja senn aptur,
sínar fyrri búðir svo beri,
blóðs með gæddur lifanda fjöri.

Dofin lík, að dupti gjörð smáu,
dysjum í fyrir skemstu sem lágu,
hraðfleyg sálum hèðan samferða
í hæðirnar uppnumin verða.

Þannig breytir frjófgunin fræi,
fölt og dautt í jörðu þó lægi:
moldar neðst úr fylsnum það færist,
fyrri vöxtur kornstánga nærist.

Tak við, jörð! og hagkvæm að hjúkra
holdi því, til faðmlaga mjúkra!
göfga limi geymslu-vernd þinni
gef eg manns, og leyfar að sinni.

Hèr í sálin herbergjast kunni,
helgum gjörð af skaparans munni,
hjá þeim vizka glóandi gisti,
gefin bæði' og stjórnuð af Kristi.

Haf á þessu geymslu-fè gætur!
gjafar sinnar höfundur mætur

og andlitis eptirlíkíngar
af þèr man að krefja, nær þíngar.
Renna senn upp rèttvísar tíðir,
rætist allt hvað vonum um síðir;
þessa mynd, sem þèr eg afhendi,
þá er mál að opnuð framsendir.

## 51. HUGGUNAR SÁLMUR
af von eilífs lífs.

Eptir sálmi Gellerts: *"Nach einer Prüfung kurzer Tage"* í *"Geistliche Oden und Lieder"*, bls. 141.
Eptir frumriti og einni afskript.

*Lag: Kristnir menn! umfram allar tíðir.*

Eptir freistíngu fárra daga
farsæld eilífðar við oss býst,
þar yfirkvörtun eymdar-slaga
öll í guðligan fögnuð snýst;
hèr æfir dygðin orku-raun,
annars heims greiðast hennar laun.
Veit eg rèttlátum hèr í heimi
heilla stund fellur mörg í skaut,
þó er gleðin, sem af því eimir,
ófullkomin og blönduð þraut,
hann er maður, og hugar-ró
hans þverr og vex, sem fall í sjó.

Kropps amar stundum kröm að sinni,
kreinkir það tíðum heimsins gá [1],
stundum berst það við óvin inni,
optar betur enn verr sem má;
óþolinmæði' og ángur manns
opt kviknar vegna náúngans.

Hèr, þar sem dygð fær optast ama,
en lukkan hossar klækjum mest;
hvar öfund leggst á auðnusama,
en sá mótlætti fordæmist,
engin gefst stund af eymdum frjáls,
engin af breiskleik mannsins sjálfs.

Eg leita hèr, en fæ að finna
forkláraður og helgur þar
gjörvallt dýrmæti dygðarinnar,
dylst ei hvað ósegjanligt var;
elskunnar guð fæ eg þar sjá,
elska eg hann og tigna þá.

Þá mun mèr heill og þóknun bera,
það sem vill heilög guðs forsjón,
alls góðs fylling og yndæl vera
ánægja mèr við herrans trón,
einn dýrðar-gróði á annann hleðst,
eilífð mína eg þá við gleðst.

Eg skoða þá við skæran ljóma
í skuggsjá hèr hvað fyrir bar,
og nú óskilda drottins dóma,
dásemdir helgar nefni þar;

---

[1]) *gá* af að geyja, þ. e. hávaði, skvaldur.

þá sèr og prísar rök og röð
hans ráðstöfunar sál mín glöð.

Eg mun að tróni þeim mèr þrengja,
þar minn hjálpræðis-guð sig tèr,
og með *Heilagur* lof þrílengja
lambinu því sem slátrað er;
því kátir hrósa kerúbim,
kór allra himna' og Serafim!

Mun eg þá engla- meðal -skara
mig fá, þeim líkur, helgan sèð;
sú auðna stöðug æ mun vara,
eg bý rèttlátur góðum með;
við hvert augabragð veitt þeim er
velgengni mín, heill þeirra mèr.

Þá mun eg blíðar þakkir gjalda
þeim sem á guðs veg hvatti mig,
og inna blessun ótalfalda,
að hann mèr sýndi rèttan stig;
í hendi guðs eg hitti þann
hjartkæra vin, á jörð sem ann.

Æ! gæfi guð, að einn þá svari
útvaldra mèr á þessa leið:
heill sè þèr ljúfi líf-hjálpari!
leiddir önd mína þú frá deyð.
Ó guð! hve kætir auðna þann,
eina frá glötun sál er vann.

Hvað ertu, þjáníng heims umferðar!
hjá þeirri dýrð sem uppi þar
loks mun opinber við oss verða,
varandi tíðir eilífar?

hjá hverri minna' enn ekkert er,
augnablik það vèr mæðumst hèr!

## 52. LJÓS EILÍFS LÍFS.

Snúið úr dönsku. Prentað eptir tveim handritum.

*Lag: Kristnir menn! umfram allar tíðir.*

Loks mun eg himins ljósi geta
lært, ef það hèr í dymmu sá,
hvað dýrt og heilagt mun eg meta
mèr það í dul hèr fyrri lá,
nær fullsèð öndin fær með prís
frelsarans stjórn, sem æ er vís!

## 53. NÝJÁRS SÁLMUR.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 418; í enni íslenzku Nr. 252, nokkuð breyttur. Eptir einu handriti.

*Lag: Gæzku guðs vèr prísum.*

Þökk, góði guð! vèr færum
með gleði-saungvum þèr,
hátíðar hljómi skærum
hugkátir tjáumst vèr,
heyr með velþóknun þú
faðir! það lof þèr ljóðum,

lypt munns og sálar hljóðum
á fyrstan ársdag nú!
Þú gafst oss lands og lýða
ljúfan, ó herra! frið,
og lagðir blessun blíða
björg á og erviðið;
þitt væga vísdóms ráð
oss hefir ætíð leidda
og alla stigu greidda
með föður mjúkri náð.
Orðs með raust alla vega
andi þinn bauð, að vèr
ei gleymum ofdárlega
hvað eigum gjalda þèr,
og vorri veiku sál,
nær dygð sig frá lèt fella,
falls bótar til og heilla
veik þitt volduga mál.[1]
Og þegar aptur snerum
oss tók þín miskun við,
af himni hrestir erum,
huggun þú gafst og frið
hugteiti helgri með;
þèr bljúgir þakkir iðjum,
þína gæzku tilbiðjum,
er enginn út fær sèð.
Gjör nú, ó guð! það köllum,
gef oss blessun í ár!

[1]) Þessu versi er sleppt í enni íslenzku sálmabók.

með oss í efnum öllum
æ sè þín gæzka klár!
hvern blessa hvers eins stand;
lát vísdóm vaxa' og dygðir!
vellíðan kefji hrygðir!
blessa kóng, lýð og land!

## 54. NÝJÁRS SÁLMUR.

Í enni dönsku sálmabók Nr. 449; Nr. 254 í enni íslenzku er útleggíng sèra Jóns Hjaltalíns á þessum sálmi. Eptir einu handriti.

*Lag: Heimsins stýrir forsjón fasta.*

Saung upphefjum samfagnaðar,
samstillandi hjarta' og lund,
hèr til drottins helgistaðar
hópur kominn þessa stund!
[sinnar æfi sèrhverr vor
setur á árshríng nýjan spor;
dýrkið, offrið dýrð þeim guði,
dag er þenna gaf söfnuði!
Margir urðu fjöri færðir
frá, um tíð sem liðin er,
en heilbrygðir, nægtum nærðir,
nýjum tíma fögnum vèr. [1]

[1]) Þessir tveir vershelmíngar eru hvorki í dönsku sálmabókinni nè í útleggíngu sèra Jóns Hjaltalíns.

Lifandi guð oss lífsins ann,
lángtum meira gaf oss hann,
lífs og sálar heillum hærri
hefir oss sæmt af náð einskærri.
Skattur þinn, af gæzku gjöfum
guð! sem hefir til frelsis sent
þökk sè vor, er þegið höfum
þitt fyrir orð og sakrament;
faðir! dagligt fyrir brauð,
fyrir hjálp af margri nauð,
sè þèr þökk og eilíf æra
í vors Jesú nafni kæra!
Heyr nú framar, hvers vèr biðjum:
hönd oss rètt með föðurstjórn,
sú oss leiði' í allskyns iðjum;
andinn styrki breiskleik vorn!
[trúaður standi tállaust hvur!
til þín snúist syndugur!
engum bikar hels afhendist
hann nema fyrr til þín umvendist!
Meðan lifum hèr í heimi
hyljumst friðar-skugga vèr!
örugg vernd þín ávallt geymi
yfirmann vorn, sem krónu ber! [1]
reis til frama rèttlát störf!
ráð úr munaðarlausra þörf!

---

[1]) Þetta, frá merkinu, er hvorki í dönsku sálmabókinni nè útleggingu sèra Jóns Hjaltalíns.

lát í öllum lífsins mæðum
ljóma frelsis-skin af hæðum!
Sèrhverr dagur árs til enda
oss þig votti nálægan!
gef, að allt oss gjöri kennda
gæzku þá, er stjórn þín vann!
guðdóms þrenníng heilög! hèr
höndum þínum felum vèr
það höfum, erum heittrúaðir;
heyr oss, drottinn! bænheyr, faðir!

## 55. NÝJÁRS VERS.

Vers þetta sendi skáldið Geir biskupi með brèfi 27da Jan. 1818 og hafði skrifað fyrir framan: "seinast í Bæsár-stól næstliðin nýjársdag". Eptir einu handriti.

*Lag: Uppá fjallið Jesús vendi.*

Drottinn kallar aldir allar
eilífðar til stóra flóðs; —
dögum hallar! — daggar salla
drag, ó herra, þann til góðs! —
Lát þá falla loks gjörvalla
í líknarstrauma Jesú blóðs!

## 56. "SKIN KEMUR EPTIR SKÚR."

Prentað áður í Hrappsey 1783, með Ljóðmælum séra Jóns (bls. 87).

*Lag: Árið hýra nú hið nýja*

Látum æðið ofsa-kælu
öldum svíða,
köldum níða
vetri dauðans heitið hold!
þó munu gæði sumar-sælu
síðan ljóma;
fríðan blóma
vorri snauðu færa fold.
Ó! hvað skyldum
(þó að þyldum
þúnga neyð í hreti kífs)
hnossið muna,
oss við una
árin þreyðu betra lífs!

## 57. SUMARKVEÐJA.

Kveðin 1770. Prentuð í Hrappsey með Ljóðmælum séra Jóns 1783, bls. 86—87.

*Lag: Dagsljósið nóttin burtu ber.*

Sjá! nú er liðin sumartíð,
hverrar ljómi

blíðu blómi
hruman áður hresti lýð.
Nú sjáum vèr hve fastan fót
allt það hefur
gæfan gefur.
Gráts eru hèr og gleði mót.
Óðfluga á tímans vagni vær
öllum stundum
áfram skundum;
enginn honum aptrað fær.
Þannig smámsaman líður leið,
sem bát siglandi
ber að landi
bára hver, sem yfir skreið.
Hver mæðustund, sem framhjá fer,
ei að hendi
aptur vendir,
styttir svo það eptir er.
Misseraskipti þessi því
öðrum nær
oss æðri færa,
þá tíminn breytist eilífð í.
Afmáluð sýnir fölnuð fold
dauðans spor
á vegum vorum,
eins því visnar hey og hold.
Upprisu sumar ímynd ber;
guðs því kraptur
orkar, aptur
að nýjum gróða verðum vèr.

Svo lengi guð oss æfi ann
tímann brúkum,
líka lúkum
lofgjörð þeim, sem gaf oss hann.
Lífernið illt um liðna tíð
klökkir játum,
glæpi grátum,
guðs afbiðjum hefndar stríð.
Þökkum, og ljúfri þiggjum önd
gáfur þær,
oss gjörði færa
sumarið frá herrans hönd.
Komanda tökum vetri vel!
beiskt og sætt
oss ætíð ætti
eins kært vera, líf og hel.
Svo þig úr garði sýngjum nú,
sumartíð!
þó lángt um líði
vorra húsa vitja þú!
Þann er rèð senda þig af hæð
oss vanfæra
að endurnæra
lofi sèrhver lífsfull æð!

## 58. HAUST-SÁLMUR Í HALLÆRUM.

Í enni íslenzku sálmabók Nr. 270. Eptir einu handriti auk bókarinnar.

*Lag: Kom hèr, mín sál! og kynntu þèr.*

Ó drottinn kær! hvað veiztu vel
vankvæði gjörvöll mín;
mèr hjálpar æ, hvar helzt eg dvel
hjástoð og gæzkan þín,
halt mèr stöðugum við þinn veg!
víst, þín af hjarta' ef leita eg,
ró gefst, en raunin dvín.

Mig þó heimsæki margföld nauð,
mæðan et ángra fer,
þó dagligt hljóti' að bresta brauð
svo bannist nauðþurft mèr,
raskast þó ei mín hugar-hægð,
hef eg allskonar gæða nægð,
því drottinn líkn mèr lèr.

Haf því í skorti glaðvært geð,
grátin og hugsjúk önd!
fimm þúsund litlum mat því með
mettaði Jesú hönd;
herrann skerf þínum hefir ei gleymt
heldur þèr nóg til vista geymt,
þó úrræði virðist vönd.

Hvað hann þèr gegna sjálfur sèr
sannliga muntu fá,
heims nægta þó ei heppnist þèr

herraborð við að stá;
lát þèr nægjast, í lægra sess
lífs-uppheldis að neyta þess,
sem skamtar hönd hans há.

## 59. MORGUN-SÁLMUR.

Eptir 481ta sálmi í enni dönsku sálmabók. Prentaður eptir einu handriti.

*Lag: Óvinnanlig borg er vor guð.*

Enn kemur dagur eptir nátt,
eg sýng þèr, guð! þakklæti,
mín þú um hana minntist hátt,
mig hrestur þróttur kætir;
þeim krapti' eg kosta vil
í köllun nota til,
öll sè af þèr, ó guð!
iðn, kapp og ráð blessuð,
gef heill og gæfu njóti!

Við þín boð halda vil eg mèr
og vísdóms kenníng þína,
alltíð, minn guð! að þóknast þèr
þrá vera láttu mína;
veit: svo mitt vandi' eg ráð
að verði því marki náð!
ó drottinn! eg bið þig
andi þinn leiði mig; —
einn hvað gott eg má sýna?

Í nafni drottins eg vík að
erviði á þessum degi,
óskandi, sem mitt eigið, það
öðrum gagn verða megi,
slíkt lèki' í lyndi' að sjá
lífs hag og sálar á,
(guð gefi svo að sè!)
sèrhverjum vel líði!
mèr, neinum illa eigi!

## 60. MORGUN-SÁLMUR ENS HEIL-BRIGÐA.

Snúinn úr dönsku. Eptir einu handriti.

cf. Spurningakver heilbrigð. p 87-89.

*Lag: Hverr sem ljúfan guð lætur ráða.*

Þú skipar, góði guð! eg haldi
með gæzlu og fæði kropp við megn,
en meinum hans að óhóf valdi
er þínu föður-boði gegn; —
ó, hvern dag gef í huga minn
sú heilög skylda þrykkist inn!

Skal eg, hvað þú mèr skipar hirða
skemma viljandi? faðir minn! —
ber mèr lítils þá bygging virða
bjóstu til sjálfur skaparinn?
ef eg minn líkham veikja vil
vei mèr, ó guð! hann heyrir þèr til.

Hann að forsorga' og verja voða
veitt af þèr meðöl öll eg finn,
að brúka þau sem bezt má stoða
ber eg ljós af þèr skilnínginn;
umhyggju vert hvað þótti þèr
þjóninn má heilagt virða sèr.

Mun einn með limu kránka kunna
kjarna farsældar smakka rètt?
þeim viðjur beygja vanheilsunnar
velferðar eflíng tæp er sett;
já, heilbrygðin og jafnhýrt geð
á jörð er bezta hlutskiptið.

Mèr lát því annt: af mínum völdum
að mein ei nálgist kvíðanlig,
svo nær eg þjáist kvilla köldum
kvelji sú huxun ekki mig:
eg mætti vera heill og hress,
en hefi valdið missi þess.

En megi vareygð mín ei lægja
að mig í rekkju leggi sótt,
þá send mèr huggun þraut að bægja!
þolgæði lát mig styrkja rótt!
lát mig aðhyllast læknis dáð,
legg blessun við hans iðn og ráð!

En óhóf lát mig aldrei gjöra
af því sem kroppsins nauðþurft er;
aldrei tregan með víli vera
vogun nær lífi' og heilsu ber!
finnist mín skyldu-framkvæmd trú
föðurliga mig verndar þú.

Anda minn lát mèr ódauðliga
umhugað, þartil kallar mest,
svo má eg fela þèr hann þegar
þrýtur hans tjald, á hendur bezt:
þín náð nær hjálpar þartil mèr
þèr til dýrðar eg lifi hèr.

---

## 61. MORGUN-SÁLMUR ALTARIS-FÓLKS.

Eptir Ljóðmælum sèra Jóns, prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 71—73.

*Lag: Hvar viltu, sál mín! huggun fá.*

---

Ó, faðir náða friðargjarn!
þitt fátækt barn
til þinnar tignar kvaka,
hjartans greiðandi þakkir þèr.
þessa nótt mèr
ást þín nam yfir vaka;
myrkranna mig
makt ógnarlig
ei svelgja rèð,
nè mátti með
minnsta skaðræði saka.

Þín mildiríka hægri hönd
hold mitt og önd
verndað fèkk vel frá grandi;

þar fyrir hrósar sál mín sèr,
son guðs! í þèr,
dýrð þinni dikt kveðandi;
nafn þitt heilagt
og mikla makt
æ prísa skal
í eymdar-dal
mitt hjarta, mál og andi.
Ó guð! þín miskun ætíð sè
upprennandi
hvern morgun lífs míns lánga
fyrir sál minni fersk og ný,
fylgi mèr því
heims yfir hafið stránga;
einkum í dag
eg kýs þann hag,
þar herrans til
eg háborðs vil
og heilags kvöldverðar gánga.
Þar, undir brauði, þjáðri önd
þín rèttir hönd
hold Jesú heilagasta;
þar gefst með víni blessað blóð,
sem bætti þjóð
og hegníng linar lasta;
sá pantur mèr
sannfæríng ber:
að heipt er stillt,
þú vondum villt
verkum á bak þèr kasta.

Og svo ei villi ángrátt geð,
örvæntíng með,
syndanna dapur drómi,
í helgri aflausn hrelldum nú
hugsvalar þú,
lýst er þar líknardómi:
að brot mín verst
öll afmáist,
mèr vægð sè vís,
veitt Paradís;
lof sè þèr, faðir frómi!
Í dag svo hrópar elskan þín,
ó guð! til mín:
þèr, hverja þýngsli særa!
þèr, sem erfiði mæðir mest,
mig nálægist!
yður skal endurnæra;
ó, minn Jesús!
eg kem því fús;
verðugan bezt
mig gjöri gest
guðs anda náð frábæra!
Auðmjúkt, trúandi, ángrátt geð,
elskufullt með,
gef eg fram borið fái!
svo guðdóms náðar sætleik þinn,
sæll Jesú minn!
reyni mín sál og sjái;
villu burtdríf,
víl, efa, kíf

og hugsun þá,
sem helgri frá
hrinda guðrækni náir!
Í mínu brjósti uppkveik þú
andliga nú
laungun til lífs-borðrètta!
húngruð og þyrst mín sála sè,
því sælgæti
í trú sig með að metta;
holds nautnin Krists
svo henni viss,
og drykkjan blóðs
sè bótin móðs
og blessuð lífs uppspretta.
Ó guð! í dag og alla tíð
umsjón þín blíð
leiðtogi lífs míns veri!
æ, mèr dagliga efldu trú!
allskonar sú
rèttlætis blómstur beri,
sem Krists af náð
fá krapt og dáð
til æru þèr,
öðrum og mèr,
nytsemd og gagn það geri.
Lifandi þinn eg limur sè,
og lífs á trè
inngróinn í þèr blífi!
eilífan síðan andar frið,
eymd skilinn við,

öðlist í öðru lífi!
hvar hulið er
geymt "manna" mèr,
og vatn-straumar
vellystíngar,
sorg mig svo engin ýfi.
Ó herra! mína heyrðu raust!
hjálp gef og traust!
gef náð, ó guð, margfalda!
forþènun sonar fyrir þíns,
frelsara míns,
undir og andlát kalda.
Ó herra hýr!
í hæð sem býr,
lof, heiður, prís
og vegsemd vís
sè þèr um aldir alda!

## 62. KVÖLD-SÁLMUR ENS SJÚKA.

Prentaður áður í spurníngakveri heilbrigðinnar, bls. 90—92. Eptir einu handriti.

*Lag: Ris upp mín sál! og bregð nú blundi.*

Alvaldi lífs og ljóssins faðir!
lykil hvorstveggja þú sem ber,
og mig dauðligan mann skapaðir
meðal þeirra, sem lifa hèr;

dauðinn og nóttin dragast að,
dymman og sóttin boða það.

Lof sè þèr fyrir ljós og krapta!
lof sè þèr einnig fyrir hitt:
hverfanda dag og heilsu tapta!
hvorttveggja' er gæzku merki þitt;
dagþreytta nóttin hressir hönd,
holdmeidda sóttin græðir önd.

Víst er heilbrigðin mesta mæti,
með geðrósemi, hèr á jörð,
en þá hún veldur ofsa-kæti
er miklu betri sóttin hörð;
hraustur var ytri maður minn,
en mein hins innra nú eg finn.

Sálar kreinkíng var heilsu hagur,
holdlig misbrúkun olli því;
heimurinn, sem mèr fannst svo fagur,
fyrir himininn breiddi ský;
nú sèr öndin þá fegri fold,
en fær ei þángað borið hold.

Að guð mig lætur þekkja þetta,
það er lækníngar tilboð hans;
farsældarkjarnann finn eg rètta
fyrir vanheilsu líkamans;
nú hvarflar þángað sálin sjúk,
sem henni veitist græðsla mjúk.

Reyn þú mig, guð! en reiðst aldregi;
reyrinn brothætta slá með vægð!
á sóttar- harms- og dauða-degi
dreyra-lind Jesú sè mèr hægð!

sængin, mín veiku bein sem ber,
Bethel[1] og Pníel[2] verði mèr!
Því meir, sem kroppnum dvínar dugur
og duptið nálgast móður skaut,
gef þú, að upp minn hefjist hugur
til himins, gegnum alla þraut!
skyldi það fótmál skelfa mig,
er skilar mèr í nánd við þig?
Lækna þú mig af sýki synda,
að sálin heilbrigð lifi þèr,
svo skal þinn vilji ljúft mèr lynda,
líf eða dauði hvort sem er;
frá móðurlífi minn guð ert,
minn guð um eilífð bið eg sèrt!

## 63. KVÖLD-SÁLMUR ALTARIS-FÓLKS.

Eptir Ljóðmælum sèra Jóns, prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 74—76.

*Lag: Ó, guð vor faðir! sem í himnaríki ert.*

Í sætu nafni mildiríka míns Jesú
glaður vil eg, með hraustan hag,
til hvílu minnar snúa,

[1]) *Bethel* þar sem Jakob svaf og sá himnastigann. Skb. 28.

[2]) *Pníel* þar sem Jakob glímdi við guð og sigraði. Skb. 32.

því hans guðdómlig hjartagæzka hefir nú
miskun auðsýnda mèr í dag,
má eg því ugglaus búa:
himnabrauð rèð, og heilnæman
hjálpræðis kaleik senda,
fyrir mig skeinkir fullt á hann;
fylgi mèr lífs til enda
gæzkan þín blessuð, guð og mann!
grand má þá ekkert henda.

Hverr sem verðugur holds þíns situr háborð við,
hverr sem drekkur þitt dýra blóð,
drottinn! í þèr má blífa;
í honum lifir einnig þú með elsku sið;
ó, hvað sameining sú er góð,
sem varir tíð eilífa!
hèr fyrir muntu, herra minn!
hold mitt á efsta degi
uppvakið hefja' í himin inn,
hjá þèr svo lifa megi,
krossburðar hernað þó eg þinn
þángað til mæddur heyi.

Æ, hvar með fæ eg, blíði Jesú! betalað
fjöldan velgjörða þeirra þèr,
þú sem frá vöggu minni
hefir auðsýnt á hverjum degi', í hverjum stað,
hjartans ástuðlig miskun! mèr?
en mest að þessu sinni.
Nú í dag orðinn ertu mèr
öruggt og fullt rèttlæti,
guðs fyrir augum gyldt það er,

gafstu mèr, Jesú sæti!
pant og innsigli', að herrann hèr
huggar, en synd ei grætir.
I dag er mínu hjartans húsi heilsa skeð:
því Jesús genginn er þar inn
með öll sín náðar-gæði;
gef því, ó herra! hreint sè þetta herbergið;
gef, að bústaður þessi þinn
þèr sem bezt líka næði!
svo eg þvermóðsku syndum með
sízt megi þèr burt vísa;
eg hefi' í dag þær afsvarið,
aldrei vil framar hýsa;
fyrir þinn sannleik gjör mitt geð
guð! formyrkvað upplýsa!
Minn vilji þínum vilja hlýðinn verði bezt!
mitt hjarta, þínu hjarta líkt,
af helgum stjórnist anda!
Í mèr hvað gjörðir endurnýjað ávaxtist,
að herða það þú hefir mýkt,
hindra útrekinn fjanda.
Náð þín, ó Jesú! nákvæmlig
nýtt hjarta mèr tilbúi,
sem elski, heiðri, óttist þig,
orðs þíns sannleika trúi,
við hollan lífs sèr haldi stig,
en holds af vegum snúi.
Unn mèr að feta' í ótta þínum æfiskeið
svo eg í þinni vingun við
veröld rángláta skilji,

og fyrir liðna lífs armæðu' og lánga neyð
eilífrar dýrðar fái frið.
Faðir! það er minn vilji.
Hjá mèr vertu nú, herra kær!
helzt því að kvöldi líður,
statt ei, líknsami faðir! fjær
freistíng þá mèr ofbýður,
og nauða- skelfir -nótt óvær,
nær mig þá, drottinn blíður!

Í nótt gef þú, og alla mína æfitíð:
að engla þinna helgur her
hold mitt og líf bevari!
því frá því húsi, hvar þín guðdóms hátign blíð
bólfestu hefir búið sèr,
burtvíkur ei sá skari.
Nótt þegar dauðans nálgast eg,
þitt náðar-ljósið bjarta,
rèttlætis sólin lystileg!
ljómi þá mèr í hjarta,
og þjáðri sálu vísi veg
úr veraldar myrkri svarta.

Í náðar-krapti nestis þessa' og nýjum styrk
gef þú, ljúfasti græðarinn!
gengið eg loksins fái
hels gegnum stríðar herbúðir og hliðin myrk
himneskan fyrir hástól þinn,
hæstri svo unun nái;
endalaus dagur æ mun þar
efla farsældar blóma,
af glansa þinnar ásýndar

eg mun þá fagurt ljóma,
vötnum drykkjaður vellystar;
veit mèr, Jesú, þann sóma!

## 64. BORÐSÁLMUR FYRIR MÁLTÍÐ.

Eptir Ljóðmælum sèra Jóns, prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 76—77.

*Lag: Augu gjörvallra þig, guð! vona á.*

Augu sèrhverra með ást vona þýð
uppá þig, herra! hvers fyrirsjón blíð
ei lætur þverra til atvinnu lýð,
uppheldi þeirra á hagkvæmri tíð,
harm að afþerra og húngur-mein stríð.

Velþóknun meður þín hönd opnuð hýr,
hvervetna seður öll lifandi dýr.
Sè guði föður og syni lofstír
sætliga tjeður, og hans anda, skír,
eins sem var, skeður, og æ verður nýr!

*Faðir vor.*

Himneski faðir! þitt helgað nafn sè!
hèr til vor laðist þitt konúngs veldi!
viljinn blessaður þinn virðist að ske
um vora bústaði sem himnaríki!
dagligs hrauðs kvaðir í dag lát i tè!

Sektir forláttu oss, eins sem vèr enn
ei viður þráttum oss skylduga menn;

freistnis í háttu ei fær oss nè spenn,
frá ills baráttu oss leys heldur senn!
því ríki, máttur, dýrð þín eru', amen.

*Blessanin.*

Blessa þú, faðir! oss börn þín ástkær,
brauð einnig það, er nú meðtökum vær;
góðar skamtaði oss gáfurnar þær
guð háttlofaði! þín mildi frábær,
fyrir árnaðar-orð frelsarans skær.

## 65. BORÐSÁLMUR EPTIR MÁLTÍÐ.

Eptir Ljóðmælum sèra Jóns, prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 77—78. Með sama lagi og hinn næsti á undan.

Þökk drottni bjóðum af þýðs hugar dáð!
því hann er góður, og eilíf hans náð,
hvervetna fóður sem holdi fær tjáð,
hagkvæman gróður kvik-fènaði' um láð,
hrafnsúnga móður, sem biður hann, bráð.

Honum geðþekk er ei hests orka nein;
hann elskar ekki þau sterku manns-bein;
sál laus við hrekki sem óttast hann ein
og vonað fèkk til hans miskunar hrein
þeli nær gekk hans með þóknunar-grein.

Faðir ríkjandi um fold, hæð og mar,
frið í kaupandi hans son þjóðirnar,
og helgur andi sem oss hugsvalar!

æra þín standi sem fyrst hafin var,
tíð um verandi og til eilífðar.

*Faðir vor sem í sálminum á undan.*

*Þakkargjörðin.*

Saung með þakklætis og göfgunar greitt,
guð! fyrir sæta nafn Jesú háleitt
þau prísum mæti sem þú hefir veitt
þessu samsæti, og hvað annað neytt;
þitt sè ágæti af þjóðum útbreidt!

## 66. BARNA SÁLMUR.

Eptir 560da sálmi í enni dönsku sálmabók. Hèr er fylgt einu handriti.

*Lag: Guðs son kallar: komið til mín.*

Föður gafst þú og móður mèr
minn guð! eg þakka hèr fyrir,
trúföst, með hýru hjarta:
rèttan eg lífs ei rata veg,
ráð þeirra' og kenning ástúðleg
óhvikul á mèr skarta.
Íhuga lát mig æ, hvað mèr
umhyggju þeirra gjalda ber,
frá því eg fyrst dróg anda;
eg kemst við hjartans innst í reit,
elska sál mína fyllir heit,
þèr, guð! og þeim til handa.

Til þín, ó guð! mitt hjarta hrært
hrópar með bæn, þó sè vanfært,
líknar þú litlu megni;
foreldrunum, sem fræða mig,
föður að þekkja, og dýrka þig,
veit mèr eg góðfús gegni!

Umbuna þú þeim miskun með,
og mikil blessun af þèr tèð
yfir þau út sig breiði!
huggun þeim búin hjá þèr sè,
nær halla tekur æfinni
og kröptum ellin eyðir.

Veit: gleði, ró og von af dygð
við þeirra hjörtu festi hygð!
hjá þeim æ virðst að vera!
til helgra sálna heim frá mèr
nær heimtast, lát þau dýrð hjá þèr
í laun úr býtum bera!

## 67. KROSSHETJURNAR.

Krossins fjötraðir kappar stá
klettum luktir við Maradal; —
hverr mun steininn burt færðan fá?
fyrir oss gröf hverr opna skal?

Sá skal, er drottinn sendir hjörð,
sjáið á góðan hirði þèr!

þann er enginn fær þekkt á jörð,
þessi kom saung og bæn fyrir.
Blaktir Tólósam kríngum klár
krossfánan yfir leystum her;
hýmir óvinur hugarsár;
hirðirinn enginn veit hvar er.

## 1. SÍMON BECH SIGURÐARSON.

Ljóð þessi eru ort 1771 og hefir skáldið sett þar þessa yfirskript: "Sannleikans Sigur-Búníngur. Gjört af einum stríðandi sem Jafnan Þreir Sigurinn. Eptir einu handriti.

*Lag: Ris upp, mín sál! og bregð nú blundi.*

SJÁ hèr upp brugðið sigurfánu
sannleikans yfir hvíldarstað,
hverr þó í leyndar dupti dánu
dulizt hafi, sem þrátt ber að,
kemur loksins með kröptugt hrós
krýndur verðugri tign í ljós.

Í fögru dygða föruneyti
foríngjann sannleiks telja má;
enginn mannkostur á það heiti,
utan dýrgripur fylgi sá,
viðhald og styrkur alls hann er,
annað smíði til grunna fer.

Mein það oss jafnan mest við hryllir
mannsins er dauðlig foreyðíng;
öfundsöm lýgi', er öllu spillir,
eptirlèt þennan hjartastíng;
guð, sá alleina græða kann,
gaf oss til verju sannleikann.

Orð guðs er líf og andinn sanni
óbrygðanliga grundvallað;
engin foreyðsla má þeim manni
mein gjöra neitt, sem elskar það;
svo geymir drottins sannleiki
sál manns og hold, þó liðinn sè.

Nafns og góðverka minníng mæta
mönnum er skylt að geyma þá;
þeir sem ei vilja þvílíks gæta
þóknun skaparans víkja frá;
sá dygða verðugt dylur hrós
deyðir sannleikans helga ljós.

Sjálfur guð hefir margra manna
minníng sèr kærra látið skrá;
af því mun hann ei öðrum banna
ennnú að rækja skyldu þá;
einn var, sem þetta forþènt fèkk
frægur guðs vinur: *Símon Bech.*

Í helgri sannleiks dáð og dygða
drottni framgekk til þóknunar,
uppá hvers náð hann æ lèt bygða
alla von sinnar farsældar,
vegs takmark Jesúm valdi sèr,
við hvert hann lifði' og dáinn er.

Göfugt ætterni, góz og frama
guð hafði mildur honum veitt,
samt hugvitsgáfu hagleikstama;
hamíngjan studdi sèrhvað eitt,
herrans dýrð við það efldist allt,
er hann hvervetna þakkir galdt.

Upphefð veraldar aldrei sætti,
audligan heiður framar mat,
umgengnisprúður engan grætti,
öllum hjálpaði, sem hann gat,
munu því sakna margir hans,
sem minnugir eru sannleikans.

Ráðsvinnur mjög í orði' og æði
umsorgun hússins trúa bar,
sífeldt til lífs og sálar bæði
sinnar gætandi nauðþurftar;
afkvæmum jafnan ástrækinn,
elskunni prýddi hjúskap sinn.

Drottinn sinn vin þá drykkja náði
dropum mótlætis-bikar af,
sem ástarteikn hann þetta þáði,
þolgæðis styrk til kynna gaf,
hans egta-hjarta', er yndi jók,
alvaldur guð frá honum tók.

Samt mýkti drottinn sorgar-ama,
sárinu lagði plástur að,
og honum meðhjálp yndissama
útvaldi brátt í hinnar stað,
sem þenna beiska þrautasmekk
þar eptir einnig reyna fèkk.

Sá þegar tími seig að hendi
sinn vildi drottinn kalla þjón,
andvaraboð á undan sendi,
ángursamt nokkurt heilsutjón,
er æ smámsaman elna-rèð,
unz hann helsóttar gisti beð.

Orð guðs var þá hans einkamæti,
elskað sem jafnan hafði bezt,
ákalls og trúar ylmur sæti
uppí hæðirnar streymdi mest,
sængin, hans veiku bein sem bar
Bethel og Pníel honum var.

Nærður á himinnesti dýru,
náðar-líkama' og blóði Krists,
beið hann sællar með hjarta hýru
hèðan lausnar í trúnni viss;
loksins útflaug í herrans hönd
henni þrátt falin blessuð önd.

Byrðin vallt af og böl tók enda,
brothætt leirstofa fann sitt hrun;
nær drottinn vill því dupti benda
dýrðligri byggjast aptur mun,
að upp frá því um eilífð sè
ódauðligt sálar herbergi.

Eia! þau vilkjör ángursfríu,
eia! þann mismun frábæran;
fimmsinnum tólf og nær því níu
neyðarár tímans þoldi hann,
en eilífðin, sem aldrei þver;
umbun sælunnar jafnlaung er.

Kristí sannleika traust hann trúði,
trúaður stríðið yfirvann,
því er *sannleikans sigurskrúði*
sú mikla dýrð er krýnir hann;
líkaminn og um síðir sèr
sannaðar drottins lofanir.

Kær minníng hans í blessun blífur,
blómgast hún æ, þó hold sè nár;
gef þú oss drottinn guð eilífur!
góðan skilnað við tímans ár!
gef oss, sannleikans sælan þá
sigurbúníng að klæðast á.

## 2. JÓHANNA ORMSDÓTTIR.

Hún andaðist 20 Febr. en var grafin að Skarði á Skarðsströnd 17 Marts 1774. Útfararminning þessi er prentuð meðal Ljóðmæla sèra Jóns í Hrappsey 1783, bls. 79—83. Hún er og prentuð sèr í lagi 1784 í Hrappsey.

*Lag: Þèr drottinn! þakka eg.*

Hvort eru hèr á slóð
Herkúlis fornu spor,
áður sem ógn af stóð
og öflugum veiktu þor?
enn hefir eptir vanda
allsherjar-skelfir [1] vitjað vor,
Og látið eptir sig
augljósan grimdar vott,
blóðdreifum storkinn stig,
sturlun og hvarma-þvott
allra, sem eptir horfa
herfángi því er bar hann brott.

[1]) dauðinn.

Því hvar mun heims um bygð
harms efni þýngra fást,
en nær hin dýrsta dygð
við dauðann hlýtur slást,
banvænum benjum sæta,
og loks af honum sigruð sjást?

Hvað framar hugar brjóst,
enn burthvarf ástvinar,
sem öllum leynt og ljóst
til liðs og gleði var?
já, síðsta sinni' að hafa
sèð þann um daga hèrvistar?

Sú hrygðar orsök er
augum og þánka næst,
þar látið lítum vèr
lík vinar öllum kærst!
Jóhanna Ormi alin
hels hefir bitrum broddi særzt.

Hèr slokknað lítum ljós,
lángt heims er har af sæg;
hèr fölnuð hverfur rós,
hvervetna' af dygðum fræg,
rètt nefnd (því raun með fylgði):
Jóhanna guði þekk og hæg.

Því hvað má guði gjör
geðjast, enn líking hans.
gæzkunnar ímynd ör
inn þrykkt í sálu manns,
og þeirri lind af leiddir
lækir trúar og kærleikans?

Sem framrás fúsri með
flóðu til himna beint,
því ást og guðhrædt geð
gat sèr ei hennar leynt:
jörð eins þeir svölun sendu,
menn hverja fengu margir reynt.
Meinbót í mæddra skaut
mörg hefir þaðan streymt,
örlætis flóð út flaut,
fátækra þörfum geymt;
slíkt er ei tóm að telja,
tíð og eilífð sem fá ei gleymt.
Húss-prýði, bæjar-blóm
bezta eg hana tel,
röksamlig, friðsöm, fróm,
fölskvalaust hafði þel;
skynsöm í orði' og æði,
umgángast náði sèrhvern vel.
Jóhanna hún var hèr
herranum þannig kær;
Jóhanna ennnú er
ástríkum Jesú nær;
hans ástar víst er vætti [1]
það, hann tók hana fári fjær.
Jesúm í brjósti bar,
brjóst Jesú gisti þó;
af Jesú elskuð var,
í Jesú þáði ró,

[1]) þ. e. vottur.

Jesú innlífuð lifði,
innlífuð Jesú útaf dó.
Því lifir honum hjá
hans eign, hin dýra sál,
holds reifum fríuð frá,
full-skilur dýpstu mál;
sjón guðs þar sælu kveikir,
á hverri verður aldrei brjál.
Hverr fær þá sagt: hún sè
sigruð af dauðans makt?
ónei, hún yfirstè
afl hans með trúar vakt,
sælum því sigri hrósar,
íklædd himneskri dýrðar-dragt.
Sú harminn mýkja má
mjög farsæl umbreytíng,
og öndum elta frá
ofboð af heljar stíng;
þörf er ei því að kvíða
sem ekki' er nema sjónhverfíng.
Vegsamlig vinar önd!
viðskilin bliknað hold,
í drottins hægri hönd
heim komin ofar fold!
þèr vorir þánkar fylgja,
þýngir sálirnar dauðlig mold.
Hvað dýrðlig umbót er
orðin á þínum hag?
fyrst dauðinn færði þèr
friðsælan gleði-dag,

og veraldar viðskilnaður
sætasta Jesú samfèlag.
Nú iðrar þig ei þess,
að þoldir krossburð hans,
þar fengið hefir hress
himneskan dýrðar-krans;
ó, hvað gott af sèr leiðir
elskan flekklaus til skaparans!
Þitt þó að lítum lát
lifir samt æran skær;
það sefar þúngan grát:
þèr munum færast nær
og sömu sælu njóta;
eja, sem fyrst þar værum vær!
Ástvinir allir því,
og hennar vandamenn!
sem tár'gum tefjið í
tjaldbúðum Mesek enn,
en hana' vitið vera
heim komna fyrr í himininn.
Von er að viljið þèr,
(vottar það grátin brá)
þar vinur yðar er
einnegin bústað fá;
því það er mesti munur
hèr að dveljast og himnum á.
Smámsaman lífsins leið
líður að þeirri stund,
að eilífð eptirþreið
opnar þann gleði-fund,

hvern oss af gæzku gefi
guð drottinn fyrir Jesú und!

## 3. GALDIR OG GÓÐIR ÞÁNKAR UM DAUÐANN.

Þessi sálmur mun vera ortur eptir Jóhönnu Ormsdóttur 1774, og er hann prentaður meðal Ljóðmæla séra Jóns í Hrappsey 1783, bls. 83—86.

*Lag: Þér drottinn! þakka eg.*

Dauði! hví þetta þér
þín leyfir grimdin hörð?
ó ljón! menn erum vèr,
en engin lambahjörð;
skepnur þær, öðrum æðri,
ei hafa líka sinn á jörð.

Oss lúta önnur dýr,
oss hræðist ljóna makt;
samt fær þín heipt óhýr
hvorttveggja' að velli lagt;
þinn vandi það er eigi,
tign og kynferði' að taka' í akt.

Lífs þó nú líði hrun
lífs allt hvað njóta má,
gjöra þú mættir mun
mönnunum nokkurn á,
og móðs andhæli meður
móðs og andhælis dauða slá.

Ósnotur, örbirg hrör
ei dirfist neinni bón
þau sèr að kjósa kjör;
*Kódrus* og *Salomón*,
ólíkan hag sem höfðu,
ólíkt fá skyldu æfitjón.

Hver metorð maður ber
minnst fer þú eptir því;
líf þegar liðið er
lætur þú kóng og þý
jafna til samans sitja,
burt flutta sömu bygðir í.

Skal þá vel skarta slíkt?
skal ei fást lagfæríng?
skal gánga lögmál líkt
lýð yfir allt um kríng?
skal sami saur af verða
vellystar kropp og vesælíng?

Hví lízt ei heldur þèr:
herra sem ríkja' á fold
í gull að um steypir
andvana tígið hold,
höfðíngja sveit í silfur,
en alþýðuna' í myrkva mold?

Forgefins reiknum reynt
ráð þèr að gefa ný,
þú lærir svoddan seint,
samur ert hegðun í
og þá með einu vopni
*Úsíam* vógst og *Gíhesí*.

Þótt brúkir þenna sið
þín heipt er sízt ánægð,
með hörðum harma-klið
hún verður aldrei lægð,
í þínu bitra brjósti
neisti finnst ei af neinni vægð.

Opt barna yfir lík
eys faðir söltum grát.
Opt syrgja elskurík
afkvæmi föður-lát.
Opt snýst í ekkju harma
hjúskapar ástin harðla kát.

Opt særir bróður-brjóst
burtkallað systur hold.
Ó hel, sem þúngan þjóst
þreytir við menn á fold!
kann ekkert kvein afplána
þau vonzku laun, að verða mold?

En þig hvað dugir, deyð!
að deila við saklausan?
sjálfur því svoddan neyð
sèrhverr einn baka vann.
Þú fer að annars orðum,
á leggur straff er dæmir hann.

Þann máta, stund og stað,
er straff það oss hitta skal,
einn hefir ákvarðað
sá allt vort daga-tal
skamta rèð öldum eldri,
aldrei duga hèr kjör nè val.

Þín dráps-hönd, eins sem er
þeim æðsta hlýðnis-gjörn,
feigir svo fyrir þèr
firrumst vèr allri vörn;
hvað skal oss móti' að mæla?
menn erum vèr og Adams börn.

Vèr erum vesæl jurt,
vel megum una því
hèðan að höggvast burt,
svo hefjumst upp á ný,
úr spilltum reit upprættir,
þúsundfalt betri akur í.

Hel rèttvíst högg oss nú,
vèr hræðumst ei þinn ljá.
En heyr, ó herra, þú,
sem Heli vannst sigur á!
hvers bendíng ein því orkar,
hel að kemur og flýr oss frá:

Lát það vort holdligt hey
hagkvæmri víst á tíð
burt slá; en áður ei
almáttug gæzka! líð
að vèr dauðligir deyjum,
enn dauðans kunnum heyja stríð!

## 4. BJARNI PÁLSSON LANDLÆKNIR.

**Bjarni var fæddur 12 Maí 1719 en andaðist 8 Sept. 1779. Æfisaga hans er prentuð á Leirárgörðum 1800, og stendur þar þessi útfararminníng á bls. 109—112, og er kölluð "Hagbrigði Heilbrigðinnar við andlát sál. landphysici Bjarna Pálssonar". Eptir einu handriti.**

---

Hví er Heilbrigðin
harmi lostin?
gagns og glaðværðar
guðdómlig móðir;
sýnist mèr úr brjósti
sem blóð renni.
Hverr hefir hana
hjörvi særða?
Hana hefir Sótt
hjörvi særða
og ben blóðugri
á brjóst lostið,
er hún bana bjó
Bjarna Pálssyni,
frómum landlækni
og lærðum mjög.
Hann var hermaður
Heilbrigðinnar
öblugastur einn
á Íslandi;
hafði hann lengi
varið hennar garð

í gegn árásum
og ógn Sóttar.
Sífelt sóttust þau
Sótt og Bjarni:
hún með harðfengi,
hann með vizku
og með góðgjörnu
göfuglyndi;
hefir manngi meir
henni *mót* gengið.
Lengi var hann vörn
voru landi
og stökkti sterkri
styrjöld Sóttar;
hverjum hildarserk
sem hún klæddist,
varð henni starf strítt,
þó stundum ynni.
Minnisstæð mætti
manndáð Bjarna,
þegar flagðið fór
af Franz híngað;[1]
mikið vann hún vont,
en verra mundi,
nema Bjarna bót
bjargað hefði,
og brotið bölvætt þann
á bak aptur.

[1]) Franzósinn gekk.

Varði hann vitsmunum
og virta ment,
varði hann fèmunum
og fjörs ebli
til að hefja hag
Heilbrigðinnar,
og gjöra garð hennar
glæsiligan.
Birtið þèr, brúðir,
sem börn alið!
var hann yður eigi
til aðstoðar?
fyri flutníng hans
og framgaungu
njóta nærkonur
náms og launa,
og þèr handhjálpar
hálfu meiri.
Kunna eg Bjarna
kostamæran,
mikin mannvitríng
og menta-vin,
ljúfan í lifnaði,
lastvarasta mann,
fróman og fróðan
og fègjafa.
Mun til meðaumkan
í mannsbrjósti,
ef hún eigi var
alltöm Bjarna?

Hví var honum þá
svo hart goldið,
og launað láti
fyrir lækníngar?
Hvar var Heilbrigði
hetju' að duga
móti Sóttar sókn
og sigð dauða?
vann hún aldrei á
orku Bjarna
fyrr enn fal náði
foríngja síns.
Laust hún þá loksins
lækni frægan
við barm Heilbrigði
banasárl,
og hennar hjarta
hjó svo nærri,
að sollin brjóstben
mun batna seint.
Síðan situr hún
með sárs-auka,
litverp og lotin,
við leiði Bjarna;
og er sem oni:
að upp af honum
muni líknar-gras
loksins spretta.
Lengi mun þó lifa
lofstír Bjarna,

lifa listir hans
og lands elska;
lifir sálin sjálf
í sælu guðs.
Hvað er þá dáið? —
dupt og mæða.

## 5. KARÍTAS BJARNADÓTTIR.

Erfiljóð þessi eru prentuð í Hrappsey 1781; þau eru ort útaf orðum Jobs: "drottinn gaf, drottinn tók, sè nafn drottins vegsamað". Þegar menn rekja upphafsstafi versanna þá kemur fram: *Ragnhildur Eggerts- Guðrún Brynjólfs- Margret Boga-dætur*, og eru ljóð þessi ort fyrir þær. Eptir einu handriti.

*Lag: Þèr drottinn! þakka eg.*

Reykandi hugarhjól
heim víðan yfir fer,
en finnur undir sól
ekkert, sem fullnægir
söknuði sálarinnar
og harmi þeim, sem brjóstið ber.

Aflvana þánka því
(það eitt má stilla pín)
hef eg nú hæðir í
herra guð! upp til þín;
þar sem eg veit að vera
kröptug huggunar-meðöl mín.

*G*uðdómlig gæzka þín
gaumgæfi hvers eg bið,
orð, hug og andvörp mín
efl sjálfur, leið og styð!
lát þau ei fyrri linna,
enn líknarstrauma þína við!

*N*óa lýðs-föður frá
forðum send dúfa var,
hvergi nam frí-stað fá
flugi til stöðvunar;
í örk því aptur sneri
heimfúsa þángað hugurinn bar.

*H*var skal mitt hjarta þá,
harmsflóð nær komið er,
utan þèr einum hjá
ætla til hvíldar sèr?
hvar skal mín ást sèr una,
eilífur nema guð! hjá þèr?

*I*lmur þíns ástarþels
á öllu vottar sig;
já, þrumur harms og hels
hèr um vel fræða mig,
og þartil aptur skylda,
drottinn! að elska' og dýrka þig.

*L*ángt fyrr enn heimur hófst
hugsaðir þú til mín,
mitt nafn til minnis grófst
á miskunar iður þín,
að síðar erfa skyldi
sælu þá, sem ei deyr nè dvín.

*D*ásemdar dýrsta hnoss
drottinn! þú veittir mèr,
nær þinn í kvöl og kross
kæra son útsendir;
sköpun og skírn háleita,
skilníng og minni' eg fèkk af þèr.

*U*ppheldis unntir mèr,
eg vil það nefna tvennt:
fyrst það sem andligt er,
orð þitt og sakrament;
annað, sem innibindur
sèrhvað líkamans högum hent.

*R*eikna hèr meðal má
mannanna velgjörðir,
þær koma þèr og frá,
þú hefir gefið mèr
ástvini elskuríka;
eilífar sèu þakkir þèr!

*E*in af þeim eðlisskær
unnusta Kristí var,
mín fósturmóðir kær,
minníngar blessaðrar,
mèr af guðs mildi gefin
til yndis, heiðurs, aðstoðar.

*G*uðligrar ástar art
á henni sèrhverr las;
líferníð, ljós það bjart,
lýsti, sem sólin glas;
hún bar með heiðri' og sóma
kærleikans heiti: *Karítas.*

*G*uðhræðslu dýrri dygð
dagfar sitt prýddi geð,
orð hans af trú og trygð
tíðkaði' og elska rèð;
í því sál unun hafði,
eptir því breytti lífernið.

*E*ins mèr frá úngdóms tíð
af henni kennast vann
guðs ótti, þekkíng þýð,
þjónusta' og trú á hann;
umsorgun fróm því fylgði,
að fóstra' og auðga líkamann.

*R*ètt eins og móðir mig
mjúkustu hjartans ást
umvafði, söm við sig
sú var, og aldrei brást;
guðs nákvæm náðar hyggja
til mín í öllu svoddan sást.

*T*itt gegnum hennar hönd
himinsins blessan rann;
hverrar aðhjúkrun önd
aumstaddra gleðja vann,
aldrei neins huxun hrygði,
huggaði' og kætti vel margan.

*S*ízt gefur tíðin tóm,
nè tregi hjartans mèr,
öll hennar ástverk fróm
og dygð að teikna hèr;
það nægir, þeirra' á hæðum
bæði fullt tal og umbun er.

* * *

*G*uðs ástar gáfa sú,
gagnsöm og yndæl mér,
burt er þó numin nú,
náklæði döpur ber;
harmur og hjartans tregi
hvervetna kominn aptur er.

*Ú*t þegar endað var
ákvarðað tíma skeið
henni til hèrvistar,
heimferðar sneri' á leið;
svo skamtar hönd ens hæsta
heill og andstreymi, líf og deyð.

*D*ásamligt drottins ráð
djúpt fólgið lít eg hèr,
hans sendi hugul náð
hana til fósturs mèr,
en sem það uppfyllt mundi
eign tók hann aptur sína' að sèr.

*R*ísandi raunaköf
þó rati eg biturlig,
með því svo góðri gjöf
guð hefir svipta mig,
ei skal eg um það mögla;
í honum gleður sálin sig.

*U*ndrast það ekki má
óvitur hugur manns
þó spekin himnesk, há
og heilög skaparans
ei sínum boðum breyti
breksömum eptir þaunkum hans.

*N*áðin og náttúran
nákvæmar hjálpast að
í því að efla mann,
upp þeim svo nái stað,
sem drottinn hagað hefir;
hverr er sá banna þeim vill það?

*B*einleiðis alltíð ei
áfram sú liggur braut.
Er hún þá ófær? nei!
andstreymi, sorg og þraut
að greiðum vegi verða,
þeim sem frelsarans fylgðar naut.

*R*èttvís náttúra' og náð
nú hafa vottað sig,
og hana lífs á láð
leidt gegnum dauðans stig,
en til guðs elsku frama
fyrir þann sára missir mig.

*Í* drottins ástarbarm
inn geng eg fríar dyr,
þángað við þeginn harm
þrái' eg nú meir enn fyr;
í því, nær ógn á dynur,
blessuðu vígi hý eg kyr.

*N*ú litið get eg gjör
guðs náðar skíran vott,
hvað mikið ást hans ör
áður mèr veitti gott
í gegnum hennar hendur,
sem dauðinn hèðan bar nú brott.

*J*eg vil og þenkja það,
þúngan nær trega ber,
hann mun í hennar stað
hjálp veita, og fóstur mèr,
því framar sem eg sakna
móðurástar, sem misti hèr.

*Ó*, hversu meir þó má
minn hugur gleðjast við
farsæla frelsun þá,
sem fyrir andlátið
mín fósturmóðir hreppti,
hafin í Jesú faðmi og frið.

*L*ífs mæðu sinnar sú,
sem títt í heimi bar,
meir aldrei minnist nú,
mettuð nægð fagnaðar
hjá drottins hægri hendi,
og lystisemd glaðværs lifnaðar.

*F*riðarins er hún inn
umgengin portin sterk,
og prísar sælan sinn
sigur á dauðans kverk;
hún dó ei, heldur lifir,
heilög dýrkandi drottins verk.

*S*vo stilli' eg sömu með,
sem Davíð forðum kvað,
orðum, mitt grátið geð:
"greitt vil eg þegja' í stað
"og vörum ei upp ljúka,
"af því þú drottinn! gjörðir það."

* * *

*M*inn faðir, góði guð!
gæzka hvers aldrei dvín,
heiðruð og háblessuð
helg sèu verkin þín!
þitt lof skal önd mín efla,
tign þína prísi túngan mín!

*A*llt hvað þín ástar hönd
unnt hefir mèr og lènt
líf fyrir eins sem önd,
útheimtir þetta tvennt:
að þèr til æru verði
og minni farsæld þar með þènt.

*R*áð þitt í miskun mætt
mig hefir jafnan leidt,
eins fyrir súrt og sætt
sjálfum þèr mig tilreidt,
og til farsældar frama
sèrhverja lífsins götu greidt.

*G*rátbikar þenna því
þakklát eg drekka vil,
þar finn eg einnig í
ástsemdar beztu skil;
já, hann er eflaust ausinn
af þínum djúpa náðar hyl.

*R*áðstöfun reynist þín
rèttvís á allan hátt,
þó hyggja mannlig mín
mót henni spyrni þrátt,
unz að afdrifin beztu
þinn náðar-tilgáng birta brátt.

*E*g er því alltíð hèr
ánægð með vilja þinn,
hann skal af hjarta mèr
hvervetna velkominn,
og nafn þitt náðarfulla
af mèr vegsamað sèrhvert sinn.

*T*aki þitt föðurfáng
framvegis nú við mèr,
svefn, vöku, sess og gáng
sel eg í hendur þèr;
já, lífs og andar efni
annast þú gjörvöll þar og hèr.

*B*etri þín ást er ein
öllu veraldar fè,
ei gefst mèr önnur nein
unun á jarðríki;
þú ert, þó allt forgángi,
mitt hjartans traust og hlutskipti.

*Ó* guð! eg inni þèr
allshugar þökk og prís,
þín komin að sú er
unnusta' í Paradís,
hvar hún af heims armæðu
frjáls lifir, heilög, farsæl, vís.

*G*ott, sem hún nýtur nú
nær þínum veldis trón,
er náðar unihun sú,
á hverri trúar-sjón
sína hèr sífelt hafði
hún með vakandi hjartans bón.

Allt gott, sem eg hèr naut
og aðrir henni frá,
hundraðfalt henni' í skaut
hæðunum fellur á;
lof sè þèr guð! sem góða
gjöf hefir veitt og tekið þá!

Dýrð krýnd af dygðum skær,
dauðans viðskilin sverð,
mín fósturmóðir kær!
minníng þín elskuverð
mèr skal í brjósti búa
unz þèr eg samtengd aptur verð.

Æ, hversu er eg þèr
offjarlæg vorðin nú
syrgjandi' í heimi hèr,
á hæðum lifir þú
í glaðværð ævarandi;
ó, hvað frábær er sæla sú!

Til þín, nær herrann hár
hèrvistar styttir bið,
kem eg, um eilíf ár
ei skilst þig framar við,
sífelt þèr samfagnandi
hjá drottins Jesú hægri hlið.

Una skal inn til þess
í elsku, von og trú,
mín sál og hugur hress
við hjástoð míns Jesú,
og heitin órjúfandi,
hverjum eg treysti' af hjarta trú.

*R*ósfarfað blessað blóð
og benjar lausnarans
þau kjör mèr gefi góð:
í glaðværð himna-ranns
hèðan úr heimi' að fara,
og hjá þèr búa' í faðmi hans.

## 6. ÞÓRA ÞORMÓÐSDÓTTIR.

Þóra var kona bónda í Arnarbæli í Dalasýslu, og andaðist 1782, 63 ára að aldri. Erfiljóð þessi eru prentuð í Hrappsey 1784; hèr er eitt handrit borið saman við hið prentaða.

*Lag: Mörg vill hryggja hugann þín.*

Hvað má greina hèr óvalt?
veltuna eina,
braut sem beina
ber allt.
Misjafnt lætur lukku-dans,
einn dagur kætir,
annarr grætir
önd manns.
Heppni mestu hrósa kann,
sá með staðfestu
beisku og beztu
beint ann.
Góð ánægja í guðs forsjá
kann sorg frá bægja,

og helzt að hægja
hugþrá.
Allt hvað tèði herrann hèr;
hvort senda rèði
grát eða gleði,
gott er.
Sèr óstilta heimsins hjól
þó gjöri bilta,
oss ver óvilta
vor sól.
Sorg þá dynur óðum á,
sè guð vor vinur,
hættan hrynur
braðt frá.
Þar við hvíli þánkinn sár;
fra sorg og výli
sèr því skýli
sölt tár.
Það nam særa sinnuþel:
að vorn frábæra
vin burt færa
vann hel.
Lífs bar þrótt til gleði' og góðs
og dygða gnóttir
Þóra dóttir
Þormóðs.
Heim nú kvaddi heiðurs-víf,
sú marga saddi,
græddi, gladdi
grætt líf.

Trúin sterka bygði brjóst;
    með góðra verka
    minníng merka
    burt bjóst.
Lángsamt mæðu leið hún bað
    meður þolgæði,
    en hóf í hæðir
    hjartað.
Styrkt af liði lausnarans,
    frá harma kliði
    fór með friði
    í faðm hans.
Lofaður veri góður guð!
    er fárs um sneri
    feikna hver
    í fögnuð.
Sorg má slakna, óvit er,
    dáins að sakna;
    vorir vakna
    vinir.
En þreyjanda egtamann
    æ sè huggandi
    guð! fra grandi
    geymdan.
Sælla stunda unni oss
    og kæti funda,
    Krists fyrir unda
    kært hnoss!

*   *   *

Lífganda lúður-hljóðs
lausnarans bíður hèr
Þóra dóttir Þormóðs;
þraut ei nè pínu sèr
heiðri gædd höfðíngskvinna,
en sæl hjá guði sálin er.
Ár níusinnum sjö
sú fèkk í heimi gist,
nær áttatigi og tvö
tal ára skrifaðist
heil seytján hundruð yfir
í sínum Jesú andaðist.

## 7. ÞORGERÐUR JÓNSDÓTTIR.

Skáldið kallar erfiljóð þessi "Grátblandið feginsmál við lát guðhræddrar heiðurskvinnu, o. s. frv." — Þorgerður var fyrri kona merkismannsins Þorláks Hallgrímssonar í Skriðu, og andaðist 1 Febrúar 1791, á 43ja aldurs-ári. Minning hennar er hèr prentuð eptir þrem handritum.

*Lag: Faðir vor! sem á himnum ert.*

Ó drottinn guð! hvað sæll er sá,
sem þínu fjalli byggir á!
hvað yndislig þeim auðnast vist,
í þinni tjaldbúð staðnæmist!
rèttlátum hvíld þar ætluð er
eptir lyktaðar mannraunir.

Æ, hversu lángar mæddan mig
minn Jesú! þar að eignast þig!
nær skal mín önd, af nauðum leyst,
nálgast þann vin, sem hef' eg treyst?
nær mun hjálpræðis höndin þín
harmkvæla-fjötur slíta mín?

Álengdar, gegnum eymdastand,
eg sè það fyrirheitna land,
en leiðin þángað er svo straung,
armæðu-flóð og dauðans gaung;
torveldni slík mèr ófær er,
utan eg njóti styrks af þèr.

Hafir þú flutt á höndum mig
heims yfir sèrhvern raunastig,
lát nú ei þann, sem eptir er,
ó, Jesú! skilja þig frá mèr,
hjálp þinni vil eg hrósa þar
við hina síðu Jórdanar.

Opt lætur þú mig eptir sjá
öðrum, sem þenna bústað fá;
ó, hvað eg feginn fylgðist með
fagnaðar- upp í -samkvæmið!
ó, hvað mig lángar meir og meir
að mega leysast eins og þeir!

Verði þó, Jesú! vilji þinn!
vera skal hann og líka minn;
því lengur sem þú þjáir mig
því framar skal eg vona' á þig;
hugur minn glaður hjá þèr sè,
holdið þó stynji' á jörðinni!

Nær sem úr útlegð hugsar heim
harmþrúngin önd, eg samgleðst þeim,
sem undan komnir eru mèr
í þær farsælu tjaldbúðir;
því sæll er hverr, sem fyrstur fær
fyrir hrakníng að öðlast þær!

Þó virðist dauðinn vorri sjón
viðbjóðsligasta gleði-tjón,
samt fyrir drottni dýrmætt er
nær deyja burt hans heilagir;
enginn færir þeim æðra gagn
enn sá himneski brúðarvagn.

Hvað er vor hèrvist? útlegð aum!
öll hennar kæti líkt við draum!
hvað er á himnum? góði guð!
gæði, sem fást ei útmáluð;
hverr er jöfnuður þá á því
þar að dveljast og veröld í?

Enn vekur hèrum minni' og mál
míns Jesú faðmi reifuð sál,
innlífuð, guð! og þakknæm þèr,
*Þorgerður* blessuð *Jónsdóttir*,
sem eptir lángvinnt sorgastríð
sigurkjör hefir öðlazt fríð.

Fram hèr í ótta guðs hún gekk,
guði var æ og mönnum þekk,
elsku til guðs í brjósti bar,
brjóst Jesú hennar svölun var:
veraldar brjóstum vanin frá,
vonaði brjóstgeð drottins á.

Blóðferil Jesú örugg óð,
auðmjúk biðjandi þolinmóð,
ástundan hennar sú var söm
sár þó líkamann nísti kröm;
hún var guðs barn, og honum kær,
hlaut því að líða raunir þær.

Ekkert mat hún sèr hærra hnoss,
enn herrans Jesú sára kross;
þjáníngar marga þúnga stund
þolug afbar með glaðri lund,
eptirbíðandi' í ást og trú
umskiptum þeim, sem hreppti nú.

Egtamann sínn og ástkær börn
elskunni vafði, tryggðagjörn;
lífs þá bliknaði síðast sól
sig og þau guði' á hendur fól,
þar til fagnaðar farsæld í
fundunum saman ber á ný.

Mannorð hennar og minníng kær
meðal vor æ í blessun grær;
beinin í jörðu geymir guð
góðs til frumvaxtar innsigluð;
sálin er lukt í höndum hans,
helgan berandi sigur-krans.

Hún prísar nú í himnakór
herrans dásemdarverkin stór,
þakkandi guði lausn og líf,
laus við armæðu, synd og kíf;
önd mín, sem þreyr í eymdardal,
undir með henni kvaka skal:

"Hallelúja! þitt heiðrað sè
"helgasta nafn, vor lausnari!
"hvers dauði' og pína dásamleg
"deyjendum tilbjó opinn veg
"í dýrð, sem aldrei deyja má,
"deyjanda lífi þessu frá."

Ó, þú dýrðskrýdda sæla sál!
sorga viðskilin klögumál,
augu vor tárug eptir þèr
upphefja sig, og þánkarnir;
æ, hvað vèr vildum einsog þú
aflokið hafa stríði nú!

Ó, hvað þín blessuð eru kjör!
ó, þá dýrðligu sigurför
þar guðs auglitis eilíf sól
yfir þig skín við lambsins stól;
eymdanna myrkur allt er gleymt,
einsog það hefði' í svefni dreymt.

Lif nú í friði' um eilíf ár!
óskir vorar og harmatár
uppfylli drottins elska góð
og innhelli þeim í náðarsjóð;
hann sè vor allra hjálp í neyð,
huggun í sorg, og líf í deyð!

* * *

Sjá! hversu lína lífs
leið sína niður gár,
en gröf er endir kífs.
í henni sefur nár;

því næst til hægri handar
mannsins upprisu-stigi stár.

## 8. MAGNÚS EINARSSON.

Prestur að Tjörn í Svarfaðardal, fæddur 1734, andaðist í Nóvembermánuði 1794; kallaður gott skáld. Vísa þessi er prentuð áður í eptirmælum átjándu aldar bls. 77. — Eptir tveim handritum.

Nú grætur mikinn [1] mög
Mínerva [2] táragjörn;
nú kætist Móría [3] mjög,
mörg sem á dára-börn; —
nú er skarð fyrir skildi —
nú er *Svanurinn* nár á *Tjörn*.

[1]) Magnus þýðir "mikinn" á latínumáli.
[2]) vísdómsgyðjan.
[3]) heimskugyðjan.

## 9. HANNES FINNSSON.

Biskup í Skálholti, fæddur 8 Maí 1739, andaðist 4 Aug. 1796. Erfiljóð þessi eru prentuð aptanvið æfisögu biskupsins 1797 á Leirárgörðum, og kallar skáldið þau "fölt blað meðal fagurra rósa, lagt á legstein ódauðligs lærifööur doctor Hannesar biskups af annarligum Jarðar Þúnga". Eptir einu handriti.

*Lag: Guð faðir, son og andi hreinn.*

Hvarf láta miskynnt höfðíngjans
*Hannesar* rómar tveir;
þann doktor, biskup, ljóma lands
liðinn hverr maður þreyr;
en dygðir, vizka' og heiður hans
háborin systkyn gefa til ans:
"*hann es!*" [1] já, hann ei deyr!

Ef nokkrum manni vegligt verk,
vizka, prúdt hjartalag,
ásthylli vann og æruserk
eptir hans skapadag,
*es* það víst *Hann*, hvers umsjón [2] merk
ódauðligan hjá leik og klerk
bera mun heiðurs hag.

Virðist sem halli velgengni
veraldar til að sjá

---

[1]) es þ. e. *er* í fornu máli.

[2]) ἐπισκοπία þýðir umsjón á griska túngu, þaðan er komið "episcopus" og síðan "biskup".

þegar svo falla fögur trè
en fauskar eptir stá;
en fyrir það galli sýnist sè
sannvitur allra stjórnari
verk sitt að vænna sá.

Þakkandi lofum þá guðs hönd,
þessa manns hvarf sem gjöf,
í heims spilstofu[1] verk sem vönd
vel lèk um stutta töf;
unz dauðans rofin detta bönd,
dýrðlig sól ofar hvílist önd,
en blessuð bein í gröf.

Ef föður söknum fárádt lið,
fræðis og leiðtogans,
hvarfyrir klökknum vèr ei við
vönd guðs í svipting hans?
æ, að nú vöknum! ágætið
inntil þess slöknum, ment og sið
stundum ens mikla manns!

---

[1]) spilstofa eða theatrum, þ. e. leikhús, sjónarspilahús, og er lífi manna og athöfn líkt við það.

## 10. ÓLAFUR EINARSSON HJALTESTEÐ.

Sonur Einars Hjaltesteðs á Akureyri; hann andaðist úngur 1797. Eptir tveim handritum.

*Lag: Upp hef eg augun mín.*

Hirzlulögð hèr er ein
herrans gersemi dýr,
óflekkuð eðlishrein,
úngbarns líkami skír,
þar inni blessuð bjó
brúður Krists, helguð önd,
hver, þegar duptið dó,
drottins varð flutt í hönd.

*Ólafur Einarsson*,
andvana, *Hjaltesteð*
hèr sefur, vafinn von,
værum á hvíldarbeð,
aldurssmár, yndisstór,
ættjörðum skipti tveim,
á hæð til föður fór,
fyrirlèt þennan heim.

Fæddur á fagran dag
frelsarans getnaðar;
í leiddur englahag
Ágústí fyrsta var
nær átján hundruð á
ár Kristí skorti þrjú;

barna var blómi sá,
blómligri þó er nú,
  Almáttkur guð hann gaf
geymir og líka bezt,
heimi svo illum af
aldregi fordjarfist;
foreldrar fagran mög
fá munu sèð á ný,
dýrð prýddan meiri mjög,
og missa' ei upp frá því.

## 11. GUÐLAUG MAGNÚSDÓTTIR.

Systir Gísla Magnússonar Hólabiskups og kona Erlendar prófasts Jónssonar á Hrafnagili, en móðir Magnús prófasts Erlendssonar. Hún andaðist 1797, og hafði þá sex um áttrætt. Erfiljóð þessi eru hèr prentuð eptir tveim handritum.

*Lag: Þèr drottinn! þakka eg.*

Viður sæl leiðarlok
lèt hèr en þjáðu bein
niður, og neyðarok,
nafufræg, í dáðum hrein,
mæt *Guðlaug Magnúsdóttir,*
frú prófasts göfug áður ein.
  Sál og hold, sundruð tvö,
sorgliga veittu stund;
hálan — ár hundruð sjö —
heim við — og eitt þúsund

nár — sjö og níutíu,
skildi það dygðum-skreytta sprund.
  Erat um ofmælt hrós,
æ hverr það mátti sjá,
hèr að svo lofsælt ljós
líka sèr átti fá',
er nam lifendum ljóma
ár sex um tugi átta hjá.
  Kennir ei kaldur nár
kvíða, því græðis hönd,
hennar sem taldi tár,
tók upp í hæðir önd;
sú þau mun síðar láta
yndæl samtengja bæði bönd.

---

## 12. SIGRÍÐUR BJARNADÓTTIR.

Hún andaðist 1793, en minning þessi er ort 1798, og er prentuð hèr eptir þrem handritum.

*Lag: Heiðrum vèr guð af hug og sál.*

---

Meðal þeirra sem hvílast hèr
hús þetta viður, framliðnir,
sálað var niður sett í mold
*Sigríðar Bjarnadóttur* hold,
áður var tvisvar ekkja sú,
inn leidd í lambsins brúðkaup nú;
hún dó og lifði drottni trú.

Ráðvandrar kvinnu raunatár
runnu hèr mörg um 70 ár,
í þrautum jafnan þolinmóð
þau lèt hún felld í drottins sjóð,
þartil hans góða græðis-hönd
grátinn þerraði, leysti bönd,
og tók í hæðir til sín önd.

Hún eptirlèt, á góðverk gjörn,
göfgan orðstír og dygðug börn;
í heimi litið átti fè,
auðug af trú og guðrækni;
arfleifð á himnum eptirþreið
yfir skein hverja lífsins neyð,
sú henni gafst í sælum deyð.

Í himnavist frá harmadal
hún fór, nær Kristí áratal
seytján hundruð og þrjátigi þrenn,
þremur við lögðum, tjáðu menn;
þegjandi moldir hennar hèr
hrópa til þín, sem eptir fer:
"mèr í dag, en á morgun þèr!"

## 13. CARITAS.

Minningarljóð þessi eru ort eptir fósturmóður skáldsins sem Sigríður hèt, en *caritas* þýðir *ást* á latínumáli. Eptir tveim handritum.

*Lag: Hvar viltu, sál mín! finna frið.*

---

Guð, sem kærleikur einskærr er,
og út frá sèr
hvervetna honum veitir,
fóstrast við eina lèt mig línd,
lifandi mynd
aðalbrunns, *ást* sem heitir,
hverr æ er einn
eldslogi hreinn
drottins, og dygð,
sem dauðans hrygð
biltir ei um nè breytir.[1]

Út brennur loksins eldur hvör,
eins kulnar fjör
umsíðir allra manna,
einn verður þegar úngur nár,
aldur mjög hár
hinn lætur helför kanna;
er jarðar allt
eðli fallvallt;
*ást* ódauðlig,
sem uppól mig,
himins-art sýndi sanna.

---

[1]) Lofkv. 8, 6.

Ypparlig fósturmóðir mín
hin mörgu sín
lífsár með *kærleik* krýndi;
barndómi mínum fyrsta frá
fann eg og sá
hug-ást, sem hún mèr sýndi;
hve get eg greint
góðlyndi hreint,
er stöðugt stóð
og styrkti fljóð,
hversu sem helsótt píndi.

Engin ástríkust móðir má
mjúkari tjá
brjóstgæði barni sínu,
umsorgun hennar einkar stök
aldrei varð slök,
gætandi' að gagni mínu;
áköfust önn
allskonar sönn
velferð mín var,
sem vífið bar
ytst á þrot æfilínu.

Hve get eg komið orðum að:
*ástríki* það
skilmerkiliga að skíra,
sem hún, nákvæmni mestu með,
mèr æ fèkk tèð,
og hugar-góðsemd hýra?
verk, svo vel gjörð
við mig á jörð,

öll uppteiknuð
einn hefir guð,
sem dygð umbunar dýra.
Mèr loksins dýrmætt heillar-happ
úr hendi slapp;
gjafarans var sá vilji;
mín góða fósturmóðir dó,
mjög öldruð þó,
svo gröfin holdið hylji;
en hennar mèr
óhulin er
minníng mjög blíð,
unz mín nátíð
heimtar, eg hèr viðskilji.
Syrgja margir með söltum grát
*Sigríðar* lát
höfðíngjar lýðs í landi,
arfar í fyrsta' og öðrum lið,
og hana við
reyrðir blóðtengda bandi;
ástin, sem er
innan-brjósts mèr,
og þúngar þrár
við þeirra tár
mínum eg bjóða' að blandi.
Þángað til lífs mèr þornar æð
þánkinn í hæð,
saknaðar-und þó svíði,
fljúga skal æ, þar fóstra mín
fullkomnuð skín,

umvafin engla prýði;
æ skal mín önn,
að æra sönn,
þúsundföld þökk
og þreyíng klökk
mèr ei úr minni líði.
Lof sè drottni, sem lind þá gaf,
og lèt mig af
hennar straum heillir drekka!
hún uppnumin til hans er nú,
og heimvon sú
styttir mèr stundir ekka.
Dygða dýr ment,
sem drós fèkk kennt,
nær æfist ört
eflaust fær gjört
mig guði' og mönnum þekka.
Ó, þú *kærleikur!* dýrsta dygð,
af drottni bygð,
hans eilíft eptirlæti!
ó hve herliga minnir mig
mitt nafn á þig!
æ, að þess gætt eg gæti!
mèr breiskri bú
í brjósti þú
öflugur æ!
unz mína fæ
fóstru faðmað með kæti.

## 14. SIGURÐUR STEPHÁNSSON.

Seinasti biskup á Hólum; hann var bróðir Ólafs stiptamtmanns Stephánssonar og var fæddur 1744 en andaðist 1798. Minníng þessi er prentuð í "verðúng Sigurðar Stephánssonar biskups Hóla-stiptis" á Hólum 1799, bls. 40—48, og kallar skáldið hana: "sólhvörfin í þessu stipti, mjög einfaldliga hugleidd þann 20 Junii 1798". Hèr er fylgt eiginhandar-riti og einni afskript.

*Lag: Þèr drottinn! þakka eg.*

Svo grátlig sólarhvörf
sumardag lengstan á
skyld er að skoða þörf,
skammdegi kallast má
þegar ein eptir aðra
lands-sól nýrisin fellur frá.

Sól megu kallast klár
kennidóms forstjórar,
því ljóminn hefðar-hár
hinna flokk leiðtogar;
nær slíkir drottnar deyja,
sólhvörf eg orðin segi þar.

Mörg hafa svoddan sèst
sólhvörf, og þess er von:
jafnt öðrum líkum lètst
lofsverður Aaron;
svo er og sól vor horfin:
*Sigurður* góði *Stephánsson.*

Á Hóla-stipti og stól
strídt hefir nokkur ár

mein slíkt, að missa sól;
marghöggvið er það sár;
við seinna sólhvarf eru
þess fyrra varla þornuð tár.
  Eitt þvílíkt er í dag
augum og hjarta næst
sólhvarf og sólar-lag,
sú þó var öllum kærst;
vèr syrgjum *Sigurð góða*,
sól, yndi þessa stiptis stærst.
  Guðhræðsla, gæzka, dygð
glönsuðu' af þeirri sól,
þokkasæl þægð og trygð
þelhrein sig aldrei fól;
hann unni lýð og lýsti,
guðs kristni vermdi, græddi' og ól.
  En hversu skært hún skein,
þá skygði' á nokkurr kross!
að þreyja' af þraut og mein
það mat hann kærsta hnoss;
sú gekk í *Sigur-merki*,
sól, þegar burtu hvarf frá oss.
  Hann var mæt hjálpar-sól
hverjum sem þrengdi neyð,
voluðum verndarskjól,
veiklyndum hressíng greið;
grátendum grèt hann meður,
fagnaði með þeim fögnuð beið.
  Eins var umgengni hans
yndæl og sólar skin;

vel umbar mótgjörð manns,
mjög hollur sínum vin;
hann var þeim ljós, sem lifa;
ljós verður hann fyrir ófædt kyn.
Biskup og bezta mann
bezt syrgjum framliðinn,
í því vèr elskum hann,
æskjum hans funda senn;
verðum, sem hann oss vildi!
gjörumst, sem hann var, *góðir menn!*
Hèr sèr eg *Helíam*[1]
horfinn til dýrðar lands;
önd með, en ei líkam,
æpi til meistarans:
"ó, faðir! ó minn faðir!
"Ísraels vagn og reiðmenn hans."
Æ þig, vor sæla sól!
sárt tregar huga minn;
þinn auða stjórnarstól
styn eg við, harmþrúnginn;
þann, sem hann á að erfa,
láti guð vera líka þinn!

[1]) Þótt *Helías* eða *Elías* sè ebreskt nafn er það þó á þessum stað, vegna hljóðslíkingar, miðað við griska orðið *Helios*, sem þýðir *sól.*

## 15. JÓN ÞORLÁKSSON

sonur Þorláks bónda Hallgrímssonar á Skriðu. Grafskript þessi er ort 1798, og er prentuð hèr eptir þrem handritum, hefir Rask borið eitt þeirra saman við eiginhandar-rit.

---

Hèr blundar örendur
á meðal náheða
*Jón Þorláksson* — sárlig
svein úngan mein stúngu;
ódauðligs sá eðli
íklæddist nýfæddur,
vel kónga- sæl sýngur
sál engla-mál -þengli.

---

## 16. PÈTUR FRIÐRIK SÚHM.

Sagnaritari Danakonúngs, fæddur 18 Oct. 1728 andaður 7 Sept. 1798. Yfirskript minníngarljóða þessara frá skáldsins hendi er þannig: "Einnig Ísland tregar enn nafnfræga sannleiks-kappa Friðrik Súhm, dáinn — ódáinn". Eptir þrem handritum.

*Lag: Þèr drottinn! þakka eg.*

---

Áður grèt Europam
Agenor horfna sèr

hverja frá honum nam
háleitur Júpíter[1];
sannara sorgarefni
Europa! gefið er nú þèr.
Þið hafið mistan mög,
Minerva, dygð og þú,
samkvæmur sá var mjög
sögð við móðerni þrjú[2];
augu þott ótal hafið
öllum þeim gráta megið nú.
Fallinn er *Friðrik Suhm*,
fögnuður dana-lands,
öll Norðurálfa rúm
að stynur moldum hans:
"guðs trúr og vísis vinur,
"vitur fullhugi sannleikans!"
Hvenær finnst honum jafn
að hárri lærdóms nægð?
vegsamligt verkasafn
vitnar bezt um hans frægð;

---

[1]) Agenor var konúngur í Týrusborg á Fønikulandi, Europa hèt dóttir hans, fríðust allra kvenna. Um það mund var Júpíter konúngur á Kritarey; hann fór til Fønikulands og brá sèr í uxalíki og nam í burt Europu konúngsdóttur, og hefir Norðurálfan síðan nafn eptir henni.

[2]) Heimdalur á Himinbjörgum, vörður Bifrastar, er kallaður sonur 9 mæðra í Eddu.

svolengi stafir standa
heimskrínglu [1], verður hún ei lægð.
  Hverr miklar meir enn hann
mæti vors kristindóms?
hverr framar votta vann
verðugleik hjarta fróms?
hverr framar tignum tjáði
hreinan sannleik, án hræsni-gróms?
  Allt lærdómslista kyn
lostið með harmi sèst;
sinn grætur sèrhverr vin,
en Sagnafræðin mest;
hún slíkan aldrei átti,
óvíst bætt fái það hann lètst.
  En, munu menjar hans
miklast við slíkan harm,
þar rit ens mæta manns
Mínervu fylla barm?
þau munu lengst við lýði;
Karons-bátur [2] ei fær þann farm.
  Jarðkynjað hans fèkk hold
hauðrið, sèr skilinn arf,

---

[1]) *stafir heimskringlu;* þar meinar skáldið það sem styður alheim og heldur honum saman, en jafnframt litur hann og til "heimskrínglu" Snorra Sturlusonar, sem hann hefir haldið að Suhm hafi unnið að, þó ekki væri svo reyndar.

[2]) Karon nefndu heiðíngjar í suðurlöndum þann sem flutti vofur framliðinna manna yfir ána Styx í undirheimi.

en hvað var æðra fold,
til æðra staðar hvarf;
þó tegund duptlig deyi,
duptið sjálft aldrei furða þarf.
Svo hverfur eitt og allt
að lokum, stórt og smátt;
svo finnst í veröld valt
víst bæði lágt og hátt,
og hverr sem enn þá lifir
að sama líður brunni brátt.
Dags eptir velgjörð verk
vær fylgir nætur-ró,
eins dygðar iðja merk
endalykt sæla bjó;
það má um *Súhm* vorn segja:
hann lifði vel, og hólpinn dó.
Játa mun öll vor öld,
ei jafnist neinn við *Súhm*,
betur, þó bein sè köld,
blómgast það seinna skúm,
raust hans í ritum hrópar:
"reiðarslag dárans eyrna *súm!*"

* * *

Sparkið [2] og spjátrið nú
spèfullir kauðar húms,

[1]) þ. e. "*eg em* reiðarslag í eyrum aulanna".

[2]) Erindi þessi tvö sem á eptir koma hefir sèra Jón í upphafi ætlað til að kæmi undan seinasta erindi í kvæðinu, en síðan hefir hann dregið þau út.

sem niður níðið trú!
neytið ens auða rúms!
fyrst allir aðrir harma,
dansið *þèr* yfir dauða *Súhms!*
Samt vitnið þarmeð þèr,
það Norðurálfunni
ljós sè frá liðið hèr,
leidt yðar kálfæði,
þèr, sem ei þorðuð sigla
híngaðtil nema' í hálfu trè.

## 17. GUÐRÚN EINARSDÓTTIR LYNGE,

fædd 1716, andaðist 1799. Minning þessi er prentuð hèr eptir tveim handritum.

— "*í dag mèr, á morgun þèr*".

Hèr geymir hauður
hlutdeild sína,
hin fór til himins,
sem af himni var;
hèr var heiðursverð
höfðíngskvinna,
göfug og góðfræg
Guðrún Lynge,
ausin moldu,
Einarsdóttir.

Það er vottur viss
að víf fæddist,
(enginn er sá alinn
sem ekki deyr);
skeði það á ljósa
Lárus-messu [1],
fjórum vetrum fyrr
enn fyllt væri
ennar átjándu
aldar helft.
Fimm var fimmsinnum
fátt í dögum,
að teldi ár sín
tólfsinnum þrjú,
er var mæta mær
manni gefin,
rausnar-ríkum
Rasmus Lynge.
Honum sjö síðan
af seytján ára,
ól hún ávöxtu,
egtabandi;
fjórir þrutu þeir,
en þrír á lífi
tvinna trega sinn
við tár föður.
Ár var aldar
sem eg áður gat,

[1]) Laurentius messa er 10da d. Augusti mánaðar.

nú hið níunda
og nítugasta;
þá nam dýra drós
drottinn kalla
ellefu nóttum
fyrir afmælið.
Hún var dygðauðug
og dó hólpin,
hún var mæðu mett
meðan lifði;
en nú seður sál
sælu-manna,
og drykkja djúpir
dýrðarstraumar.
Vel sè þèr víf,
er svo vel stríddir,
sæl segist þú nú
sorga þinna;
en lær þú, lifandi!
sem les þetta,
að deyja og telja
daga þína.

## 18. HALLDÓR BJARNASON VÍDALÍN.

Umboðsmaður á Reynistaðar klaustri, andaður 1800.
Minníng þessi er prentuð eptir einu handriti.

*Lag: Þèr drottinn! þakka eg.*

---

Að halda hrósi' á lopt
heiðurligs vinar síns
gott er, en gleymist opt;
göfugs ættíngja míns
minníng því hyggst eg hefja:
*Halldórs* sáluga *Vídalíns*.

Tilmæli vakinn við
veleðla dóttur hans,
vorkunnar víf eg bið
vanmætti kveðandans,
eg, sem einúngis þekki
ætt og nafn þessa sæla manns.

Sá Reinistaðar rètt
ráð yfir klaustri bar,
og sat í sinni stètt
með sóma lengi þar,
borinn í báðar ættir
af beztu landsins mönnum var.

Fyrst eg um frægan get
föður hans, þjóðmæríng:
Bjarni Halldórsson hèt,
Húnavatns dæmdi þíng,
þá Skálholts-skóla hafði
áður veitt stjórn og uppfræðíng.

Vitríngur var hann stór,
valdið með röksemd bar,
og sízt að öðru fór
úr þegar málum skar,
enn rèttast vissi vera,
vottaði það sig allstaðar.

Ei síður veglig var
Vídalíns móður-ætt,
höfðíngsfrúr Hólmfríðar
hèr fæ eg nafn ágætt,
síðar af systur minni
borið, að hennar beiðni rædt.

Hún tók með hefð í arf
hyggindi föður síns,
margordt ei þar um þarf,
það er Páls Vídalíns,
nafn hans er nóg að fylla
hin naumu takmörk óðar míns.

Vísinda veröld öll
verk þess hálærða manns
frábrugðin, fróð og snjöll,
til frama' og sóma lands,
metur í mesta gyldi;
minníng ódauðlig því er hans.

Stofni svo ítrum af
ágætur Halldór spratt,
himininn heilla-staf
honum við síðu batt:
mær, sem hans meðhjálp væri,
aðstoð, huggun og yndi gladt.

Ragnheiður, rík af dygð,
ráðvönd og skír sem hann,
honum með helgri trygð
hjarta sitt gefa vann,
og Einars dóttur dýru
drottinn kaus slíkan egtamann.

Margskonar gáfum gædt
góðkvendi þetta var,
handiðnir, hugvit mætt,
hússtjórn og dygðirnar
stundaði' og ávallt æfði,
einnig gott skyn á lærdóm bar.

Þau bjuggu saman svo
sannkristnum hjúskap í;
meir egtamaka tvo
má samlags-elska hlý
ei hvorn við annann tengja,
enn þessi hæði, fölskvafrí.

Umgengust alla vel
engum sýnandi þjóst,
mannvizku þýðast þel
þeim gjörði viðkvæmt brjóst,
guðhræðslu' og gott siðferði
stunduðu bæði leynt og ljóst.

Lífs ávöxt guð þeim gaf,
góð börn og mannvænlig,
tók sum þeim aptur af
og flutti' í nánd við sig;
hverjum er sárt til sinna,
ó stóri guð! hverr þekkir þig?

Hugprýði hetjulig
í hjóna vitri sál
berliga sýndi sig,
sorgar þá bitri skál
tóku við, hans af hendi,
sem hjartað les, þó titri mál.

Allt kemur loks í ljós,
eð leynda trúar traust
ávinnur heyrn og hrós
á himnum efalaust;
svo vorra sælu hjóna
sorgir umbunar gleði traust.

Guð hefir þeirra þrá
og þrautir allar bætt,
þau lifa honum hjá
himins við yndi mætt,
og með ljómandi lýðum
lausnarans prísa nafn ágætt.

Blessaðra hjóna hold
herbergi gistir vær,
og með ró undir mold
upprisu móti hlær,
lofstír er lífs í heimi,
og líf í þeirra börnum grær.

Ó, það er lofsverð lyst
að læra góðverk mörg,
ör blessan úthellist
yfir mannrauna förg,
það er þrefaldur sómi:
að hafa, veita, og heita Björg.

Ætt vor frá Arngrími
á Mel svo niður stèg:
Hildi, Pál, Hólmfríði,
Haldór og Björg einn veg;
Jón, Arngrím annars vegar,
Margretu, Þorlák, mig, eg tel.

## 19. JÓN SVEINSSON.

Landlæknir á Íslandi, fæddur 1752, andaðist 1803.
Eptir einu handriti.
*Lag: Þèr drottinn! þakka eg.*

HNÍGUR ens mæta manns
móður að skauti nár;
Ísa- frumlæknis -lands,
lát er ættjarðar sár,
það sona', er mannval meta
vita á skíl, mun væta brár.

Manngæzka, glöggrar á
grunni þekkíngar bygð,
metnað og fjárplóg frá
frí, blíð og glaðvær dygð,
mannkosta' og menta-elska,
kostir saknaðir kveikja brygð.

En svíði undin fám,
auðfundin munu rök;
af öld að draga dám
dýrmenni kunna' ei tök,

dul því fordildar firrast,
minni fyrir þá metin sök.
Mannvitríngs varúð í
vandæfðri græðis-ment
gjöra mun grein á því
gæðings við skeiðið endt:
meir vera mat, enn sýnast,
máske í öld þó síður hent.
Hann er oss horfinn frá,
heim sælla fluttur í,
oss virt og elskuð hjá
er lífs hans minníng ný;
moldu söm mæða deyði;
fögnum hans vinir frelsi því!

---

## 20. MAGNÚS ÞÓRARINSSON,

klausturhaldari, andaður 1803. Útfararminníngin er prentuð hèr eptir þrem handritum.

---

Est, ubi justus obit, res perpretiosa Jehovæ.
Quid magis esse cupis quam pretiosus ei?

*Lag: Upp hef eg augun mín.*

---

"Amèn!" — sá eldri tíð
æ lifir, sver það tal —
"rósemd og blessan blíð
bein þessi geyma skal!

eg, duptsins verð sem veit,
votta: það tvennt, sem hèr
felst dáið dupt í reit,
dýrmætt er fyrir mèr.
Musteri manndygðar
Magnús Þórarinsson
af mèr byggt áður var,
á því spratt kikaion[1],
Sigríður, sáð af mèr,
síðan strax híngað flutt —
minn visdóms vegur er
veru-dvöl þeirra stutt.
Tel ekki mein þín mörg,
móðir og ekkja tvist,
mín ástkær *Íngibjörg!*
ekkert þú hefir mist:
það mitt, sem þèr eg gaf,
þitt verða læt eg senn,
og dupt, sem dáið svaf,
dýrðliga gjöri menn.
Allt tal mitt eiðskrapt ber,
eiður minn hvergi brást,
visdómur vald mitt er,
vísdómur minn er ást;
það er, æ þessu trú!
þín farsæld óefuð,
að eg, en ekki þú,
er allsráðandi guð."

* * *

[1]) Kikaion er kallaður í ritníngunni viður sá, sem Jónas spámaður sat undir þegar hann var í Ninive.

Met verð þitt, maður! rètt,
manndygðin þaraf rís;
að deyja lízt ei lètt,
lærist — þá ertu vís.

## 21. JÓN JAKOBSSON,

sýslumaður í Eyjafjarðar sýslu, andaður 1805. Minningarljóð þessi eru prentuð hèr eptir tveim handritum.

*Lag: Sólin upprunnin er.*

Enn lætur náhljóð nýtt
Norðurland heyra,
því framar stirt og strídt
sem sturlar fleira;
æ, nær mun neyð
nóg plágað Ísland hafa?
af raunum ofþjakað,
ætla forlögin það
í grát að grafa?

Heill er og heiður lands
höfðíngjar góðir,
og máttur stjórnar stands
stórir fjársjóðir;
sá missir má
mest því af öllu græta
nær andast miklir menn,
er máttu' og vildu senn
böl þjóðar bæta.

Frá vorri sviptist sjón
og samfèlagi
valdsmaður jöfurs *Jón*
*Jakobsson* frægi,
sá lengi lífs
lögstjórn bar Eyjafjarðar,
þau munu verða völd,
vor meðan lifir öld
hans heiðurs-varðar.

Ó! að eg öflgan dug
eptir skaplyndi,
og orðsnild eptir hug
innan-brjósts fyndi!
höfðíngligt hrós
sem hæfir á að minnast
afgengins yfirmanns,
einkum þar líkar hans
mjög fáir finnast.

Hann rèttnefnd hetja var
að hug og kröptum,
engum til ófriðar
nè ángurs sköptum,
heldur hvers manns
heillir í sínu standi
að styrkja, gjöra gott,
guðhræðslu margan vott
í ljós leiðandi.

Lærdóm og listir mjög
lofsverðar hafði,
stundandi stjórnarlög

sem stètt hans krafði;
guðrækni' og greind
gjörðum hans jafnan stýrði
dygðunum forsvar fèkk,
en fals og vondan hrekk
með röksemd rýrði.

Embættis útrètting
öll fór með sóma,
róliga rækti þing
rèttvísin fróma;
undirlýð af
ei krafði meir' enn skyldi;
utan- og innan-lands
æ voru dómar hans
í góðu gyldi.

Í hyggnu hjarta skein
hógværð ríkjandi,
og dagfars hegðan hrein,
sem hæfði standi;
höfðingjans hönd
hjálpar þurfendur kyssi!
líknar ölmusum af,
opt sem hin hægri gaf,
sú vinstri' ei vissi.

Hann bæði hèt og var
hússfaðir bezti,
með heiðri bústjóru bar,
blíður við gesti;
helst hjarta síns
hèr syrgir nafnfræg ekkja; —

segi, hvort sè um of
súngið hans dygða lof,
þeir menn, sem þekkja.
Háttnefndur herra dó
harmaður þjóðum,
en látinn lifir þó
í lofstír góðum,
hugljúfur helzt
hverjum, sem rètt um dæmir,
gæflyndur, góðfús, hreinn,
guð veit nær slíkur einn
hans sæti sæmir.
Hans elska heit og klökk
í hjörtum lifir;
lofsæld og lýða þökk
legstað hans yfir;
hve má hans ból
hefja, sem sèrhverr þekkir?
mín ófróð andagipt,
öldruð og megni svipt,
því orkar ekki.
Vèr söknum maktarmanns
af miklum trega,
og minníng heiðrum hans
svo hjartanlega;
hún blómgast blíð
þó bein í jörðu rotni;
ljómandi lifir önd
líkama frjáls við bönd
í dýrð hjá drottni.

## 22. MAGNÚS JÓNSSON,

bóndi að Stóra-Hamri við Eyjafjörð, andaður 1805. Í erfiljóðum þessum kveðst skáldið hafa ætlað að svara spurníngu þeirri: "gat ekki heimur þessi verið án opinberunar". — Eptir tveim handritum.

*Lag: Þér mikli guð! sè mesti pris.*

---

Heims vit-gortarinn hlær að því:
á himnum drukkið brúðkaup sè;
sá dári ræður ekkert í
annað, enn sèr á jörðunni.
Líkaminn er hans lysti-slot,
lýsir þar eintómt sansa-vít,
en nær sem að ber þeirra þrot
þekkíngin er sem myrkrið lit.
Æfintýr heitir andligt mál,
ekki þess vert að hlusta til;
að fóður þurfi sèr likt sál
segir hann fjas og barna-spil.
Það er samt ekki meiníng mín:
muni líkamlig giptíng nein
á himni framin, heldur skín
hèrí samlíkíng fögur ein.
Útvaldra skarar aukast þar,
en aldrei skerðast svo sem hèr;
fyrir skuld vorrar fækkunar
fjölga jafnóðum þurfum vèr.
Eilífðin tekur öllum við,
umbreytíng þar ei finnur stað,

manns-sjón var tillukt hennar hlið,
hann mátti' ei skygnast inní það.
Kristur af himni kom á jörð;
kenníng hans er það lífsins orð,
sem hans dýrkeyptu sálnahjörð
seður við andligt náðarborð.
Kom enginn, er svo kenndi bert
kjör manna, þegar deyja burt;
til hvers þú ætluð, sál mín! sèrt
svarlaust eg annars hefði spurt.
Er þá heiminum óþarflig
opinberun, sem fræðir þig
um sáluhjálp og sannan veg,
sem til hennar kann leiða mig?
Hefðir þú alltaf fálmað fæld
frammí eilífðar myrkrin köld,
hvar væri það, sem heitir sæld? —
hvar væri sköpuð bezt veröld?
Hvar yrði fundin huggun sú,
harma vors lífs sem stilla má,
ef kristindómsins ágæt trú
ei væri til að sykra þá?
Kann fríþeinkjarinn segjast sæll,
er sèr innhirlar það hann vill,
en er síbundinn sansaþræll?
sýnast mèr kjör hans mikið ill.
Eða hví skal sèr aptra sá,
enga guðliga' er hefir trú,
að fremja vont sem mest hann má,
meðan hans varir eina *nú*?

Þann óhultari veg eg vel,
(vísar skynsemin mèr þar til):
hvern dygð fylgjandi trú eg tel,
tvísýnna víst er hinna spil.
Viljir þú kalla þjóðir þær,
er þekkíng þrast á guði' og sèr,
farsælli' enn hinar, ertu ær,
og öllu miður varið þèr.
Sè vilji guðs, að verði menn
vísir og góðir, eins og hann,
fæst betra meðal annað enn
orð hans, sem þetta verka kann?
Ef án þess hefðum verið vèr,
vondir og heimskir fyndi svar:
"eg er þvílíkur, af því mèr
ei betri leiðsögn gefin var."
Ennfremur, hvernig afsökuð
yrði sú stjórn, og metin fríð,
ef hefði liðið alvís guð
óþarfan hlut svo lánga tíð.
Sem valdið hefir sífelt hèr
svo stórum hlutum meðal vor,
og jafnvel blindum auglýsir
áþreifanliga guðdóms spor.
Hvort nauðsyn, eða hendíng ein
heimsins sköpunar orsök mun?
hendíng gat verið hèr ei nein,
heldur guðs staðföst ályktun.
Hún hlaut að vera nauðsyn nóg
nýr heimur skópst og fèkk sitt lag;

guð ákvarðaði víst og vóg
veraldarinnar allan hag.

Í henni hvað sem er og sker
áleit hann vera skyldi þar;
því væri' ei sá sem höfum hèr
heimur án opinberunar,

Ein veröld fyrir utan sól,
en þótt hún gæti verið til
sízt væri þessi, sem oss ól,
söm eru fyrir hinu skil.

Nú skyldi þessi, en annarr ei
af guði sköpun heimur fá;
mun geta kveðið nokkurr nei
við nauðsyn vorrar trúar þá?

Ályktan mín skal óhikuð:
*annaðhvort reynist trú vor góð,*
*ellegar þar er enginn guð*
*og einber lýgi villir þjóð.*

Nú þar hið seinna neitar sèr,
nóg það hið fyrra bevísar;
já, Krists lærdómur öllum er
æðri kenníngum veraldar.

Hann er sú eina hjálpar lind,
sem huggað getur mannsins önd,
með líknarfregn um lausn af synd,
og lífs pant gefinn útí hönd.

Ekkert fær snúið, utan hann,
ótta dauðans í tilhlökkun,
og ekkert bugað óvin þann,
er nokkuð jafnt við þá miskun?

Hann kennir allt, sem heill er að;
hann brýtur allt, sem kreinkir frið;
hann innibindur ekkert það,
sem ítra skynsemd hryllir við.
Að hreinsa' og betra hjarta manns,
helga viljann og girndir eins,
í því er kraptur hæstur hans,
heimur þó slíkt ei meti neins.
Hann er sèrhverrar stèttar stoð,
stjórnarvaldinu mesta lið,
ef vel er rækt hans eina boð:
að elska guð og mannkynið.
Að hefja dygð, en hepta löst,
hans er augnamið jafnan fast,
umbun og hefndar eptirköst
ávísandi sem nákvæmast.
Hann leiðir skilning veikan vorn,
sem vorkunsamur faðir barn;
hvar sem er hindran fyrir forn
frá tekur hann svo mildigjarn.
Sálna rèttlátra sælgætið
sýnir í skuggsjá afmálað,
hið bezta líkt í veröld við,
vèr svo skiljandi girnumst það.
Konúngligt brúðkaup kallast því
kristninnar tign og verðlaun há,
þó er heiminum ekkert í,
er viður jafnast sælu þá.
Forspil hennar er fyrst á jörð,
fullkomnan sjálf í himnadýrð;

mun hún þar verða meiri gjörð,
enn manna túngum fáist skírð.
Jarðneskum skilníngs-mæli með
megum vèr ekki grípa það,
sem ekkert hefir auga sèð,
engum er heyrt nè þenkt í stað.
Þartil vèr ljósið sjáum sjálft
sè skinið nóg, það út er deilt,
ei mundi skamtað minna' enn hálft,
meðtekið ef vèr gætum heilt.
Andliga verður oss hèr kend
undir jarðneskri brúðkaups mynd
guðs föðurs öll, fyrir soninn send
syndugum mönnum, gæzku lind.
Sonarins ást og sameiníng
við sálir vorar, heit og laung,
eru hjónabands helg líkíng
(heimi þakkarlaust) ekki raung.
Ó, hvað hug mínum er hún kær,
örfast hann þarvið láugtum meir,
enn innbirlíngar öfgar þær
einúngis snerta kvikan leir.
Svo hulinn sönsum helgidóm
hvað mundi betur leiða fram,
enn sú alls hugar eining fróm,
er guð hèr fyrsta stipta nam?
Elska, fögnuður, yndæl kjör,
eru brúðkaupsins veitíngar,
sèrhvers, sem gleður, útlát ör
enginn veit fyrr enn reynir þar.

Ástvina missis sorglig sár,
á sinni tvistu þeim sem ber,
þessi lausnarans kenníng klár
hinn kröptugasti plástur er.

Ó! hversu verður unun sú
eptirþreyjanlig sálunni,
er eg veit: sá eg elska nú
undan mèr þángað kominn sè.

Hèrmeð sèu þá huggaðir
hugir þeirra, sem treginn skar,
þá mæta-vinar mistu hèr
*Magnúsar* sæla *Jónssonar.*

Sómamaður í sinni stètt
sá frambar margan trúar vott,
sanna guðhræðslu rækti rètt,
ráðvandur æ sèr tamdi gott.

Hann þág vel herrans brúðkaups boð,
batt fastar trygðir við sinn guð,
manna vinur, og manna stoð,
mönnum hvervetna sárthörmuð.

Sálin, hèr náðar södd við borð,
sýngur nú drottni þakkargjörð,
fyrir hans góða guðdóms orð
gefið híngað á vora jörð.

Og mín með veikri rauna raust
reikandi mædd og himinþyrst
ódauðligleikans tignartraust
túlk, sinn brúðguma, Jesúm Krist.

## 23. HALLDÓR HJÁLMARSSON,

"konrektor" við Hólaskóla 1773—1785, og síðan í "rektors" stað um fjögur ár, andaður 10 Júlím. 1805. Minníngarljóð þessi kallar skáldið "náfrètt, eður ráðvilt raunatal við framliðinn ástvin". — Eptir þrem handritum, og er eitt skrifað af Rask eptir eiginhandarriti.

*Lag: Hvar mundi verá hjartað mitt.*

---

Hverr dagur hefir sína sól,
samt skyggir stundum á;
ei geta verið alltíð jól,
ýmsu títt fyrir brá;
vant er lukkunnar valta hjól
að vendast til og frá;
en hvort á eg að hverfa í skjól,
sem hvergi frístað sá?

Ef hásumarið gjörir gladt
geð fólks, og brjóstin hlý,
til hvers mèr þá í trega hratt
tíundi Julii?
ef hann tók frá mèr burt og batt
bezta hnoss veröld í;
ástvinur *Halldór!* er það satt?
eg varla trúi því.

Að dauðinn slíkan eins og þig
á ráðist dygða vin
undrar svo mjög, sem ángrar mig,
er það ei heldur kyn;

sú feikn var laungum furðanlig
þeim framar báru skyn;
en raun á þessu sýnir sig,
sárt eg af henni styn.
  Umgengni þín svo ástúðlig
yndi mitt forðum var;
viðtal og rit, sem virtir mig,
voru mèr gersemar.
Gat nú einíngin sundrað sig,
er saman hugi bar?
æ! tala vil eg enn við þig
orð mèr til skemtunar.
  Saman við margan sveittumst dag
og sváfum marga nótt;
samlyndið gjörði sætan hag,
sèrhvert ónæði rótt;
þó tíminn sliti það fèlag
þraut aldrei kærleiks gnótt,
gat — ónei! — honum grandað slag
ens grimma dauða' og sótt.
  Skynsemi þín og skýlaus dygð
skilin er við þig sízt,
ánægja mín, en aldrei hrygð,
enn veit eg þaraf hlýtst;
von er mig þína tregi trygð,
þá tíminn illa snýst;
víst mundi þèr, ef vissir, stygð,
af vörgum nær eg bítst.
  Hverr veit, nema þín háleit önd
heyri það vinur gól?

hugur minn fer yfir lopt og lönd
lángt ofar vorri sól;
hvað þá, sá engin hindra bönd,
en hærri kraptur ól?
það er að eins við þessa strönd
að þurfum holdlig tól.

Hverr veit nema þú iðkir enn
íþrótt, þèr tama víst,
gott fyrir aðra' að mæla menn,
og mig þá ekki sízt?
þín frjálsa dygð, nú fullkomin,
fram án hindrunar brýtst,
máske fræðarinn [1] sjáist senn,
sem mèr fær þetta lýst.

Nær sem aðstoðar var mèr vant
vottaði hjálp þín sig;
og hvað þú jafnan gáðir grant
að greiða' en bágu stig!
hverr veit, nema þèr enn sè annt
um það sem hendir mig,
og þú víst bætir öll, sem kannt,
áföllin hryggilig!

Fyrst ódauðligt var allt hjá þèr
annað enn það sem dó:
líkama veiku limirnir,
líka dýrmætir þó;
hverr veit hvað dýrðligt orðið er
eðlið, sem guð þèr bjó?

[1]) þ. e. dauðinn; sbr. Pópes Tilraun um M. I. Brèf I 203.

eja! það bíður eptir mèr
í þinni sælu ró.
Ástartrygð þín, sem aldrei sleitst,
enn fellur mèr í vil,
í betri veröld endurreist
eptir skammt tímabil;
nær þessi sál, af líkam leyst,
leikur þín gleði-spil;
æ! seg mèr, seg mèr, ef þú veizt,
er nú lángt þángað til?
Verkfæri guðs í hendi hèr
til hjálpar mörgum varst,
og unaðsemdar, eins sem mèr,
æ meðan fjör til barst;
ráðstöfun hans það einnig er,
að þessi strengur skarst,
og eg með því sem enginn sèr,
andvara-teikni snartst.
Hverr var ella, sem hvatti mig,
hvíslandi mèr í brjóst [1],
fúsum að sjá og finna þig
í fjærlægð, áður enn dóst,
við efsta lífsins staddan stig,
af stað þá hèðan bjóst,
án þess að nokkurr sýndi sig,
sem mèr það gjörði ljóst.

[1]) Þá konrektor sál. Halldór lá banalegu sína, virtist sèra Jóni vakanda, sem einhverr hvíslaði að honum þessum orðum: "Viljir þú finna vin þinn, þá farðu strax!" en þá vissi hann ekkert um hversu Halldóri leið.

Syrgjandi-glöðum sýnt var mèr,
þar sóttust Dygð og Hel:
hvílík deyjendum heill það er
að hafa lifað vel;
í efstu neyð þú auglýstir
ánægt og rósamt þel;
mart gott eg læra mátti' af þèr,
en mest eg þetta tel.

Nú, þótt eg syrgja megi mest,
sem missi stærstan hlaut,
og hvern *þú* sífelt annaðist,
því optast var í þraut;
samt heyrði margur sáran brest,
er sóttin líf þitt braut;
þú eptirlæti' og unan bezt,
sem Ísland góðs af naut!

Lædómur þinn og listasafn
ljós var, og sómi hreinn;
fár vorra landa fannst þèr jafn,
fremri víst ekki neinn;
þú ræktir meira rentu' enn nafn,
reyndi það margur sveinn[1];
minn fyrir veika mærðar stafn
meðbyr og leiðarsteinn!

Verkin, sem orðin, voru hrein,
vitur og rík af snilld,
athugi' og röksemd á þeim skein,
en engin tálfordild;

[1]) þ. e. lærisveinn.

ásýnd hègómans aldrei nein
af þèr var metin gild;
betri mèr draumsjón er þín ein
enn ótal dára fylgd.

Þig áttu, fram að dauða-dúr,
dygðir elskhuga sinn,
ráðsvinnur, hollur, rèttsýnn, trúr,
í ræðum viðfeldinn;
vinum stöðugur varstu múr,
valdi þá forsjálnin,
hvort sem kjör báru sæt eða súr
sami var hugur þinn.

Allt var þitt dagfar elskuligt,
með yndi fjölkryddað,
öllum hógvært, en engum styggt,
eins gladt í hverjum stað;
eitt orð mín tíu vann í vigt,
því vizkan samdi það,
á merg, enn ekki mælgi, byggt,
svo mesta gagn var að.

Sitt hefir dauðinn sorgarstrik
sett nú þar gleðin stóð,
ó, það hryggilígt augnablik!
ó! þvílíkt harma flóð!
mín námdís raular, naumast kvik,
nás-orðum feigðar ljóð;
svo læt eg af, og seinast lyk
saungva með þessum óð:

Æ, líf blessaður elskuvin!
upphrópa þánkarnir,

við dauðans meðan dyr eg styn
og dapran trega ber:
önd mín við kjörin huggast hin,
sem himin veitti þèr,
sú ein tilhlökkun sízt er lin,
að sömu geymist mèr.
Endurminníng með ást og hrygð,
iðugligt þakkarmál,
síféldur heiður brjósts í bygð,
blandinn við trega-skál,
þrátt skulu goldin þinni dygð
unz þrýtur æfin hál;
andlátið holdi', en ekki trygð,
afklæddi þína sál.

## 24. HALLDÓR HJÁLMARSSON OG GUÐRÚN JÓNSDÓTTIR.

Hún andaðist 26ta Nóv. 1805. Skáldið kallar erfiljóð þessi "eina hjónaskál fyrir tvöfalt dauðaminni". — Eptir fimm handritum, og er eitt eiginhandarrit, en annað hefir Rask skrifað eptir eiginhandar-riti.

*Lag: Kom hèr, mín sál! og kynntu þèr.*

Er nú fullslegið, eða hvað?
á samt að bæta við?
skuli svo dygðar strídt á stað
steypist fljótt hennar lið.

Harmur og dauði hjálpast að,
henni ma ríða' að fullu það
á stuttri stundar bið.
Vèr rennum, kvað hið vísa víf,
viðstöðulaust í jörð [1]
sem vatn, því engin hamlar hlíf;
hèr er æ raun á gjörð,
þar börnum guðs hið bitra kíf,
sem beiskir allteins dauða' og líf,
í tár úthellir hörð.
Þaraf sjálft lífið þoldi hrygð
þegar Lazarus dó [2],
og bista fann í anda stygð
þar æ var guðlig ró,
er hann sá, hversu dýrust dygð
dauðans má hníga fyrir sigð,
sem hvern dag heyrist þó.
Nær dygð og vizka fækka frekt,
frómlyndra grætist þel,
heimskum og vondum það er þekkt
og þykir ára vel;
því stritar þú svo stórri sekt?
sturlan og hel þèr vilja drekkt,
hjartans Hofstaðasel! [3]
Þú hefir benjar þolað tvær,
þeirra hvor nóg var sár;

---

1) 2. Samúelsb. 14, 14.
2) Jóh. guðsp. 11, 33.
3) bær Halldórs Hjálmarssonar.

að margra hjörtum þrengja þær
og þvínga' af augum tár.
Halldór dó, jörð og himni kær,
hans ekkja Guðrún dygðaskær
er síðan orðin nár.

Ó, hvað, dauði! þú ávannst hrós!
en hvað þèr tókst svo vel
slík döpruð tvö að slökkva ljós!
slá tvo aldraða' í hel:
stakan snillíng og dygða drós!
digra nafnbót þèr fyrir það kjós —
níðíng og tjónvarg tel!

En sjá, hve þessum, sem þú hjóst,
sárið til græðslu varð,
því annað hærra' og betra brjóst
hjó þaraf góðan arð;
þó situr eptir, það er ljóst,
þeirra tveggja sem niður slóst
dýrgripa dapurt skarð.

Nær að hins fyrra láti leið
loptið grèt yfir jörð,[1]
teiknandi, hversu tjóns því sveið
tilstofnun henni gjörð;
mèr spáðu, því svo mjög á reið,
missi í þvílíks vinar deyð
tíð skýja-tár á svörð.

Eðalstein himin áður gaf
unnustu sinni þann;

[1]) Þann dag (10da Júlíi) var steypi-regn.

hvort hafði styrk og unun af
öðru, sem til kaus hann;
bæði þau öflgum studdu staf
þann stoðar þurfti böls við haf
og glöddu margan mann.

Kristalli tærra kærleiks geð
Krists-halli[1] skein af þar;
hún og samræðum helgum með
handgengin drottni[2] var;
hvort um sig, ei að hendíng skeð,
heldur af guði til valið,
sitt nafn með sóma bar.

Að dropið hafi' af Drupni hríng
dýrmætir gullbaugar
er ein skröksamlig uppfinníng,
en ekki meira þar;
en af háðum, þeim eg um sýng,
á himin sprottin mæta-þíng,
lífs hèr og líka þar.

Fastara' enn segulsteinn og stál
strengdu þau fylgðar-eið;
samhuga með sèr skiptu skál,
er skenkti lukkan greið;
því hvort var annars hjarta' og sál;
hugrenníngarnar, verk og mál,
allt stefndi' á eina leið.

[1]) Hallurinn í Hallþórs nafni er hèr eignaður Kristi í stað Þórs.

[2]) *guðrún* eður guðs rúna, þ. e. guði handgengin, unnusta guðs.

Allt stefndi til að gjöra gott,
að gleðja' og styrkja þjóð,
efla farsæld, en bægja brott
böli sem móti stóð;
tjáir þess margur traustan vott
trega sáran og hvarma þvott,
að hjálp sè horfin góð.

Tíminn kom loks, að herrann hár
heimti sinn eignar rètt,
þau höfðu, lènt um allmörg ár,
orðin lífdaga mett,
vel endað skeið og verk sín klár
vandað, svo lengst í minni stár
á fold þeim fyrir sett.

Hann vissi það, sem Heli fyrst
helftina sækja bauð:
hin mundi deildin himin-þyrst,
heims viður sorgar-brauð
eptir skilin í einsemd tvist,
upp fljúga brátt í sömu vist,
sinn til að öðlast auð.

Hold þó að væri hjónin eitt,
helið gat sundrað það,
en sálarinnar samband heitt
sízt mátti skiljast að;
elskan og dygðin óumbreytt
afl láta sig ei hræra neitt
frá sínum samastað.

Hverr getur fjölda talinn tjáð
trúar góðverka þann,

er þau sífelt með iðn og dáð
aldur svo lángvinnan
í herrans akur höfðu sáð?
á himnum gjörvallt það var skráð,
er þar og uppskeran.

Hví skyldi þá ei harma flóð
af hverri dynja brá?
því líka þeirra lands hjá þjóð
lengi mun bágt að fá:
hann var djúplærður, hún mjög fróð,
hreinskilin bæði, stillt og góð —
en eru fallin frá.

Guði sè lof! sem gaf og tók
góðmenni blessnð baug;
þó talan fækki' í tímans bók
við trygð, sem burtu flaug,
hinn söfnuðinn það jafnan jók,
frá jörð sem dýrðar vögnum ók
í alda betri baug.

Þó lifir minning þeirra skær
þjóð meðan byggir Frón,
og ættar-plöntun eins frábær
eptir þau dygða-hjón;
þaðan upp spretta vonum vær
verðug blóm fyrir rætur þær,
að bæta beðið tjón.
*eða:* er það og allra bón.
*eða:* gleður það gamlan Jón.

## VIÐBÆTIR.

Eptir enum sömu handritum. Með sama lagi.

---

Eyrindi, dauði! eg á við þig
eitt um geðsmuna kaun:
um atferli þín undarlig
er eg kominn að raun;
þá sem minn greiða þrauta-stig
þú tekur burtu fyrrenn mig;
er það straff eða laun?

Hefnd getur aldrei heiminn skeð
af himni fyrir gott;
skynsemin sjálf og skriptin með
skop væru þá og spott.
Halldórar tveir og Hjaltesteð[1],
helzt eru, sem eg til þess kveð;
þú kipptir þessum brott.

Straffið er þarí máske mitt,
en meginheill fyrir þá,
og við það gleðst eg held'renn hitt
þó hjartað særist á:
undir harðýðgis ofboð þitt
athvarf að vita hnigið sitt,
en slippur eptir stá.

Þarámót einkis sýnist sek
sú hönd, mig gjörði þjá,
heldur er aukið þor og þrek

---

[1]) Halldór Hjálmarsson, Halldór Þorgrímsson og Einar Hjaltesteð.

þeim sem mèr níðast á. —
Gæt, að ei snerti feigðin frek
(fyrir því helzt eg vara tek)
guðs öldu-gelti þá!

Kærleikur sá er kannske synd:
að kenna' í brjósti' um þann,
er þess var sjálfur orsök blind
að eymdin sligar hann,
þó skín hvað fegurst þar á mynd
þess, sem er allrar gæzku lind,
að maður aumki mann.

Þú fyrst jafnóðum þannig slær
þá nauðum firra mig,
mun vilja nokkur vera svo ær
að vita feigan sig?
hvern mun þá senda himin kær
og hvenær? til að stytta þær, —
á morgun máske þig!

---

### ANNARR VIÐBÆTIR.

**Eptir tveim handritum.**

*Lag: Þèr drottinn! þakka eg.*

---

Heilögum hjónabeð
heyrir til þetta blað,
þar heiður, manndygð með
mætri, fèkk hvíldarstað;
*Haldóri Hjálmarssyni*
*Guðrún Jónsdóttir* öll hneig að.

Skólans á Hólum hann
heyrari lengi var,
og fyrir yfirmann
einneginn kenndi þar,
með stórum gáfum gæddur,
lærdóm, kostgæfni' og lempni bar.
Hún með eins hárri dygð
hússmóður prýddi stètt;
þau voru' að þekkri trygð
þjóðkunnug bæði rètt;
því mun í blessun blífa
minníng þeirra hjá mengi sett.
Hel vann með heiptar-dug
honum sextugum á;
hafði nær hálfan tug
hún yfir sjötugt þá;
á aldar ári fimmta
nítjándu bæði fèllu frá.
Bæði þau, helg og hrein
að himnabúum gjörð,
lifa, þó bíði bein
blómgunar, geymd í jörð,
auga guðs alltsjáanda
yfir þeim heldur traustan vörð.

## 25. ERLENDUR JÓNSSON.

Prestur að Hrafnagili og prófastur í Eyjafirði, fæddur 1728, andaður 1807. — Erfiljóð þessi eru hèr prentuð eptir tveim handritum.

*Lag: Þèr drottinn! þakka eg.*

---

Hèr sáð í helgan stað
himinsins fræi var;
en — hve má blek og blað
blómfegurð auka þar
holds-leifum heiðurs verðum
herra *Erlendar Jónssonar?*

Ónæði fluttist frá
framandi mæðustands
lífdaga saddur sá
í sælu föðurlands;
öldúngur engla jöfurs
inn er genginn til hvíldar hans.

Í prests og prófasts stètt
prúður stóð lánga tíð,
ást honum athöfn rètt
ávann hjá guði' og lýð;
guðhræddur, gott elskaði,
gætinn, hóglyndur fyrr og síð.

Fræðara, föður, vin
frábæran höfum mist;
því má ei þykja kyn,
þó treginn margfaldist,

og lifi lengst í brjósti
látins ástvinar minníng tvíst.
Ó, hvað er umbun hans
eptir svo lángvinnt stríð
í faðmi frelsarans
fagnaðarsæl og blíð!
vèr eigum von hins sama,
og þreyjum eptir þeirri tíð.

## 26. L.... ENN DANSKI.

Þessi maður gaf peninga til verðlauna dugnaðarmönnum í Norður og austur-amtinu á Íslandi 1798, og orti þá sèra Jón til hans þakkarkvæði í Íslands nafni; en hann andaðist 1807, nokkru áður enn Englismenn herjuðu Kaupmannahöfn. Sèra Jón kallaði minníngarljóð þessi: "L—s ljóð, ort af *Íslands Þorra*". — Eptir tveim handritum.

GRÆTUR eitt auga,
en annað hlær,
þegar mikið mein
minna verður
af því undan gekk
öðru stærra,
þó er aum æfi
þegar árar svo.
Aum er æfi þín,
Ísland, móðir!

mart blæs á móti
um mundir þessar:
lifa lemstrendur,
en líknin deyr,
burt er ókennt L,
sem þig elskaði.
Dó "enn rèttlyndi
rausnarmaður",[1]
en hann dó áður
enn ógnir skeðu,
tvísýn tiðindi
tímans vegna,
gráts og gleði
fyri Garðarsey.
Hverr vildi vin sinn
vita staddan
í þeim ósköpum,
sem á gengu,
og í eymd þeirra,
er eptir lifa?
helzt-til margir hrjást
þó hann dæi.
Hann sá aumur á
ókenndri þèr,
og fann fjærlægur
fátækt þína;
hve mundi honum
hörmuligt þá,

[1]) Þannig nefndi skáldið þenna hinn ókennda mann í þakkarkvæðinu.

að sjá sína þjóð
sárt útleikna?
Hèr var himins vin
hentugliga
afsíðis vikið
undan fári;
vissum varðengli
var það boðið,
dauði heitir hann
meðal heims þjóða,
vinur á himni
og velgjörari.
Hèr er hönd auðsèn
hæstu stjórnar;
hèr fóru hirting
og hlífð saman;
heill er að hirtast
sèr til hjálpræðis,
en vei þeim vargi,
sem er vöndur guðs.[1]
Víst máttu vesæl
vinar sakna,
engi unni þèr
ókenndur svo;
grát þú helför hans!
en hinu fagna:
að hann ekki sá
ógæfudag!

[1]) Esaias 10, 5: vei Assúr, sem er vöndur minnar reiði! þetta víkur til viðskipta Dana og Engla.

Ei á marmara
nè á málmspjöldum,
eigi með stálstíl
nè stöfum jarðar
skal oss unnt að skrá,
þó skyldugt sè,
dáins dygðamanns
dulið heiti.
Í blíðu brjósti
er það bezt ritað
mjúkum minnisstíl
með og elsku,
hann skal æ hjartkærr
og barmdauður
þèr, fold, móðir mín!
og mèr vera.
Blundi bezta manns
bein í friði!
lifi lof og þökk
yfir legstað hans,
og þessi þánki:
að þar hvílir
frábær fólks vinur
færstra líki!
Sè eg svefnhús það
sem í draumi
umkríngt af Íslands
elsku-þokka;
sá vissi verk hans
og vo fyri dyrum,

er þær aptur lèt
eptir vin.
Hann hefir nýtt nafn
nú á himni
ágætt öðlast[1],
sem engi þekkir
utan þeir einir
sem öðlast það;
stöðugt stendur það
á steini hvítum
vegligs verðkaups
og vitnisburðar.
Meira skyldi mælt,
ef mæla þyrðag;
verður var hann þess,
en hann vildi sízt
tignast af tíma,
þó til þess ynni;
mèr skal, unz mætumst,
minníng hans nóg —
átján hundruð
og átta betur.

[1]) Opinbb. 2, 17: þeim sem vinnur vil eg gefa einn hvítan stein og nýtt nafn skrifað á steininn, hvert enginn þekkir nema sá sem það meðtekur.

## 27. SIGRÍÐUR MAGNÚSDÓTTIR,

kona Ólafs stiptamtmanns Stephánssonar, fædd 13 Nóv. 1734, önduð 29 Nóv. 1807. Erfiljóð þessi heita hjá höfundinum: "fáorð frægðarminning hávelborinnar, nú í guði hásællar frúr, Sigríðar Magnúsdóttur, minnar fyrrum ógleymanligrar húss- og velgjörða-móður", og eru prentuð með æfisögu hennar og minningarljóðum 1810, á Leirárgörðum, bls. 34—37. Hèr eru þau tekin eptir einu handriti.

*Lag: Ó, hvað maðurinn misjafnt sèr.*

---

Vert er, en ekki vegna mín,
móðurlát
eg með þèr gráti,
Ísland! vegna það er þín.
Sá sem tímanna veltu veit,
og vorra daga
kannar baga,
gleðst með þeim, sem leystan leit.
Gamall og þreyttur orðinn eg,
böls af sveimi
hèr í heimi,
horfi fram á dauðans veg.
Þó bannar skyldu-þánkinn mèr
um að þegja,
og ekkert segja,
tilburð þann, sem orðinn er.
Við höfum staka móður mist,
Frú *Sigríði*

ſoldar prýði,
því er von að þú sèrt tvist.
Dóttir ens mikla *Magnúsar*,
röð ei minni
sjálf í sinni,
stands og ættar verðug var.
Verðugt hlutskipti mesta manns,
allt þann mengi
lofar lengi,
herra *Ólaf*, heiður lands.
Þann man eg föður ſjærskyldan,
hana góða
man eg móður,
böl er mèr að hrygðist hann.
Hvenær að öllum hefir þú
dygðum, gáſum,
heiðri háſum,
henni borið meiri Frú?
Hvenær mun önnur, henni jöſn,
aðalblóma
og öllum sóma
krýna þinna kvenna nöſn?
Hvernig andagipt, helzt-til veik,
minna ljóða
má samhjóða
víſsins stóra verðugleik?
Það er með skari' að skíra sól,
skyldi' eg vilja
þèr fram þylja
ennar frægu Frúar hól.

Hún lifir enn, og lætst ei meir,
sálin lifir
aldir yfir;
aldrei heiður dygða deyr.
Hún lifir enn, og lætst ei meir,
ást og minni
í allra sinni
dygða-móður dána þreyr.
Eg flækist og í flokki þeim
hryggur, glaður,
mæðumaður,
þrái betra þessum heim.
Móður-velgjörðir miklar brádt
til að þakka
henni blakka
himnum á, þar allt er kátt.
Sú að uppfylling verði von
biður lúinn
braut að snúinn
burtlausnar — Jón Þorláksson.

## 28. MARGRÈT BOGADÓTTIR,

kona skáldsins, fædd 1751, önduð 10 Dec. 1808. Grafskript þessi er prentuð eptir tveim handritum.

*Lag: Upp hef eg augun mín.*

Hèr bíður heiðurs sprund,
heiti Margrètar skírt,

eptir upprisu-stund,
afkvæmi Boga dýrt;
fyrr dygð og gáfum gædd
guðs *perla* dylst í fold,
unz ljómar endurfædd
uppaf þessari mold.
Hvað tíminn hverfull sleit,
þá hvikul lukka brast,
eilífðin aptur teit
ein lætur samtengjast.
Svo kærleiks samdi hríng
sá leyndan trega bar,
í þess endurminníng
að eitt sinn hennar var.

---

## 29. RAGNHEIÐUR STEPHÁNSDÓTTIR

á Möðruvöllum, dóttir Stephäns amtmanns þórarinssonar. Hún andaðist 1810 á tuttugasta aldurs ári. Þrjár af grafskriptum þessum eru prentaðar eptir tveim handritum, en hin fjórða eptir þremur, og hefir Rask skrifað eitt af þeim eptir eiginhandar-riti.

---

I.

*Lag: Sólin upprunnin er.*

Midt í bland *möðrunnar*
á miklum *völlum*

ein tign og bjartleik bar
af blómstrum öllum,
listilig rós,
lands beztu rót af risin,
því nær fullvaxta frjó,
en fèll í Júníó
varð föl og visin.
Það skeði, þegar lètst
á þroska skeiði
*Ragnheiður*, meyja mest,
midt í lífs heiði;
stórs herra stig,
*Stephåns Þórarinssonar*,
konúngligs amtmanns, af
alin, sú hverjum gaf
fró vænstu vonar.
Nítjándu aldar á
ári túnda,
af dygð og heiðri há
hygginnar lundar,
átján og eitt
ár þegar lifað hafði,
Jómfrúr frá jarðar hag
Júlíí þriðja dag
köld gröf hèr krafði.
Hví dagar vegligs vífs
voru svo fáir?
svo styrkist lengra lífs
lærdómar háir!
mæta-hnoss mist

menn lèt himininn kenna
hrygðum til heimfýsnar,
hann og makligri var
enn heimur hennar.

---

II.

*Lag: Kom sæl mæt morgunstund!*

Ef vizka, fegurð, fremd,
foreldri ríkt og hátt,
æska, dygð, unaðsemd,
atgjörfi þeigi smátt,
siðprýði með og ment,
mætti þeim vera hlíf
sem það ber,
svo hel ei hèr
hans gæti snortið líf,

Þá lèti þessi skript
þig eigi minntan á,
að hèr sè legstein lypt
lángsyrgðan yfir ná
Ragnheiðar, rèttvísum
ræsis vin borinnar,
*Stepháni*,
sem stjórn og fè
stètt gæddur amtmanns bar.

Nítjánda öld nær á
ári tíunda var,
en tignar-svanni sá
síns aldurs nítján bar

og vikur þrisvar þrjár,
þúngt eptir dauðans slag
Jómfrú há
var jörðuð á
Júlíí þriðja dag.
Svo hvíla sofnuð bein
af sárum þrautum frí,
en sálin helg og hrein
hærra stað lifir í,
æðra kyns iðnir við
enn orkað hefði á jörð,
himni þörf,
en heims fyrir störf,
helzt-til smá, ekki gjörð.

---

III.

Hverr má herma,
nema himin einn,
tölu tegundir
og tign vona,
sem lifðu' og lètust
með líki því,
sem hèr sefur
und sorgar-blæju.
Væn og vegligum
vafin blóma
rann upp *Ragnheiður*,
rós fegri mær,
af stórum stofni,

herra *Stepháni*,
hilmis hirðstjóra,
hávelbornum
þjóðmæríngi þeim,
*Þórarins* bur.
Verðugt var blómstrið
svo vegligs stofns,
háfum gáfum gædt
og göfuglyndi,
en aldurs árla
varð eðal-svanni
nítjan vetra nár
og níu vikna.
Þá var tímatal
tíu vetur
yfir eitt þúsund
og átta hundruð:
er það æskublóm,
þegar óx sem bezt,
dauðans fellt af fal
fólst í jörðu.
En það vex aptur
til eilífs lífs,
og vorar vonar,
með vífi grafnar,
koma loks í ljós
lángtum fegri; —
hún var himinsins
heims ekki meir.

IV.

Ár á öndverðri
öld nítjándu
taldist tíunda,
nær við tíð skildi
Frauken *Ragnheiður*,
fædd *Stepháni*
tiggjans amtmanni,
*Thórarensen*:
Um sumar-sólhvörf
varð svanna prýði
nítján vetra nár
og níu vikna,
jörðuð hèr þriðja
Júlii dag,
heiðruð á hauðri,
en á himni krýnd.

---

## 30. BERGUR ÞÓRARINSSON.

Hann andaðist 1811 og kallar skáldið grafminning þessa "Ziffru [1] yfir sæti Bergs sál. Þórarinssonar". — Eptir tveim handritum.

*Lag: Uppá fjallið Jesús vendi.*

---

Dygðum gæddan eins sem auði;
elskuverðan heiðursmann,

[1]) "Ziffra" lýtur likliga að því, að gömul skóla-venja var að rita minníngarljóð eða einskonar kvedju

út sem mörgum býtti brauði,
*Berg Þórarins son* nefndan,
sorg vekjandi sókti dauði;
sæti þetta grætur hann.
 Hálfáttræður hann frá sneri
heimi sèr til föðurlands,
himins nú í hámusteri
helgan sálin leikur dans,
en þótt fúa beinin beri
blessuð varir minníng hans.
 Atján hundruð voru vetur
vors lausnara burði frá
umliðnir, og ellifu betur,
andlát hans nær lukti brá;
aptni fyrr, enn ísa-setur
orðlögð skorpa tók að þjá.
 Sá harðinda strángi strengur
streymdi fast á vora lóð,
missir þessa manns þó lengur
minnistæður verður þjóð;
en hans dýri friðar fengur
og funda von er hressíng góð.

til þeirra sem skrifuðust út úr skóla, einkum þegar þeir komu sèr vel. Kveðja þessi var rituð í latínskum ljóðum, og utanum hana dálkur, lagaður einsog ziffra eða núll í tölu. Að miða grafminníngu við skólakveðju er skir líking.

## 31. SIGURÐUR BECH SIMONARSON.

Fæddur 20. Júlím. 1763, andaður á Bakka í Yxnadal 26ta Nóvemberm. 1811. Minningarljóðin eru prentuð eptir fjórum handritum, grafskriptin eptir tveimur.

*Lag: Þér drottinn! þakka eg.*

---

Helgidóm holdligan
helgidóms geymir mold,
fyrr geymdi hennar hann
hèr meðan bygði fold;
*Sigurðar Bechs* á *Bakka*
við guðs-hús þetta geymist hold.

Önd göfug hygði brjóst
bjart af guðrækni' og trú,
hönd gjöful lèt það ljóst,
að lýð elskaði sú,
góðverkum sífelt sáði,
sakna hlýtur þess margur nú.

Öfundar eitur-hjör
nær ýfðist honum gegn
sannheitinn *Sigurdör*
sigra lèt dygðar megn;
óvinum gott hann gjörði,
guðs verðugur og Kristí þegn.

Nauðstaddra vinur var
velgjörðasam'r og hýr,
höfðíngslund blíða bar,
í búskap gegn og skír,

gestrisinn greiða-maður,
góðhjartaður við menn og dýr.
  Trúfastur vinum vel
við engan tryggðir sleit,
hjálparfúst hafði þel
hverr sem þess fór á leit,
ójöfnuð engum sýndi,
í orðum merkur hèlt sín heit.
  Þannig fram leiddi líf
lofsverður heiðursmann,
unz börn og egtavíf,
eins dygðaríkt og hann,
örendur eptir skildi,
er sáran missi syrgja þann.
  Audt er nú rúm í röð,
rænt hefir dauðinn það;
hvenær mun gæfan glöð
gefa því hins í stað
annann, sem eins með prýði
geti það fyllt og forsvarað?
  Guð skamtar líf og lán,
látum *hann* ráða því!
heiminum hans ei án
hót minnsta skeður í,
eilífðin allt mun græða,
þegar vèr finnumst þar á ný.
  Sof, vinur! sæll í ró,
sál þín er guði hjá,
og þann, sem dupt hèr dó,
dýrðligan munu sjá

allir eptirlifandi,
sem dygð og elsku þína þrá.
Innan skamms trega-tíð
takmarki hnígur að,
þökk, ást og blessun blíð
blómga þinn hvíldarstað;
þeir vottar velgjörnínga
vara lengur enn þetta blað.

* * *

Hèr var heiðurligs
hold *Sigurðar*
*Símonssonar Bechs*
sett und leiði;
guð lèt göfuglyndt
góðmenni það
ná, í Nóvembri
ennar nítjándu
ellefta á ári
aldar, verða;
sjösinnum sjö ár
sómamaður
ól hèr aldur sinn,
unz allur varð;
hann var til hvíldar
hauðurs fenginn
dupti Decembris
dag seytjánda.

Geymir guð
göfugmenni
og til æðra lífs
upp mun vekja.

## 32. KRISTÍN DANÍELSDÓTTIR.

Kona Sigurðar Bechs á Bakka í Yxnadal, Símonarsonar; hún andaðist 1812. Skáldið kallar erfiljóð þessi "einfaldliga æruminning Kr. Dan. dóttur". Grafskriptin er ort sèrilagi, og er hvort um sig prentað hèr eptir tveim handritum.

*Lag: Þèr drottinn! þakka eg.*

Er eg að eins til þess
orðinn gamall á jörð:
að sýngja sorgar vers,
sífelt með trega gjörð,
um burtför beztu manna
og blíðrar dygðar örlög hörð?
Elligar skal eg einn
ángurlaus heyra' og sjá,
dofinn sem dumba steinn,
hvað dygðin líða má,
og sem mig engu varði
þótt enir góðu falli frá?
Hvert ángur meira má
í minni verða geymt,

enn rúm það audt að sjá
ör dygð þar hafði streymt?
og þó ný önnur spretti,
er hinni fyrri þarvið gleymt?
Mörg þau eg sæti sè,
sem fyrr ljómuðu' af dygð,
látandi tídt í tè
teiti, sem eyddi hrygð;
en nú sýnast en sömu
af sorg og hörmum yfirskygð.
Hvað er nú orðið af
Einari Hjaltesteð,
frábærum styrktarstaf,
er styðja marga rèð?
hvar ert þú Haldór góði?
hvergi þinn líka fæ eg sèð.
Hvar er Sigurður sá,
sem Bakka prýddi fyr?
harmur og hugar þrá
hjá mèr enn sitja kyr;
eg þángað aldrei horfi
án þess að verða gleði-skirr.
Og hún, sem eptir varð,
hans önnur sál, þá lètst,
jók nú hið skeða skarð
skilnaðar eptir frest.
*Kristín Daníelsdóttir*
dygðarík hèr ei framar sèst.
Þau unntust alla stund,
eitt hjarta beggja var,

hans sambauð höfðíngslund
hennar náttúrufar;
gjafmildt og góðfúst eðli
hvort þeirra jafnt í brjósti bar.
Fullt góðra verka víf
vottaði sanna trú,
aumstöddum hjástoð, hlíf
og hjúkrun veitti sú,
heimilis gagn og gleði,
góðlynd móðir við börn og hjú.
Orð guðs og elsku fljóð
æ virti stærsta hnoss,
því leið hún þolinmóð
þúngbæran reynslukross,
stöðug í sál og sinni,
ser hèlt við þann er dó fyrir oss.
Eins sjúk og heilbrygð hún
í hendur guðs sig fól,
og undir blíðri brún
bænar-eld heitan ól,
frelsarans faðm hafandi
sèr fyrir lífs og sálar skjól.
Líkaminn lá í kröm,
ljósið varð augum byrgt,
en sjónin trúartöm
tendruð, svo ei var myrkt;
hún bar sig hermannliga,
af sjálfum guði studd og styrkt.
Loks eptir lángvinnt stríð,
lífs og holds þjáníngar,

að kom sú óskatíð
sem endir þrauta var;
hún frelsuð dó í drottni
og dýrðar laun úr býtum bar.
Sofið nú sælu hjón
í sætri grafar ró,
ljómandi lambs við trón
lifa sálirnar þó;
minníng og mannorð vara,
mæðan að eins og duptið dó.

* * *

Heiðurligrar hèr
hold *Kristínar*
*Daníelsdóttur,*
ennar dygðauðugu,
sefur við síðu
sínum maka.
Þjáður þúngri kröm
þriðja svanni
árs í Apríli
eptir hann dó;
hún um það eina,
er eptir lifði
andaðist eldri
egtamanni;
hèr lögð til hvíldar
í hauðurs skauti
er hún átjánda
Apríls dag.

Þú, sem stendur
og þetta les!
lát dauðra dæmi
þig á dygð minna!

## 33. ÓLAFUR STEPHÁNSSON.

Stiptamtmaður á Íslandi, fæddur 3 Maí 1731, andaðist 11 Nóvember 1812. Hjá skáldinu heitir minníng þessi "oflitil ábreiða á fölt lík Ólafs stiptamtmanns Stephánssonar". Hún er prentuð áður við æfisögu stiptamtmannsins, í Viðey 1820, bls. 53–58. Hèr er hún tekin eptir tveim handritum. Fyrsta versið kemur og fyrir einstakt í tveim handritum.

*Lag: Hvar mundi vera hjartað mitt.*

Hugvekja sterk er, hverr sem deyr,
að heyra það og sjá,
er hjá oss verka má því meir
sem merkiligri' er sá;
þó sèrhvers erkilín sè leir,
laungum finnst munur á,
hvernig í serk þeim tjá sig tveir,
og til hvers guð brúkar þá.

Hvað má þessvegna, heyrt eða sèð
um heruð þessa lands,
harðara megni hræra geð
hærra sem lægra stands:
enn nýjust fregn um náfall skeð
ens nafnfrægasta manns?

heyr *Viðey!* gegnum hæsta trèð
högg gekk dauðligleikans.
Þraut lánggæð æfi, frægstum fylld
framkvæmdum margskonar;
samt yfirgnæfir æra gyld
Ólafs Stephánssonar;
stakliga gæfan stöðug og mild
stórmenni þessu var,
sem vitrum hæfir, vel með snild,
verðugt það hana bar.
Vor yfirmaður innanlands
æðstu bar tignarstètt
með stjórn heiðraður *stiptamtmanns*,
stundaði' og gjörði rètt;
bezti húsfaðir, bústjórn hans
blessaðist því svo lètt,
hvervetna glaður, orð og ans
æ lèt til þægðar sett.
Hyggindi vitur herra þekk
hjá sinni' að efla þjóð
með iðn og ritum undan gekk,
ei sparði þar til sjóð;
lærdómi, stritum, listasmekk
laun veitti jafnan góð;
þeim hamlað bitur fátækt fèkk
í föðursporum stóð.
Hávegum gramur hollan sèr
hann prýddi stórum með,
en hinn stjórnsamur ávann hèr
elskufullt þjóðar geð;

skilríki tamur, skipanir
á skynsemd hyggja rèð;
hvað sem til frama heillum er
hann vildi jafnan skeð.

Enginn var slíkur gefinn nè gjör
hjá Garðarshólma þjóð,
höfðingi ríkur, hógvær, ör,
sem hverjum gott af stóð,
hjarta-höl-mýkis hönd óspör
hellt lèt úr opnum sjóð.
Nær mun hans líkur ná í för,
nema sjálft Ólafs blóð?

Skyldi lángmæli skíra þær,
skínandi dygðir hans,
og þóað gæli' eg ángurvær
eyru full sèrhvers manns;
nei, því hinn sæli nær og fjær
nafns hefir fegri krans,
heiður, yndæli' og heill frábær
hann var síns föðurlands.

Líkaminn hèr til foldar frjór
með fjöld af árum dró,
hin deildin sèr til dýrðar fór,
drottinn gaf háðum ró,
lengst munu bera land og sjór
lofstír, sem hann sèr bjó;
hann var og er í heimi stór,
á himnum stærri þó.

Þó vanti pálma- veglig -trè
við hans að planta beð,

á stein nè málm ei stimplað sè
hvað stynur auðmjúkt geð:
hugur minn fálmar hvarflandi
til hans, þakklæti með,
og elskusálm í æru fè
inn til þess betur kveð.

Með prýði glæstan pálmavið
plantaði' hann sjálfur þó
kríngum sitt læsta molda-mið
midt hèr í lífsins ró;
aðalmeið hæstum afsprengið
æ verðugt þeim sem dó,
einkum hinn mærsta' og elzta nið
Íslandi trega-fró.

Lifi þá kvödd í auðmýkt önd
þess ódauðliga manns!
fagnaðar glödd við frægri lönd
og faðm ástkærrar hans;
vegligum södd af verkum hönd
værð hvílist líkamans,
unz fögur rödd þau brýtur bönd,
breytt í upprisu-dans.

## 34. ÞORLÁKUR ÞORLÁKSSON OG ÞÓRA JÓNSDÓTTIR

á Engimýri. Erfiljóð þessi voru samin á sumardag hinn fyrsta 1812, og var Þóra grafin á þeim degi. Þau eru prentuð hèr eptir þrem handritum.

*Lag: Kom sæl, mæt morguntíð!*

Veröld á víxl um kríng
vetur og sumar gá,
sundran og sameiníng
sjást þeirra stigum á;
þær eins til skiptis ske
skaparans eptir vild;
hverju stríð
lèt tvístrað, tíð
tengir opt saman mild.

Missera-tíma tvo,
teiknandi hel og fjör,
guð lætur sýna svo
sundurleit manna kjör;
tilkomu vetrar við,
visnar allt blóm á fold;
dauðans ber
það ímynd er,
sem anda rænir hold.

Sem vetur firrir frón
fegurð, en hylur snjó,
eins manna sviptist sjón
og sambúð hverr sem dó

hjúskapar bresta bönd,
bræðralag slitnar allt;
unan hrein,
sem áður skein,
öll verður hismi kalt.
Viðlíkt vottaði sig
vetur, sem hvarf í gær,
frá því hans fyrstu stig
fold vorri komu nær;
hann dauðans dapra mynd,
já, dauðann sjálfan, bar;
mjög hún skæð
og minnistæð
mönnum og skepnum var.
Dygðanna beztu blóm
burt sneið hans ægur ljár,
skarpan skilnaðardóm
skapa lèt ekkjum tár,
og barna brjóstum sorg
bana við höggvið skarð;
mæða ný
og þraut af því
þèr, Engimýri! varð.
Hans kalda komu við
kærstur húsfaðir þinn
lyktaði, lúinn bið,
lofsverðan aldur sinn,
hvers dygða minníng mæt
og mannorð aldrei deyr,
egta fljóð

og ástkær jóð
á lögðust harmar þeir.
Svo þreiði, sært í lund,
sannguðhrædt dygða-víf
egtamanns endurfund
og annað betra líf;
guð hennar andvörp á
og óskir mildur leit,
harmabönd
af hennar önd
og holdsins fjötur sleit.
Við sama vetrar þrot,
sem vakti skilnaðinn,
samfunda nýrra not
nú hófust annað sinn;
í sæng til hans kom hún,
heilbrigð og syndlaus gjörð,
sumars hrein
þá sunna skein
aptur fyrst yfir jörð.
Nú hvíla vært í von,
vöktuð af englum hèr,
*Þorlákur Þorláksson*
og *Þóra Jónsdóttir.*
Sálirnar vaka víst
við staddar himins trón.
Lifið sæl!
og ljóss- yndæl
-lönd byggið, elskuhjón!

## 35. BOGI BENEDIKTSSON.

Tengdafaðir skáldsins, alkunnugur merkismaður og að mörgu helztur allra bænda á Íslandi á 18du öld. Hann var fæddur 1723 og andaðist 10 Okt. 1803; bjó hann í Hrappsey lengst æfi sinnar. Minníngarljóð þessi eru ort 1813 í Ziffru, og prentuð í "Æfi-ágripi" þeirra lángfeðga í Viðey 1823, bls. 65—66; hèr eru þau tekin eptir bókinni og tveim handritum.

*Lag: Upp hef eg augun mín.*

---

Upprisu vissri von
verndaður hels um nótt
*Bogi Benediktsson*
blundar hèr undir rótt.
Heiðursvert höfðíngsmanns
hold að eins þessa dó;
ment, dygð og mannorð hans
munu lengst uppi þó.

Afsprengi margt og mætt,
og mikil verka not,
veita sæmd Íslands ætt,
og aðstoð fram á þrot.
Mæríngur feðra fróns,
frægstur í sinni röð,
mörgum var mýkir tjóns,
mildur þurfenda kvöð.

Vandaði vel sitt ráð,
vann með jafnlyndi þraut,
mat hærra dygð og dáð
enn dramb óg maktarskraut;

geðprúður, gegn í lund,
góðmenni, vinur trúr
hann lifði hverja stund,
hels fram að lánga dúr.
Mold hans til móður hneig
í mjúkrar hvíldar skaut;
himins-deild hærra steig,
hvar síns uppruna naut.
Guð lèt þeim ár og önn
úthlutuð saman tveim,
og dýrðar samnot sönn
síðar í öðrum heim.

---

## 36. ÓLÖF HALLGRÍMSDÓTTIR.

Kona Hallgríms prest Thorlacius Einarssonar í Miklagarði í Eyjafirði. Hún var dóttir Hallgríms prófasts Eldjárnssonar og andaðist 1815. Minningarljóð þessi eru prentuð hèr eptir tveim handritum.

---

Hún var full trúar og góðra verka.

*Lag: Upp hef eg augun mín.*

---

Hèr sefur hvíldar-blund
hægan, sem Lazarus,
ypparligt eðalsprund,
*Ólöf Thorlacius;*
velæruverðugan
við sorgar djúpa tjörn

eptir lèt egtamann
og fjögur hjartkær börn.
Nítjándu aldar á
ári fimtánda dó
lofsverður svanni sá,
við sextugs aldur þó;
hún kvaddi harmabygð
af hverjum manni syrgð,
enn hennar ágæt dygð
aldrei mun liggja byrgð.

Kristindóms verðug verk
vitnuðu' um hennar trú;
opt færði sig úr serk,
svo nakinn klæddi frú;
húngruðum braut hún brauð,
brjóstgóð við hvern sem leið,
við jarðar ófest auð
eptir himneskum beið.

Lífið hjá leiði býr,
þó líkið sofi vært,
unz dagur drottins nýr
duptið uppvekur skært;
sálin í sælli ró
sannhólpin bíður þess.
Víf lifði drottni, dó,
og dýrðar erfði sess.

## 37. ÞÓRARINN JÓNSSON OG GUÐRÚN STEPHÁNSDÓTTIR.

Þórarinn var seinast prestur að Múla í Aðaldal, fæddur 1755. Hann var kallaður merkur kennimaður og skáld gott. Kona hans var dóttir Stepháns prests Halldórssonar í Laufási. Þau önduðust 1816 og hvíla bæði í einni gröf. Erfiljóð þessi eru prentuð eptir tveim handritum.

*Lag: Bæn mína heyr þú, herra kær!*

Hvað tèk eg fyrir hendur mèr,
hrumur, vesæll og dauða nær?
verkefni það, sem víst eg er,
verðugur hvorki til nè fær.
En sem skyldan þó skipar fyrst,
skerpt við annarra bænastað,
og eigin hugar ákefð þyrst,
að undan fellt ej verði það.
Um menn burtdána lofstírs ljóð
að leiða fram, sem verðugt er,
þeir miklu fremri mínum óð
að ment og dygðum vóru hèr.
Eg þrái sèra *Þórarinn*,
þjóðskáld og bezta kennimann,
mèr æ hugljúfan virkta vin,
velgjörða-bróður trúfastan.
Múla-söfnuður mátti þó
ei minnur ángrast við það hrun,
þegar hans vörður þessi dó,
er þar all-lengi saknað mun.

Myrká sannliga minnist enn
og Möðruvalla-klaustur hans,
allar þær kirkjur sakna senn
síns fyrrum átta kennimanns.

Hvar er málsnilli mjúk og góð,
af munni hans sem, fárra lík,
í kenníngunni flaut sem flóð,
fljúgandi, hrein og kraptarík?

Guðrækni þessa góða manns,
gáfur og dygðugt hugar-far,
ávinna honum ærukrans
ógleymanligrar minníngar.

Og hans dýrmæta dygða-sprund,
til dýrðar burt með honum flaug
lifði samhuga lánga stund
unz litla dauðinn skildi þaug.

Hún rètt samboðin honum var,
helguð góðmennsku, dygð og trú,
*Guðrúnar* heiti göfugt bar,
guðrækin *Stephans dóttir* sú.

Þrem dögum síðar hún enn hann,
holdsins endaði dapra töf,
þau fengu, laus við rauna-rann,
róligan blund í sömu gröf.

Aldurs hann, þegar andaðist,
ár sextugasta' og þriðja bar;
hefir það mörgum heims frá vist,
hálærðum manni búið far.

Sæll er hverr, sem í drottni deyr,
dauðans ártal ei skamtar það,

þó holdið fúið liggi í leir,
lifir sálin í betri stað.
Bæði hèr talin blessuð hjón,
börn eptir lètu dygða rík,
eru þau, eins að sál og sjón,
sínum foreldrum næsta lík.
Svo endurhættist þá með þeim
það, sem mistist við hinna lát,
og eilífðin í öðrum heim
af hvorutveggju þerrar grát.
Við lífsins efsta staddur stig
styrkist af þeirri glödu von,
að hjá þeim fái' að halda sig
á himni guðs — Jón Þorláksson.

## 38. HALLGRÍMUR ÞORSTEINSSON,

kapellán skáldsins; drukknaði 1816. Grafskript þessi er prentuð hèr eptir tveim handritum.

*Lag: Sólin til fjalla fljótt.*

Heiðruðum hèr var sáð
holds-leifum dupts í reit,
vel hverra guð fær gáð,
sem göfgi þeirra veit.
Sira *Hallgrímur*, hans
hjarðar vaktari trúr,
*Þorsteinsson*, þagnar ranns
þægan hèr sefur dúr.

Elskufull trega tár
títt fallin á hans gröf
votta, hve syrgir sár
söfnuður mista gjöf;
en að eins stutta stund
sturlar skilnaðar þraut;
yndælan endurfund
eilífðin ber í skaut.

Lof sè guði, sem gaf,
og gefið aptur tók!
fullskilin engum af
er hans forsjónar bók;
hún síðar opnast oss
í öðrum stærra hríng,
vort fólgna vonar hnoss
verður þar uppfylling.

Æ, höfum vareygð við!
vort líf er einsog gler,
en dauðans myrkva mið
margsinnis leynir sèr;
vörumst að dæma djarft
um drottins vísa ráð!
að treysta því er þarft:
það hann sè grunnlaus náð.

## 39. SIGFÚS SIGURÐARSON.

Prestur að Ríp og síðan á Felli í Slèttuhlíð, fæddur 1731, lagði niður prestskap 1796 og andaðist 1816. Skáldið kallar minningarljóð þessi: "Laufblað á leiði lofligs öldúngs sèra Sigfúsar Sigurðssonar", og eru þau prentuð hèr eptir tveim handritum.

*Lag: Sæll dagur sá.*

---

Ein fögur eik,
er lengi stóð á velli,
föl varð og veik,
visnaði loks af elli,
aldinin öll
umbergis hennar reit
sýndust á sig
sorgarham strax að taka,
og lystilig
ljóð hætti þá að kvaka
saungfugla sveit.

Söknuður sár
að sagðrar eikar prýði,
er svo mörg ár
inntekið hafði lýði,
brautst æ meir út
um skógar víða mörk,
hvert tjáir trè,
topp sinn hengjandi' og arma,
að sorgfullt sè,
og sèrhver blómstur harma
burt horfna björk.

Fyllíngu fann
figúra þessi sína,
þá merkismann
misti vor aldarlína:
sèra Sigfús,
Sigurðar dýran kund,
guðs hjörð og hús
hann geymt að Ríp og Felli
fèkk *sigurfús*,
fram til níræðrar elli,
lofsælli lund.

Er nokkur ein
á jörðu dýrmætari
gersema grein,
enn guðs öldúnga skari?
sem silfurkrans,
einn samhljóðanda vott,
á höfði hèr
við hvers manns raddar strengi
og brjóst sitt ber:
að bæði vel og lengi
gjört hafði gott.

Um þenna það
þjóðmæríng satt má játa,
sinn allan að
aldur í sèrhvern máta
helgaði hann
herrans sannleik og dygð,
köllunar kapp
kærleik til allra manna

og himins happ
hann mat sèr dýrast anna
með traustri trygð.
Gáfna gnægð með
guð hans sál únga prýddi,
sem göfugt geð
góðmennsku fegurð skrýddi;
hans athöfn öll
auglýsti ráðvant þel,
skynsemi skír
skein á hans hugarfari,
hógvær og hýr
hann í viðmóti' og svari
var öllum vel.
Hann umbar allt
ágætri þolinmæði,
og guði galt
göfgun og þakkir bæði,
auðmjúkur æ,
eins fyrir gleði' og sút,
þó lánga leið
(ef lángvinnt mætti kalla
skammt renniskeið)
skundaði hann gjörvalla
æfinnar út.
Hans orðstír er
ódauðligur hjá mengi,
í heiðri hèr
hafður mun uppi lengi;
bein geymir gröf,

í guðs sofendra ró;
en sál í sal
sigri-hrósenda ljómar,
og aptur skal
öðlast, þá vekja dómar,
duptið, sem dó.
Ó! þá mun eik,
er hèr stóð fyrr á velli,
varð föl og veik
og visin loks af elli,
þar orðin úng
og ódauðlig á ný,
sigur-laun sæl
með sannri hreppa kæti,
yfrið yndæl,
útvaldra blómstra sæti
upphafin í.
Ó! mættir einn
á meðal lægstu saungva,
sem holdlig heyrn
hèr niðri merkir aungva,
sem bergmál blest
blandast þú, óður minn!
við hulinn hljóm
heiðurs og ástarkvæða,
er einum róm
ótal blessanir ræða
um öldúnginn.

## 40. FRIÐRIK ÞÓRARINSSON.

Prestur að Breiðabólstað í Vesturhópi og prófastur í Húnavatnsþíngi; andaðist 1817. Hann var frægur raddmaður, og kunni manna bezt saung á Íslandi. Minníngarljóð þessi eru tekin eptir einu handriti.

*Lag: Sæll dagur sá.*

---

"Við söknum svans,
sem var fögnuður okkar",
hvorr öðrum ans
anda tveir kvaka flokkar,
sem halda sig
svana-stað deildum á
að svana-sæ,
svo nefndu Vesturhópi,
að fylgjast æ
og döpru hrygðar ópi
nú syrgja ná.
Þeir teikna það,
að þrumuskeyti stúngu
Breiðabólstað
brátt og Víðidalstúngu;
að sakni svans
segja má andir þar;
prófast og prest,
prýði meðbræðra sinna,
lands-mæti mest,
mann — andir látinn finna,
þeim veittur var.

Fallinn er frá
*Friðrik Þórarins* arfi,
sæll herra sá
af sínu frægur starfi;
sem sætur hans
saungrómur framúr skar,
svo hógvær, hýr
og hvers manns eptirlæti,
þjón drottins dýr,
dygðanna fegurst sæti
í brjósti bar.

Hans ræðu raust
rètt eins í kenníngunni,
orð trúar-traust,
töluð af hjarta og munni,
sèrhverri sál
sitt fóður greiða lèt;
hans iðn og önn,
eldheit varin söfnuði,
var sífelt sönn,
sitt bænar offur guði
hann galt og grèt.

Hans ásýnd eins
öll vafin fríðleiks blóma,
hvervetna hrein,
hugarfars sýndi ljóma;
öll hegðun hans
heiðurs og ástar naut,
sem verðugt var
vel manna ljós þau skína,

sem brjóstum bar
brjóst hans um æfi sína,
þartil hún þraut.
Nú er hann nár,
ndtturan skuldar krafði
þá aldurs ár
yfir fimmtígi hafði
fjögur á fold
*friðríkur* lifað vel,
nær öld var nú
nítjánda seytján vetra,
þann níu þrjú
þreið hafði ár, til betra
heims flutti hel.
En hustrú hans,
harmandi gjörð að ekkju,
án egtamanns
einmana byggir rekkju;
sitt hjarta sár,
sem blæðir nótt og dag,
í brjósti ber,
með börnum sínum grætur,
ein heimvon er,
af hverju gleðjast lætur
um himins hag.
Ó hvað yndæl
ásýnd mun hans og rómur
og sambúð sæl,
hvar saungraddanna hljómur
um eilífð er

ósegjanliga skær;
þar auðnast oss
aptur að sjá og heyra
vort hugar hnoss,
hverju sælgæti meira,
þess væntum vær.

Sofnaðan svan,
síns herra vöku-lúður,
hver manns önd man,
því mjög var eðlisprúður;
lof guðs hann gól,
guðs kraptur fylgði því;
samhljóða sál
við saungva fagra leiki,
hreint hjartans mál
hóf án fordildar reiki
upphæðir í.

Vèr söknum svans,
saung þann ei lengur heyrum,
en hljómur hans
í hugskots klíngir eyrum,
ógleymin ást
yfir hans vakir gröf;
og hver önd klökk,
er hann guðs vegna þènti,
þeim sýngur þökk
þúsundfalda, sem lènti
svo góða gjöf.

Hverr mæla má
þau miklu laun, sem gleðja

hann, hæðum á,
og hvílík oss mun seðja
nú hulin nægð:
nýtt engla vín og man,
unaðsemd ein
allraskærustu saungva
og hagsæld hrein;
heyra mun framar aungva
sorg eptir svan.

Ó, mættir einn
á meðal lægstu saungva,
sem holdlig heyrn
hèr niðri merkir aungva,
sem bergmál blest
blandast þú, óður minn!
við hulinn hljóm
heiðurs og ástar kvæða,
er einum róm
ótal blessanir ræða
svan yfir sinn.

## 41. VIGFÚS HANSSON SCHEVÍNG.

Sýslumaður í Hegraness sýslu 1772—1800; fæddur 1734, andaðist 1817. Minníngarljóð þessi eru áður prentuð með útfarar-ræðu eptir hann, á Beitistöðum 1819, bls. 21, og hefir séra Jón haft þessa yfirskript fyrir: "íslenzk öfugnefni, hugleidd í fáurðri burtfarar-minníng ens lufsverða landshöfðíngja sál. sýslumanns Vigfúsa Schevíngs". — Eptir einu handriti.

*Lag: Nú bið eg guð! þú náðir mig.*

Í fyrndinni, þá vígöld var,
virtu menn blóðsúthellíngar
og hernað fyrir hæstu dygð,
hvervetna sem þó spilltu bygð.
Stríð var hetjunnar athöfn ein,
— á öðru færstir vissu grein —
bardagar, dráp og blóðug hefnd;
börnin eptir því voru nefnd.

Heiti þau enn nú haldast við
hèr í landi, þó kristinn frið
inn hafi fyrir laungu leidt
laganna stjórn og vígum eydt.
Ættræknin lætur arfi jöfn
ættinni fylgja þessi nöfn,
en heitið, eptir þýðíng þess,
þrátt ómakligan finnur sess.

Til dæmis eg með trega sýng
um tíðar vorrar þjóðmæríng,
veraldar allrar veg sem gekk,
*Vigfús Scheving*, hvers öllum þekk

umgengni, spekt og eðlishæð
er, og lengst verður minnisstæð,
einginn því minnur *vigfús* var
enn vinur þessi friðsemdar.

Þá viðurkenníng get eg greint,
því gjör að hafði sjálfur reynt
hans milt og göfugt hugarfar,
við hann þá nokkuð afgjört var;
eg vil æ klökkur þekkja það,
og þakka' á öðrum hærra stað,
að stakt góðmenni *Vigfús* var,
vottár þess finnast allstaðar.

Aldrei hógværðar yfir stig
auðinn neitt lèt hann hefja sig,
og í yfirvalds staddur stètt
stjórnaði vel og dæmdi rètt;
ávann því hlýðni' og ástar geð
allra þeirra, sem fyrir rèð;
með því hann öllum vildi vel
var honum auðsveipt hvers manns þel.

Eins var prýðilig hússtjórn hans
honum staðfastur ærukrans;
heimilið allt með sóma sett,
siðferði' í öllum greinum rètt.
Forsjón og röksemd fylgðust að,
framkvæmd mikilli komu' af stað,
góðsemi var þar holl og hlý,
höfðu vel margir not af því.

Honum samboðin höfðings frú
harmar egtamann látinn nú;

háfum dygðum og heiðri gædd
af hjónum þessum eru fædd
afkvæmi þau, sem ærurík
iðka foreldra dæmi slík;
hverjum kjör veittu' tengda tvenn
tignustu landsins yfirmenn.

Háöldruð loks af heimi gekk
hetja sú, öllum mönnum þekk,
því *góðfús* en ei *vígfús* var
sá viðurnefni *Schevíngs* bar;
það er fyrir minn óð um of
öldúngs að sýngja nafni lof,
sem utan bæði og innanlands
elskar og heiðrar fjöldi manns.

Honum sómir vel hetju nafn,
í hugferði sem ætíð jafn
stillir hvervetna sinni sitt,
sá meðalveginn getur hitt,
tekur eins móti sorg og sæld,
sem honum er af guði mæld;
stökkur ei hátt, þó stygður sè,
stundar meir eptir dygð enn fè.

Hetju slíka vèr höfum mist
þá herra Schevíng andaðist,
góðfrægur mjög, því *góðfús* var
og gæddur dygðum margskonar;
hanns mannorð lifir, ætt og ást;
aptur munum vèr glaðir sjást;
innanbrjósts sèr þá ósk og von
elur Jón prestur Þorláksson.

## 42. GUÐRÚN SKÚLADÓTTIR,

ekkja eptir Jón Snorrason, sýslumann í Hegraness sýslu, er andaðist 1771. Hún var fædd 1740 og andaðist 20 Junii 1816. Hún kunni handvirðir kvenna bezt á Íslandi um sína daga. Eptirmæli þessi eru ort eptir beiðni Bjargar Halldórsdóttur, fyrri konu Sigurðar prests Árnasonar að Hálsi í Fnjóskadal, og eru prentuð í Klausturpósti 1818, bls. 75—76. Hèr eru þau tekin eptir einu handriti.

*Lag: Þèr drottinn! þakka eg.*

Loks var í beina beð
blómstranna móður sáð,
skapandi ment sem með
mynda lèt nál og þráð,
Íslands Tabítha talin,
trú og góðverka- full af -dáð.

Góðkvendi göfugt var
*Guðrún Skúladóttir*,
frægð hennar faðir bar,
fógeti' á landi hèr;
barnlaus dó auðgrund ekkja;
andaðan lengi syrgði ver.

Hegraness hèrað sá
haldandi jöfurs þjón,
Snorrason Ökrum á
aðsetur hafði Jón;
á Höfðaströnd að Hofi
þareptir bjuggu þessi hjón.

Vanheilsu vegna frú
vitjaði, sem hún bar,
foreldra sinna sú
suður til Viðeyjar;
svo hjá þeim sífelt dvaldi,
sambúða meðan auðið var.

Handiðnir, hugvit, dygð
og hárra kosta nægð
lands útum breiða bygð
bárust með hennar frægð;
hún bæði kunni' og kenndi
kvennprýðina með spekt og þægð.

Nítjándu aldar á
ári sextánda dó
lofsverður svanni sá,
sem ætíð lifir þó,
í vegsemd verka sinna,
hèr og þar upp' í himna ró.

Tekin er trúuð önd
Tabíthu þessarar
hátt uppá lífsins lönd,
og launa nýtur þar,
búin að brúðarskarti
blómstrum yppurstu farsældar.

Loks upp af beina beð
blómstranna móðir rís,
skapandi makt þá með
máttugur guð og vís
holdið til heilags blóma
plantar í himins Paradís.

Upp sendir eptir drós,
æð meðan kvikar fjörg,
ást, þakkir, heiður, hrós,
og hugar-andvörp mörg,
minnug kærleiks og kennslu,
hústrú prestsins á Hálsi — Björg.

## 43. SIGURÐUR STEPHÁNSSON THORARENSEN,

sonur Stepháns amtmanns Þórarinssonar. Hann andaðist 1817 í Kaupmannahöfn. Minníng þessi er prentuð áður í Klausturpósti 1818, bls. 172—73, og er yfirskript hennar frá skáldsins hendi: "Sigurdör". — Eptir einu handriti.

*Lag: Faðir vor! sem á himnum ert.*

Hví fór dauðinn svo öfugt að? . . . .
ó, hverr vogar að segja það? —
hann lèt yndisligt æskublóm
ellinnar líða skapadóm! —
því æska bæði' og elli manns
eru frí-gjafir skaparans.

Mannsins lífstunda mislengd hèr
merki fallvaltrar jarðar er;
eilífðin mælir öllum jafnt,
því engan hefir tímaskamt;
hún, það hið vissa manna-mið,
mislengd takmarkast enga við.

Það, sem hèr gjörir mestan mun,
er misjöfn dygðar ástundun,
elli dygðug og æska fróm
eiga sèr vissan heilladóm;
fyrir umbun og förunaut
farsæld og blessun dygðin hlaut.

Guð fyrir heimi gjörir opt
gersemum sínum bregða' á lopt
um stund, til sýnis, þeim hann þó
þar uppi megin-vist tilbjó,
hver þeirra var fyrir himin gjörð
heldurenn þessa lágu jörð.

Eðalborinn var einn af þeim
ýngismaður, sem kvaddi heim,
alskrýddur dygðum, ást og von
allra: *Sigurður Stephánsson*
*Thórarensen*, með auð og ætt
erfandi föðurnafn ágætt.

Hógværð síns ömmubróður bar,
biskups, með heiti Sigurðar;
jafnvel líkamans ásýnd ein,
ígegnum hverja dygðin skein,
vottaði himni vafið brjóst,
var það af hegðun allri ljóst.

Háskóla jarðar hafinn frá
himins vísdómi til að ná,
hèr stunduð þekkíng hans um guð
á hæðum verður fullkomnuð;
hann stríddi' og vann, því heilög trú
honum *sigur-dör* gjörðist nú.

Himinsins júbilhátíð skær
honum eilífrar gleði fær;
holdið, numið frá sorg og sótt,
sefur í jarðar skauti rótt,
en sálin lifir sælu prýdd
og sigurlíni nýju skrýdd.

Vèr munum aptur Sigurð sjá
sælli fagnaðar hátíð á,
að fullblunduðum dauðans dúr
dupti rotnunar vakinn úr,
umfaðma hvorjir aðra þar,
ástvinir, börn og foreldrar.

Svo gekk ei dauðinn öfugt að,
eptir guðs vilja skeði það,
á rèttan hátt, á rèttri tíð,
rèttvís er forsjón hans og blíð;
hann sinn eigindóm hirðir bezt,
heiminum frá svo varðveitist.

Ó, vor blessaði blómi þú,
í Blíðheim undan kominn nú!
meðal vor dygða minníng þín
í meginfögrum ljóma skín;
yndislig hèr þín ásýnd var,
ó hversu dýrðlig mun hún þar!

Þú vort sorgblandið kveðju kvak
kannske formerkir þèr á bak,
samtengt við æðri saungva hljóm
sigrenda kríngum helgidóm:
"æ, vèr af hjarta þráum þig
þángaðtil gaungum sama stig!"

## 44. SIGRÍÐUR STEPHÁNSDÓTTIR,

systir Ólafs stiptamtmanns Stephánssonar og þeirra systkina og ekkja eptir tvo sýslumenn í Eyjafjarðar sýslu: Þórarinn Jónsson og Jón Jakobsson. Hún andaðist 1818. Skáldið kallar minníngarljóð þessi "næturgal", og eru þau prentuð hèr eptir einu handriti.

*Lag: Guð, sem er yfir guðum neðri.*

---

Vogar þú enn að vera' á ferli
veik ljóða-dís! af miklum erli
og byljum, sem þig fældu fyr?
loptið er dymmt og þúngað þrumum,
því er ráðligast ellihrumum
báðum okkur að kúrum kyr.

Þó, fyrst við getum ekkert annað,
ei er trúligt að verði bannað
hálf-blindum mèr að horfa' í kríng,
og nær mikilvægt eitthvað skeður,
eins hvort það hryggir mig eða gleður,
að tjá þèr mína tilfinníng.

Það eg tala við þig í hljóði
þú, í meinlausum nætur-óði,
skalt gala mèr til skemtunar;
fyrir þig sèrligt yrkis-efni,
*Espihóls* sorg eg þá tilnefni,
af láti sællar *Sigríðar.*

Merkis-húsfreyja mest í landi
mæta hlaut tvisvar ekkju-standi

að sýslumönnum áttum tveim,
hvorr þeirra var síns heraðs prýði,
himininn valdi því *Sigríði*
kostuligasta kvonfáng þeim.

Svo við hvorttveggja samband þetta
á sínum tíma skyldi spretta
mörg út af henni barna-blóm;
vegligra sona verðug móðir
varð hún, er skyldu stólpar góðir
kóngs fyrir ríki' og kristindóm.

Mjög þú, ó dauði! mig typtaðir,
mèr sá reynzt hefir betri' enn faðir
mist hefir sína móður nú;
skyldi það ei mitt sinni særa
sem honum ángur til kann færa?
kveð hrygg, mín dís! um þetta þú!

Hèr er þá dáin höfðíngs-kvinna,
há vegna kyns og dygða sinna,
*Sigríður Stephánsdóttir* dýr,
stór-auðug frú, er *Stephán* fæddi,
þann stillir miklum heiðri gæddi;
vaxi hann æ og verði nýr!

Hún var eins ágæt meðal mæðra
og mögur hennar æðstur bræðra,
ætt samboðinna þeirra þó,
eg þarf ei meira þarum ræða —
það sè ályktan minna kvæða:
*Sigríður Stephánsdóttir* dó.

Fyrst hverr einn uppsker sem hann sáir,
svannar íslenzkir hafa fáir

hèr betur sáð, enn hún, nè meir,
fólk-aldinum á foldar-vegi,
fyrir því nafn og sæmd alldregi
*Sigríðar Stephánsdóttur* deyr.

Muntu fá talið mèr þá alla,
sem móður laungu síðar kalla
hana munu, til heiðurs ætt?
þó önnur fæðist hefðar-hærri,
hennar er móður-rèttur stærri,
sem þeirrar hafði föður fædt.

Ástvinum samgleðst áður mistum
yfir friðsömum himna-vistum
sál hennar, flutt í sömu röð;
ávöxt móður og ekkju-tára,
aldurs og sjúkdóms rósemd klára,
*Sigríður* uppsker sæl og glöð.

Allt kemur þetta síðar saman,
sálin faðmar á ný líkamann
og tvöfalt ekta-samband sitt;
þau skunda fram með blessuð barna
hindini frjóf, og rík af kjarna,
löguðum fyrir lífið hitt.

Þeim eptirfylgir annarr nokkurr
uppskeru-degi geymdur flokkur,
þess, sem hverr þeirra gjörði gott.
Æ! mætti eg þann líta ljóma,
og leyfi fengi til þess sóma,
og tjá mig slíkra verka vott.

En nú er mál að náttsaung hættum,
fyrst nærri stendur dauðinn gættum;

þú heyrðir að hans þruma kvað:
"óvíst er, hvern eg fyrstan felli,
fauskur visinn og grár af elli!
veitstu nema þú verðir það?"

## 45. GUÐRÚN EINARSDÓTTIR.

Hún druknaði 1818, tvítug að aldri. Minníngarljóð þessi eru prentuð eptir einu handriti.

*Lag: Faðir á himna hæð!*

Hér geymir hauður þurt
hana, sem tók á burt
geysi-flóðs grimmur þróttur,
*Guðrúnu Einarsdóttur.*
Ei bjargar tilraun traust,
tvítugrar æska hraust,
nè meðal nokkuð annað
ná-slag gat heli bannað.
Ei gátu frelsað fljóð
fróm dygð nè göfugt blóð,
því drottinn bendti bifi:
"brjótst fram! svo hún ei lifi".
Datt á bið dymma ský
dag annann Júlíí
átján um eins mörg hundruð
ár Krists þá voru sundruð.
Hèr nýrrar vistar vænd
varð nú af dauða rænd,

en á upphæða setri
aðra fèkk miklu betri.
Holdið hvílandi' í jörð
hefir öruggan vörð,
sá er það svo vel geymir
að sízt til mæðu dreymir.
Og loksins upprís það
andligt og forklárað
sálunni svo það aptur
samtengi drottins kraptur.
Sof í ró, sæla mær!
uns sjáumst aptur vær,
yfir gröf þessa þína
þúsund blessanir skína.

## 46. FRIÐFINNUR HALLGRÍMSSON KJERNESTEÐ,

bróðir Þorláks bónda Hallgrímssonar á Skriðu, og munu minníngarljóð þessi vera ort að hans tilmælum. Friðfinnur var hárskurðarmaður og bjó í Kaupmannahöfn lengst æfi sinnar. Hann var fæddur að Kjarna við Eyjafjörð 24 Sept. 1746, en andaðist í Kaupmannahöfn 16 Maí 1819. Minníngarljóðin eru prentuð hèr eptir tveim handritum.

*Lag: Hvar viltu, sál mín! huggun fá?*

Alt stríð um síðir *finnur frið*,
friðar-púnkt við,

sem er því ákvarðaður;
með öllum rètti lýða líf
líkist við kíf,
sitt stríð á sèrhverr maður.
Vor dvöl á jörð
er herför hörð,
mislaung þó leið,
líka misgreið;
gröf ein er griðastaður.
Hverr maður þenna *finnur frið*,
fjörs enda við;
því allir eitt sinn deyja.
Annarr friður er æðri, sá
útvaldir fá,
lífs meðan hernað heyja:
guðs vingan viss,
verðskuldan Krists,
samvizku ró
og sálar fró,
er þeirra friður, eja!
Loksins eilífan *finnur frið*
fold skilinn við,
sá trúr var allt til enda;
guðhræddur engum gjörði stygð
gekk fram í dygð,
lèt sig ei hrekki henda;
æfði sig í
æfilángt því,
guðs veg að gá

svo guði hjá
mætti við lífs-lok lenda.
Þvílíkan *Friðfinn* þráum vèr,
því dáinn er,
vorn mæta vin og landa,
kenndan auknafni *Kjernesteð*,
kært bróður-geð
æ bar sá oss til handa,
en hafði þó
ofn og eldstó
í Hafnar-stað,
hús og varnað,
þar gaf hann upp sinn anda.
Öllum er kunnur innanlands
uppruni hans,
fólk og fæðíngar-staður,
eins fyrir dygð og íþrótt há
ættleggur sá
er næsta nafntogaður;
*Kjernesteð* kær,
kornúngur nær,
vel birta vann
að væri hann
hugvits- og hagleiks-maður.
Hann til frekari frama sèr
fór yfir ver,
í Höfn með Dönum dvaldi;
prúður að nema piltur þar
parruksgjörðar
handverk sèr helzt útvaldi.

hans athöfn öll
var afbragðs snjöll,
ráðvönd og rètt,
að rækja stètt
sína, hann tign sèr taldi.
Vor *Kjernesteð* sèr kvonfáng tók
og kyn sitt jók
með tímgun tveggja barna,
eitt var dóttir, en annað sveinn,
í æsku seinn
að fá sinn frjófan kjarna
tók kaupmanns kjör
kalt í sæför,
unz fjörtjón fann,
föður-elskan
ei mátti við því varna.
*Kjernesteð* misti kornúngt jóð
og kærast fljóð,
og gjörðist ekkjumaður,
en harma sína huldi þó
með hugar ró,
og jafnan gekk fram glaður;
ásýnd hans ein
auglýsti mein
sem brjóstið bar,
birti sig þar
geðprýðis góður staður.
Trúr og ráðhollur, vinum vel
viðmót og þel
hvervetna hógvært tjáði,

sífelt glaður, en ei um of,
ástsæld og lof
á brjóst og bak sèr báði;
fram gekk forsjáll,
frjáls, ókjassmáll,
hataði hjal
og heimskra tal
fjærlægur flærð og háði.
Honum er það til heiðurs enn:
hálærðir menn,
í stórra stètt embætta,
prúðmenni það sèr völdu vin,
þeir verðugt kyn
röktu til Íslands ætta,
er þó engan
einsháttar mann
sýslana sið
sinn höfðu við
nè fèlags-rækt innrætta.
Hagleik til frægðar hans það varð,
hármentar arð
nýbreytni fólks þá felldi:
hann með tálguhníf skáktafl skar,
til skemtunar
og til atvinnu seldi;
rennikunst rètt
rarítet nett
virti verk það,
vel dáðist að
midt í meistara veldi.

Honum þó gjörðist handbjörg rýr,
þar háttur nýr
skerti hárburðar-hana,
með vina-boð og veitingar,
við hóf, óspar,
fram hèlt hann fornum vana;
aldrei ofþver
synjaði sèr,
nauðsynligs neins; —
nær slíkt að eins
heim á hrak-níðíngana.

Hag sinn gaf aldrei hann á ný
hjónaband í,
þó gott fá kvonfáng kynni,
lundsár af trega, leyndum þó,
hann lengi bjó,
með tengdamóður sinni,
sem honum sveið,
því sárt hann kveið:
ef ýngri hjá
hin aldna þá
óskum ást fyndi minni.

Margur, í hærri menta von
er mætan son
sinn til háskóla sendi,
*Kjernesteð* fól á hendur hann,
því heiðurs-mann
að dygð og kærleik kenndi;
prýddi *Friðfinn*
forsjón ráðsvinn,

allt, hverju hèt,
hann framkvæmt lèt,
þar battst á þægur endi.
Hann er dáinn, en af hans ætt
úngviði mætt
vex nú með sóma-safni,
það er: *Friðfinnur Þorláksson*,
þæg ljómar von:
að fleira fylgi nafni;
vor ósk er ein
ástrík og hrein:
hann verði stór
foreldra frjór
og föðurbróður jafni!

## 47. EINARR HJALTESTEÐ.

Kaupmanns-umboðsmaður á Akureyri, vinur sèra Jóns mikill; hann hefir andazt fyrr enn 1805. Þegar sèra Jón heyrði lát hans varð honum þessi vísa að munni, *og er hún prentuð hèr eptir einu handriti.*

Við svo stóran missi manns
mínir þánkar vakna; —
lifandi drottinn! lát mig hans
lengi ekki sakna!

## 48. ÞORGERÐUR ÞORLÁKSDÓTTIR.

Dóttir Þorláks bónda Hallgrímssonar á Skriðu og seinni konu hans Margretar Björnsdóttur. Hún var heitin eptir fyrri konu Þorláks bónda, sem andaðist 1791. Saknaðarljóð þessi eru ort undir nafni fóstru hennar og kallar skáldið þau: "tregamál fóstru eptir fósturbarn"; þau eru prentuð hèr eptir einu handriti.

*Lag: Mèr, heimur, far frá!*

Seint líður sá
saknaðar-ákafi hjartanu frá,
sem brúsar þar síðan þín barnæsku-rós
bliknaði, hugar míns yndæla ljós!
sjá, fóstra grátandi þèr dillar þín,
:|: *Þorgerður* mín! :|:

Mèr er, sem mig
í minninu faðmir og eg kyssi þig,
og þèr, sem fyrrum, af broshýrri brá
burt þurki tárin, sem fèllu þará;
svo kær er minníng þess yndælis ein,
:|: sem útaf þèr skein. :|:

Þín, barnablóm!
barnæska sýndi það, skynug og fróm,
að fyrir himininn, framar enn jörð,
fögur og yndislig svo værir gjörð;
himininn skein þèr á brosandi brún,
:|: blíðunni grèt hún. :|:

Foreldra fró,
föðurnum minnisteikn innu, sem dó,

nefnd eptir henni, sem nýgróða jurt,
numin varst árla frá heiminum burt
í himin; þitt blífanligt heimili þar,
:|: en hèr ekki var. :|:
Eðli þèr eitt
ódauðligt þar er með fullsælu veitt;
hèr varstu frábær, þó holdlig og veik,
himneskum þar búin algjörligleik;
eg þig mèr tíðum á armi hèr bar,
:|: en englarnir þar. :|:
Guðs heilög hjörð,
honum sem þjónar, að dýrðlíngum gjörð,
kornúnga fèkk þig í samneyti sitt,
silkifat áður enn kvolaðir þitt,
svo lambinu fylgir með hvítklæddum her,
:|: hvert sem það fer. :|:
Þar lifir þú,
þúsundfaldt yndæl og heilagri nú,
yndæl og heilög sem áður þó varst,
ámeðan líkama dauðligan barst;
þar muntu fagna mèr, þrísæla mey!
:|: þegar eg dey. :|:

## 49. MARGRÈT JÓNSDÓTTIR.

Kona Jónasar bónda á Hvassafelli í Eyjafirði. Minníngarljóð þessi eru prentuð hèr eptir tveim handritum.

*Lag: Kom sæl, mæt morgunstund!*

Ei mega hirzlur heims
hans alltíð verja fè;
höld eru hverful seims,
hann þó vel geymdur sè;
en drottins dáða hnoss,
dýrmætust hèr á fold,
líkam manns,
sem hús var hans,
hættulaust geymir mold.

Því er í þessum reit
hans þokka-*perla*[1] hrein
óhult (þar vel hann veit
verð hennar) lukt hèr ein:
*Margrèt Jónsdóttir* dýr
af dygðum heitin rètt;
heiðurs-fljóð
í herrans sjóð
hèr var andvana sett.

Sú hafði *perla* prúð
prýdt hèr um sextigi' ár
lifandi lýðs sambúð
og lagt til aðrar þrjár;

[1]) Margrèt er dregið úr grisku orði sem þýðir perlu.

dupthirzlu drottins í
dýrgripir eru þær,
búa lífs
af blóði vífs
enn hjá oss eptir tvær.
Sæl móðir síðan lètst
sorgar þær gista bað,
en dúfumaki[1] mest,
metfè sem átti það;
heita má Hvassafell
harðslegið byljaraun,
lögun hradt
það getur gladt
guð og svo blómgvað hraun.
Svo geymir herrans hönd
hismið, sem dauðligt var,
hve mun þá honum önd
hámæt, sem bygði þar!
ódauðlig, ángurs frí;
á himnum lifir sú,
og dygða hrós
er lýðum ljós;
lær svo að deyja þú!

[1]) Jónas er ebreskt nafn og þýðir dúfumaka.

## 50. EINARR ÞORLÁKSSON.

Minníngarljóð þessi kallar skáldið "farsæl leiðarlok Einars Þorl. sonar", og eru þau prentuð hèr eptir þrem handritum; hefir Rask ritað eitt þeirra og borið saman við eiginhandarrit.

Enginn er sæll fyrir sitt endadægur. *Solon.*

*Lag: Kom hèr, mín sál! og kynntu þèr.*

Þeim enum meira' og minna heim
mjög líkt eg háttað tel;
veraldar stóran vitum geym
vendast sem annað hvel;
vort líf á ásum veltur tveim,
víst er fæðíngin einn af þeim
en annarr heitir hel.

Að fremja hverjum sett er sèr
sjónarspil margháttað,
ásinn fyrri þess upptök ber
endar hinn seinni það;
verkhluta síns þó enginn er
atriði neitt sem viti hèr,
fyrrenn það færist að.

Ó þú vitríngur einn af leir,
athuga vansa þann!
dýrmæta gullið eins og eyr
eldurinn smelta kann;
þú vinnur stórt, en veitst ei meir

verka lok þinna, fyrr enn deyr,
enn sá sem ekkert vann.
Þú hefir sèð þann upphafs ás,
á hverjum líf þitt rær;
hinn, sem lífdaga-hjóls um-rás
hóf og lyktaði' í gær
minna fèkk undir mæðulás;
mundu þig samt, og hægt upp blás,
yfir hann ei þig stær!
Hvað ber í heimi tíðast til?
táraverð umbreytíng;
einn sèr og leikur sorgarspil
sitt lífskeið allt um kríng;
þá manni gengur mest í vil
milli þess opt er lítið bil
að hann fær ángurstíng.
Sælt er hins dána rèttláts ráð,
(reyndin er fyllri von)
en einkis fyrr, ef að er gáð,
einsog þú kvaðst, Sólon!
við fullkomnaðra friðar-láð
farsældar kjörum hefir náð
þeim Einarr Þorláksson.
Hann bar æ, meðan líf var lèð,
lastvart og guðhrædt þel,
orð Jesú geyma' og elska rèð,
aldrei því smakkar hel;
rètt talinn góðum mönnum með
meinlaust og frómt sem iðka geð,
þeim síðast vegnar vel.

Gegnum veraldar rauna-rok
rètt stefndi trúar leið,
margur hóf Krists frá merki strok
minni sem þrengdi neyð;
þreytanda sjúkdóms þúngbært ok
þolgóður bar hann skeiðs á lok
og herrans hvíldar beið.

Nú, þegar guðs að vilja var
við lokið æfi starf,
öndin frá nauðum útlegðar
aptur til drottins hvarf;
deild himins sókti dauðinn þar,
duptið og þúngann sem hann bar
hlaut moldin í sinn arf.

Ó þú, sæll orðinn samþjón vor!
sárt hörmum vèr þitt lát,
dauðsbeður þinn og dygðug spor
döggvast af vina grát;
en hugar styrkja það skal þor
þegar upprisu- ljómar -vor
samvistin kemur kát.

Þú hefir veðhlaup þitt út endt
það sem varst fæddur til;
hjólið sinn fullan veg er vendt
vel leikið æfi spil;
því er nú hnossið þèr afhendt
þúsundfaldt betra' enn fáum kennt;
eins sælan eg mig vil!

## 51. GÍSLI ÓLAFSSON.

Prestur. Minningarljóð þessi eru tekin eptir einu handriti.

*Lag: Upp hef eg augun mín.*

---

Hann sem er á og ó,
upphaf og fyllíng sterk,
og sèrhvert, sem tilbjó,
sitt geymir handaverk;
hann dygðar verð sem veit,
vottar, að það sem hèr
felst dáið djupt í reit
dýrmætt sè fyrir sèr.

Guði vígt *Gísla* hold
geymist *Ólafssonar*,
húss þess í helgri mold
hvert fyrir settur var;
hann kenndi lífsins leið,
lifandi, trúr í raun,
upp sker því eptir deyð,
eilífðar beztu laun.

Síðarmeir sína hjörð,
sem yfir vakti hèr
æskufrjór ofar jörð,
aptur fagnandi sèr;
dygð skein á hærum hans
háaldraður því dó;
eilífan æru krans
enn lengur ber hann þó.

Jörð þenna grætur gest,
Gísla sinn himin tók,
nafn hans hið nýja sèst
nú skráð á lífsins bók;
hèr yfir guðs-manns gröf
grær heiður, þökk og ást,
og veglig vonar gjöf;
vèr munum aptur sjást.

## 52. GUÐRÚN ODDSDÓTTIR.

Minníngu þessa kallar skáldið "nefbjörg á náhjálm", og er hún hèr tekin eptir einu handriti.

*Lag: Hvar villtu, sál mín! huggun fá?*

Opt er misgjörðamönnum víst
af meiðslum lýst,
er þeir í ásýnd bera,
en lima-skortur líkamans
líðendum hans
góðs má og vottur vera.
Fyrir góðverk ein
fær margur mein:
móðir og mær
meðal vor tvær
því mega skjótt úr skera.
Vort sorgarefni nýskeð nú
varð nafnkennd sú
oss gladdi' og kvaddi kvinna:

*Guðrún Oddsdóttir*, góðfrægt sprund,
gekk á hins fund
og moldar mæðra sinna;
móðirin merk
miskunar verk
framdi við fljóð:
hún fæddi jóð
en enginn að nam hlynna.
Andaðar mæðgur tek eg tvær
til dæmis, þær
er með oss ásamt voru,
hvor þeirra dygðum skærum skein,
skírlíf og hrein,
mættu þó meini stóru:
hin eldri hlaut
heilsutjóns-þraut,
dygðug og djörf
því dugði þörf
hvers aðrar frá sem fóru.
Hin ýngri brjóstgóð einsog hún,
Odds jóð Guðrún,
mjög kær var móður sinni,
en sama hreppti sjúkdóms-mein,
af saurgun hrein
allteins í umgengninni,
við móður mjúk,
meðan var sjúk,
meir öllu mat
meðan hún gat
að henni hjúkra kynni.

Sem ítrum kappa' er æru krans
og ættlegg hans
sitt limalát í stríði,
hún sinnar móður heiðurs vott,
heims börnum spott,
erfði, sem andlits prýði;
samvizkan manns
og hegðan hans
berst meiðslum mót
og mælir bót,
þótt aðrir ákaft níði.

Hún inngekk vaxin hjónaband,
húsfreyju stand
með allri röksemd rækti,
við sinn ektamann ástargjörn
ól honum börn,
verðug að vænt um þækti;
fimm af þeim enn
umgángast menn —
hún framgekk fróm,
unz fékk þann dóm:
að himins heimboð sækti.

Þannig getur hin dýra dygð
drepið andstygð
og gjört að eptirlæti,
afskræmi lastar umskapað
og í þess stað
hafið sitt heiðurssæti;
viðkvæmni djörf
veiuandi þörf

fær af sèr ei
að ansa nei
þótt ragur þagað gæti.
Hèr jafnframt þó eg vita vil
vogunarspil,
sem þessu dylst í dæmi,
nema til knýi nauðsyn fast
að nálægjast
svo megnu sóttar næmi,
ofdirfð óvör
ollir hrakför
og fári fróns,
til falls og tjóns
allmörgum eflaust kæmi.
Nær kærleik styðja þessi þrjú:
þor, bæn og trú,
von er að vel af reiði;
því meiri sem hann þolir raun
því stærri laun
himninn honum greiðir;
guð geldur merk
guðs þakka verk;
guð gæti vor!
gjörvöll lífs spor
fram til farsældar leiði!

## 53. JÓNATHAN.

Eptir einu handriti.

Hèr er í hirzlu geymd
himinsins eign og gjöf,
tekin frá tímans eymd
tárafull eptir köf;
hèr mun guð aptur gefa
úngan *Jónathan* uppaf gröf.

## 54. BENÓNÍ.

Launsonur skáldsins. — Eptir tveim handritum.

Harmkvæla brustu bönd,
bein gista hvílu sín,
í Jesú hægri hönd
heim flutt var sálin þín,
því er af sorgarsyni,
*Benóní*, orðinn Benjamín.

## 55. SORGIN Í NAIN.

Eptir son skáldsins. — Eptir tveim handritum.
*Lag: Stríðsmenn þá höfðu krossfest Krist.*

Jesú, ilmsæta líknar lind!
linaðu sorgar þjóst!
á þinnar hreldu móður mynd
minnstu! þá forðum dóst;
frá mèr sárbeittum harmi hrind!
huggaðu sturlað brjóst!
sjálfur í náð um sárið bind,
sem þú mèr nú tilbjóst!

Ó, þú sem Nains ekkju geð
upprèttir, sorgum þjáð,
látins afkvæmis lífgun með,
líka mèr sýndu náð;
niður í myrkvan moldarbeð
míns barns er holdi sáð;
það er að vilja þínum skeð,
þó svíður undin bráð.

Ráðstöfun þín þó rèttvís sè,
og reyndar harðla góð,
viðkvæmur hjartans veikleiki
verkar mèr sorgarmóð;
unun mín var og yndæli
ástúðligt þetta jóð;
já, ekkert hnoss á jörðunni
jafnast við þann fèsjóð.

Upp, sem blómstur á akri frídt,
öllum þakknæmur spratt,
líkams atgjörvi' og þelið þídt
þánka fèkk margra gladt;
sinnið, frábæru skarti skrídt,
skyn bar og næmið hvatt;
líferniö aldri framar frídt
frómleika' og dygð viðbatt.

Nú er af bitrum burtu rætt
hana-ljá planta sú,
huga allra, sem hann fèkk kætt
harmandi þreyja nú;
mèr getur enginn mein það bætt,
minn drottinn! nema þú,
huggi mig fyrst, því hefir grætt
herra! þín gæzka trú.

Bið eg ei: þann, sem Nains ná,
nú vekir upp af gröf,
því eg mun glaðværr síðar sjá
son minn, og þiggja' að gjöf;
mèr nægir, ef þín huggun há
heptir mín tára köf;
varpaðu náðarorðum á
öndina við þau höf!

Dýrðlig umskipti mig áminn!
mitt sem afkvæmi hlaut,
hvers sál borin af englum inn
Abrahams var í skaut,
þar hún, prísandi sigur sinn
á synd, á deyð, á þraut,

lofar þig, hjartans lausnarinn!
líknar hvers þarí naut.
Jafnframt þessu mig læra lát
lífs þau heilræði bezt,
að sálin, midt í sorgum kát
sè, nær þig aðhyllist;
og ekkert framar aptri grát
enn elskan, þèr á fest,
hjálpaðu mèr, svo hafi' eg gát
á henni jafnan bezt.

Ó, að eg mætti fá sem fyrst
fagnaðar boðskap þann:
í sömu' að koma sæluvist,
sem minn ástvinur fann;
sál mín, ó Jesú! þreyir þyrst
þig að umfaðma' og hann;
ekkert meðlæti' og engin lyst
önnur mèr svala kann.

Nú tefur ekki neitt fyrir mèr,
nær kallar himininn;
það kærasta' undan komið er,
Kristur! í faðminn þinn;
afkvæmi tvö eg á hjá þèr,
er þar og hugur minn;
sálin á eptir fegin fer
og finnur unað sinn.

Þig, mín ástkæra sonar sál!
sorgbitinn nú eg kveð;
þá mínum Jesú þykir mál
þig fæ eg aptur sèð;

og þá veröld er horfin hál
á hæð mig þèr samgleð;
þina burtfarar þessa skál
þökkum svo tek eg með.
Sá þig tilreiddi, signuð önd!
sinn þjón í tíðinni;
sá þig framleiddi sèr við hönd,
sitt barn í náðinni;
sá þèr afgreiddi sorgabönd
samarfa' í dýrðinni;
sá þèr mót breiddi lífsins lönd
lofaður jafnan sè!

## 56. HUGVEKJA SYRGJANDI FORELDRA.

Eptir tveim handritum.

*Lag: Lífsreglur hollar heyri menn.*

Æ hversu mèr finnst æfin laung!
augnablik hvort eg tel,
og yfir minni sorgarsaung
sofnaðri dóttur gel;
mitt yndi hvarf í grafar gaung,
grátinn eg eptir dvel;
hægðu mèr, drottinn! þessa þraung,
þá mun eg una vel.
Mín einkadóttir, öllu fè
yndælli var sú mær;

mætasta hnoss, sem mèr í tè
mildi þín lèt frábær;
æ, þú lètst okkar skilnað ske
skjótliga, guð minn kær!
hann þegar eg í huga sè,
huggun þín standi nær!

Lát vera sem hún tali tídt
til mín á þessa leið:
"góðu foreldrar! gjörið kvitt
geð ykkar harms af neyð!
guð, sem úthlutar beiskt og blídt
böl og sæld, líf og deyð,
bauð mèr að koma nær, svo nýtt
nú tæki frama-skeið.

Eg fyrri guðs enn ykkar var
eign, sem hann gaf og tók;
fóstrið var, jafnt sem foreldrar,
fyrst skrifað hans í bók;
einskorðuð kjör og aldur þar
ei skerdti tíð, nè jók;
hönd, sú mig inn í heiminn bar,
til himins burt mèr ók!

Himni var eg til handa gjörð,
heiminum sýnd að eins,
um stundarsakir stödd á jörð,
svo stórs ei biði meins;
faðir vor traustan fèkk mèr vörð
ferils að gæta hreins,
klár yfir tímans klúngur hörð
komst eg, án skaða neins.

Er svo til fulls af ykkur lètt
umsorgun fyrir mèr;
í öruggt fóstur eg var sett
og nú fullkomnuð hèr;
svo þið, ef mig nú sæið rètt,
hve sæl og skær eg er,
af gleðí munduð gleyma slètt
glisi, sem jörðin ber.

Guð á það frjálst, sem gjörir hann,
gott er það allt og rètt,
þó fyrir skilníng skammsýnan
í skugga verði sett;
látið, foreldrar! þánka þann
hvað þúngt er gjöra lètt;
allt hvað hèr fellur myrkt á mann
mun skært þá af er flett."

Þessum rósemdar-þaunkum mèr
þrykktu, minn guð! í önd,
leið mig svo, það sem eptir er
æfinnar, þèr við hönd,
unz eg sè þá, er sakna hèr,
sorganna laus við bönd,
og við öllsaman þrjú hjá þèr
þín byggjum dýrðarlönd.

## 57. EPTIR FRÆNDAMISSI.

Skáldið kallar þessi ljóð "Plástur við tvíhöggvið sár", og eru þau prentuð hèr eptir einu handriti.

*Lag: Líknarfullur guð og góður.*

Guð minn! hvar skal eg gleði finna?
gegnum brimöldur harma minna
þreyngir sèr til þín sál mín særð,
svo verði loksins endurnærð.

Undarlig er þín hegðan, herra!
harmana' að vekja' og af að þerra,
hvernig þú byrlar súrt og sætt
í sama drykk, nær að er gætt.

Dapra lètst syrgja dáinn bróður
degi síðar þá gjörðir móður,
það máttu sýnast skipti skjót
skin eptir regn og harmabót.

Röðull, sem mèr um raunastundir
rann upp, snarliga gekk þó undir;
báðir þeir dagar eru nú eins
orðnir mèr bót til harmakveins.

Undirnar veiztu sárt mèr svíða,
sverð þítt tvíbrýnt er að nam ríða,
sonar og bróður sviptis-mein
systir og móðir ber eg ein.

Nú er öll þörf að breldri bjúkrir
og huggunarinnar sjóð uppljúkir,
sem fyrir móður þinni, þá
þig góði Jesú! deyja sá.

Ræðanda lát þig hjartað heyra:
"huggast mitt barn og grát ei meira!
blóðtengdur þinn eg bróðir er
og betri' enn tíu synir þèr.

Útaf beiskju, sem yfir grætur,
upp mun þèr spretta kjarni mætur,
þann ei að smakka þú gatst lært
þitt nema geð væri' áður sært.

Nákomna þèr eg nam frá mæðum,
nú lifa glaðir þeir á hæðum,
ómaklig þeirra veröld var
og verkum lokið höfðu þar.

Ó, lát þèr sagt: að utan efa
aptur skal eg þèr báða gefa,
en geyma bæði þá og þig,
þartil öllsaman finnið mig.

Liðinn barnúnga lát þèr segja:
að loks ei týnist þeir sem deyja;
skyldi jeg alvís skapa mann,
og skjótt að engu gjöra þann.

Faðmur minn skal þitt vígi vera,
vil eg þig mèr á höndum bera,
eins hvort þú lifir eða deyr
okkur fær neinn ei skilið meir."

Sálunni þessi svalar ræða,
sorgar-undirnar hætta' að blæða;
ó guð! mín hrygð er aptur stillt,
allt skal mèr lynda sem þú villt.

Drottinn gaf mèr svo dýra vini;
drottinn vèk frá mèr bróður og syni;

dásamligt nafn þitt, drottinn! sè
dýrkað fyrir hvert hlutskipti.
Ókvíðinn skal eg eptir bíða
ununarljóma þeirra tíða,
að þann eg hèr fyrir brjósti bar
brjóst mitt forklárað umfaðmar.
Tel eg mèr það fyrir tign og sóma:
tilkjörna sál í hæð að ljóma
hèr á jörðunni' að hafa fædt
og hirð míns Jesú viður bætt.
Tak nú, ó guð! við tárum mínum,
tel þau og geym í sjóði þínum,
fyrir sál mína bænir bein!
bezti vörður er hönd þín ein.
Eptir hjartkærum undanförnum
augum mænandi tregagjörnum,
gleð eg mig við: að fá sem fyrst
að finna þá og Jesúm Krist.
Reifaðu þínum ástarörmum,
eins hvort vèr mætum sæld eða hörmum,
blessa þú alla mína' og mig,
minn drottinn! því eg vona', á þig.

## 58. EPTIR BRÓÐURMISSI.

Tekið eptir einu handriti.

Guð sjálfur elskan er
sú yndælasta;
skaptur alheima her
hið augljósasta
vitni ber þess,
um veldið ómælanda;
lífgjöf og lífs viðhald
lènar almættis vald,
af kærleiks anda.

Upp af guðs elsku bygð
elskan skal vera,
sem ein í allri dygð
kann ávöxt bera;
bindur sú fast
bróður við systur hjarta,
að dauðans aflið ríkt
orka má hvergi slíkt
sárt sundur parta.

Dýrmætust eign er einn
ástvinur dyggur,
ljúfur, af löstum hreinn,
í lyndi dyggur;
ó, fegra hnoss
ekkert í veröld þekki,
gull, perlur, gimsteinar

gefast þeim jafnvægar
aldeilis ekki.
Raunar þó einum að
allt hèr meðlæti
streymdi, hann þó við það
þreið ekki gæti;
tvöfaldast víst
í tveimur hjörtum elskandi
gleðin því öllu af,
oss sem að drottinn gaf,
unun eflandi.

Unaðsemd áður jók
minn einka bróðir,
er hann mig að sèr tók
sem ástrík móðir,
vildi mín kjör
vafin farsældar rósum;
öll hans umgengni var
elskan og dygðirnar,
það kærast kjósum.

Nú er sá kærleikskrans
af köldum dauða
fölnaður, fyrir dans
framber eg nauða
sorgar-kvein sárt;
samt, þó við annann skilji,
yndið eyðist og ljós
útslokkni, blikni rós,
verði guðs vilji!

Renna köld raunatár
á rjóðum kinnum;
opt verður sorgin sár
sú lengi' í minnum:
ástvin þá kærr
af elskenda faðmi' er slitinn;
margur þann missi þreir
maður, unz sjálfur deyr,
æ ángurbitinn.

Upp slitið elskublóm
er mitt kærasta;
ó, þann alvísisdóm
enn rèttlátasta!
hans tilgáng þrátt,
og háleita guðdóms vegi,
engla nè manna má
matið skilníngur fá
allan aldregi.

Næsta varst öllu einn
atgjörvi prýddur
bezti minn bróðir hreinn!
og blómi skrýddur,
ættstofni af
einka góðfrægum sprottinn,
sanndýrmæt sælugjöf;
sorgligt að hylja gröf
lík lætur drottinn.

Offraði æskunnar
árum lærdómi,
að efra hlut æfinnar

aflaðist sómi,
og sál ei snauð
sínum skapara' afhendtist,
heldur vísdómi' og dygð
döfnuð og vel upp bygð,
loks þá líf endtist.

Lagið bóklistum hann
lángt yfir flesta
næsta fèkk náttúran,
svo náði bezta
orðstýri hèr
á æfinnar renniskeiði;
saknar þess merka manns
margur, og dygða hans,
sárt síðan deyði.

Frómt ef að hjarta hèr
bjá nokkrum manni
finnst, kærleiks-fullt sem er,
frá snúið banni,
var það hans víst
viljandi hverjum bezta,
allt sýndi útlitið
elskuna, góðlyndið
og mildi mesta.

Sèrhvern, er sókti fund
hins sannelskaða,
af kærleik alla stund
nam að sèr laða,
ávann því skjótt
ástsæld og byr hjá mengi

utan sem innanlands;
ágætis minníng hans
lifa mun lengi.
Dýrri því hegðun hann
og hýrri gladdi,
svo vísa sorgin vann
sár, þegar kvaddi
sjónarpláts heims,
svo eptir dvöl skammvinna
fullsæll til fagnaðar
færður og ununar
himins heimkynna.
Ó, minn guð! elskan þín,
er oss umvefur,
svo fögur sæl framskín
þá sviptir og gefur;
allt skeði líkt:
að eina perlu fágæta
kepptumst að kaupa þá
kærleikans himnum á
og dýrðar dýrmæta.
Tárum þitt læt eg lík
laugað, minn bróðir!
gjörvöll af gæðum rík
geymdu þau móðir!
og ærukrans
önnur þó blómstrin fölni,
lát spretta' á leiði hans
lista hrós bezta manns
sem aldrei fölni.

Trygð þín og elskan ein
að andartaki
efsta mèr yndishrein
í brjósti vaki!
sof þú nú sætt,
sætasti hjarta-bróðir!
herlúður himnum frá
hans þartil vekja má
upp allar þjóðir.

Eg gleðst af því, að þú
þrotinn ert stríði,
sæll hrósar sigri nú
með Zíons lýði;
kærleikans guð
kærleiks og trúarverka
uppskera lætur laun,
lofuð í fullri raun
hans mildi merka.

Rètti nú friðarfús
faðmandi hendur
mèr bróðir minn Jesús!
meðan að stendur
hèrvistar bið;
himinsins yndi blíðast
eptir æfinnar hlaup,
og lokið tárastaup,
svo fái' eg síðast.

## 59. EINFALT MÓÐURMÁL

eptir sálaðan úngan son.

Eptir þrem handritum og er eitt eptir eiginhandar-riti.

*Lag: Eilift lifið er æskiligt.*

Hugganir þínar, herra guð!
hægja bezt minni sál,
og sæt ádrykkja samblönduð
súra við rauna-skál;
þú leggur þína líkn í vönd,
lífgar með dauðanum,
senn þín miskunar sama hönd
særir og bindur um.
Þú veizt hvað hjörtu mæðra mjúk
mjög komast við, þá börnin sjúk
mænandi kveina þjáð af þraut,
þó sem ei verður mýkt,
unz moldin gjörist móðurskaut
mannsins uppruna líkt;
nú eg, ó guð! að nýju hlaut
neyðarböl reyna slíkt.

Ástkær var mèr en únga grein,
af minni sál er hèkk,
blómavænlig og yndæl ein,
eptirlát mèr og þekk;
skilníngs og næmis vísir vænn
vott þinnar gæzku bar;
sem aldinkvistur gleður grænn
um glansa vortíðar.

Í anda mínum ylmsæt von
uppspratt við þennan ljúfa son,
en bæði máttu fölna fljótt
og falla' í sama stað;
þú lagðir hann í sára sótt,
sjá hlaut eg uppá það;
loksins hin dapra dauðans nótt
datt yfir þetta blað.

Hve mátt' eg standast þrautir þær,
þinn nema kraptur hár
mig hefði styrkt, og mildi skær
meðöl lagt við það sár?
Nú vil eg glöð og hugar hress
heiðra þitt vísa ráð;
og, meðan lifi, minnast þess,
hvað mikil er þín náð.

Sú yfirstaðna sorgar-skúr
sýnir, minn guð! að þú ert trúr,
og engan reynir yfir megn,
en þó að typtir mann;
elskan þín sèr og gætir gegn
hvað gagnligt er fyrir hann,
hún niðurskamtar harma-regn
og hitt, sem gleðja kann.

Í hvorutveggju sýnir sig
söm og ein gæzka þín;
en að eg jafnt ei þekki þig
því veldur bernska mín;
sú var ein tíð, nær son minn hlaut,
sá eg þig hjartaglöð,

og meðan hans til yndis naut
í vor lifendra röð,
en hvað torkenndur þú varst þó
þegar hann sjúkur stundi' og dó,
nema mín hefði sálarsjón
svo verið styrkt af þèr:
að midt í því, sem mat eg tjón,
miskun varð opinber;
þú heyrðir okkar hjálparbón,
honum gafst ró og mèr.

Þú, herra lífs og dauða dýr!
dásamligt er þitt ráð;
gjörvöll þín stjórn og skikkan skír
skín af rèttvísi' og náð;
eins, hvort þú græðir eða slær
ertu hinn sami guð,
sem handaverk þín hefir kær
hagsælda til ætluð;
sem ert ríkur af miskun mest,
mildi hvers aldrei líður brest,
en þótt vegur og þánki þinn
þekkíng sè ofhár manns;
æ skal hugur og munnur minn
mikla velgjörðir hans,
felandi mig í fáng þitt inn,
föðurs og skaparans.

Minn þreyði son, er þín var gjöf,
þinn bæði lífs og nár,
er fyrir mèr sem upp af gröf
orð þessi mæli klár:

"foreldrar kæru! fyrir mig
framar ei berið sorg,
kominn frá valtrar veru stig
í væna friðar-borg;
eg er gjörleystur eymdum frá
og óhamíngju' er koma má;
eign guðs eg fyrr enn ykkar var,
æfin stóð hans í bók;
álitu mig hans augu þar
áður enn skapast tók;
hann gjörði mig og hèðan bar,
hirð sína þarmeð jók.

Gæzkan, sem ætíð gjörir rètt,
gjörla sig vottar hèr:
af ykkur hefir allri lètt
umsorgun fyrir mèr;
en ykkar brennheit elskutár
ei lætur hún sèr gleymd
heldur fagnaðar fullar ár,
til funda vorra geymd;
samfagnið því mèr sælum með,
sigur-heill eilíf mig er skeð:
úngur rann eg á enda skeið,
úngur eg hnossið fèkk,
ætluð himni mín önd ei beið
eptir veraldar flekk,
hrein fyrir Jesú dreyra' og deyð
í dýrð til hans inngekk."

Enn sè eg þig, minn elskuson!
á hafinn dýrðar sess,

helga sjónpípu', er heitir von,
herrann fèkk mèr til þess;
ó, hversu dýrmæt er sú gjöf,
allt gott sem dregur nær,
böls styttir hún og banans höf,
blasir við höfnin skær.
Skyldu þeim blöskra fótmál fá,
en fögru lönd sem horfir á,
tvistum á móti táradal
og tregað yndi sèr,
ljómanda barn í sælusal
hið sama' og misti hèr?
faðma þig innanskamms eg skal,
skemtir sú huxan mèr.

## 60. MÓÐURMINNI.

Eptir móður Skáldsins. — Prentað eptir tveim handritum.

*Lag: Óhó! hverr vill mig verja.*

Hvert skal eg huga venda?
hvar get eg fundið ró?
glaðværðin er á enda,
öll mín hugsvölun dó;
sál tvist
særist,
sitt hefir yndi mist;

ó, hvað þær undir svíða,
allt horfir mèr til kvíða;
allt kríngum mig er myrkt,
mitt gleði-ljós er byrgt.
  Sól skein mèr hýr í heiði,
hennar við ljós og yl
eg sat á æsku skeiði,
engra fann meina til;
mjög brá
mèr þá,
myrkur datt bráðum á
og sinnið sorgum þýngdi,
samstundis mig umkríngdi
ángur í yndis stað,
eg hlaut að bera það.
  Hnoss það, sem guð minn góður
gaf mèr á jörðu bezt,
ástar mjúkustu móður,
manndygð er prýddi flest,
eg frá
mèr má
til moldar horfna þrá;
af mun eg eigi láta
æfilángt hana' að gráta,
því maður missi þann
mèr enginn bæta kann.
  Mèr hafði móður slíka
mig sá í fyrstu skóp
útvalið elskuríka
af sinna barna hóp;

ó, hvað
óskað
eg fengi betra' enn það
mèr gefið hans af hendi?
er hana þartil sendi
að fæða' og fóstra mig,
svo fengi' eg eignast sig.

Hún var gædd heiðri sönnum,
af hjarta dygðarík,
æskti góðs öllum mönnum
og guði að verða lík,
trúgóð,
sterk stóð
og stríddi þolinmóð;
himneski hjartans faðir!
hana þú burtkallaðir
á tíma þægum þèr,
það á að lynda mèr.

Æ, hvort skal eg þá flýja
utan, minn guð! til þín?
lát svölun náðar nýja
niður streyma til mín!
af þèr
er mèr
allt þetta skamtað hèr;
einn þú, sem öllu ræður,
eins gefur börn og mæður,
þótt heimtir þegar vilt
það er allt gott og mildt.

Mín veit eg móðir lifir,
mèr þó sè horfin frá,
raunir upphafin yfir
og allt hvað sturla má,
hún er
hjá þèr,
hún bíður eptir mèr;
ó, hvað eg ákaft þreyi
eptir þeim gleði-degi:
að eg, sæl móðir mín!
megi koma til þín.

Guðs forsjón góða' og vísa
sem gjörvöll mein fèkk bætt,
eg skal án afláts prísa
eins fyrir beiskt og sætt;
hún er
með mèr,
mig fyrir öllu ver;
óskelfd með hugar hreysti
hennar leiðsögn eg treysti;
mèr kjósa móður þá
mun eg hèðan í frá.

Styrki mig guð! svo geti
gengið í móður spor,
og dygðaferil feti
sem faðir býður vor;
á hann
og þann,
sem endurkeypti mann

trú mín æ stöðug stefni!
stig minn og gjörvöll efni
náð hans mun vernda vel
veröld gegnum og hel.
Feðranna faðir hæsti!
föður minn hjartkæran,
hvern harmur sturlar stærsti,
styrk þú sem ekkjumann!
hans hlið
vert við
og veit honum þinn frið,
er veröld ekki gefur!
unz þú hann loksins hefur
burt frá ófriðar-öld
í himnesk friðartjöld.

---

## 61. SKILNAÐARVERS
við erfidrykkju.

Eptir tveim handritum.

*Lag: Hverr sem ljúfan guð lætur ráða.*

---

Svo stöndum upp, og segjum lokið
samkvæmi þessu nú í dag!
nær andláts myrkur af er rokið,
annað byrjast í sælum hag;
mæðusöm heyrast mun ei þar
minníng dauða nè. skilnaðar.

Látum oss glaða þartil þreyja!
það verður kannske ekki lángt;
þeim, sem oss lætur lifa' og deyja
lofsýngjum fyrir blítt og strángt!
hèr til knýendur höfum strax
harm og meðlæti þessa dags.

Yður heim leiði, gestir góðir,
guðs föðurs öflug náðar-hönd!
Jesús, vor allra bezti bróðir,
hreiði sinn faðm yfir líf og önd!
andinn heilagi yður sè
í lífi' og dauða fylgjandi!

Reyn þú oss, guð! en reiðst aldregi,
reirinn brothætta slá með vægð!
á sóttar, harms og dauða degi
dreyra-lind Jesú sè vor hægð!
leið þú oss inn um lífsins port
ljóss í arfskipti þitt og vort!

## 1. BRÚÐKAUPSVÍSUR

til séra Þórðar Olafssonar, kapelláns í Skarðsþíngum, og Kristínar Bogadóttur. Prentaðar í Hrappsey 1788.

a) *Undir nafni konu skáldsins.*
Eptir tveim handritum.

Hættir húss og anna
heimanferð mèr banna, —
slíkt mega konur kanna —
í kærleik því eg bendi
þèr með hug og hendi,
:|: systir mín, mín, mín! :|:
systir mín, eg því til þín
þessar línur sendi.

Þær skulu þèr tilkynna
þánka gleði minna,
heillum haga þinna
hýrliga sem eg fagna
og óskir mjúkar magna;
:|: ástar-þel, þel, þel, þel :|:
ástar-þel, sem ann þèr vel,
á því skal ei þagna. [1]

[1]) Þessa vísu vantar í annað handritið.

Auðnan yndistrúa
öllum heilla-grúa
þig og þinn faðmbúa
þýðust yfir helli
bæði' í æsku og elli!
:|: gjörist sætt, sætt, sætt, :|:
gjörist sætt og blíðu bætt
bölið allt, þó hrelli!

Guð, sá vel þèr valdi,
við þig æ fram haldi
ást, og yfir þig tjaldi
allri blessun sinni;
að þèr hjúkri' og hlynni
:|: elskan hans, hans, hans; :|:
elskan hans og egtamanns
unun valdi þinni. [1]

Lífs þá linna tíðir
leiði þig um síðir
engla flokkar fríðir
fagnaðar hæst í gnóttir,
þar ei er sorg nè sóttir!
:|: þig hvar sjá, sjá, sjá :|:
þig hvar sjá og mann þinn má
Margrèt Bogadóttir.

---

[1]) Þessa vísu vantar í annað handritið.

b) *Undir nafni skáldsins sjálfs.*
Eptir tveim handritum.

Hvað vil eg híngað
hás um raddar gaung?
þar öld fær þíngað,
þann beſjandi saung,
er frá augum rekur
órósaman blund,
og mig áminna tekur
um misjafnt lukkupund:
blíðu kyndir einn sèr ofn,
annann bindur meinsöm lofn
við óyndis sterkan stofn
og strengir keng á mund.
Eg hefi' ei híngað
heimboðsprýði flutt,
utan óþvíngað
óskar-kvæði stutt;
ykkur, brúðhjón úngu!
æruverðug þá
með kraptaþeli þúngu
þetta legg eg á:
Ykkur blessi góður guð!
gæðum hressi! samfögnuð
nær æfi' þessi' er útenduð
unni' að kunnum fá!

## 2. BRÚÐKAUPSVÍSUR

til Vigfús gullsmiðs Fjeldsteðs og Steinunnar Guðmundsdóttur, ortar í skopi. Vísur þessar eru prentaðar í Hrappsey 1785, en eru teknar hèr eptir einu handriti.

---

Hèr er fram borin hjónaskál
herra Fjeldsteðs og Steinunnar,
á flótta reka mun því mál
melankoliskar þeinkíngar.

Til Kaupmann'hafnar sjálfur sá
sótti gullsmíðis háfa ment,
með hverri' hann leggur alúð á
ættfróni sínu verði þènt.

Því situr göfug hans við hönd,
höfðínglig, auðug, dygðug, fríð,
til samlags kjörin silkiströnd
sorgligri gleimir ekkjutíð.

Hèr er tilsamans gæfa' og gull,
göfugheit, æra, dygð og ment; —
hvað vantar þá, að farsæld full
fáist, sem manni verði lènt?

## 3. BRÚÐKAUPSVÍSUR

til Þorláks bónda Hallgrímssonar á Skriðu og Margretar Björnsdóttur. Skáldið hefir haft þessa yfirskrift yfir vísunum: "Skylduga fagnaðar auglýsíng yfir æskiligri ektaskapar sameiníngu virðuligra og velaktaðra brúðhjóna Mr. Þorláks Hallgrímssonar og Jómfrú Margretar Björnsdóttur, sem fram fór að Möðruvalla-klaustri þann 26 Apr. 1792, lætur einn fráverandi þannig *Í Tè.*" — Eptir tveim handritum.

*Lag: Þèr drottinn! þakka eg.*

---

Yndislig sumarsól,
sjóndeild þá yfir rís,
hrjáð gjörir heimsins ból
hartnær að Paradís,
lýsandi líf uppvekur
og vermir það um vetur frýs.

Enn gleðja sinni' og sjón
síur af hennar dáð,
þó hafi' um Frera-frón
frekum ei þroska náð,
sannspá um síðir verður
unaðarvon, þó ei sè bráð.

Því meiri mæðuspor
megn hríðar eptir lèt,
því sælli vekur vor
vilkjör, þá deyja hret;
þeim er hugbótar hagur
helzt til kæti, sem áður grèt.

Þó skíni sama sól
sumars um hlýja mund
yfir það allt, sem kól
ísinn nær þakti grund,
eitt lífnar öðru fyrri,
ei er söm öllu stíluð stund.

Sèrhver í sinni röð
sambarmar tegund þó,
og af því gjörist glöð,
sem grand eða heilsu bjó;
öfund eða' ángurboði
friðsöm ánægja, farsæl ró.

Eins hefir gæfan gáng,
gefst sízt á einni tíð
söm öllum sæld í fáng,
þó sè til nægta blíð;
þó skal eins annann kæta
hlotin farsæld, en sturlan stríð.

Þèr hafið, virta-vin!
vortíma blíðan sèð,
þar seima-sól og hin
samskína' á Yðar geð;
þèr hafið sól við síðu,
sem hug uppljómar, hús og heð.

Svo skulu sunnur tvær
sælunnar færa gnótt:
ein ofar skýjum skær
skínandi' um dagstíð rótt,
önnur í sæng og sessi,
sumar og vetur, dag og nótt.

Sú dýra sumargjöf,
send Yður bæðum frá,
ekkjustands ángurköf
innlæsir gleymsku skrá;
slíkt skal mèr vorfró vera,
vetrar brygðir sem Yðar sá.

Ljómi nú lífs um dag
lukkunnar röðull skær
æ yfir ykkar hag,
allur svo gjörist vær;
verði' ykkur allt að yndi,
allt til blessunar, brúðhjón kær!

Sè Ykkur sumar, hægð,
sól, yndi, líf og brauð
guðs eilíf gæzku nægð,
gefandi sálar auð!
hans náð lífs ykkur leiði,
og uppheſji til dýrðar dauð!

## 5. NAFNARNIR.

Brúðkaupsvísur til Jóns Þorlákssonar eldra frá Skriðu og jómfrúr Guðrúnar Jónsdóttur frá Lögmannshlíð. Brúðkaupið var haldið á Möðruvöllum 11ta Maí 1808. Eptir þrem handritum.

*Lag: Min lukka tekur töplur smá.*

Mart á ei saman nema nafn,
náttúrunnar þó könnum safn

frá stafni á stafn;
svan finnst ekki svanur jafn,
nè hrafni hrafn.
Hèti mennirnir allir eitt,
þó eigi gæti fleira neitt
oss villu veitt,
mjög það yrði mengi leitt
og mart ógreitt.
Verða mundi þó verra tjón,
væri þeir allir eins í sjón
sem fylla frón;
herrann villtist þá um þjón,
ei þekktust hjón.
Hèr er nú engin hætta slík:
heitin okkar þó sèu lík
mun baugabrík
vel aðgreina róstjöld rík
og rifna flík.
Nei, til að veðja, nafni minn!
nær sem vill, em eg staðbúinn,
að sætan svinn
um grímu þekkir gullmunn sinn
frá grárri kinn.
Sú eg, mèr líka, kyssa kýs
kvennsnipt, en öðrum hár við rís,
er *digra dís*[1];

[1]) Hèr meinast *crassa Minerva*, ósnotar andagipt, en ekki svo nefnd *Hlíðar-Vigga kerling*.

þarum enginn villist vís,
og varla grís.
Hvað skal að keppa mèr um mær,
mannleysunni, sem fælast þær,
með lasið lær,
eg er sæll ef auðþöll hlær,
en ei mig slær.
Gjörla veit eg, að gullsná hress
gjalda lætur ei Yður þess
í sæng nè sess:
að heiti líkt er hennar vers
og halta prests.
Heiti mitt, borið híngað til,
hèðan í frá eg við mig skil,
ef baugabil
þetta mætti vera' í vil,
af vinaryl.
Þó er skilmáli þar við beinn
þessi, nær ykkur fæðist sveinn
ágætur einn,
nafni mínu hrósi hreinn
og heiti *Seinn*.
Máske sá gæti Maídag
meiri fegurðar sett í lag
með brúðkaups brag,
enn þetta gjört við þrautaslag
dverga-fars drag.
Það á að dýfast ölfoss í
og aldrei koma fram á ný
um borg nè bý;

þagnarinnar djúpa dý
skal drekkja því.
Alskrýðist þið með auðnu dún
eins og svasaðar fágar tún
en blíða brún;
jarðprýðendur jafnt sem hún,
*Jón* og *Guðrún!*

* * *

Kætast mundi kránkur hugur karls örvasa
úng ef vildu brúðhjón brosa
bragnum að í þessum rosa.

---

## 6. HAUSTJAFNDÆGRIN,

í brúðkaupi sèra Jóns Jónssonar á Myrká og Jómfrú Rósu Þorsteinsdóttur þann 22 Sept. 1808.

*Lag: Þèr drottinn! þakka eg.*

---

"Velkomið vertu haust,
þó vetrarboði sèrt!"
Ef hefði rósin raust
ræða svo mundi bert, —
"að farga fegurð minni
veit eg þú sent að ofan ert!"
"Blómgast og blikna mèr,
bera þó rósarkrans,
tilskikkað allt eins er
af gæzku skaparans;

vetur, haust, vor og sumar,
öll sýna dásemd á mèr hans."
Þèr, aldið aldin-blóm,
úngri sem tengist rós,
kjörið í kennidóm
kristninnar fyrir ljós!
Yður og ekta-brúði
þetta skal sagt um haustið hrós.
Hlýtt og kalt saman sè,
svo jafnast dægrin bezt,
og Reir af Rósinni
rètt er að upplífgist;
eldast, en aldrei fölna,
elskan og dygðin, mæta-mest.
"Stofnaða stètt í dag
styðji mín heill yndæl
og allan ykkar hag"
(eilífi guð, svo mæl!)
"unz dýrð öll dægur gjörir,
dýrmætu brúðhjón! jöfn og sæl."

## 7. BRÚÐKAUPSVERS

til Jónathans Þorfinnssonar og Jómfrú Helgu Sigurðardóttur að Bakka 15 Júní 1812. — Eptir einu handriti.

*Lag: Ó Jesú elskuhreinn!*

Hvað utan heilagt má
heilögum koma frá?

gjafarinn guð er sá,
gjörvalt sem heilagt á.
Hvað drottinn helgar sèr
helzt eru mennirnir;
synd háðir vorum vèr,
en verðum heilagir.
Guð hefir gefið það,
guðs sonur afrekað,
andi guðs innsiglað
oss fyrir skírnarbað.
Lastanna laus við mein
lauguð var sál hver ein,
Krists þá í skrúða skein
skenksins unnusta hrein.
Ef vèr hinn fengna frið
föður himneskan við
höldum með helgum sið,
heppnast oss takmarkið.
Í raun sál reiknast nú
rèttlát og heilög sú,
er svo með sannri trú
sameinuð er Jesú.
Ektaskap andligan
afmálað hefir þann
jarðneskum hjúskap hann,
er helga sjálfur vann.
Hjónabönd, huguð jörð,
á himnum eru gjörð [1],

[1]) Það er þýzkt máltæki: *die Ehen werden im Himmel gemacht*, þ. e. hjónaböndin gjörast á himni.

guð setur góðan vörð
til geymslu sinni hjörð.
Hvað, utan heilagt má
himninum gjörast á?
guðs forsjón helg og há
hjónin útvelur þá.
Hann velur hverjum sitt
hlutskipti', og gefur frítt,
mèr þetta, hinum hitt,
hann þegar vill einmidt.
Stètt hjóna stiptuð efst,
stórs heiðurs jafnan krefst,
engin svo gömul gefst,
guðs æra þar við hefst.
Til dýrðar honum hèr
hjónaband stofnað er,
nafn þeirra beggja ber
boðskap um guð með sèr.
Jónathan játast af
Jehóva, það hann gaf[1]
útvalinn styrktarstaf,
stórt er það nafns-upphaf.
Hann lèt og honum veitt
heiðarligt kvonfáng eitt,
sem Helgu heiti teitt
helgum fær dygðum skreytt.
Hæstur guð heiðursmann
Helgu gaf Jónathan,

---

[1]) *Jónathan* er ebreskt nafn og þýðir: *guð gaf.*

Jónathan Helgu hann
helgaða gefa vann.
  Guð hefir valið veitt
vígt sèr og helgað greitt,
tvö hjörtu tengt í eitt
og til hvors annað leidt.
  Hann hefir gefið og gjört
af góðum stofni hvört,
helgunar brúðlín björt
brjóst prýða látið ört.
  Blessi nú guð það gaf,
gæzkunnar hátrón af,
brúðarpar helgað! haf
hann því að verndarstaf.
  Hann þèr sitt hjálpræði
hvervetna láti' í tè!
blessi sál, fjör og fè,
friður guðs með þèr sè!
  Hans ráð æ heilagt er,
hvað sem hann gefur þèr,
þó blandi saman sèr
sorgir og glaðværðir.

## 1. TÚLLÍNS MINNÍNG.

Kvæði þetta er ort 1773, og prentað áður í Hrappsey meðal Ljóðmæla sèra Jóns, fyrst 1775 á íslenzku og latínu, bls. 106—111, og síðan 1783, bls. 61—63.

Hvað er saungva það hjá þýðum
þjóðum landa fjærliggjandi,
híngað norður lopts um lánga
leið er heyrist vorum eyrum?
Hafa nokkrum guma gefið
guðir róm, þann fegur hljómi?
Íslands jöklar óminn mikla
endurkveðinn frá sèr senda.

Skáld sigrandi frægstu foldar,
fróður, alinn norsku blóði,
saung á danska *Túllín* túngu,
tignar-kvæði mildíng hæða.
Nú þótt ýnni' á mikilmenni
máttur hels fyrir vetrum átta,
dýrar raddir hans vèr heyrum,
híngað flognar, Íslendíngar.

Hans í skrifum, lesari ljúfur!
ljóða-norn er klædd af fornum

fúa-serk, í fati nýju
fegurð sýnir eiginlega.
Ei nam lognum Eddu sögnum
efnið villa skálda-spillir;
hans eru fullir óðar allir
yndisligra guð-sanninda.

Flapur ei um *Troju* töpun [1],
tölur ljótar *Amors* hóta [2],
heldur farir heims af skáldi
hermdar sjást, og guðligar ástir.
*Ummyndanir* ei nam greina,
afl boðandi heiðinna goða,
heldur þær á hverju ári
höfum að vætti guðs almættis.

Hafi blómguð yrmlings æfi,
eika krans og fugla dansinn,
hann inntekið, honum vakið
helga grundun skaparans undra:
miklu fremur mætti sama
marka spor í þánka vorum,
hæðum ofar hvern er leiðir
hróður, súnginn lærðri túngu.

Tilkomanda tímans enda
tærara speigil fáum eigi,
þar til raunin svoddan sýnir,
sèð, enn vess er orti þessi.
Hverr þig kraptur ofan eptir,
andi frægstur Norðurlanda!

[1]) þ. e. einsog Virgilius.
[2]) þ. e. einsog Ovidius.

hafi leiddi heimsins æfi,
hennar grunn að skoða kunnir.
Drottins yfir dómum réttum
dómar rángir tíðum gángast;
margur reiknar sèr til sorgar
sinna gagn, er ætti' að fagna.
Skáldið þessu varna vildi,
vísdómsfulla gæzku prísar,
lífs ráðandi' og aldurs enda,
umbun dygða' í hæstu bygðum.

Verðugt hrós, í voðum jarðar
værð hafandi, skáld hálærða!
þinni ment vèr þakkir kunnum,
þínar iðnir syrgjum liðnar.
Þitt skal nafn í yrkis efnum
oss að dýru metið hnossi,
þitt skal nema hól við himin,
Hómer Danski! Krýsóstóme!

## 2. ÞAKKARLJÓÐ

í Íslands nafni til Ólafs Ólafssonar á Kóngsbergi fyrir það hann hafði gjört gagnsjá *(Transparent)* mikla með mörgum myndum til að votta Friðreki konúngsefni gleði Íslands og von á brúðkaupsdegi hans 1790, en enginn af Íslendíngum í Danmörku hafði haldið uppi svörum af landsins hendi. Myndunum er lýst í ritum ens íslenzka lærdómslista fèlags 11ta B. bls. 308—311. Yfirskript kvæðis þessa er þannig eptir skáldið: "*Íslands Þakkar Saungur*, sem háaldraðrar margra barna móður, til handa sínum ástríkum syni Ólafi Ólafssyni, lektor og teiknimeistara á Kóngsbergi í Noregi". Kvæði þetta mun vera ort 1791 og er það prentað hèr eptir tveim handritum.

---

Á friðarríkum Friðriks degi
fjórtánda meina' eg Septembris,
var eg þar stödd, sem eg kom eigi,
yndælis naut, sem fór á mis,
og kvaddi föðurefni mitt,
er það fádæmi svo sem hitt.

Engin draumsaga þó er þetta,
þyl eg um undur sanntalað;
forlög hafa mig fjærri setta
föður míns bygð [1] í dymman stað;
þá systur mínar [2] sjá hans dýrð
sættast má eg við harm og rýrð.

Um kyrt eg sat, þá kóngsson prúði
(kalla'g hann föðurefni mitt)

[1]) aðsetri Danakonúngs.

[2]) hin önnur lönd ríkisins.

leiddi til hallar bjarta brúði,
bar mèr ei neinn þann gleði-kvitt,
en systur mínar sýndu þá
að sól hans tignar skein þær á.

Þar var eg samt með þeirra skara
þekkjanlig, ytst í kvennaröð,
voluð og ekki vel til fara,
vonarfull þó og sinnisglöð;
falliga leikin furða sú
fagnaðarefni mitt er nú.

Hverr mundi mèr þann harm afþerra
hefðag af dætrum Kristíans
ein eptir setið, ástkærs herra,
óhrærð við gleði sonar hans?
böli því af þèr varnað var,
vænsta blóm minnar kynslóðar!

Nær mig um leik og dans ei dreymdi
dansendra flokki lèk eg í;
unaðar gnægðin að mèr streymdi,
ei þótt eg vissi par af því;
þessu fèkk valdið hönd þín hög,
hugvit og snilli frábær mjög.

Margir voru þar mínir synir,
mèr vandabundnir einsog þú,
þó lètstu framar þig, enn hinir,
það sem mig skorti vekja nú,
mögur er ei, nema móðir sè,
mèr er því bent að skyldunni.

Skal eg sonargjöf þekka þiggja
þakkarlaust, svo sem ekki neitt,

og niður grafið láta liggja
lofsverðrar elsku merkið veitt?
með hverju gjörist munur þá
misjöfnum barna verkum á?

Þèr læt eg innta, blómi barna!
börnum til gagns og æru mèr,
ástsemdar þökk og eiða svarna,
alla velþóknun mína' á þèr;
mèr skal æ vænna þykja' um þig,
því framar sem þú gleður mig.

Undrum þeim læt eg umbun mæta,
er mig fluttir, þó sæti kyr,
eg nafn þitt hyggst að endurbæta,
en þú heitir þó sama' og fyr:
Al-leyf[1] kallar eg *Ólaf* þann,
almennt forskulda lof sem vann.

*Ófalur*[2] skaltu öðrum vera,
engri móðerni þitt eg sel,
slík er mèr æra börn að bera,
betri þig einn enn mörg eg tel,
þó systurskauti sitjir í
samt hef' eg ærin not af því.

Uppljóman ný skal endurgjalda
uppljómun þína, sonur kær!
en fyrst eg má ei öðru tjalda
eldheitar læt eg hænir þær,
sem altendra minn ástarhug,
að englasölum beina flug.

[1]) Eggert Ólafsson kallar sig "Alleifi borinn".
[2]) Ólafur, með víxluðum bókstöfum.

Eins sem dröfnóttar leipturs ljósum
litar sólbrautir heiðskír nótt,
eins og vortíð með aldin-rósum
allt gjörir hauðrið margflekkótt,
og svo sem takmörk eyjabands
eru fjölbygð af kornum sands:

Eins veri festíng æfi þinnar
alstirnd af ljósum farsældar!
og vafin blómstrum velgengninnar
völlur ástands og framkvæmdar,
en þinnar sælu' og heiðurs haf
heims ei takmörkum skorðist af! [1]

Lif ætíð sæll, minn ljúfi niðji!
lif farsælastur þegar deyr!
verk þín loflig þig eptir iðji
Íslands velferð, þó sèrt ei meir!
ódauðlig gjörð þín æra sè
*Islandiæ sub nomine!* [2]

[1]) Þessar tvær vísur eru einstakar í einu haudriti, auk tveggja enna fyrrnefndu, og eru kallaðar "lukku-ósk til Magnús prófasts Erlendssonar"; kveðst sá skrifari hafa þær eptir eiginhandar-riti. Þar stendur "hvergi" fyrir "heims ei".

[2]) Þ. e. í Íslands nafni; þessi orð stóðu í gagnsjánni.

## 3. ÞAKKARÁVARP

í Íslands nafni til ónefnds manns nokkurs í Danmörku. Þessi maður sendi Stephâni amtmanni Þórarinssyni fyrst 1798 50 dali í kóranti til verðlauna handa þeim, sem bygði stór farmaskip til rekaviðarflutninga á Slèttu og við Húnaflóa. Þá sendi hann og nokkor búnaðarrit dönsk og trjáfræ, en árið eptir sendi hann 10 dali til verðlaona fyrir ritgjörð um sauðaverzlun. Auglýsingar um þetta ero í Minnisverðom tíðindom I, bls. 470—77, og II, 151—56. Þetta Þakkarávarp sèra Jóns er ort 1799, og er prentað í Minnisverðum tíðindum II, 147—149, og í dönsku tímariti sem kallað var Minerva (í September 1800, bls. 314), með danskri útleggingu við eptir Skúla rektor Thorlacius.

---

Fátæk em eg
og ei fjölskrúðug,
öldruð móðir
ótal barna,
em eg köldum klædd
klaka-stakki,
af því ber eg nafn
alla daga.

Býtt var mèr bólstað
und belti svölu;
sit eg sífelt hèr
og sè marga
bæði bræður
og buri mína,
þeir er æ ymsu
að mèr víkja.

Get eg enna góðu
ok göfuglyndu,
eru þeir margir
af múg beggja,
sem mig sjá vildu
sælli kjöra,
ok æstu hag mínum
heilla meiri.

Hinna sèu heiti
á haf rituð,
og á ísfeld minn,
þá ornar sól;
þeir er tötur mín
tönnum slíta,
og sjúga merg minn
þótt mögur sè.

Ýtrir unna mèr
ástum hugar,
hag minn hvervetna
er hafinn kusu;
gæddu margir mig
mæta gjöfum,
þó er faðir minn [1]
fremstur allra.

Sumir sæmdu mig,
er eg sá aldrei,
þótt eg heyrt hafi
heiti þeirra;

[1]) Danakonúngur.

skal mèr æ annast:
þau öll verði
gulli betur geymd,
en gleymd eigi.
Hvar mun þá hirzla
fyrir heiti þitt,
fólgni fè-gjafi
á fold Dana!
dulinn em eg nafns þíns,
en dygðar eigi,
hún skín því hærra
sem hitt er leynt.
Ylnar mèr í brjósti
við ást þína,
og við guði glíkt
göfuglyndi;
sæl þættumst eg,
ef eg sjálf hefði
þenna mæta mög
móðir alið.
Hvaðan kom sú hugsan
hjarta þínu,
ástvin ósèður!
að annast mig,
og að minnast mín
til meðaumkunar,
gæða mig gjöfum
og gagns frama?
Hvaðan kom sú hugsan
nema himni frá?

sá er góðfúst geð
gegnum ljómar;
guðs skína geislar
á gjöfum þínum,
en þó ljósara'
á leyndu nafni.
 Hvað knúði hug þinn?
hólgirnd engin,
mundi ella nafn þitt
mèr ei dulið,
heldur góðgirni,
guðhrætt sinni,
mikil mannelska,
mynd Alföðurs.
 Hvern skal eg herma
höfund gjafar,
er arfar mínir
eptir spyrja?
guðs vin, góðs vin,
— gortsvin eigi, —
minn vin og mannvin,
mund Alföðurs.
 Dulinn vera vill
sá er vont fremur;
ófrómur ótti
illgjörð fylgir;
hitt er hugprýði
hærri gjöfum:
að veita velgjörð
en vera dulinn.

Það er svo fögur
sem fásèn dygð,
undirrót æru
ódauðligrar;
hèr er gjöful hönd
góðfúss hjarta,
en yfirþögn
auðmjúks vottur.
Verði mèr þau not af,
sem vildir þú
góðs hugar gjöfum!
svo geti sagst:
"það var vel gefið,
og varð að góðu",
en aldrei: "hèr var auð
í eld kastað".
Sè þá heiti þitt
á himni rómað,
umbunuð ást þín
uppi og hèr!
munuð manngæzka
mèr í brjósti,
ágættur orðstír
í allra munnum!
Á gulli grafna,
ef eg gull ætta,
mundi' eg mèr kjósa
minníng þína,
ásettu nafni,
þar ei annað veit:

"sá enn rèttlyndi
Rausnarmaður".

## 4. ÞAKKARLJÓÐ

í Islands nafni til ens enska biblíufèlags, fyrir bókagjafir þess með Henderson. Kvæði þetta er prentað aptanvið "fáein orð um uppruna og útbreiðslu enna svokölluðu biblíufèlaga" í Kaupmannahöfn 1815 bls. 11—15. — Eptir einu handriti.

Þú, Krists verðugi fèlags-flokkur!
forskuldar meir enn annarr nokkur,
að nefnast þannig nú á öld;
röðulskærr þinn sig reisti ljómi
þá ríki myrkra kristindómi
ögra lèt nærri komið kvöld.

Englanna kóngur út þig sendi,
englar, komnir frá drottins hendi!
þèr hans safnaðar styrkið stand
og honum trúa helgið þegna,
hèðan af gjörist, yðar vegna,
England sannkallað Engla-land.

Þá villuskæðir vöktu fèndur,
vorrar ritníngar fóttroðendur,
þèr Englar risuð þeim í gegn,
í kærleiks anda saman svarnir
sannleikans til að efla varnir
ei huga spörðuð, auð nè megn.

Fádæma kærleiks fegurð slíka
frá yður streyma sè eg líka
allt híngað norður yfir mig:
eyju, þar hými, kennd við klaka,
í köldum mar, sem einsog jaka
í kríngum Ísland sveigir sig.

Fætur Engelskra friðarboða
fornar postula brautir troða,
útsendir líkt um allan heim;
sjá! þeir hugprúðu sannleiks vinir
sitt líf ei spara, meir enn hinir,
einn til mín kominn er af þeim.

Guðliga stjórn eg þarí þekki
þess, sem eg dýrka' en sè þó ekki,
mín svo herliga minnist hann;
ó, skyldag, þannig áhrærð, sofa,
ísköldum fángin sinnisdofa,
velgjörníng eigi þakka þann?

Mammon og Júdas mundu sýta
mikil gjaldspell, og þau álíta
einsog án þarfar útsóuð,
sem kostað hafið kærleiks vegna
Krists til að smyrja ríkis þegna,
og enginn reiknar, utan guð.

Mergð af guðs orða meginhirzlum,
mörg þúsund, full af andarsmyrslum
hvervetna færast ker um kríng;
heilög ritníng til hjálpar sálum
í hverskyns landa túngumálum
útbýtist fróns um heilan hríng.

Hvað má góðgirni guðlig heita,
gefins ef ei er slíka' að veita
guðs helgidóma gnægð af auð?
en með gjafverði sumpart selja,
svo að ókeypis jafnt má telja
heiminum útdeilt himnabrauð.

Er því jarðneskum ávinníngi
ærið fjærstædt, að hèrtil þvíngi
yðar himinlynd hjörtu sá,
heldur þúsundfalt honum æðra,
heiður drottins og velferð bræðra
vakti með yður verkun þá.

Háleitt fèlag, til heiðurs guði
helgað, og frama Krists söfnuði!
gott verk hefir þú gjört á mèr,
þess skal eg jafnan vottur vera,
og verðug heiðursteikn frambera
þarum, eins fyrir hæð og hèr.

Þó hraustir kappar hrósi sigri,
hrak er á móti tignarligri
guðrækni athöfn þinni það;
hennar not, laun og heiður, vara
heims yfir sèrhvern maktar skara
hèr og á öðrum hærra stað.

Í mínu nafni' og minna barna
með þessum orðum vil eg gjarna
þakklæti gjalda þèr og prís!
ó, að vèr mættum eins vel njóta
til allra heilla' og sálarbóta
þinnar gjafar, sem þú oss kýs!

Öldruð kona með faldi' og feldi
fannhvítum undir Norðra veldi,
Garðarsey, stirðan gel eg óð;
opt það, sem mínir kundar kváðu,
konúngar forðum mildir þáðu,
þiggið og feður! þessi ljóð.

Engla jöfur, sem himni' og heimi
með hátign stýrir, yður geymi!
hans blessun yður styðji sterk!
sú er mín ósk af heitu hjarta:
hèr og síðar að megi skarta
umbun hans fyrir yðar verk!

## 5. BÓKARGJÖFIN.

Eptir einu handriti.

Bezt er gjöf gefin;
gullfána bók
gaf mèr göfug lund
gulli betri,
dygg lund í Danmörk,
dulin emk heitis;
guð veit gefanda
og gjafa minnist;
nú skal nýtust gjöf
namni fylgin;
gefur Jón Jóni
til jarteikna.

Ást fylgir aums gjöf
og óskir heilar,
njóti hann svo alls góðs,
sem eg ann honum!

## 6. TIL RASKS

útaf riti hans um ena íslenzku túngu og uppruna hennar.
Eptir fjórum handritum og eru tvö með hendi Rasks.

Fróðri ment hefir feðra
frum-mál Norrænu vorra
*Rask* af rótum vizku
rèttvel látið spretta.
Engin íslenzk túnga
ætlag geti það betur.
Heiðrist lærður af hauðri
höfundur rits og gjöfull![1]

[1]) Á lausu blaði, sem Rask hefir ritað á vísu þessa, stendur öðrumegin önnur vísa, sem hann hefir ort til sèra Jóns aptur, og er hún þannig:

| | |
|---|---|
| Hvernig skal eg | skáldi hann mart |
| skáldi Fróns | að skemtun þjóða, |
| verðugt ástar | sjálfum sèr |
| veita þakkir? | til sóma eilífs |
| Lifi hann leingi! | en ljómandi æru |
| liði' honum vel! | Ísa-hauðri! |

## 7. TITLÍNGS MINNÍNG.

Ort um ellidauðan kanarí-fugl, prentuð í Hrappsey meðal Ljóðmæla séra Jóns 1774 (bls. 103—105) og 1783 (bls. 91—93). Hèr er hagnýtt eitt handrit með bókunum.

---

Mjög er nú hljódt í saungva sæti! —
sá fór í burt er skemta nam, —
er þá mitt fegurst eptirlæti
orðið að dauðum titlíngs-ham?
ó, gæti' eg lífgað aptur þig!
ó, hvað það mundi gleðja mig!

Ef lifði Túllín enn hjá Dönum,
um þig sá gæti kveðið brag;
ættfuglar þínir áður hönum
yndælan gjörðu Maí-dag,
eg má og vitna það um þig:
þú hefir tíðum gladdan mig.

Ætt þín í Roskild ágæt stendur,
upprunninn líka varstu þar,
til Kaupinhafnar síðan sendur,
sáu þig ótal höfðíngjar,
ófeilnum titlíngs-augum með
eins fèkkstu þeirra dýrðir sèð.

Örlaga nornir að þèr krepptu,
út bygðu þèr frá Hafnar stað
og háöldruðum híngað sleptu,
hafi þær ómak fyrir það! —
Eyrindi þitt til Íslands var
öðrum að skemta' og deyja þar.

Þú mátir nefnast utan efa
Íslands klenódí makalaust:
ei stóð búkurinn útúr hnefa
innifaldi þó geysi raust,
fiðrið skrautligan farfa har
fágum allskonar teiknað var.

Náttúru þú af höndum högum
hvellrómað gjörðist instrúment;
náttúran tók þig nú af dögum;
náttúran sjálf þèr hafði kennt;
mætar náttúru mentir barst,
meistara-stykki hennar varst.

Ó! hvað lystilig yndis-kvæði
á þinn hljómfagra barkastreng
lèk hún, þá morgunljómann bæði
lofaði' og nýjan sigur-feng:
að kaldur unninn vetur var,
vorblóminn gladdi skepnurnar.

Því mundi dauðinn þannig leiða
þig hèðan burt frá vorri sjón?
honum var nær með öllu' að eyða
illfuglum þeim sem gjöra tjón;
yndi var meira' að einum þèr
enn öllum hröfnum, sem jörðin ber.

Þú giptist ekki' í þessu landi,
þartil var heldur engin von; —
ef þú hefðir af egtastandi
eptir skilið þèr líkan son,
þá þyrfti' eg ekki að mæða mig
með því að vera' að harma þig.

Ununar slíkrar eg má sakna
(öll taka' að finnast dægur laung)
árla þá eg á vorin vakna
við þann ófagra morgun-saung:
að krummar fljúga' að húsum heim
og hundarnir fara' að gelta' að þeim.

## 8. EPTIR SPANSKAN HRÚT.

Vísur þessar eru prentaðar meðal Ljóðmæla sèra Jóns í Hrappsey 1783, bls. 93—94.

Vinur ástkærr, um veg farandi,
vend híngað þínum sjónarbaug!
berhöfðaður slík bein skoðandi
þó bleik og skinin sèu þaug;
auðmjúkur þessu líki lút!
— liggur hèr krof af spönskum hrút.

Hann var ypparstur hèr um slóðir
hornberenda, það játum vær,
og af útlenzku borinn blóði,
bauðst þó að lemba vorar ær;
góðan fjárafla gjörði þrátt, —
gekk það allt til á spanskan hátt.

Uppá hans stóra lítilæti
ljósasta dæmi það eg veit:
að af vegligu sómasæti
sigldi í þenna kalda reit;

álit persónu' ei akta vann,
úngum sem gömlum þènti hann.

Öll hans hreystiverk upp að rita
ekki tekst mèr í þetta sinn;
eitt vil eg þó, sem allir vita,
um getið hafa, kæri minn!
sem er: að hann fèkk saman skeytt
sauða kynferði tvö í eitt.

Loksins til fulls þó linna hlutu
lífsins kraptar og virðíng hans,
hverjum með andakt áður lutu
yppurstu hrútar þessa lands;
út þeim síðasta anda blès
örþjáður horna-móyses.

Dauðasótt hans og baninn bráði
böl uppvekur í þánka-rann: —
yfir geysandi ofsa-kláði
ei hafði farið vel með hann,
hörmuligt þartil helið stakk,
honum banvæna skál til drakk.

## 9. VAKRI SKJÓNI.

Eptir ellidauðan gæðíng; tekið eptir einu handriti.

Hèr er fækkað hófaljóni —
heiminn kvaddi vakri Skjóni;
enginn honum frárri fannst; —
bæði mèr að gamni' og gagni

góðum ók eg beizla-vagni
til á meðan tíminn vannst.
  Á undan var eg einsog fluga;
opt mèr dettur það í huga
af öðrum nú þá eptir verð. —
Hèðanaf mun eg hánni ríða, —
hún skal mínar fætur prýða,
einnig þeirra flýta ferð.
  Lukkan ef mig lætur hljóta
líkan honum fararskjóta,
sem mig ber um torg og tún:
*vakri Skjóni* hann skal heita;
honum mun eg nafnið veita
þó að meri það sè brún.

## 10. UM DAUÐA MÚS Í KIRKJU.

Eptir Ljóðmælum prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 101.

Ei er forvitnin öllum hent,
einatt hún skaðar drótt,
fallega músar fær það kennt
feigðar-áræðið ljótt: —
skyldi hún hafa æfi ent
eða drepizt svo fljótt
hefði ei skollinn hana sent
í helgidóminn um nótt? —
  Fegurð kirkjunnar fýstist sjá,
fór svo þar grandlaus inn;

kötturinn, sem í leyni lá
og lètst vera guðrækinn,
heiptarverk framdi henni á, —
helvízkur prakkarinn! —
ætti því stríða flengíng fá
fyrir þann strákskap sinn.
Þá myrkur-drauga músa her
minnast eg þar á bið:
úti við hauga uni sèr,
elskandi spekt og frið;
í kirkjum að spauga ekki er
ormanna hæfi við;
kattarins auga brátt að ber,
birtunnar þarf ei lið.

## 11. SENDIBRÈF FJÁRA

í nafni fjárhunds á Bægisá, til pilts sem þaðan var nýfarinn. — Eptir einu handriti.

Fyrrverandi fóstri minn!
fallegi ýngismaður!
lifi þèr í sèrhvert sinn
sæll og margblessaður!
Fyrirgefið, fóstri minn!
fast þó stundum yrði,
græzkulausi þánki þinn
það fyrir rælni virði.

Eg er giptur ullar-tík,
úngri', er heitir Fjára,
segir fólk við sèum lík
á svíp og litinn hára.
Húsbóndi minn hèr á stað
heitir stutti Bensi,
alkunnugur, þú veizt það,
þínum lánga Jensi.
Svíðíngurinn sveltir mig,
svángur á hússgángs barmi,
annað var þá elta' eg þig
ætíð fullum parmi.
En eg strákinn aptur svík,
ekki meir enn dyggur,
heim að bæ frá honum strýk,
helzt þegar mest á líggur.
Annars hefi' eg aldrei frið
í eymda hnauki sáru;
annað er hèr þó verra við: —
vill hann gílja Fjáru.
Heldur víl eg hún sè þín
að hafa af not og skera,
en sú tík, sem áður mín
að egta . . . . . má vera.
Þagnar logni á þetta slær
þulið vísna gjálfur,
klerkurinn hefir klórað þær,
en kveðið hef eg sjálfur.
Fyrirgefníng föluð sè
fáorðustu pári;

eg forblíf með estíme
yðar klíent: — Fjári.

## 12. SAGAN UM HATTINN,
### ÖNNUR BÓK.

Prentuð áður í "Gamni og alvöru" II, 247—51. Hèr eru tvö handrit samanborin við bókina.

Hattsagan liggur hálfgjörð enn,
hattinn þó allir brúki menn,
á henni Gellert upphaf tók,
út er komin hin fyrsta bók;
efnið í hina' er orðið þó
allmikið síðan skáldið dó.
*Kristían Bjeríng*[1] kvað um hatt
kvennapanna, þó ekki satt;
en hvað hann hafi með því meint,
má skilja vel, þó ei sè greint;
um hitt eg nokkuð herma vil,
hæfilig rök sem eru til:
Ein ýngisstúlka lèt af leik,
lystug og kát, en ekki smeik,
hatt karlmanns uppá höfuð sèr,
um herðar stóðu lokkarnir;
stallsystur hennar stóðu hjá,
störðu með undrun vífið á.

[1]) sjá *Chr. Gormsen Bierings Fabel: Hunaberne med Hatte.*

Aldrei sèð hafa þóttust þær
þvílík umskipti taka mær;
"heillin mín!" sagði hver um sig,
"hattinn settu nú uppá mig!
æ, hvað eg vildi mýtrið mèr
miður ei færi neitt enn þèr!"

Allar kvörtuðu' um ósið þann,
einn sè hatturinn fyrir mann,
en fyrirmunað fljóðum sè
hins falligasta' af búníngi;
"ó, hvað nauðbeygðar erum vær
undir vananum!" sögðu þær.

Hatturinn gekk af koll' á koll,
kom þá ein stúlkan sjón á poll; —
að sækja spegil tefur tíð,
til að sjá hvað hún væri fríð;
hver eptir aðra leit í lög,
lofandi sína prýði mjög.

Þángað mart úngra fljóða fljótt
flykktist, því ei var talað hljótt,
samkvæmið tók að gjörast glatt,
glumdu múrarnir undir: hatt;
leikurinn varði lánga hríð,
lá við úr honum yrði stríð.

Ein þeirra biðil átti sèr,
eins og lög gjöra ráð fyrir,
í húsi næsta hèlt sá vist,
heyrði glauminn, og undraðist;
hann kom, en þekkti varla víf,
var svo sem fengi annað líf.

Hann varð forviða' og hèlt um stund
hönd fyrir auga móts við sprund;
"hvað gengur að þèr?" hún þá kvað;
hann svarar klökkur uppá það:
"hvað eg er frá mèr numinn nú
nærri fær ekki getið þú.

Frá þeirri stund, eg fyrst þig leit,
fegurð þín jafnan á mig beit,
en aldrei hefir einsog nú
í augum mínum ljómað sú;
ástin logar um allan mig,
engil, með hatti, tel eg þig.

Æ, að þú vildir, elskan mín!
aldrei á höfði bera lín;"
hún kvað, það skyldi gjarnan gjört,
gaf koss þar uppá öðru hvört;
egtaskap hann við brúði batt,
brúkaði' hún síðan ætíð hatt.

Hinar, sem staddar voru við,
völdu sèr líka þennan sið,
sèrhver með hatti sig útbjó,
sumar ei fríðar voru þó;
hver þeirra giptist innan árs,
þó ekki bæru fegurð hárs.

Á stuttum tíma fjölga fljóð,
sem fèllust á hinn nýja móð;
hatturinn slíkt er hægðar fat,
haggaðist ekki þar hann sat;
umbúning lítinn þarmeð þarf,
þegar við liggur annað starf.

Aldraðar stúlkur einnig þar,
sem orðnar voru fölleitar,
ef öðlast vildu biðil brátt,
bjuggu sig nú á þennan hátt;
hatturinn gjörvalt huldi slíkt,
hvert sýndist fljóðið öðru líkt.

Ekkja, komin til ára þó,
ómegð hlaðin, við fátækt bjó,
forstöðulítil fèkk sèr hatt,
því fötin varð að selja' í skatt;
nú kom maður og brúðar bað,
batnar svo hennar ráð við það.

Hvort þetta verður lengi lènt
lætur smámsaman tíðin kennt,
hætt er við, þegar hól er tapt,
hatturinn missi þennan krapt,
einsog hvað annað, fásèð fyrst,
fellir prísinn þá ílengist.

Hatturinn fór af landi' á land,
leið hann og yfir sèrhvert stand;
höfðíngskonur og herra-frúr
hann lètu settan út með flúr,
líka var breyttur litur hans
lángtum falligri' enn almúgans.

En hvað hatturinn glansar grænn!
þá gengur hefðarsvanni vænn:
einsog blómligan eikartopp
undir hyllir við fagran kropp;
það djásn skoðendum unun er,
augna-fró henni, sem það ber.

Garðarsey fyrir handan haf
hattinn lèt elta frá sèr traf,
fækka taka þar falda-gnár,
fela þær ekki lengur hár,
því mátti' ei gefast einnig oss
undan hattinum mjúkur koss?

Að hattinn brúki hver ein snót
hefir eg ekki neitt á mót,
þær sem skarnverkum atast af
ekki fer vel að beri traf;
hatturinn þolir sót og saur
samlitur meir enn lín við aur.

Hvað eitt skaðar sem er um of; —
ekki skerðir það hattsins lof:
þó vinnudrægsli viðbjóðslig
vilji nú láta prýða sig
með breiðu silki, búinn kúf,
borðum, elligar talnaskúf. [1]

Um hattsins æfi hèrtil er
hót ekki fleira kunnugt mèr;
hvað á hans daga drífa kann
dymmt er eins fyrir mig og hann;
eptirkomendum ætlað sè
enn að framhalda sögunni.

Ef heimspekinnar meðferð má
mannhatts breytíngum þekkjast á,

---

[1]) Þessa vísu vantar í "Gaman og alvöru" og sum handritin.

eru kvennhattar ímynd sú,
sem eptir hermir flestra trú;
bílæti þeirra bezt eg sè
beggjamegin í kirkjunni.

## 13. SKÓLARÖÐ

um miðjan vetur 1807; — eptir einu handriti.

Appolló vill almúgans
eyrum kynnt á blöðum
námsæfíngar herlið hans,
hýst á Bessastöðum.
Skipt í flokka því er þrjá,
þar er kappa fyrstur,
sem mestar hefir mætur á
Mínerva' og þær systur.
Þegar ára takmörk tvö
tals hvort öðru mætti:
átján hundruð sex og sjö,
svo er í fyrsta þætti. —
Geymir Jónsson Guðmundur
göfugt efsta sæti,
frá Hvanneyri bóndabur;
brota skólans gæti.
Ásgeir Jónsson annann sess
á, hinn listum-búni,
svefnhússvörður, sonur prests,
sem er á Stapatúni.

Pètur Jónsson til eg tel,
tjáist þessa faðir
silfursmiður, vanur vel;
víst eru Rafnkelsstaðir.
Þorlákur hinn fjórði, frá
firði Skaga slíkur,
klerks er Gunnlaugs kundur sá
kominn til Reykjavíkur.
Jón prests-sonur Einars einn
elst við skóla-forðann;
á í Viðey inni sveinn,
ættaður lángt að norðan.
Sjötti borinn Jóni Jens,
jöfurs sýslumanni,
Arnardals frá innanlends
Ísfirðínga ranni.
Hann á að annast sveina sið
saung um helgra tíða,
og ólátunum amast við
útum strætið víða.
Situr Jón við síðu hans,
sama' í bókastarfi,
Ísfirðsks lærdóms-menta-manns,
Matthíasar arfi.
Sèr á þessi samastað
samt á eyri Hvanna;
hann á að gefa gætur að
geymslu borðsiðanna.
Mögur Torfi Magnúsar
mál er að talinn yrði,

Heydalur þann bónda bar,
bær í Ísafirði.
Eiríkur vestri foldum frá
fell við Skapta kendum,
sonur bónda Sverris á
Seglabúða grendum.
Næsta sæti gæfan gaf
Guðmundi Pèturssyni,
frá Byggarði bornum af,
bónda góðu kyni.
Undir-gætir synda sè
sveinninn innan skóla,
og stöðugur saungva-stjórnari,
stillir raddartóla.
En Guðmundur hins við hlið
Hans son kaupverzlanda,
hann á með um sveina sið
í svefnhúsinu' að vanda.
Í Gullbríngu sýslu sá
samastaðar nýtur;
Hlíðar- situr -húsum á,
hald nær skóla þrýtur.
Arfi Þórðar Engilbert,
alinn á Mýrum vestra,
teiknar brot sem tilber hvert
torgs og kirkjulestra.
Faðir hans, sem fræðament
fyrr í skóla lærði,
embættis var án stúdent,
ei um meir sig kærði.

Gíslasonar Gísla má
geta mærðarpenni,
Húnvetnínga hèraðs frá
hann er bænum Enni.
Árna prófasts arfi Jón
Arnar- kom frá -bæli;
innan skólans undir-sjón
yfir synda-mæli.
Önnur fylkíng Appollíns,
ætluð til að herja
fyrir ríki föður síns
og fræða-land að verja:
Gunnlaugur, sem hittist hèr
hennar fremst í broddi,
Finns af túngu brynju ber,
bónda fæddur Oddi.
Vernharður son Þorkels þá
þessar bögur lesi,
mæta-prests er mögur frá
Múla' á Skálmarnesi.
Bærinn hefir bygðarnot
Barðastrandar sýslu,
en sveinninn á að birta' brot
borðhalds undir hríslu.
Sigurðar á son ber Jón
sýslumanns að vísa,
Hvítanes er heimafrón
hans, við fjörðinn Ísa.
Guðmundsson er Arnþór einn
orðubræðrum líkur,

gistir bónda borinn sveinn
býinn Reykjavíkur.
Jón Guðmundsson einnig er
undir lærdóms vèsi;
í Gullbríngu sýslu sèr
setur á að Nesi.
Sigurður frá Holti hress
herröð lykur snjalla;
Sigurður er sonur prests,
sýslu' úr Rángárvalla.
Náms hermanna neðstu röð
nú er skylt að telja,
Mínerva svo megi glöð
mann sèr af öllum velja.
Ólafs sonur Páll er prests
piltur einn í skóla',
hann á fyrir sumarsess
sèr Eyvindarhóla.
Honum næst er Benedikt, bur
Bergs í presta skarti,
frá Einholti ættaður
í eystra Skaptfellsparti.
Hjörleifs sonur Þórður, þess
er þjónar Hjaltastöðum,
Múla-sýslu mögur prests,
menta nýr í röðum.
Brynjúlfur þá borinn telst
Bjarna klerk í elli,
Skagfirðíngur úngur elst
upp á Mælifelli.

Guðlaugs verður, geðugs manns,
getið, Sveinbjörns niðja;
snotur föður snjöllum hans
snikkara töm er iðja.
Vatns að firði vestra þar,
vænu prófasts setri,
heima-sölum heldur snar
hann að liðnum vetri.
Auðunsson er borinn Björn
Blöndudals í hólum;
herað, kennt við Húna tjörn,
hann á að föðurbólum.
Síðastan eg játa Jón,
Jónsson prests að Hofi,
syðri *Múla*-sýslu frón
sveinsins fagnar lofi.
Hetjur Föbí taldar tvær,
tjáð skal óðs í línum,
í stétt smásveina standa nær
stýrendunum sínum.

## 14. SAMHENDUR.

Eptir tveim handritum.

Kom eg út og kerlíng leit ófrína
kátliga hún á mig tók að blína;
hana eg spurði' um heit og nafagipt sína:
"hèr er", sagði' hún, "Gríla, skrítin trína;

reyna vildi' eg rausnar-geð þitt fína,
ramliga tekur sulturinn mig að pína;
í frosti svaungum fáum trúi' eg hlýna,
fæðu vantar, tóm er matar skrína;
börnin þau sem brekótt eru' og hrína
bezt mun vera' í pokann minn að tína;
Sesselja það sjaldan lætur dvína;
seldu mèr hana keipa-stelpu þína!"
Svaraði' eg Grílu: "sèð get eg þig hvína,
samt þarftu mig ei til þess að brýna,
alla gikki eflaust muntu krýna
aldrei mun þèr gott af henni skína,
eptir börnum er þèr gjarnt að rýna
og yfir þau með kjaptinum á þèr gína;
þú værir betur barin einsog dýna
svo bilja mætti' í skrokknum á þèr og hvína,
böðullinn skyldi bakið á þèr klína
svo blóðug yrði' af hverjum kvisti lína.
Farðu' í burtu flagðið þitt til svína!
þú fær hana' aldrei litlu dóttur mína.

## 15. LÁNGLOKA.

Eignuð sèra Jóni í kvæðasafni ens íslenzka bókmentafèlags, VIII, 416.

Dalsins út á ána
eg með hýra brána

hröðum hesti grána
hleypti um vatna skrána;
skallar færðu þrumu þak,
þótti blettur skána,
óma hrærðist beðju bak
þá blautu sletti' á þána.
Ingólfs súngu salir þá,
suðu þúngan hver ein gjá,
gaf sig frá
í fjalla krá,
foldin hristist mána;
draugar teygðu tána,
tók af reiði' að blána
ófrána
ásjána
ills kána;
álfa hreysi'
í hörðu geysi
hröpuðu' öll í flána; —
mun eg ei mörgum lána
mókollóttu hána.

## 16. TRÚARJÁTNING.

Eptir einu handriti.

Hverr hefir skapað þig, skepnan mín?
skírðu mèr það núna!

hverr hefir fyrir þig blotið pín?
hverr hefir gefið þèr trúna? —
Guð faðir mig gjörði sinn,
guðs sonur mig leysti,
guðs fyrir andann gafst mèr inn
guðligur trúar neisti.

## 17. DAUÐINN.

Eptir tveim handritum og er annað eptir eiginhandarriti.

Segið mèr, hvort sannara' er:
að sálin drepi líkamann,
eður hitt, að svakk með sitt
sálunni stundum fargi hann?

## 18. MEÐALHÓFIÐ.

Eptir einu handriti.

Hvað eitt skaðar sem er um of,
en þó vandratað meðalhóf;
það gengur eins með last og lof
og lítt kunnanda skips-andóf.

* * *

Hvorttveggja spillir heilsukosti,
hvorttveggja' á kroppinn ríður slig:
ofstórt hreinlífi', og ofstór losti,
eins og að svelta' og sprengja sig;
það sè allt eptir þörfum manns,
þá fer að vilja skaparans.

* * *

Gakktu hægt um gleðinnar dyr og gá að þèr!
enginn veit sína' æfina fyrr enn öll er.

## 19. VINÁTTAN.

Hendíngar þessar eru sprottnar af samræðum skáldsins við stúlku um fráfall manns, er dó undir rapti í heytópt, og má af upphafs og endastöfum vísunnar lesa "*Ranveig, æ! rapturin*". — Eptir tveim handritum.

*R*ÈTT vinátta' er eitt, hvers ætta*R*
*Á*ldrei dug nè vald má bug*A*,
*N*iðurlenzkan voða-vinska*P*
*V*eikir sama' og kveikir tamas*T*;
*E*lsku falskri' af illsku dælsk*U*
*I*mynd reykjar tíminn feyki*R*;
*G*öfug lifir ofar æf*I*
*Æ*rutrygð, sem nærir dygði*N*.

## 20. SPAKMÆLI.

Eptir einu handriti.

Vænt er að kunna vel að slá,
veiða fisk og róa' á sjá,
smíða trè og líka ljá,
lesa' á bók og rita skrá.
Vænt er að vera valmenni,
viljugur með iðninni,
þolgóður í þrautinni,
þýðlyndur i umgengni.
Sómi er að siðprúðum,
sæla fylgir dygðunum,
bezt er vit í bóknámum,
búsæld eykst af hagleikum.
Gott er að þjóna guði bezt,
geta numið þarfligt flest,
hafna stygð, en hýsa gest,
hrumum veita aðstoð mest.
Falligt er að lesa lög,
letra fögur vísnadrög,
byggja hús og beita sög,
blessun stýrir mundin hög.
Gott er að eignast gæðin flest,
góða jörð og sauðfè mest,
góða konu' og góðan prest,
góða kú og vakran hest.
Vænt er að stýra sjálfum sèr,
sómann læra eins og ber,

fróðleik nema' og frenidir hèr,
og forðast það, sem bannað er.
Frægð er að heiðra foreldra
forlíkast við jafníngja,
hlýða góðum höfðíngja,
hjástoð veita aumíngja.
Gott er hóf í gleðinni,
geðugt þol í rauninni,
sífeld bæn í sorginni,
sönn guðhræðsla' í meðlæti.
Vænt er að hafa hyggið þel,
hugarnæmið gott eg tel;
fátt er betra' enn fara vel,
og finna guð með Ísrael.

## 21. BÚDRÝGINDIN.

Vísa þessi er prentuð áður í "Ármanni á alþíngi" 1831, bls. 112. — Hèr er hún tekin eptir þrem handritum.

Margur fengi mettan kvið,
má því nærri geta,
yrði fólkið vanið við
vind og snjó að jeta.

## 22. PRESTKVEÐJA.

Þegar séra Jón tók við Stað í Grunnavík 1772, þótti honum linliga tekinn út staðurinn af séra Þorsteini Þórðarsyni, og einkum skálinn; saung hann þá séra Þorstein úr garði með vísu þessari, en hún er prentuð hér eptir fjórum handritum.

Hvar sem þú rólar heims um hjall
hverskyns farsældar njóttu!
prýðiligt dýrðar-prestakall
í Paradís síðar hljóttu!
en þegar skilar aptur því
öll sé í standi gyldu
þau faung sem fylgdu;
himna-skálanum eptir í
alnegldar sperrur skyldu!

## 23. LEIÐARVÍSA.

Eptir einu handriti.

Þó þú farir um *Hrepp* á *Hesti*,
og hafir *Staf-* og *Þíngin* með
í *Leyr-* og *Saur* ei fót þinn festir
fyrr hef eg þetta laungu séð,

þar kemur loks og líður að
þú lendir á *Hausaskeljastað*.[1]

## 24. VEÐURSPÁ.

Eptir tveim handritum.

Ef þèr farið, sem er til von,
upp eptir, Kyrí-eleíson!
moldviðris-kafald munuð þèr fá
og meira til, hallelújá!
víst mun frægð yðar verða klèn,
viti þèr hvort eg lýg — amen!

## 25. TÚNSPILLIRINN.

Kveðið um menn er riðu um tún á Bægisá. — Eptir einu handriti.

Spjátrúnganna spilverk er að spilla túnum;
einn kemur þá annarr fer, og allir á brúnum.

[1]) Í *Hrepp* bjó sèra Arnór Jónsson, á *Hesti* sèra Þorsteinn Sveinbjarnarson, í *Stafholti* sèra Kristian Jóhannsson, sýslumaður Espólín á *Þíngnesi*, á *Leirá* Jústitsráð Stephensen, í *Saurbæ* sèra Jón Hjaltalín, á *Hausastöðum* sèra Þorvaldur Böðvarsson.

## 26. MORGUNGJÖFIN.

Það var forn siður á Íslandi að bjóða uppá rúm fyrir brúðguma þegar hann skyldi gánga til sængur brúðkaupskvöldið; stóðu þá konur inni í sængurhúsinu og hèldu aptur dyrum, og var ein fyrir svörum af hendi brúðarinnar, en brúðgumi og karlmenn þeir sem honum fylgdu stóðu fyrir utan, og bauð einn til sængurinnar fyrir hönd brúðguma; var þar boðið ýmisligt sem mönnum kom til hugar. Þegar boðið var svo mikið sem til var ætlað að morgungjöfin yrði var brúðgumanum leyfð inngánga í sængurhúsið. — Vísan er tekin eptir einu handriti.

Hèr eru' í boði hundar tveir, —
hentug sængur borgun, —
gjarnan skulu greiddir þeir
góðfúsliga' á morgun.

## 27. FARARTÁLMINN.

Þegar Hannes biskup Finnsson gekk að eiga Þórunni, dóttur Ólafs stiptamtmanns, varð sèra Jón að vera heima og gat ekki farið til brúðkaups; hann saung þá biskupinn úr hlaði með þessum vísum, en þær eru teknar hèr eptir einu handriti.

Ó, það eptirlæti:
ef eg fengið gæti
eitt hið yzta sæti
á yðar brúðkaupsdegi! —

lukkan ljær það eigi; —
:|: Heiðin straung, straung, straung :|:
heiðin straung og leiðin laung
liggja þar í vegi.
Óttinn hagls og hríða
hindrar mig að ríða,
ástar-þelið þýða
þó ei dulizt getur,
mjög það mig upphvetur.
:|: Sorgum í, í, í, :|:
sorgum í og þrautum því
þetta mynda letur.

## 28. HJÓNASKÁL.

Þegar sèra Jón var á Leirá var haldið þar brúðkaup, og giptist móðir vinnumanns nokkurs sem þar var. Vinnumaðurinn beiddi sèra Jón að irkja í sínu nafni góða ósk fyrir skál móður sinnar og stjúpa sins, og orti þá sèra Jón þetta, og ætlaðist svo á að vinnumaðurinn mælti fram nær því dauðadrukkinn. — Eptir þrem handritum.

Ó þá gleði jeg aumur fèkk
yður í tign að sjá,
eðla móðir! á brúðar-bekk
bóndaefninu hjá. —
Æra kóróni inngánginn,
eflist svo lukku mið!

— eg þarf ei meira' í þetta sinn, —
það slær í höfuðið —
*(hann fær velgju)*
Hvar hætti' eg núna? — Hamíngjan,
heillir allar sem veita kann,
yður, stjúpi og egtakvon!
um leiði gæfu stig:
að eignast mættið úngan son
allteins frægan og mig! —
Nú er mèr illt — og var þess von —
vari því hverreinn sig!
*(Í því velfángi fèkk hann uppsölu.)*

## 29. Í BRÚÐKAUPI.

Þessa vísu orti sèra Jón fyrir Guðrúnu, er var matselja á Leirá og síðar á Meðalfelli, til að sýngja fyrir skál Helgu systur sinnar, er giptist Halli brennivínsprángara, er sagt var selt hefði vatnsblandað brennivín.
— Eptir þrem handritum.

Eg bið að drottinn sèrhvert sinn,
sem að býr hæðum í,
ásetníng blessi allan þinn!
eflist hagsældin ný!
farsælan gefi framgánginn,
frá hverfi mæðu ský!
*(hún sýpur á)*
það er vatnsblandað, mágur minn!
mèr verður illt af því!

## 30. HJÓNASKÁL.

Þetta kvað skáldið í veizlu Hermanns Ólafssonar og Guðrúnar nokkurrar, við Jón Þóroddsson húsbónda brúðhjónanna, sem var brúðarsveinn, en var sagt átt hefði vingott áður við brúðina. — Eptir einu handriti.

Jón Þóroddsson brúðarbrjál
bjó í skjóli kvonar, —
hann tók fyrstur hjónaskál
Hermanns Ólafssonar.

## 31. Á UNDAN BRÚÐKAUPI.

Eptir einu handriti.

Kominn er eg aptur enn ·
evangeliskur túlkur,
brúðkaups veizlan byrjast senn,
búið þið ykkur, stúlkur!

## 32. UM BIÐIL.

Eptir einu handriti.

Allan stansar á því mig,
að hann þýðist píka;
mun ei gamli Satan sig
senn fara' að gipta líka?

## 33. VIÐ HJÓN

sem ekki vildu sættast. Eptir tveim handritum.

Þið eruð bæði fjandans fox,
full með heimsku gjálfur;
hún tóta þín er tundur-boks,
en tinna' og járn þú sjálfur.

## 34. FEÐRAMUNUR.

Eptir einu handriti.

Faðir góður, faðir sæll,
faðir hjartanligur. —
Faðir óður, faðir þræll,
faðir á allt gott tregur.

## 35. UM FÖÐUR SKÁLDSINS.

Eptir einu handriti.

Fyrðar þekktu' hann föður vorn
fatinu klæddan rauða:
klausturhaldari' og klerkur forn
kallaður var til dauða.

* * *

Maður spurði skáldið hverr faðir hans hefði verið; þá kvað hann: — (Eptir einu handriti.)

Minn var faðir monsíur[1]; —
með það varð hann sèra[2];
síðan varð hann sinníur[3]
og seinast tómur Þorlákur.[4]

## 36. UM FÓSTURBÖRN SKÁLDSINS.

Nýjársgjöf til Margrètar Jónsdóttur 1798. — (Eptir eiginhandar-riti og afskript.

Komdu til mín, kona[5] góð!
kættu mèr í geði!
þèr á' eg að þakka fljóð!
það sem eg hef að gleði.
Öll er von eg elski þig,
yndisperlan ljúfa!

[1]) *monsieur* þ. e. stúdent.

[2]) *sira* þ. e. prestur.

[3]) *seignieur* þ. e. sýslumaður.

[4]) Vísu þessari hefir sèra Jón snúið úr þeirri sem faðir hans hafði gjört um sig, og ýmisliga er upp tekin; sbr. Árb. IX Hl. bls. 42—43.

[5]) "Nafnið er Margrètar Bogadóttur; eg mátti ráða því". Skáldið.

aðrir flestir ángra mig,
en aldrei þú, mín dúfa!
Þèr þó goldin umbun er
öllu minni' enn skyldi,
fyrirmunar fátækt mèr
að fóstra þig, sem vildi.
Sá sem gladdi með þèr mig
midt í þrautum nauða,
elski, blessi' og annist þig,
eins í lífi' og dauða!
Eina vildi' eg eiga mèr
ósk þegar raunir vakna:
að við hvorugt annars hèr
örends þurfum sakna.

---

Þessa visu orti skáldið um Margrètu fósturdóttur sína. — (Eptir tveim handritum.)

---

Því er Kolla látin lifa
löt og sein, við óra stím?
af henni fæst ekki' að skrifa,
ei heldur að læra rím;
kött að strjúka' og kemba lömb,
keyra fulla þeirra vömb,
þessa' ei hana þarf að biðja; —
það er hennar daglig iðja.

---

Þegar Jón Sigurðsson fæddist, fóstursonur skáldsins. — (Eptir þrem handritum.)

Á Bæsá ytri borinn er
býsna valinn kálfur,
vænt um þykkja mundi mèr,
mætti' eg eiga' hann sjálfur.

Þegar menn ræddu um að Jón, fóstursonur skáldsins, líktist ekki Sigurði föður sínum. — (Eptir einu handriti.)

Hvað er á móti hann sè faðir
Helga þar sem móðir varð; —
báðir eru brattnefjaðir,
báðum er í höku skarð,
báðir hafa líka lund
lestrar báðir tíðka stund,
hár lítið á höfði bera,
hvorigur mun skarpur vera.

Jón Sigurðsson kom að rúmi fóstra síns; þá kvað séra Jón. — (Eptir tveim handritum.)

Hverr er sá við stokkinn stendur
stuttur maður, gyldur þó,
með þykkvan búk og þrifnar hendur? —
það mun vera Nabagó;

dínglar við hann duluskegg,
dávænt þykir Helgu' um segg;
nennir hann ei neitt að skrifa. —
Nafni verður þó að lifa.

---

Þegar sèra Jón sá hönd nafna síns fyrst eptir að hann fór að draga til stafs. — (Eptir þrem handritum).

---

Svei, og fjandinn! hvaða, hvaða!
hverr hefir mokað þennan flór?
margopt eptir mykju-spaða
myndarligra sá eg klór; —
betur skrifa krumma klær
klaufir nauts og apa tær; —
því er Kollur látinn lifa
fyrst læra vill hann ekki' að skrifa?

---

Þegar sèra Jón sat undir fósturbörnum sínum Jóni og Margrètu varð honum eittsinn þessi vísa að munni. — (Eptir þrem handritum.)

---

Nú er komið fullmart fè
og fólkið nóg að vinna;
sitt á hvorju situr hnè
syzkinanna minna.

---

Jóhanna fósturdóttir skáldsins lèk sèr á gólfi fyrir framan fóstra sinn; þá kvað hann: — (Eptir þrem handritum.)

Jómfrú Jóhanna! —
hann Jón og hún Anna, —
það er ei meir um það —
þau eru þínir smiðir,
því er von þú iðir
úr einum í annann stað.

## 37. FAÐERNIÐ.

Eptir einu handriti.

Illa fór það, únginn minn!
öðrum varstu kenndur;
finnst um síðir faðirinn
frómur að þèr Gvendur!

## 38. SLÁTTUMENNIRNIR.

Eptir kvæðasafni bókmentafèlagsins, VIII, 64.

Fimm eru Jónar, Einarr, Árni,
Arnórr, Sigfús, Gísli meir,
kalið frón með köldu járni
í klerksins landi herja þeir.

Presturinn líka hægt á horfir,
harðar skellir þúfurnar,
með vonda spík í veiku orfi,
vegna elli getur ei par.
Stinna ljái' af stáli gjörva
sterkir reiða kapparnir,
grænu stráin hrökkva' og hörfa,
hristast allir bakkarnir.

## 39. FÓLKIÐ Á BÆGISÁ.

Eptir afskript af eiginhandar-riti.

Hèr skulu sett í boðnar bjór
Bæsár- heiti -svanna:
Jórunn, Íngunn stykkja-stór,
Steinunn, Guðrún, Anna.
Guðmundur þar gagnsemd jók,
get eg að búið styðji;
Hallgrímur í harðri brók
og hempu-Jón sá þriðji.
Ekki þyki mèr Íngunn mey
ofmjög titla vanda:
hún kallar "ræfils grindar grey"
gripinn alskínanda.
Ekki þykir Stephán stór,
stirðliga mun hann líða:

að hafa sig fyrir húsgángs-jór
handa þèr að ríða.[1]

## 40. UM FÖRUKARL.

Eptir tveim handritum.

Þorvalds mögur þúngan snjó
þrammaði hèr að garði,
gamall mjög og þjáður þó,
þreytu sèr ei sparði.
Fótahrumur fátækdóm
fullvel eyrir sínum,
skjóta sumir eymdar-óm
ekki' af meiri pínum.
Iðjutaman gel eg gest,
gamansaman í orði,
honum að ama víst er verst, —
við því hamíngjan forði.
Þarmeð tel eg þægðar vott
þessum enn hjá karli:
þiggur vel, hvað gjöra gott,
gamalmennið, allir.
Hans hefir troðið Herjans-frú
hold af gángi lúið,

[1]) Tvær enar seinni vísurnar fylgja reyndar enum fyrri í handritinu, en líkligt er þær eigi þar ekki við, heldur sè stakar.

og undir voð að auðarbrú
aldrei fángi snúið.
Þessar bögur enginn á
álms hjá þundi finna,
þartil fögur honum hjá
hýrist grundin tvinna.
En þótt vífs og auðar hann
án fari brott úr heimi,
bæði lífs og liðinn þann
líknar-drottinn geymi!
Í enda sónar eg þess bið
ykkur, tróður þráða:
okkur Jón minn elskið þið
atlotsgóðar báða!

## 41. BÚSSUHRÚTSA KVÆÐI.

Teitur Jónsson hèt spjátrúngur mikill í Breiðafirði; hann hafði borið illmæli á Sigríði, konu Arngríms bónda í Ólafsey, en Arngrímur hefndi konu sinnar á þann hátt, að hann fór að hitta Teit á brúðkaupsdegi hans, og kallaði hann á einmæli, var þá sagt hann hefði leyst ofanum Teit og hrundið honum í fjóshaug; síðan keypti hann af Jóni Þorlákssyni að kveða um. Teitur er kallaður "bússuhrútur" eða "bússuhrútsi", af því hann hafði laskað bát á skeri, þann er kallaður var Bússa.

Kvæðið er prentað hèr eptir tveim handritum.

Hafi þið heyrt þá fregn:
hvernig að ógæfan

bæði margföld og megn
með hverskyns heilla bann
fèkk jafnt á lög sem landi
yfirfallið hinn mikla mann?

Fyrst braut hann skip við sker;
skilji þið hverr hann var? —
nafn því af Bússu ber
til betri minníngar:
víst mun það við hann loða
uppfrá þessu til eilífðar.

Svo nokkru síðar sker:
sækletta-riddarinn
konu sèr fastna fer,
fjölmenni býður inn;
allt var á tjá og tundri —
býsna montinn var brúðguminn.[1]

Heiðbláum hosum í
hann prýddi sveina krans;
allur var eptir því
annarr búníngur hans; —
næsta látsaraligur —
hornauga gaut til hverseins manns.

Nú ber að garði gest —
grunar það engan mann, —
í vinsemd vilja lètst
við tala brúðgumann;
afsíðis einir gengu
Bússuriddarinn burt og hann.

[1]) Sumir hafa: "bar hann hátíða-blómann sinn."

Enginn veit af því meir —
eyrindin laung og snjöll
þar hafa þíngað þeir;
það sýndu merkin öll;
brúðguminn beið af slíku
verstu háðúng og veizluspjöll.

Hann kom tilbaka brádt
með brækur lausgirtar,
löðrandi lágt og hátt
í leðju mykjunnar;
enginn það skynja skyldi
hvort maður eða mykja var.

Hattur af heilakór
í haugnum eptir sat,
honum að hjálpa fór
hverr sem sig borið gat. —
Mèr er rètt sem eg sjái
brúðgumann með það bölfað at! —

Bússuhrúts beðja ný!
bóndi þinn sjá hvar er
háttaður haugnum í,
hann bíður eptir þèr;
lát hann ei lengi snópa!
því brátt á liggur vífnum ver.

Hèr er þèr rekkja reidd
rúmgóð og nógu mjúk;
hèr skaltu hægt til leidd
helzt þá þú verður sjúk;
hèr skaltu allar ala
smá-búẞsurnar í kúa-kúk.

Yfir að blessa beð
bið graðúng forugan,
sá getur súngið með,
sá þarf ei grallarann;
slett hempu-slæpu þinni
eða kjól bóndans [1] yfir hann.

## 42. UM SKAPTA SMALA.

Vísur þessar eru ortar til Fjeldsteðs gullsmiðs, og var það tilefni til: að nokkuð af fê hans var nær því soltið til dauðs inni í húsi fyrir hirðuleysi smalans, en Fjeldsteð hugsaði því hefði verið stolið. — Eptir einu handriti.

Engrar leitar orka þarf —
ofmart sumir kjapta —
aptur er komið allt sem hvarf,
utan dygðin Skapta.

Gulls þèr raptur gef eg ráð,
til gruns og skemmdar tapta:
leitaðu fyrst að dygð og dáð
í djöflinum honum Skapta!

Hèrnæst keyr í hala fèð
himins uppá rapta!
annars fá það aldrei sèð
ennisglórur Skapta.

[1] Hèr er meintur bóndi sá sem ól upp Teit; sá var merkisbóndi og gekk á kjól.

Láttu síðan laggott prik
lífs og sálar krapta
berja leti' og bölfuð svik
burt úr honum Skapta.
Á ykkur hríni óskin þýð
innstu hjartans sapta:
að þið jetið alla tíð
undan honum Skapta.

## 43. UM ÖGMUND ÞJÓF.

Eptir tveim handritum, og hefir Rask borið annað saman við eiginhandar-rit.

Óskir og eiða
á sig að reiða
hans Ögmundar svarta
fljótt mætti deyða
og frelsinu sneyða
eitt frómlundað hjarta.
Látum hann freyða!
sú lastafull bleyða
mun loksins um kvarta:
að samvizkan leiða,
er sárt gjörði meiða,
sig taki' að narta.

## 44. ÞJÓFA ÞRENNING.

Eptir tveim handritum, og hefir Rask borið annað saman við *eiginhandar-rit.*

Eyþjófsbana Ögmundar
æ var lítill heiður,
Örvar- kunnur -Oddi var,
af honum þáði fleiður.
Ögmundur enn illi lèt
yfir sèr margan klaga,
garpurinn sem Grèttir hèt
gaf honum rauðan kraga.
Ögmundur hinn þriðji þú
þjófur ert hinum verri;
koma mun á þig klembra sú,
sem kjapt þinn aptur sperri.

## 45. ÞJÓFSDÓMUR OG PREST-VÍGSLA.

Eptir tveim handritum.

Ýngis víf í Ólafs firði
eiga von á skrúða byrði
nær sem þar ber Ögmund að;
veit eg ei því hann vill svo dvelja
væna skartið þeim að selja,
fyrst hann hefir fengið það.

Sakramentið er þó eigi
Ögmundi hèr neitt í vegi,
fara má hann fyrir því;
áðurenn stal fyrir einum degi
útdeilt var það slæmu greyi,
fjandinn síðan fór hann í.

Bergs-einhyrna ber um vitni:
bjórinn lítt á honum slitni
þó hann fremji þjófa verk;
og þó skemmdist húðar-hilki
hempan dylur það og silki,
opt er lukkan stráka sterk.

Glópskan stè fyrir Ögmund illa:
embættinu svo að spilla
honum frjálst sem varla var;
haldi þið nú að honum tákni
hèðan af að þykjast djákni
fyrst hann brenndi fíngurnar?

Eða skal hann ennþá geta
(ætti' hann stolið smjör að eta)
þjónað fyrir þjófa-prest?
á borðalögðum múk að messa,
meineiðunum þá að blessa
og skruma mart um skjóttan hest.

Stígvèlunum stappa niður
stólinn í, þá úr sèr ryður
svardaganna þrumum þar;
nær sem þarf í klukku' að klappa
klíngja láta silfur-hnappa
og spesíurnar spánnýjar.

Handbók þegar hann skal tóna
hentugust er sessan prjóna
sú hin gamla sem hann stal;
Ögmundur svo ávallt standi
upphengdur í letur-handi: —
vígslan þetta vera skal.

Honum samt til lengri lukku
ljæ eg þessa vísna klukku,
þjófa-dómur það er minn;
hún skal sífelt honum yfir
hljóma, meðan fjandinn lifir,
þó hann steli' í þriðja sinn.

## 46. VÍSUR UM YMSA MENN.

Þessa vísu kvað Jón Þorláksson einna fyrsta svo menn viti, við Björn enn sterka úr Eyrarsveit í Breiðafirði, orðlagðan drykkjumann, áflogamann og mathák. Jón var þá hestadrengur á alþíngi, 12 vetra gamall. — (Eptir einu handriti.)

Þó vagar einsog kálffull kýr
sem komin er að burði
álma-þundur orku rýr!
að þèr fjandinn spurði!

Vísa þessi um Pál bónda í Fagurey er tekin eptir einu handriti.

---

Magaprúðan má ei kalla,
Monsíur Pál í Fagurey,
slíkan klunna veit eg valla
vera til á Óðins mey;
hann telur sig í ætt við alla,
er þó haldinn mesta grey!

---

Vísu þessa segja sumir að Jón Þorláksson hafi ort uppúr svefni, og sè um Pál bónda í Fagurey. — (Eptir tveim handritum.)

---

Páll er orðinn mesti mann
meður sínu hyski:
situr, stendur, sefur hann,
og seinast deyr í fiski.

---

Eggert nokkurr Teitsson hafði fengið gömul stígvèl að láni hjá Jóni Þorlákssyni og skilað ekki aptur; sendi hann honum þá kveðju þessa. — (Eptir tveim handritum.)

---

Heilsið frá mèr höfðingsmanni
hærublökkum, ærusökkum,
Eggerts nafn sem á sèr ber;
þann við díngla segg með sanni

selshúðirnar, helsbúðirnar
vondar honum vísið þèr!
Æ eg beiði, æ eg beiði:
að hann troða göturnar
trauður megi á dauða degi
í dornikum til Valhallar.

---

Sá maður var í Breiðafirði þegar Jón Þorláksson var þar, sem Helgi hèt, son Þorkels Sigurðarsonar er kallaður var laga-móri. Helgi fèkkst við bókband og vann um hríð fyrir Boga í Hrappsey, þángaðtil þeir urðu ósáttir, og orti þá Helgi háðkvæði um prentsmiðju Boga og er kallað Skáleyjabragur; það er upphaf að honum: "Prentararnir fóru flatt". Bogi fèkk Jón Þorláksson til að svara Skáleyjabrag, og eru þessar vísur tvær úr því kvæði, hin fyrri tekin eptir einu handriti og hin síðari eptir tveimur.

---

Margur rakki að mána gó
mest þegar skein í heiði,
en eg sá hann aldrei þó
aptra sínu skeiði.

---

Lagamóri leðurkver
lagði mörg í pressu;
sjá má gjörla það á þèr
það fór allt í klessu.

---

Maður nokkurr hellti koppi, sá er Erlendur hèt; þá kvað Jón Þorláksson þetta: — (eptir einu handriti).

Kann vel úr koppum renna
keitunni sverðaþeitir, eg veit,
Torfa var þessi' óþarfur,
þvag hans skemmdi til baga' í dag;
dauni kann lítt að leyna,
leggur hann gegnum veggi af segg; —
ætti með öllum rètti
Erlendur koppa-hrellir fá skell.

Eittsinn voru þeir á ferð saman Magnús sýslumaður Ketilsson og Jón Þorláksson; þá reið á svig við þá umrenníngur er Sigurður hèt, og kallaður biskup, hann reið bleiku hrossi og hafði ól fyrir keyri, en með honum rann Bósi hundur hans. Magnús sýslumaður beiddi Jón að irkja vísu um Sigurð, og kastaði hann fram stöku þessari. — (Eptir tveim handritum.)

Biskup með sinn bagal úr ól,
bölvaður sníkjugestur,
býr á sínum bleika stól;
Bósi' er kirkjuprestur.

Eittsinn átti sèra Jón hestakaup við þann mann er Olafur hèt, og hafði hann málkæki þá, að hann sagði opt: ójá! — það er svo! — hum, hum! — Sèra Jón orti stöku þessa. — (Eptir tveim handritum.)

---

Ólafur við bóka bör
beizla skipti krummum,
Thepott fèkk[1] í uppbót ör;
ójá, það er svo! hum, hum!

---

Eittsinn var Jón Þorláksson um hríð hjá Haldóri Þorgrímssyni í Hjarðarholti, ástvin sínum enum kærasta; hann var þá í barneignabasli sínu og sendi Haldór mann austur í Skálholt í hans eyrindum; sá var Atlason, og var hann klæddur í skinnbuxur til ferðarinnar. Jóni Þorlákssyni þótti sendimanni dveljast ferðin og kastaði fram um það stökum; hafði hann þar í allar sonarkenníngar, og kenndi sendimann við föður sinn, gat hann og leðurbrókanna í hverri vísu. Þetta er upphaf að tveimur stökunum (eptir einu handriti).

---

Ó! nær mun Atla sonur,
innsaumaður í leðurbrók,
borgfirzkar kyssa konur,
komandi með þá stóru bók . . . .

---

Ó! nær mun Atla kundur,
innsaumaður í leðurbrók,

[1]) Annað handritið hefir: "*gaf*".

birta þau býsn og undur:
brèfin sem fyrir austan tók . . . . .

---

Um sendimann til Dala, er heldur var seinfærr. — Eptir einu handriti.

---

Forðum lögðust fjöll á gólf
fengu strángar hríðir,
eptir vikur tíu og tólf
tísti mús um síðir.
Forðum kenndan Odd við ör
ein að Bjarma-ströndum
lengi gjörði frægan för
fjær og nær í löndum.
En þótt lifðir aldra þrjá,
allir mundu tala:
"ertu Böðvars arfi sá,
sem eitt sinn fórst til Dala?"
Stæra máttu þig af því,
þartil æfi lýkur:
að húsgángs sníkjum hittist í
hvergi nokkurr slíkur.

---

Um eldakerlíng og fjósadreng Einar Sveinbjörnsson á Leirá.

Assa situr opt í fjósi
og Einar, sá sem flórinn skeinir,
stjakar opt með stórri reku
strútóttur, þá vott er úti.

Um Sigurð sýslumann, sem kallaður var skuggi. — (Eptir tveim handritum.)

Skuggi híngað
skautst á hesti fúsum,
skuggi gisti
nótt í Amtmanns húsum;
skugga blakkur,
skugga hnakkur,
skugga stakkur
skreið og sprakk í lúsum.

Vísa þessi er tekin eptir einu handriti, en tilefni hennar er ekki greint.

Ráðið allt saman reið til þíngs,
reisan varð ekki sljó,

hann varð fremstur með hempuvíngs
í halanum liðið dró;
eyrindisloka og ávinníngs
allmargir geta þó;
prestlaus kom aptur hirðir hríngs,
í halanum liðið dró.

---

Um strák einn á Bægisá. — (Eptir einu handriti.)

Íngimundur Ögmunds bur,
alsporaður kauði,
hann er til þess hentugur:
heim að reka sauði.

---

Sá maður sem Hallgrímur hèt settist eittsinn aptur af altarisgaungu, og át kýrmagál þá um daginn. Séra Jón kvað: — (Eptir tveim handritum.)

Hallgrímur um helga trú
húsgángsliga skipti:
magál át af magri kú
mat fyrir Krists og skriptir.

---

Maður sagði við sèra Jón (sumir segja sá hafi verið sèra Jón á Auðbrekku): "mig velgir við kveðlíngum þínum, maður!"; hann svaraði: — (Eptir tveim handritum.)

Farðu' í búr og fá þèr súr!
fyrst þig sækir klýja;
þú ert klúr ef þèr fer úr
þar á knjánum spýja.

---

Eittsinn hittust þeir á Skriðu í Hörgárdal sèra Jón Þorláksson og Ólafur leirskáld Kjartansson. Ólafur hèlt á Friðfinni syni Þorláks bónda, og baðaði hann höndunum framaní Ólaf, einsog börnum er títt. Þá sagði Ólafur Kjartansson:

Þú snoppúngar mig, únginn minn!
meður höggum stórum.

En sèra Jón kvað við: — (Eptir einu handriti.)

Engan hjá þèr *frið* eg *finn*
fyrir þínum órum.

---

Um Jón glera. — (Eptir einu handriti.)

Prýddi heim með prinsum tveim
palls-höfðínginn Gleri,

húsgángs keim þó hvorr af þeim
og hettusvipinn beri.

---

Við oflátúng ofan úr Eyjafirði. — (Eptir tveim handritum.)

Það kann eg á þèr að sjá
þú ert ofanúr Firði,
en eg þig fyrir æru þá
engu meira virði.

---

Um mann er reið lötum hesti. — Eptir einu handriti.

Magnús á Blesa bognum
bundinn með hatt fer undan,
lætur hóf glymja' í grjóti
gleiður, og poka reiðir;
lötu fram essi etur,
allan sig þenur kallinn,
knýr fram, sem knör með árum,
knár, og slær undir nára.

---

þessi vísa er tekin eptir einu handriti, en ekki er sagt tilefni hennar.

Meira' af vilja' enn mætti kvað hann,
má það vorkennast, hann var flón,
Mammons þjón einn um braginn bað hann,
Bíddu nú við! hvað hèt hann? — Jón;
hljóðstöfum rèttan hitta stað
hvernig átti' hann að geta það?

Þessar vísur eru úr brag einum, sem ekki er kunnugt efni til. — (Eptir einu handriti.)

Firðar hafa mig fyrir draug
að fæla hjáríðanda;
upp úr gömlum öskuhaug
er eg látinn standa.

Veit eg þú ber hyrndan hatt
hann með krónu blárri,
þegar þú fer að segja satt
setur upp annann skárri.

Karl nokkurr sagði að gaman væri að reka fíngurinn í ginu þá á loptinu, er honum sýndist vindur úr standa; þá kvað sèra *Jón*: — (Eptir einu handriti.)

Fíngurinn í golugat,
gaman er nú að sperra,
þarvið mundi frís og frat,
Fornjóts arfa þverra.
Hönd mín styrð við þukl og þauf,
þarf ei slíkt að reyna,
því að varla rètt á rauf
ratað get eg neina.

Um danskan mann, sem kom út til Íslands í peníngaheimtur. — (Eptir einu handriti.)

Ekki var mjög áleitinn
emissari[1] Dana:
hann var að kyssa hundinn sinn
og heimta peníngana.

[1]) þ. e. Emissair, frakkneskt orð, sem þýðir sendiboða.

## 47. MUNDAR OG RIÐUR.

Eptir einu handriti.

Íngimundur, Ögmundur,
Ásmundur og Guðmundur,
Sigmundur og Sæmundur,
Sölmundur og Vemundur.
Guðríður og Gandríður,
Geirríður og Þuríður,
Íngiríður, Alríður,
Ástríður og Sigríður.

## 48. VÍSUR UM YMSAR KONUR.

Lovísa, drottning Friðriks fimta, hefir verið Íslandi bezt af öllum drottníngum í Danmörku, og var því mjög vinsæl þar á landi. Hún andaðist 1751, og er líkligt að Jón Þorláksson hafi ort vísu þessa einhverntíma síðar, af því hann hafi heyrt menn lofa drottnínguna. — (Eptir einu handriti, sem sagt er sè eptir eiginhandar-riti.)

Ó, þú fegurð allra fegurðanna!
Andromache norður-drottnínganna!
mæt Lovísa!
mín lofvísa

mun lof vísa
óms um ísa svanna.

---

Þegar Steinunn nokkur (líkliga sú sem síðar átti Fjeldsteð gullsmið) misti bónda sinn, sem Þorsteinn hèt, kvað Jón Þorláksson þetta: — (Eptir einu handriti.)

Þegar í burtu Þorsteinn strauk
þraunga' á heljar bekki:
Steinunn misti stóran hrauk
þó stæli jeg honum ekki.

---

Þessa vísu kvað Jón Þorláksson um Steinunni Þorsteins-ekkju: — (Eptir einu handriti.)

Öllu stal, en ekkert gaf,
átti fáa vini;
hún tók lúsaólpu af
Einari Gróusyni.

---

Um Ragnheiði Gísladóttur, sem var á Leirá. — (Eptir einu handriti.)

Ein er stúlkan yndisleg
öðrum vífum fegri,

hana vildi eiga eg, —
ef hún væri megri.

---

Vísu þessa orti séra Jón um tvær lagskonur, er illa kom saman: — (Eptir tveim handritum.)

*Litlu má með ljúfum skipta* —
láti þið Ykkur báðar gipta
enum sama örvagrér!
hans skal sína nótt hvor njóta,
niðri sè þá hin til fóta; —
*jöfnuður góður allur er.*

---

Þessi vísa er tekin eptir tveim handritum, og hefir Rask borið annað þeirra saman við eiginhandar-rit.

Hallbera situr hæst á bekk
heilagt við gestaboðið,
af því Gunnlaugur eittsinn fèkk
í hana barni troðið.

---

Þessi vísa er eptir einu handriti.

Sæun blakka sá eg var,
með son sinn skakka' á Eyri,

hún var að flakka' um hauðrið þar
og hússgángs krakkar fleiri.

Vísa þessi er ort til Þóru, sem var ráðskona hjá Ólafi stiptamtmanni, og er hún tekin eptir einu handriti.

Þótt ei spáin þyki fín,
það með vissu segi:
þèr munuð eignast, Þóra mín!
þann sem kvongast eigi[1].

Um kvennmann, er rakaði sèr krúnu. — (Eptir einu handriti.)

Er nú krúnan orðin björt,
ennið lítt þó prýði,
áður var hún yfrið svört
á jómfrú Sigríði.

Kveðið í skriptastól. — (Eptir tveim handritum.)

Óskaplíkar eru þær, —
Anna má, en neitar;

[1]) þ. e. dauðann.

Ymba vill, en ekki fær,
eptir því hún leitar.

---

Um Íngunni húskonu. — (Eptir einu handriti.)

Opt hefir Íngunn illa látið,
en aldrei sem í kvöld;
hún hefir bæði gelt og grátið
og glennt upp kjaptatjöld.

---

Magnús prófastur Erlendsson kom að Bægisá og kastaði fram stöku þessari um vinnumann séra Jóns:

Íngimundur er að sjá
einsog grindar hjallur;

Þá bætti séra Jón við: — (Eptir tveim handritum.)

en hún Björg sú bölvuð gjá,
þú byrgir hana' ei allur.

---

Guðríður Ögmundardóttir gekk í miklu skrauti, sem menn hugðu hún hefði stolið. Séra Jón kvað: — (Eptir tveim handritum, og hefir Rask borið saman annað við eiginhandar-rit.)

Girnast munu fleiri' enn fá
fljóð í stolnu glíngri,

þá glæpskrúðanum gengur á
Guðríður hin ýngri.
Þó í hausinn vanti vit
víf, með heyrn og máli,
sèst það ei fyrir silfurlit
og silkiklúta prjáli.

---

Þessi vísa er tekin eptir kvæðasafni ens íslenzka bókmentafèlags.

---

Eptir sig lèt, á góðverk gjörn,
gamalær þrjár og átta börn;
Arnfríður af þeim tók við tveim,
týnt mun þó Gissur hafa þeim.
Helga mín er á bláum bol,
blaðklútum með, sem þurftu skol,
utanum sitt hið auma hol.

---

Björg Halldórsdóttir, fyrri kona Sigurðar prests Árnasonar á Hálsi, var skörúngur mikill; hún náði með lífshættu Guðrúnu Einarsdóttur prests, Thómassonar, úr Fnjóská, en heppnaðist þó ekki að lífga hana; sèra Jón Þorláksson orti þá vísu þessa, og er hún prentuð áður í Klausturpósti 1819, bls. 62, en hèr eptir einu handriti.

---

Karlmanns hug og kærleiks dug
kvenndygð sýndi Bjargar;

ærufiug svo eldfjörug
ekki leika margar.

## 49. SNJÓKERLÍNGAR VÍSA.

Eptir einu handriti.

Arngrímur! þó ætlir hátt
ekki skaltu fá mig,
annarrar lukku leita mátt; —
hann litli Magnús á mig.
Ef þú svoddan opt við mig
ástar-hótin fremur,
eg skal ljósta upp um þig
þá unnusti minn kemur.

## 50. BEINAKERLÍNGAR VÍSUR.

Magnús amtmaður beiddi Jón Þorláksson að kveða til sín beinakerlingar-vísu; hann kvað þetta. — (Eptir einu handriti.)

Ef þèr, herra! ætlið að prýða elli mína,
og mig finna eina' í leynum,
yðar vísið burtu sveinum!

Þessi beinakerlingar-vísa er tekin eptir einu handriti.

Ertu kominn, Eiríkur minn elskuligur!
klóra muntu mèr á maga
og mjaðmar spjöllin aptur laga.

Jón nokkurr Pètursson beiddi Jón Þorláksson að yrkja fyrir sig um tvo menn, sem báðir hètu Guðmundar, og höfðu ort um hann á beinakerlingu. Þeir komu þá á eptir en Jón Pètursson flýtti sèr undan sem hann gat mest. — (Eptir einu handriti með hendi Rasks.)

Giljuðu mig Gvendar tveir
girndar stríðu fári,
og svo drógu undir þeir,
annarr á magahári.
Þorgeirssonar þaukinn var
þegar breytti svona:
að eg væri' hans orðin þar,
apturgengin kona.
Báðir glópar börðu mig,
barnað því ei gátu,
loksins til að seðja sig
saur minn fúlan átu.

## 51. HESTAVÍSUR.

Á alþíngisreið frá Leirá lá hryssa í keldu á Botnsheiði, sú er Tunna hèt; brjóstgjörð og apturgjörð hèldu, öll önnur bönd brustu; þá kvað Jón Þorláksson vísu þessa. — (Eptir tveim handritum.)

Tunnan valt og úr henni allt
ófaní djúpa keldu;
skulfu lönd, en brustu bönd,
botngjarðirnar hèldu.

Um Þyt, reiðhest Ólafs Stiptamtmanns Stephánssonar. — Eptir þrem handritum.

Þyt leit eg fóthvatan feta,
fold hark en mold sparkið þoldi,
grjót fauk, því gat vakur skotið,
gekk tíðum þrekkhríð á rekka;
rauk straumur, ryk nam við himin,
rètt fór og nett jór á spretti;
ei sefast ákafa lífið;
öll dundu fjöll, stundi völlur.

prent. í Kvæðum Síra Stephans.

Hestvísa. — Eptir einu handriti.

Bylur skeiðar virta vel,
vil eg þará gjöra skil;
þylur sanda, mörk sem mel,
mylur grjót, en syndir hyl.

Um horfna hryssu. — Eptir einu handriti.

Hryssu tjón ei hrellir oss,
hress er eg þó dræpist ess;
missa gjörði margur hross;
messað get eg vegna þess.

Þessi vísa er tekin eptir einu handriti.

Eg sá *óbýla* beizla-fýla fjóra
á þeirri dverga þræða hæð,
þar sem jarðar blæðir æð.

Ritað utaná brèf til Magnús prófasts Erlendssonar, þegar sèra Jón sendi honum reiðhest sinn til eldis vegna heyleysis. — Eptir fjórum handritum.

Fylgja pistlinum fjórir hófar,
festir neðaní móskjótt roð,

hvarf beinskröpur, mjög svo mjófar,
mynda þvílíkt sem reiðargnoð,
hafandi fyrir stýri stert,
stíft á hverjum er hár um þvert.

---

Eittsinn kom séra Jón í Akureyrar-kaupstað um haust, þá krafði "faktor" nokkurr hann um 7 dala skuld, en séra Jón hafði ekki til að gjalda; þá vildi kaupmaður taka færleik sem hann reið. Séra Jón kvað vísu þessa. — Séra Jón segir svo sjálfur frá málalokum: "Faktorinn fór í burt og vísan með honum, eg líka og Bleikkolla með mèr". — (Eptir eiginhandar-riti og fjórum afskriptum.)

---

Varla má þèr, vesælt hross!
veitast heiður meiri,
enn að þiggja kaupmanns koss
og kærleiks-atlot fleiri,
orðin húsfrú hans;
þegar þú leggur harðan hóf
háls um egtamanns,
kreystu fast og kirktu þjóf!
kúgun Norðurlands.

---

*þessi vísa er tekin eptir einu handriti.*

---

Þegar eg sný frá þessum dal
þunnri karls ásjánu,
ríða, teyma, reiða skal
Raučku, Fálu, Gránu.

---

## 52. BORÐSÁLMUR EPTIR MÁLTÍÐ.

Vísu þessa orti séra *Jón* eptir að hann hafði haldið máltíð af slángi úr svörtum kvíguvetrúngi, sem tarfur Jónasar nokkurs, bónda í Hrauni, heimaaliun hafði limlest til ólífis fyrir séra Jóni, á Hraunshöfða. — (Eptir þrem handritum.)

---

Brúna kvígan bógs varð án; —
baunarverð er ei sú raun; —
hún ef skapar lýðum lán,
launi þèr fyrir matinn Hraun!

---

## 53. UM KÖTT.

Eptir *einu handriti.*

---

Monsonía malar vel
með svo laungu skapti,

en þó kemur aldrei mèl
útúr hennar kjapti.

## 54. FERÐAVÍSUR.

Eittsinn meðan Jón Þorláksson var á Leirá spurði frú Þórunn, kona Magnús amtmanns Gíslasonar hann frètta, þá hann kom með amtmanni af alþingi. — (Eptir einu handriti.)

ÞINGS ei reisan reyndist fín,
regn var þar og vindur hvass;
aldrei hef eg á æfi mín
argari komið í verri rass.

Vísa þessi er kveðin um lakliga næturgistíng á prestsetri nokkru. — (Eptir einu handriti.)

Næturgistíng nöturlig
neyðir hugsun vora;
aldrei skal eg inní þig
aptur koma, bora!

Kveðið á ferð um Hjaltadals-heiði. — (Eptir einu handriti.)

Hjaltadals er heiði níð
hlaðin með ótal lýti;
fjandinn hefir á fyrri tíð
flutt sig þaðan í víti.

## 55. VOTABANDIÐ.

Þegar Jón Þorláksson var á Leirá, orti hann vísu þessa einusinni í hrakviðri við votaband. — Eptir einu handriti.

Þó hann rigni, þó eg digni'
og þó hann lygni aldrei meir:
skal eg þó lulla, draga' og dulla,
og dríta fullan skíta leir.

## 56. VEGABRÈFIÐ.

Jón Þorláksson skrifaði tvívegis rángt vegabréf fyrir Ólaf stiptamtmann Stephánsson; honum varð þá skapbrádt, og ritaði þetta í bræði sinni á þann sem ónýttist. — (Eptir þrem handritum.)

Bölvaður að eilífu sè
andskotans reisu-passi,

og hengdur upp í helvíti,
sem hildir úr merar rassi!
bíði hann þar til bölvunar
báls í eilífu veini!
allt þángaðtil um aldirnar
áranna verður skeini.

---

## 57. BRÚARGJÖRÐIN.

Magnús Ketilsson sýslumaður og Ívarr á Melum lètu gjöra brú yfir mýri nokkra á Fellsströnd, og ömuðust margir við því starfi. Magnús sýslumaður sagði opt "barasta" og var kallaður ágjarn, en Ívarr "enn og nú", og var sagður ósannsögull. — Vísurnar eru teknar eptir þrem handritum.

---

Uppá þessa bygða brú
bið eg að enginn stigi
utan "barasta", "enn og nú"
auragirnd og lýgi.
Þessa brúi' í þriðja sinn
þjófa flokkur lúinn
undir höfuð-óvininn
allur djöfla-grúinn.

---

## 58. FJALLSKILIN.

Eittsinn sendu hreppstjórar fjallreiða-seðil um sveitir, en höfðu gleymt að rita neðaná árstal og daginn; þá skrifaði Jón Þorláksson þetta á seðilinn. — (Eptir fjórum handritum.)

Dóms og hels eru dagar tveir
duldir vitund manna,
en nú fundu þriðja þeir:
það er — fjallreiðanna.

## 59. AUGLÝSÍNGIN.

Sóknarmaður séra Jóns las upp lýsíngu á graðfola í kirkjudyrum eptir messu á boðunardag Maríu, meðan allur söfnuður var inni; þá kvað séra Jón. — (Eptir tveim handritum.)

Hverr las? hirðir mera.
Hvað? um fola graðan.
Hvar? í helgum dyrum.
Hvenær? á dag boðunar.

## 60. TANNARHEIMTAN.

Tóbakstönn hafði týnzt og fannst um vorið undan snjó. Séra Jón kvað: — (Eptir einu handriti.)

Aptur fundin tjáir tönn
tóbakseklu bana,
hún skal standa', ef sögn er sönn,
saman við prófetana.
En ef lýgur töpuð tönn,
og tefjast komur Dana, —
utan vægðar undir fönn
aptur dæmi' eg hana.

## 61. MJÖLHÁLFTUNNAN.

Séra Jón heyrði menn við kirkju hæla mjölgæðum; þá kvað hann: — (Eptir einu handriti.)

Mjölhálftunnu — man eg það —
maður keypti' í einum stað,
aldrei verður úttalað
öll um hennar gæði;
úr henni gjört var eitt sinn brauð,
engin skepna mundi dauð
slíkum lífs og andar auð
af ef bergja næði;
hefði fjandinn hana keypt

þá honum var steypt,
held eg hann enn þá stæði.

## 62. SILÚNGSVEIÐIN.

Eittsinn var Jón Þorláksson staddur í Hvítadal í Saurbæ; þá gengu vinnumenn þar frá slætti til silúngsveiða, hann kvað: — (Eptir einu handriti.)

Silúng engan sjái þeir,
sè hann í burtu horfinn,
fýlu tóma fái þeir,
fyrst þeir báru' heim orfin!

Synir bónda á Fremri-Brekku í Saurbæ fóru til silúngsveiða og fengu ekki. Jón Þorláksson kvað: — (Eptir einu handriti.)

Silúng engan sjá þeir,
sílinu' ekki ná þeir,
fýlu tóma fá þeir,
fer það eptir vonum
fyrir Brekku-bónda sonum;
:|: ræð eg þeim, þeim, þeim :|:
ræð eg þeim að halda heim
og hýra sig hjá konum.

## 63. TÍÐAVÍSUR.

Vísa þessi er gjörð um árið 1766. — (Eptir einu handriti.)

Hilmir[1] dó þá Hekla spjó;
hýran keypti sprakka
skrifari lands[2]; af mökum manns
miðlaði Þórunn krakka.

Þessi vísa er "úr Jörundar annál", þ. e. um Jörgensen, sem sumir hafa kallað hundadaga-konúng. — (Eptir tveim handritum.)

Veifað veðra flikum
var af garpi kvikum,
biljir þá frá blikum
blèsu narra strikum;
stuttum mælist stikum
stjórnarkjóll úr svikum;
vöruðu skemur vikum
völd á sumra skikum.

[1]) Friðrekur enn fimti.

[2]) Þorleifur landþíngsskrifari gekk að eiga Guðrúnu Jónsdóttur, fyrri konu sína.

Þessa vísu kvað sèra Jón í harðindum. — (Eptir einu handriti.)

Finnst mèr lánið fara' að grána
firðum hjá
þorra mána þessum á,
vill ei hlána vel nè skána
vetrartíðin há,
*inter ultima.*

## 64. ALMANAKSVÍSUR.

Eptir einu handriti.

Almanak, sem uppá spè
er hèr nefnt að framan,
Kanamla þó kallað sè
kemur betur saman.
Ætíð les eg apturábak
æfisögu mína,
einsog vitlaust almanak
er þá sèrhver lína.

* * *

Auðbrekku má Almanak vera' altíð sama,
breytist ei við túngl nè tíma
trúfestin, þó án sè ríma.

Víst að ári verður þörf að verja diska
bráðlætis við búnum háska
bændum hjá fyrir sumar-páska.

* * *

Litlu betra' enn ekkert er
almanak,
þetta hrak;
allt að sama brunni ber,
Bjarni minn!
árin óðum fljúga,
eins hjá þeim, sem spádómunum ljúga.

## 65. FAGNAÐAR ÓSK,

til þeirra Ólafs Ólavíus og Boga bónda Benediktssonar, þegar þeir settu prentsmiðjuna í Hrappsey. Kvæði þetta er ort 1773, og prentað með Ljóðmælum séra Jóns 1783, bls. 102—104, með þessum formála: "Eðla og Velvísum Herr Ólafe Ólafssyne, directori þess nya Isl. Bókþrykkeries. Samt Göfugum og Háttaugtudum sgr. Boga Benedictssyne, Interessent í því sama. Oskast til lucku med þeirra prydelegu Festarmey *Jomfrw Typographiam*, i *Epterfylgiaude Gaman Hendingum* og Munngáts Mælge".

*Lag sem við Hugró.*

Hvað er það undra' er úti sá?
dáfögur mey,
svo dýrri ei
:|: um daga lífs :|: leit augum á:
dönskum skrúða blóminn brúða búin er,
en þó landa allrahanda orðsnild ber;
hverr þá ætti heppinn mætti heita ver.
Hvað er það undra' er inni sè?
glætt staupaflóð
og glaða þjóð
:|: sem gestaboð :|: alsetið sè.
Hví er krúsum hèr í húsum hampað dátt?
Óskir klíngja, ymsir sýngja, allt er kátt; —
finn eg rök og fulla sök þó fari' ei hátt.
Aptur með prís og ágætt nafn
er *Olaus*
*Olavius*

:|: kominn til vor :|: frá Kaupinhafn,
hann þá mær nam híngað færa' í hendur oss
Íslands blóma, Íslands sóma, Íslands hnoss;
mun ei skylt það mjúkan gyldti meyjar koss?
Hann vill ei framar drýgja dvöl;
fyrr keypt var mey
en föstnuð ei;
:|: því fullkomnast :|: nú festaröl.
samt þau ekki' í sömu rekkju sofið fá,
hin því kemur henni fremur hrínga gná
hans við síðu heit og þýð sem hvílast á.
Þó efast ei að þessi drós
afkvæmi mart
Íslandi þarft
:|: við umsjón hans :|: mun leiða' í ljós.
Bogi annarr, beztur manna, brúði fær;
þessum báðum hún skal háð og hýrast nær —
að tvinna-nipt sè tveimur gipt ei trúðum vær.
Vèr tjáum Typographiam,
vegligast hnoss,
velkomna oss!
:|: því vænna þíng :|: ei veitast nam.
Sínu gagni firðar fagni' og forðist tál!
hún fær kennt, og margra mentað manna sál;
hèr skulu rekkar hennar drekka hjónaskál!

* * *

Látum oss blanda' að brúðkaups sið
þann hróðrar-leik
um auðar-eik

:|: og einkamál :|: alvöru við:
Ný prentsmiðja, Ólafs iðja öll og ráð
lukku háum notum nái' og nógri dáð!
ótal gæði af sèr fæði' um Ísa-láð!
Yðar viðleitni elskurík:
föðurlands hag
að færa' í lag
:|: er fæstra nú :|: samlendra lík.
Allt svo lengi Íslands mengi uppi stár
svoddan lifi' í sögn og skrifi sómi klár,
og af merkum yðar verkum arður hár!

## 66. TIL BENEDIKTS BOGASONAR.

Þeir voru mætavinir Jón Þorláksson og Benedikt og gjörðu sèr mart að gamni; einusinni sendi Benedikt honum selskinn, en hann sendi aptur vísu þessa: — (Eptir tveim handritum.)

Salutem eg sendi þèr
fyrir selskinnin tilbaka. —
Ef þú heimtar meira' af mèr
máttu þau aptur taka.

## 67. TIL ÞORSTEINS PRESTS SVEINBJARNARSONAR.

*Þakkarvers fyrir erfiljóð sem séra Þorsteinn hafði ort.*
— *Eptir einu handriti.*

Vel þeirri verði svölu
vala er ljóð fèkk ala,
horfins þar öld við erfi
arfa sat Halldórs þarfa! —
Túnga sú lifi lengi
og lánggæðar heillir fángi!
nemi þitt hól við himin,
Hómerus landsins frómi!

## 68. TIL STEPHÁNS AMTMANNS ÞÓRARINSSONAR.

Þessar vísur eru teknar eptir fjórum handritum, og er eitt eiginhandar-rit.

*Viðkvæði:* Velgengnin vefji
vegliga Stepháns ætt!
himininn hefji
hans stand ágætt!

Opt grætur tárum þurrum þökk,
þegar lundin ei verður klökk,

gefins auðsýnda velgjörð við;
vottar það mannhraks sið.
Velgengnin vefji
vegliga Stepháns ætt!
himininn hefji
hans stand ágætt!
Ef hola dropinn hellu má,
hana sem tíðum fellur á,
von er til á að vinni geð
velgjörð þráliga skeð.
Velgengnin vefji, o. s. frv.
Og hálfu framar hún, um bil
hátt enum lága fallin til,
nær í hjálpþurfnar hendur sökk
heimtar góðs ósk og þökk.
Velgengnin vefji, o. s. frv.
Þökk, ósk, atkvæði þessi tvö,
þau að eins stafir geta sjö,
útlát skyldug, en ekki bág
eru, þeim mikið þág.
Velgengnin vefji, o. s. frv.
Og hvað verðskulda minna má
af mèr velborinn herra sá,
er velgjörð hefir margri með
mèr sig náðugan tèð?
Velgengnin vefji, o. s. frv.
Þó ber eg engin efni til
á þeim að greiða verðug skil,

mèr er svo veikri mælsku skipt,
mig brestur andagipt.
Velgengnin vefji, o. s. frv.
Hugur minn fljúgi þá með þær
þegjandi, lengra' enn raustin nær,
að garði þess minn gæddi hag
gjöfum á nýjársdag.
Velgengnin vefji, o. s. frv.
Já, ennú lengra', og yfir heim,
allt að gæzkunnar tróni þeim,
hvar sèrhvað gott sín upptök á;
andsvarist þaðan, já!
Velgengnin vefji
vegliga Stepháns ætt!
hjálpræðið hefji
hans stand ágætt!
Frömuður Ísafoldar sè
farsæld krýndur og lánglífi!
gjöf verði hver ens góða manns
gimsteinn í krónu hans!
Velgengnin vefji
vegliga Stepháns ætt!
hvert nýjár hefji
hans stand ágætt!
*(endurtekið:)*
Hverr dagur hefji
hans stand ágætt!

---

Vísa þessi er tekin eptir þrem handritum.

---

Hverr gaf? — Herra ljúfur;
Hvað? — Sem mundi faðir;
Hvenær? — Opt á ári;
Að hverr knúði? — Dygð prúða.
Hverr þág? — Helzt óverður;
Hvað sagði' hann? — Hann þagði;
Hvað af kemur? — Hegómi;
Hverr eyðir? — magi leiður.

---

Þessar vísur eru eptir þrem handritum, og er eitt eiginhandar-rit.

---

Góð klæði góðu spá,
af góðum Herra send.
Ný gæði nú ske má
nýtt um ár fái' eg kennd;
guð veit hvort eg að ári
eins klæddur hèr og gæddur stend.
Svo hefir koll minn krýnt
kóróna Norðurlands;
hèr skal á höfði sýnt
höfðíngsverk gjafarans;
þó er enn meiri mæti
góðs von af náð og hylli hans.
Þeim launi guð sem gaf!
gelur svo hugur minn;

drykkist hann allskyns af
ánægju hvert eitt sinn!
hann mörg ár heiður skrýði!
uns himin krýnir Stephán sinn.

* * *

Mörg nýjár Stephán stand
styrki föst hamíngjan!
öll nýjár allt Ísland
uppskeri gott fyrir þann!
lát guð, æ Stephán stækka!
Stepháns börn gjör eins fræg og hann!

---

Þessi vísa er tekin eptir tveim handritum.

---

Dýrmæti faðir! ei af ætt
eða verðskuldun neinni minni,
heldur af dygð og háfu sinni,
sem himin Yður fèkk innrætt;
svo hefst og lyktar sèrhvert ár,
seðst eg og gleðst af yðar gáfum;
mun það ei ljós af himni háfum
sem högum mínum yfir stár?

---

Þessar vísur eru teknar eptir þrem handritum, og er eitt eiginhandar-rit.

---

Framandi kom eg fyrst híngað,
föðurlaus, sviptur öllum mínum;
tiginn herra mig tók sèr að,
tjáði mèr ást sem börnum sínum;
ei gat hann þartil annað knúð
enn eigin hjartagæzka prúð.

Er nokkuð dygð, ef ekki slíkt?
ó guð minn! hvaðan kom mèr þetta?
það er, ó faðir! þèr svo líkt,
þú, sjálf uppruna-gæzkan rètta;
að þú mannvinar byggir brjóst
bera þeir geislar vitni ljóst.

Þèr vil eg faðir! þessa gjöf
þakka, sem hinar óteljandi,
fyrir hèðan og handan gröf
hugur meðan er til andi;
hans skal í minni þökk til þín,
þín velgjörð er í hans til mín.

Blessun hans allan veg umvef!
veit honum farsæld hèr og þaðra!
honum því meiri gæði gef
sem gafstu mèr hann hetri' enn aðra;
guð minn! hvað sem er gott í raun
gef það Stepháni' í dygða laun!

---

Þessar vísur eru teknar eptir einu handriti; þær eru ortar með útleggíngu Paradísarmissis, sem sèra Jón hefir sent amtmanni, eða að minnsta kosti nokkurn hluta hans.

---

Faðir! — ei að ætt
(því átta vetrum
fann eg fold þessa
fyrri' enn þèr) —
heldur embætti
og ypparligleik,
en mest af dygð yðar:
dýrmæti faðir!
Hana hefir eg
(það er hugarmál)
skuld meiri' að meta
enn manns nokkurs;
góður var sá er gat mig,
en hann gat eigi
verið mèr slíkur
sem þèr vandalaus.
Vetrarverka minn,
ef verk má kalla,
móti forsorgun
föðurligri
legg eg í hönd þeim,
er hún kom frá;
lítið á, faðir!
og fyrirgefið!

Veri Paradís
verðlaun Yðar!
eigi töpuð,
heldur ávunnin,
farsæld á foldu,
fullsæld á himni,
það er þýðandinn
sem þess óskar.

---

Vísa þessi er prentuð framan við útleggíngu á Pópes tilraun um manninn 1798 á Leirárgörðum, og útleggíngin með henni tileinkuð Stepháni amtmanni. Hèr er borið saman eitt handrit við bókina.

---

Sönnum dygðar og vísdóms vini:
velhornum herra Stepháni,
þengils amtmanni Þórarinssyni
þetta tileinkað kvæði sè
þakklátri meður auðmýkt af
einum, sem þrátt hann meira gaf.

---

"Jörðin fagnar sumrinu, færir þó vetrinum sannar málsbætur": Sumarósk til Stepháns amtmanns, tekin eptir tveim handritum.

---

Hverr á svo fagran feld
og fararblóma nú?

þar öll er, að eg held,
á enda prýði sú;
ó, hjartans eptirlæti!
elsku Svasuður! það ert þú.
Ó, hvað þín bjarta brún
bregður skjótt mínum hag,
því sjaldan hefir hún
hitt mig með annra slag;
síðan við seinast skildum
þreiðan hefir eg þennan dag.
Úrkula vonar var
vorðin í þrautum eg,
að þinnar ásýndar
endursjón dægileg
mig framar mundi gleðja,
ómegin harms því að mèr sèg.
Vindsvalur vargs í ham
að venju kom til mín,
og frá mèr öll burt nam
ástríkis merki þín,
en freðnum fótum troðna
heiptar spor á mig setti sín.
Ei get eg umrædt nóg
allan hans víkíngskap:
hann æddi, hrakti, sló,
hvervetna meiddi, drap,
strýkti mig stirðum vendi
og sökti mèr í klúngra krap.
Föt þau, sem færðir mèr,
frá tók hann mjúk og góð,

en kopar kufl af sèr
klakaðan mèr í tróð,
yfir hann úttappandi
minna skynlausu barna blóð.

Hin eru hrjáð og snauð,
sem hafa meira vit,
því horfið burt er brauð
en búið krapta slit;
þykjumst eg þegar kenna
á mörgum þeirra moldar-lit.

Þó er öll þvílík eymd,
sem þannig kremur mig,
mèr nú að mestu gleymd,
fyrst má eg líta þig;
vaknar mèr von í brjósti:
að rètta munir af mèr slig.

Hörð eru Vindsvals völd,
verður það minnistædt,
nú fyrst, þá upp hófst öld,
að fèkk svo marga grætt;
en, nær mun öld sú koma
að eigi blandist súrt og sætt?

En sterka stillis hönd,
sem stjórnar öllu vel,
læsir og leysir bönd,
líf sendir jafnt og hel;
Vindsval sem vinstri handar,
þig ennar hægri tól eg tel.

En bæði þó eins þörf
og þartil hæfilig:

að sömu stjórnar störf
styrkist við hann og þig,
og föðurs allt um veldi
útbreiði farsæld sama sig.

Við slík eg vari lengst
á víxl gángandi kjör;
svo fèkk eg samantengt
af sínu hvorju gjör;
það er sú Alhags-orða,
sem öllu veitir styrk og fjör.

En samt eg elska þig,
sem alltíð byrlar sætt,
og hverr einn elskar sig,
að því er miður gætt;
nema Vindsvalur væri
yrði Svasaðar ástum hætt.

Tilefni tjóns, sem sker,
tíðast mun fleira' enn eitt; —
um skaða skeðan hèr
skuld er á Vindsval beitt;
en, mun ei mega kenna
manns háttalagi þarum neitt?

Sèu nú sjálfir menn
hèr samverkendur í,
verður það Vindsval enn
að vísu málsbót ný:
að hann má allvel kenna
sonum mínum að sjá við því.

Ástundan óforsjál:
að eiga meir enn þarf,

fæð hjúa, fýkn og prjál,
ferðasnatt, húss vanstarf,
óhóf, bjargræðis-hýti
bernskulig, skapa vondan arf.
Skyldulaus fóðrafjöld
fyrir hvern drettínginn;
þó kallar öld óöld
ef eg og veturinn
slíkt megnum ei að ala,
er hann þó hvíldartími minn.
Ángruð eg allmjög varð
áður við burthvarf þitt,
en nú, þar gekkst í garð,
gleður sig hjarta mitt;
mig kætti minnur þetta
nema fyrst væri brygð við bitt.
Svo skarta skiptin mest,
ef skoðað sami fær
mig, þá eg býst um hezt
með blómsturklæðin skær,
og þá mig harðast hrjáði
víkingurinn sem veik í gær.
Þar vetur gjörði gadd
(gaman er það að sjá)
fær þú sett fagran hadd,
svo furðar hvern mann á;
aldrei finnst döglíngs dóttir
dægilig einsog eg verð þá.
Þá skal eg breiða hrauð
á báðar hendur út;

þá skal í yndi' og auð
um hverfa vetrar sút;
þá skulu vindar veifa
sigurdúk fyrir sorgar klút.

Þá um mig út fossar
ununin sumars djúp,
iðrast eg ekki þar
eptir minn vetrar hjúp,
þá börn mín döfnuð dansa
og vínskálirnar segja: "súp!"

Æ! færðu þau sèr þá
þinn góða rètt í nyt
þótt horfist örðugt á
atburðir, hóf og vit,
samlyndi mjúku meður
bættu tilfallin byrgða-slit.

Mèr sendir líf og ljós
lávarður minn! í þèr,
æ skal því elska, hrós
og auðmýkt greidd af mèr,
jafnt vill og játað hafa
*Jón*, þar sem herra *Stephán* er.

Mèr rann upp sumarsól,
sæmdum hans hylli með,
þá er hans eigið ól
ypparligt dygða geð,
svo eg æ síðan hefi
minn föður, ýngri mèr þó, sèð.

Var ein sú vetrar tíð
vantaði nálægð hans;

en sumar-birtan blíð
frá brjósti skaparans
ýtra mèr aptur sendi
gjöf sína, þann enn góða krans.

Af hverjum, enn sem fyr,
ektaskír ljómar dygð,
umbyggja kærleiks kyr,
kostgæfin hjarta-trygð;
ó, hvað eg opt má sanna
að þar á guð í brjósti bygð!

Því vil eg minni með
móður, sem heitir jörð,
slík fyrir skipti skeð
skylduga þakkargjörð
Alföður glaðværr gjalda,
sem gjörir kjör að blíðum hörð.

Sumarósk sinnið kýs;
sízt þori' eg óska neins, —
af því eg of fávís
óskaði kannske meins
þar ósk til heilla hugði,
sem margan hendir, — utan eins.

Gjör fósturföður minn,
faðir, sem gafst mèr hann!
um þennan heim og hinn
heill rèttri farsælan!
gef honum aldrei annað
enn allt hvað gott er, þig sjálfan!

Góð er þín gjörvöll stjórn,
gef oss að þekkja slíkt

og þèr að færa' í fórn,
framferði þínu líkt;
haust, sumar, vor þá verður
vetur og allt af blessun ríkt.

---

Vísur þessar eru teknar eptir þrem handritum, og er eitt þeirra eiginhandar-rit.

---

Far! þig blekfáinn beri
brèfvagn, námdís stefja!
slúngin unaðs ángi
öll, að Möðruvöllum;
þaðan þig á hlóðust
þáð faung gæða laungum;
kveð fám orðum fríðan
föður á *völlum möðru!*
Minnug tjást, hve tvennar
tólf um raðir mánaða
gjörðu gjafa stærðir
gildra mig þakka skyldan!
á nýrri náðugs herra
nú hve hreifur eg þreifa
(svo gá ár undir og endur
æskila[1]) hjartagæzku.
Fylgi, þínu fólginn
förunautur í skauti,
þökk á sætu sykkri

[1]) þ. e. æskiliga.

og svala-veigum alin;
guða skal drykkjar dáðum
dís jarðneskra lýsa;
Stepháns lof, kætt við kaffe,
kveður Bæsá freðin.

Ef mig hyggur hafa
harðla mjúkum dauðsjúkan
svefnhöfga, líkn, lífgun,
lið magnandi fagnað:
þú mátt þá ei gleyma
þökk! sopinna dropa
blóð meðan elst í æðum
innilig að minnast.

Ósk að ári fersku
enn skal með þèr renna,
ofar dauðligum drifin
dug af auðmjúks hugar:
Öll, er farsæld fylla
fold og hæðum á, gæði
herra Stephán æ hærri
heillum skínanda krýni!

Skunda svo heil í hendur
herra stórum smá kerra!
fullum farar heillum
flyt þrjár, er þig sitja,
ástum unnar systur;
inni fá svo kynnu,
enn þótt ei sem nunnur,
amalaust á klaustri.

Þessar vísur eru eptir tveim handritum.

Í skjól það hefir skaparinn
skjótt látið einnig fjúka,
hvar hann leiddi mig áður inn
undir föður-hönd mjúka;
ó, guð! eg ekkert færi finn
að friða önd hugsjúka;
æ, að snart hamur mætti minn
mæðudögunum ljúka!

Þó er nú helzt sem þrengir að,
þaraf eg mest er hryggur:
sá þú fèkkst mèr í föður-stað
fyrir þèr sjúkur liggur.
Ó guð! skal þannig umbunað,
að hann var þèr svo dyggur?
æ! virðstu samt að veita það,
vertu hvorugum styggur!

Svo hlýt eg hrygðar máli með
minn góða föður kveðja;
guð mun, þó nú hann geti' ei sèð
girnd mína loksins seðja;
þá mun fegri mitt þakklátt geð
(eg' þori um slíkt að veðja)
umbun hans fyrir á mèr skeð
ástarverk, stórum gleðja.

## 69. TIL ÞORLÁKS BÓNDA HALLGRÍMSSONAR Í SKRIÐU OG KONU HANS.

Vísar þessar eru kveðnar 3 Febr. 1809, og teknar hèr eptir þrem handritum; hefir Rask ritað eitt eptir brèfi sèra Jóns til Þorláks bónda.

Yður launi sendan sauð,
og sèrhvern velgjörnínga,
sá sem ræður öllum auð,
úngum hrafna veitir brauð
og elur gefins einnig snjótitlínga.

Þó er umbun þegar skeð,
þarf sú bænar eigi;
samvizkan, sem gleður geð,
góðu verki fylgist með.
Ei hefir Títus tapað þessum degi.

Nær mun, vinur! nægjast mèr
nokkuð ei svo bresti?
baksturs- til í -bauknum er
brauð í sálna fæðu hèr
fyrir eina fjörutíu gesti.

Mann, sem þetta bæti böl,
bágt er nú að þekkja;
víðast hygg eg vanta mjöl,
vara sú er hvergi föl,
Eyjafjarðar engin vitjar snekkja.

Þökk og heilsun mína mest
mælið fram í húmi,
þegar yður þykir bezt,
(en þá má ekki nefna prest)
auðgrund, sem í yðar hvílist rúmi.
Margt er fyrri gleymt enn gleypt!
glaptist hug að muna
þakklætið — (en þeigi' af heipt) —
því skal verða hèr í steypt,
fararskjóta fyrir járnínguna!

---

Vísur þessar eru eptir tveim handritum, og er annað eiginhandar-rit en annað ritað með hendi Rasks eptir brèfi sèra Jóns til Þorláks bónda.

---

Væri' eg ekki vitlaust svín:
sem vönd er skylt að hreppi,
allur skammast má eg mín
meir enn nokkurr seppi.
Velgjörðum, sem veitið þrátt,
við eg tek og eyði;
eg hefi vilja', en engan mátt,
af mèr gott að leiði.
Tjáir ekki' að tala' um það,
tökum annað gaman —
kátur bryð eg kjöt og tað,
korn og tóbak saman.[1]

[1]) "Allar þessar tegundir, kjöt, korn, tóbak og tað til eldiviðar, voru í sendíngunni." Skáld.

Hèðanaf ekki handa mèr
huppinn[1] þurfið geyma;
nærri getið þessu þèr:
það verður nóg til heima.
Yður geld eg, ástvin kær!
innstu þökk sem megna;
kyssið líka mæta mær
mín og yðar vegna.
Þó mun sama þjónustulag
þartil ekki hlýða:
mitt á að gjaldast drós í dag,
dymmunar hitt mun bíða.
Yfir yður, brúði' og börn,
blessun æ eg kalla,
þóað stundum goli' í görn
gamlan Bæsár-Skalla.

---

Vísur þessar eru teknar eptir einu handriti.

---

Þeir, sem spara þakkar orð,
þau svo allir heyri,
þeim, sem fylla þeirra borð
og þarfir ótal fleiri
þráliga, sem þèr,
halda menn að hafi sál
heldur enn rakkarnir;

---

[1]) Þetta lýtur nð vísunni: "Laungum á eg þátt í því" o. s. frv.

heyri guð mitt hugarmál
í hæð, þá nægir mèr.
Lofkvæðunum ærið opt
enginn fylgir kraptur,
hólið, sem þau henda' á lopt,
hjaðnar tíðum aptur
eins og annað hjóm;
hugar-andvörp heimuglig
og hjartans alúð fróm
skýjum ofar sýni sig,
saungva fegri hljóm.

---

Hin fyrsta af vísum þessum er eptir einu handriti, en tvær enar síðari eptir tveimur.

---

Guðrún nefndist mamma mín, en Margrèt[1] eigi,
þessi síðar varð á vegi,
víf yðar eg það um segi.
Gel eg Ykkur, góðu hjón! af geði hreinu
þakklæti mitt allt í einu,
en þótt lífs að kvöldi seinu.
Eg mun betur þakka þó við þrot nábiðar;
bæði þèr og allir Yðar
óska' eg njóti drottins friðar.

---

[1]) Margrèt var seinni kona Þorláks bónda; hana kallar sèra Jón seinni móður sina.

Þessi vísa er tekin eptir þrem handritum.

Guð launi' ykkur, góðu hjón! —
af gjöfinni þó eg springi
heilan sjái þið halta Jón
á hinu stóra þíngi.

Þessi vísa er eptir einu handriti.

Guð launi' ykkur, göfgu hjón!
gjöfina nú og fyrri;
fyrir kerta-gjöf og grjón
gamli þakkar Bæsár-Jón.

## 70. TIL FRIÐFINNS ÞORLÁKSSONAR Á SKRIÐU.

Eptir einu handriti.

Senn eg skil við Friðfinn,
fann eg sveininn úngan,
en ei skerfur mun minn
mann að kristna fullt þann.
Sennið ei við Friðfinn!
fann hann aldrei klið þann,
kennir heldur sið sinn,
sannkallaður Friðmann.

Manna beztan, svein sinn,
sinni hverju friðinn
sannkallaðan Friðfinn
finna láti drottinn!

## 71. TIL MAGNÚS PRÓFASTS ERLENDSSONAR.[1]

Vísur þessar eru teknar eptir einu handriti.

Elskuligi Magnús minn!
mál er komið að þakka
sendíngar og seðil þinn
með Sörlatúngu krakka.
Tvisvar goldin tíund þar
til mig dró að brosa,
áður lokin öll hún var
í honum Snærisbosa.
Míns því njóta má eg frí,
meira' ei hirði taka,
púlbands-fætur þínir því
þrammi nú heim tilbaka!
Poki' og skjóða, passlig hjón,
pistil þennan bera,

[1]) Vísurnar: "Eins sem dröfnóttar leipturs ljósum", o. s. frv. sjá framar, bls. 355.

þeim hefir sonur Þorláks Jón
þannig sagt að vera.

## 72. TIL ÍNGIBJARGAR SVEINSDÓTTUR,

konu Magnús prófasts Erlendssonar.

Vísur þessar eru teknar eptir þrem handritum, og segir eitt að þær sè ortar á 65ta afmæli.

Tóbaks, pappírs, lýsis-laus
legg eg frá mèr kvæðaraus,
það skal geymast, ha ha ha!
handa mèr til jólanna,
og hvern við hita hátt upp kyrjast Ha . . . ja.
Sjötta bókin[1] eptir er
öll þvínær í sekk hjá mèr,
en af pappír óskrifað
ekki minnsta skeinisblað,
við sál og heilsu Svarta-Kolbeins[2] sver eg það.
Yðar mann, það aldna skinn,
elskuligan prófastinn,
til altaris eg ekki tek
utan pappír fái' og blek,
við mig sálin vesæl ella verður sek.

[1]) likl. af Klopstokk.
[2]) vinstra fútarins.

Trúi' eg vart: að tóbaks lauf
til ei lèti nokkur rauf,
grufli fornum gólfum í
Guðlaug meyjan eptir því;
hálfvitlaus á hennar náð eg hèrmeð flý.

---

Vísa þessi er ort til þakklætis fyrir prestshempu, sem sèra Jóni var send frá Hrafnagili. — Eptir tveim handritum og er annað skrífað eptir eiginhandar-riti; tvö önnur handrit knýta hana við fyrri vísurnar.

---

Góður maður klæddi klerk
úr klösuðum í betra serk,
gjöfinni mèr geðjast að,
guð launi' ykkur fyrir það!
hann og þèr og húsið allt sè bíblessað!

---

Árið eptir að móskjótti folinn sèra Jóns var tekinn af honum til eldis að Hrafnagili, skrífaði hann þetta til prófastskonunnar. — Eptir fjórum handritum og er eitt tekið eptir eiginhandar-riti.

---

Yðar kærum ektamanni' og öllu kyni
heilsið þèr frá halta Jóni! —
"Humrum-rum-rum" segir Skjóni.

---

Þessar vísur eru eptir einu handriti, sem sagt er skrifað sè eptir eiginhandar-riti.

---

Haldið, móðir mín!
mèr til góða
síðasta sinni
sendíng laka:
Kolbeins kaldegg
af Klopstokks varpi;
minnist aldrei meir
Miltons-apa!
Hann er nú hartnær
sem hinn blindur,
fèlaus, fótalaus,
fyrirlitinn,
nær því nár orðinn. —
Nú skal þagna, —
yrki þeir allir
sem eptir lifa!
Árnið alltíð góðs,
elskaða móðir,
greppnum gráhærða,
sem í gröf slútir! —
Lifið sífelt sæl!
sèrhverjum yðar
biður blessunar
Bæsár-Skalli.

---

## 73. TIL GUÐLAUGAR MAGNÚSDÓTTUR Á HRAFNAGILI.

Visur þessar eru ortar 4 Jan. 1807, og eru teknar eptir tveim handritum.

Höfðíngs-jómfrú heiðursverð og harðla fögur,
máluliga midtisdigur,
mentasvanni prýðiligur!
Pára vil eg prófasts-dóttur pistil smáan,
þó í tómi naumu, nýjan,
nema ljóðin vantar í hann.
Uppbyrjaðan árs um hríng og alla tíma
kristiligur blíðu blómi
bliki' á yðar jómfrúdómi!
Bið eg, að hann bevarist í bezta friði
tíð um næstu tólf mánaða,
taki vöxt, en engan skaða!
Þá er vant að þakka fyrir þegnar gjafir;
því er þar á enginn efi
að eins er gjört í þessu brèfi.
Sèrligasta seðil-efni samt eg kalla:
sjatna tekur flauta-fylli,
finnst mèr vera þar á milli.
Er mèr sem af illum reyk eg ætli' að kafna,
fór því villt um irkisefni,
orðinn vitlaus nær af svefni.
Gellert á, sem gat eg fyrr að gefinn mundi,

í aðalstað sinn aptur venda,
yður bið eg hann því senda.
Flýtir hèrum fleira tala fyrirbýður,
Helga stutt, og hennar niður,
heilsa biðja þakklát yður.
Errinu, sem að mèr hló á eldri tíma[1],
ekki mundi Gagla[2] gleyma
góðs að óska, væri' hún heima.
Hún hefir setið, síðan í haust að sumar kvaddi,
frammá Bakka, geði glöddu
og glymja látið hvella röddu.
Föður yðar fyrirbýð eg færið kveðju!
en hún móðir mín og yðar
mest eg óska njóti friðar!
Virðið þetta bragarblað, sem biðils væri,
á mjúku brjósti látið lúra,
og lesið það á milli dúra.
Allra síðast óska eg, það yður dreymi,
að við bæði sofum saman
sætt fremjandi hjóna gaman!

*(Eptirskrifað.)*

Lesið, fyrir líf og blóð, svo leynt sem getið!
að faðir yðar fái' ei vitað,
fyrr nè síðar þetta ritað.
Honum máske huxast þá svo heimskuliga,
eg muni vilja yður eiga,
eins og fyrri mig hún Veiga.

---

[1]) sjá "Gloria á sprengikvöldið".

[2]) Kvennmaður á Bæsá, svo kölluð af barni þar.

Virðið allt sem gamans-gjamm, nema Gellerts bögu!
verð eg einhvern við að spauga
svo villist grillur út á hauga.

---

Þessar vísur eru teknar eptir þrem handritum.

---

Guðs ást fyrir, góða sprund!
gjöfina þèr senduð mèr,
fögur er hún, en fegri lund
faldasólar auglýsir.
Hvers á eg að njóta nú,
nýjársgjöf mèr veittist slík,
að fyrra bragði sýnir sú
að sèuð föður og móður lík.
Verið þið blessuð ætíð öll,
útvöldustu drottins hjú!
og samanvalin trygða tröll
í tíma' og eilífð, hananú!

*(Viðbætir:)*

Jafnan sælar Jómfrú góð!
Jón á Bæsá óskar þess,
arfi hvers — ei lýsa ljóð, —
lítill fóstursonur prests.
Fyrirgefið fáort rit! —
fóstri minn hefir párað það —

*(bætið þèr við!)*
okkur báða vantar vit
og verkið er svo fljótt hripað.
Manninum, sem brèfið ber,
brennivíns þèr gefið staup
þèr hafið gefið meira mèr,
og megið eiga hjá mèr kaup.

---

Þessi vísa er eptir þrem handritum, og er eitt skrifað eptir eiginhandar-riti.

---

Skyldi' ei þakka skammrifin,
af skærum kærleik framdrifin,
höfðíngs jómfrú hamþrifin!
hempuleppur skammrifinn?

---

Visa þessi fylgði með útleggíngu sèra Jóns á draugskvæði Gellerts (sjá I, 302—306); hún er tekin hèr eptir þrem handritum, og hefir Rask borið annað saman við eiginhandar-rit.

---

Yður fyrir upp kvað
eg úr haug, Guðlaug!
(viðurkenni þèr það!)
þennan draug, Guðlaug!
miður kom í minn stað
málaspaug, Guðlaug!

biðil þá mig ber að
brennið þaug, Guðlaug!

Vísur þessar eru teknar eptir einu handriti, og er það eptir eiginhandar-riti.

Tilskrifið og tóbaks gjöf, sem týndust ekki,
eg af hjarta þýðu þakka;
þau var ofur-gott að smakka.
Mèr fer, eins og mannleysunum, miður enn skyldi,
slíkt með nokkru góðu goldið
getur hvorki sál nè holdið.
Vanefnanna, vífa bezt! þèr verðið gjalda,
eg á hvorki spjör nè speldi,
spillíng neinni frá sem hèldi.
Munið ekki minni rausn þèr mega hrósa
þennan ljóða þýzkan pjesa
þegar sitjið við að lesa.
Læt eg allteins lynda mèr og Loptur gollur,
þó mig ljóða-kreðu kallið,
þá kviðsett hafði sauðarfallið.[1]

[1] Loptur nokkurr, sem kallaður var gollur, át upp sauðarfall í einu, en gafst upp við lángleggina og sagði: "mikil kreða er eg nú orðinn, drottinn minn!"

## 74. FÆÐÍNGARDAGS-VÍSUR

til Erlendar, sonar Einars Hjaltesteðs. — Eptir þrem handritum, og er eitt tekið eptir eiginhandar-riti.

VELKOMINN, *Erlendur*, vort í fèlag!
vèr hjóðum allir þèr farsælan dag,
fullvel kemst bróðir þinn fyrir og þú,
fær og sá þriðji rúm ennnú.
Nafn þitt og ættin oss forspá er frètt:
að fara þú munir með hvorttveggja rètt,
og virðíngu safna með verðskuldun þèr,
verkandi mikið sem gott er.
Fylgi þá Erlendi lífdaga lengd,
lofsæld og æra, við frómleika tengd!
gráhærður öldúngur, göfgur af dygð,
guðs eign er mætust á heims bygð.

## 75. STUNDARSTEF

ort handa Erlendi, syni Einars Hjaltesteðs, í æsku hans. — Eptir þrem handritum, og er eitt eptir eiginhandar-riti.

Ei er auðnu-stundin
árs við tíma bundin,
midt um bjarnar-blundinn[1]
barst hún nú að hendi
mætum með Erlendi.

[1]) þ. e. veturinn.

:|: Hjaltesteð, -steð, -steð :|:
Hjaltesteð þá gladdi geð
guð, þann mög er sendi.
  Ei er ángur-stundin
ónýt fyrir sprundin,
burt þá hrygð er hrundin
hreinum lífs með gróða,
einsog Georg góða;
:|: farsæl er, er, er :|:
farsæl er og fögnuð ber
fjölgan slíkra jóða.
  Ei er óska-stundin
alltíð lengi fundin;
guðs en milda mundin,
meðan þín æfi stendur,
haldi þèr í hendur!
:|: blessan há, há, há, :|:
blessan há þèr blómgist á
blíði sveinn Erlendur!
  Yndæl æskustundin
auðgi vizku-lundinn,
lífs svo miður-mundinn
mikinn færi blóma
lands af sæld og sóma!
:|: þá mun kvöld, kvöld, kvöld :|:
þá mun kvöld og önnur öld
af því skini ljóma.
  Sè þèr sèrhver stundin
sann-farsæl, og lundin
hlý, en ei afundin,

allra góðra manna!
Dygðin, yppurst anna,
:|: hefji þig, þig, þig :|:
hefji þig á heiðurs stig
helztan Erlendanna!
Vaka, værðar-stundin,
víðir, lopt og grundin,
á þig, auðnu-kundinn,
allri skemtun stefni,
láni' og lukku-gefni!
:|: drottinn sè, sè, sè, :|:
drottinn sè þèr dillandi
dauða, og lífs í svefni!
Lífs þá lukt er stundin,
lokið starfs við pundin[1],
hels yfir hættu sundin
himins flytji skari
þig á friðarfari!
:|: sál þín hèr, hèr, hèr :|:
sál þín, hèr sem *erlend*[2] er
*innlend* hæð á vari!

[1]) *starfspund* merkir hèr ætluð eða ákvörðuð verk, sem hverr einn á að framkvæma í lífinu.

[2]) *erlend* er útlend eður framandi.

## 76. GEORGICA SKEMMRI.

Ort til Georgs, sonar Einars Hjaltesteðs. — Eptir einu handriti.

Góð-skáld gjörði smiða
Georgica[1] laung; —
skemmri, sem eg saung,
sama nafn skal prýða.
Verkstofn valdi ljóða
Virgilíus þörf
akurirkjustörf,
en eg hann Georg góða.
Allvel akrar spretta,
en þó köld sè tíð;
Akureyri fríð!
þú skalt vitna þetta.
Hverr sá blóma betri
bera sumar gladt,
enn þann á þèr spratt,
vikum þrem af vetri?
Úngur aldingróði,
æðstu vænni rós,
þá kom þar í ljós,
það var Georg góði.
Ástar-arði slíkum
akur fagnar geðs,

[1]) Georgica þýðir "akurirkju" og því kallaði Virgilíus ljóðarit sitt, um akurirkju bænda, Georgica.

heilags hjónabeðs
ræktendum hjá ríkum.
  Und, sem báðum blæddi
blómstur eptir mist,
er þau áttu fyrst,
guð með þessu græddi.
  Akurmaður einni
ítri gleðst af jurt,
föl þó falli burt,
er hann sèr þá seinni.
  Hýrr, sem himinljómi
harðan eptir bil,
unaðs kveikir yl
Georg, barna blómi.
  Farsæl akurirkja
er hin neðri sól,
hag sem allan ól,
nǽra nam og styrkja.
  Ennþá ypparlegri
er hin skæra dygð,
heims um breiða bygð,
allri frjófgun fegri.
  Henni sjálfur sáði
sinn í akur fyrst,
að hann ávaxtist,
guð af gæzku ráði.
  Hún er ein sem elur
alla farsæld manns,
líf án hennar hans
aum er ör og kvelur.

Akur þann að irkja
alla lífs um tíð
guðs þig gæzka blíð
virðist vel að styrkja!
Geymi guð og blessi
Georg úngi! þig
öll um æfistig;
elski, efli' og hressi!
Af þèr góðan gjöri
guðs fyri kristni þann
akurirkjumann,
sem hann sjálfur kjöri.
Arður allra gæða
um þinn blómgist hag!
unz við aldurlag
dýrð þig hýsir hæða.
Veri þèr værðar efni
vögguljóð frá mèr,
drottinn dilli þèr
dauða' og lífs í svefni!
Líf svo, Georg góður!
guðs í faðmi mýkst,
farsæll lif og líkst
föður mest og móður!
Máske verði að vetri,
vel ef lætur þjóð,
Georgs lengri ljóð
litla gefin Pètri[1].

[1]) Þessi Pètur bjó um tíma á Leysíngjastöðum.

## 77. GEORGSLJÓÐ.

Eptir einu handriti.

---

*Georg.*

MÁL er
mèr að hreifa letri
og minnast á það heit,
eg þèr
úngum Georg Pètri
áður gefið veit,
því ber
þess að fara' á leit:
að störf á ökrum úti
orma-bani sleit.
Á þá
öll að niðurleggja
akurverk og tól?
ójá
okkar nema beggja,
enginn snjór sem fól;
eins má
ástar gjöra sól,
ytri fold þó frjósi,
frjófsöm hyggju-ból.
Ósorg
ígultanna[1] getur,

---

[1]) Osorg er nótt; ígultanni er björn; bjarnar-nótt er vetur.

af því hún er köld,
hugtorg
hrest og vermt því betur,
að hin ei stundar öld;
Georg!
gaman er um kvöld
að láta lyndið kæta
lystug oturs-gjöld.
Ó að
undan hendi minni
öll tíð gæti sáð
eitthvað
æsku geðfeldt þinni,
ei þó verði' í bráð!
en það
orka bannar hrjáð,
mín því mærðar ekra
mist hefir alla dáð.

*Pètur.*

Gimstein
Góins hellu betri
græðir akurmann
af rein
eign frá Georg Pètri
eg samlíkja kann,
föst hrein
foreldrunum þann
ást af ektabandi
arð til launa vann.

Sè þeim
sögðum fest á steini
sífelt unan há!
en keim
ángurs hans af meini
öllum hrundið frá,
unz heim
allteins hann og þá
eilíf hjálpar hella
himin flytur á!

*Georg Pètur Hjaltesteð.*

Dáð há,
dygðir foreldranna,
drottins elska trú,
þar hjá
þóknun góðra manna,
þróist æ og nú
þèr á!
það er gæfa sú,
eg af öllu hjarta
óska að njótir þú.

Mjög þrátt
mund foreldra þinna
mèr hefir velgjörð tèð,
því átt
þú hjá mèr að finna
þakklát orð og geð;
öll hátt
ykkur þrjú eg kveð:

eðli guð og elski
ættina Hjaltesteð!

Enn eitt orð til Georgs góða:

Ljúfs manns
líf í þessum heimi
líkist akur-jörð,
iðn hans,
ei sem ber að gleymi,
er, að sá velgjörð;
tímans
takmörk viður hörð
gefst þá góð uppskera
guðs með sælli hjörð.

Þann veg
því að sá og irkja
þinnar æfi reit
bið eg
bezt þig virðist styrkja,
blóðs meðan unn er heit,
guðleg
gæzkan, allt sem veit,
nafni Georgs góða
gefst þá renta neyt.

## 78. TIL SONA EINARS HJALTESTEÐS.

Eptir einu handriti.

Mikið verk er akurirkja,
elzta boð, og helzt til stoðar
fjöri manni fyrir að vinna,
fyrstu gjörð að list á jörðu,
allri verzlun holl er hirzla,
hjúskap ann og búskap manna;
hinna víst, ef hennar misti,
hagur stètta magur frèttist.

Vel því gæfan valið hefir
vinar elztum syni helzta
iðnar nafn af auðnu stofni,
elzta þeim er telst í heimi;
njóti sveinn (eg ætíð árna)
æfi-frama! gæfan sama
Georgs Pèturs háfu heiti
Hjaltesteð sè alltíð meður!

Röð er önnur meðal manna,
minnur öldruð hinni töldu:
kunnur heimi kennidómur,
kirkjutíða' er irkju hlýðir;
harla vel á Erlend alinn[1]
Einars mög svo hrein og fögur,
Erlends væru kórlín kjörin
krans með jafnan hans af nafni.

[1]) fóstraðann.

Gamlan öldúng Gimla hvíldar
gleður von og tèður sonur,
mæta vinar heiti hreinu
hans er nefnist, manns gott efni;
sama vafinn sem hann lifi
sóma gengi frómur lengi!
hollra skíni heill á sveini
hèrlend bæði og erlend[1] gæða!

Þaðan sig á þjóða vegum
þriðju stèttar iðja rèttir;
hölda stjórn og völd til varnar
virða friði' í kyrðar griðum;
Noregs forðum stirfinn[2] stýrði
stóli göfugum Óli[3] jöfur,
tíginn laungum tregar mengi
Tryggvason á Yggjar kvoni.

Fregn er nýrri fagna þeirri
fengið göfugs þengils höfum
lifnað háa nafn að nýju
norður hèr á storðu frera[4];
slíkan bur að Akureyri
Einarr hlaut, og sveinaskauti[5]

---

1) *hèrlend* og *erlend*, útlend heill hollra gæða.

2) *stirfinn*, starfsamur.

3) *Óli* og *Áli* kallast hann opt í sögum.

4) Íslandi.

5) Sveinaskaut kalla eg það, sem framleidt hefir í röð 4 sveinbörn, en enga meyju. Til þess litur og orðið *dáð*, því slíkt þykir mèr votta kjark í náttúru foreldranna.

Guðrúnar, sem dáðrík dreyrir,
dyggur svanni, tryggum manni.
 Kunnan tíðum fann eg föður
frekt og trygt að ektadygðum,
stýrir móðir stórum dáðum
stakla[1] von og maklig honum;
Ólaf því eg tel og tjái
Tryggva-son og dyggrar kvonar;
sveini veitt sè unun ættar,
og að jafnast Waages nafni! —
 Stutt um skuggsjá stètta þriggja
stef óhagla[2] gef eg baglað
þremur hlýrum[3], þeim að eru
þar í namni[4], að vara gamni;
fríðir bræður, faðir og móðir!
friður drottins yður sig votti!
framtíð enn í fimta sinni
fljótt við bæti dóttur mætri.

---

[1]) *stakla* fyrir stakliga.

[2]) *óhagla* fyrir óhagliga.

[3]) hlýrar eru bræður.

[4]) namn er fyrir nafn í gamali Norrænu.

## 79. GAUKS-MÁL,

til Faktors Einars Hjaltesteðs, og sona hans. — Eptir tveim handritum.

Nú gjörist fugla-fátt,
sem fagran hefja saung,
þó liðin burt sè brátt
bjarndýra nóttin laung;
mun gjöreydt hún þeim hafa,
verandi framar venju straung?

Það máske þagnar-öld
þýðir að byrjuð sè,
og bráðum komið kvöld
á kvæða-listinni,
er þó smátt engu betra,
eins og að veifa raungu trè.

Ef Gaukur gæti tíst
Georg til skemtunar,
og Erlend fengi fýst
að færast nærri þar,
fyrst betri fuglar þegja,
er það víst skárra' enn ekki par.

Það er allt betra' enn böl,
sem burtu hrindir þrá;
nær skortir áfengt öl,
una við bjórinn má;
við barn er bezt að leika,
af því þess huggun opt er smá.

Gaukur í gömlum ham
gefur því af sèr hljóð,
heitir það hríðar-stam,
heldur enn sumar-ljóð;
en slíkt umbera vildi
Erlendar lund og Georgs góð.

Hann á að þylja þökk
þeim bræðrum alúð með,
(þareð hún þvínær sökk
í þagnar afgrunnið)
örlæti frábært fyrir
enn í vetur sem optar tèð.

Foreldra milda mund
mynnast skal hann og við,
sem himni líka lund·
og ljúfan gæzku sið
stórum velgjörðum votta,
er mèr svo tíðum leggja lið.

Ef himin gefur gaum
að gauks og hrafna raust,
hún þó oss heyrist aum,
hygg eg ei nota-laust
að eg hann einnig biðji
umbunar þeim, með trúar traust.

Hjaltesteð, hús og allt,
sem honum kemur við,
æ blessist ótalfaldt
innlæst í herrans frið!
hverja mèr velgjörð veitta
umbuni trí-eitt almættið!

Seintalin sèrhver baun[1],
sem bræðra skenkur var,
hundraðfaldt lán í laun
lífs beztu farsældar
ávinni þeim og þeirra
um allar stundir æfinnar!

Verði þeim sumar sælt
sem nú fer strax í hönd,
og öllum oss yndælt,
eptir svo styrðan vönd!
brostu nú, Georg góði!
gaukurinn datt, því burt flaug önd.

## 80. TIL BARNS.

Eptir einu handriti.

Ólöf öll yndæla
æfispor til gæfu
úng og gömul gángi,
glöð sem kvenna röðull!
ört af innsta hjarta
árna, mjög þó sárni
dökkvar herða-hrukkur,
henni þess, og ennis.

[1] Faðir barnanna, faktor Einarr Ásmundsson Hjaltested, hafði gefið skáldinu bauna-tunnu.

Amar aldurdómi
ýmisligt um tíma,
heimatökin tæmast
töm við örbyrgð sömu,
draumi glíkt þó gleymist
gamall vetrar hamur,
blóm þó sýnir sumar
sem að morgni kemur.

## 81. TIL PÁLS RECTORS HJÁLMARSSONAR

útaf undandrætti hans að gefa skólapiltum frían dag að bón skáldsins, í notum viðbætis hans við Hænsna-Þóris rímur. — Eptir einu handriti.

Hænsna-Þóris hana verði,
hinumegin jöklanna,
heilsar ei með Heimdalls sverði,
heldur fiðri stökklanna,
sá á Bæsá sagt er skerði
saung og fegurð böklanna.
Hænsna-Þóris hana presti,
hinumegin fjallanna,
þyl eg niður í þúsund kesti
þakkir gaman-spjallanna,
sem mèr skulu vera nóg í nesti,
nær eg geng til vallanna.

Hænsna-Þóris hana böðli,
hinumegin dalanna,
gramur er eg geðs í stöðli
grimmra vegna kvalanna,
sem úngar, prýddir æskuröðli,
eiga' í kreppu dvalanna.

Hænsna Þóris hana goði,
hinumegin á stólunum,
móti voru brýtur boði,
bannar þeim í skólunum:
míns að vinar mjúkan troði
messudans á Hólunum.

Hænsna-Þóris hana flengi,
hinumegin á stöðunum,
hygg eg lítt til hjarta gengi,
huggun nagla-spöðunum
mínum þó frá mjúka fengi;
merki' eg það á blöðunum.

Hænsna-Þóris hana sprengur,
hinumegin í kögunum!
hve má solltinn hempu drengur
hampa skrítnu bögunum?
um fimtán ára frest eða lengur
frástíaður mögunum.

Hænsna-Þóris hana stillir,
hinumegin hjá seggjunum!
heitinn einsog hauðurs-spillir
hag gjörandi veggjunum,
ósk mín er, þú fljótt uppfyllir
fletið þitt af eggjunum!

Hænsna-Þóris bana pínir!
heimsku bjó eg drjánanum
misvirðíngu minnsta sýnir
málverksins á gránanum,
og annað blað með ati klínir,
ætlað messu-slánanum.

## 82. TIL BJARNA THÓRARENSENS.

Eptir einu handriti.

Tinda fjalla eg sè alla undir snjá;
til sín kallar Þorri þá;
gamlan salla Gerðufalla grefur Bægisá
*inter ultima.*
Bág er tíðin, bylur hríðin búkum á,
slær óhlífinn Þorri þá;
sálar hýðin særir kvíðinn sinnisveikum hjá,
*inter intima.*
Allt er dofið á mèr krofið ofaní tá:
afl er rofið fótum frá;
eymstrum klofið enuishofið, einn ber dymman skjá
*inter extrema.*
Dæmið galda dauða valda dólga frá,
mínum alda meiðslum á,
gigtin falda, kláði, kalda, kólíka mig þjá,
*inter alia.*

Fyrirgefið fúllu kveſi fylta skrá!
þerrið nefið ei þar á!
leggið brèfið loks og stefið leppadruslum hjá
*inter infima!*

TIL SAMA.

Yðar kunnur mèr er munnur, mund og hjartalag;
auðnubrunnur, ekki grunnur, eru þau mèr í hag;
sèra Bjarna, sem ber kjarna sama nafns og kyns,
unnið varna! æ, sjá þarna ángalíur hins!

## 83. GEIRSNAFN.

Vísa þessi var ort þegar Geirr biskup vígðist, og er hún tekin hèr eptir tveim handritum.

Opt skjómar skæðir
skera, svo blæðir;
geira-bregg hræðir,
bradt þegar æðir.
Ísland eitt ræðir:
"oss gáfu hæðir
Geir þann, sem græðir."

## 84. ÞAKKLÆTIS-SÁLMUR SONAR TIL DÓTTUR SINNAR.

Eptir einu handriti.

*Lag: Til þín, heilagi herra guð!*

*Á* hæðir upp mín horfir önd
holds af andstreymi lúin;
þar sem við helgra lýða lönd
lífs höfn er fyrirbúin;
smámsaman hvíldin ýtist að,
umliðni tíminn vottar það
og hugur hèðan snúinn.

*S*orgligra hluta sjón á jörð
sinnið dagliga mæðir,
útpressuð þar við andvörp hörð
upplypta sèr í hæðir;
hjartað mitt lángar heimi frá,
háski tímans þar minnir á,
og um forsjálni fræðir.

*T*orveld siglíng um tímans haf
tvístrar þó hugrenníngum;
höfninni lít eg ofþrátt af,
því annað flækist kríngum;
holdsins breiskleiki' og heimsins tál
í hættu færa mína sál
svikulum sjónhverfíngum.

*Þ*inn góður andi, guð! eg bið
götu mig leiði sanna,

svo mèr hið rètta sælumið
synd engin megi banna;
hverr heimsins elskar glæpugt glis,
gleði himneskrar fer á mis,
aumastur allra manna.

*R*áðvanda breytni' og góðfúst geð,
guðræknis föruneyti,
hjá mèr kýs eg, þó fátt sè fèð,
fölskvalaus trú varðveiti;
veri guð minn, svo á eg allt,
en þó að lukku happið valt
í sorg og böl sèr breyti.

*Ú*taf heiminum nakinn nár,
nær eg eilífðar vitja,
af hans fèmunum ekkert tár
eg mun í burtu flytja,
verk þau að eins sem vann eg hèr
og verðlaun þeirra fylgja mèr,
að þeim eg æ mun sitja.

*D*rottinn verki þann dug í mèr,
að dygðum, meðan hjari,
sè mín ástundan sífeld hèr
að sá, en engar spari;
þá flyt eg með mèr næsta nóg,
við nauðablandinn aura plóg
þótt eg í fjarlægð fari.

*U*nunarsömust ein og bezt
eign mín í þessum heimi
eru þau börn, eg öðlaðist,
aldrei ber því eg gleymi;

lofaður veri guð, sem gaf
góð mèr afkvæmi fyrir staf,
að lètta lífs andstreymi.

Raunabrautar og lífs við lok
legg eg þá stoð af hendi,
þegar líkamans ofþúngt ok
aptur til jarðar sendi;
en heimi dýrðar helgum í
herrann gefur mèr þau á ný
svo sambúð aldrei endi.

Jarðneskum hlutum öllum af
ástkærust, þú, mín dóttir!
þarfasta grein á þessum staf!
því valda kærleiks gnóttir;
guð hefir prýdda gáfum þig,
gleður þó dygðar elskan mig
umfram allar íþróttir.

Ótti drottins er ætíð bezt
uppbyrjun hyggindanna;
einsog hyggindin auðnumest:
elskan til guðs og manna,
hún kennir skyldu' að rækja rètt
og reynast trúr í sinni stètt,
sem færir farsæld sanna.

Nafn þitt, sem dregið af er Ást,
á þèr eg vel sè skarta,
Ástþrúður skyldu flestar fást
með frómt og dygðugt hjarta!
Ástþrúður! dóttir mætust mín!

móðurarfleifð er dygðin þín
og heitið Ástar bjarta.
*Sá*, sem mig föður setti þèr,
sjálfur guð, faðir beggja,
brátt þá umsorgun bar fyrir mèr,
í brjóst þitt ínn að leggja
hjálparríkt Ástar hugarfar,
hann sem lífskjörum úthlutar
allra sem okkar beggja.
*Dygðin* sín himnesk upptök á,
öllu fè dýrmætari,
hefir sín verðlaun himnum frá,
heimurinn slíkt þó spari;
já! dygðin sjálf sín umbun er,
aldrei skeður: sá hana ber
á mis við farsæld fari.
*Ó*, þú mín dóttir elskurík!
aldraðan mig sem gleður,
gjörst æ og framar guði lík
góðverkum sönnum meður!
að vita guði þekka þig
þelfró og helfró skal fyrir mig,
nær sem skilnaður skeður.
*Tak* nú, mitt barn! við þýðri þökk
af þeli föðurligu,
og óskum þeim, sem önd mín klökk
offrar um himna stigu!
áliti guð sem ástverk sín
allar velgjörðir, sem til mín
frá þínum höndum hnigu!

*T*íminn, sem gefst þèr til að sá
trúar góðverkum sönnum,
afli þèr, líkt sem áður Rá,
ástar hjá guði' og mönnum!
hún sè þín eign í veröld viss
og von um arf hjá stóli Krists,
nær lífs er lokið önnum.

*Æ*ilífðarinnar óska-klár
upp þegar rennur dagur,
þakkar-saungur um þrotlaus ár
þinn og minn verður fagur;
allt það, sem hèr á yndið brast,
umbreytist þar og fullkomnast,
þó nú sá hyljist hagur.

*R*áði þèr guð, mitt bezta barn!
blessi þig hann og geymi;
ásjónu ljómi gæzkugjarn
guðs þig með náð á streymi!
til þín augliti vendi vel
veitandi frið, Immanúel!
Amen! þèr guð ei gleymi!

## 85. ÓSK TIL BARNS.

Eptir einu handriti.

Úngi Magnús ár og síð
einsog blómstur dafni,

laðist að honum lukkan fríð
lánið fylgi nafni!

## 86. SENDIBRÈFSVÍSUR.

Þessa vísu ritaði sèra Jón eittsinn utaná sendibrèf. — Eptir einu handriti.

Bón sú gleymdist innaní:
að mèr vildir lána, —
ei mátt blæja þú að því! —
þrjár arkir af grána.

Þessi vísa er tekin eptir einu handriti.

Fjölgað er í húsi hèr, —
heilsa biður Mánga þèr!
í svartri flösku sendur er
sopi víns, en ei frá mèr.

Hin fyrri af vísum þessum er tekin eptir þrem handritum, en hin síðari eptir einu.

Ef mèr hefir af yfirsjón
eitthvað gleymzt að rita,

Ólafur bætir um og Jón,
sem alla hluti vita.
Ef eg kann af yfirsjón
einhverju gleymt að hafa,
Ólafur bætir um og Jón,
sem alla hluti skrafa.

---

Þessi vísa er tekin eptir einu handriti; hún var ort á sendibréf sem sképs-skrá fylgði.

---

Önnur fylgir skrá skrá,
skép sem brúkast á á,
hennar lás ei má má
margur læsa þá þá.

## 87. SJÁLFSLÝSÍNG.

Eptir þrem handritum.

Hèrmeð lýsist hjörfa þór:
hann á að vera skrafinn,
herðalotinn mjög og mjór,
mikið bólugrafinn.

Hann er næsta höfuðsmár,
um höku' og kinnar loðinn,
gult á kolli hefir hár,
hvergi búkur snoðinn.

Seggurinn hefir söðulnef,
sem er hátt að framan,
mælir opt frá munni stef
mörgum þykir gaman.

Ærið þúngur undir brún,
örr og þverr í lyndi,
meður litla hönd, en hún
heitir strá [1] í vindi.

Uppí loptið álnir tvær
átta' og sjö þumlúnga
voga loga viður nær,
vegur tólf fjórðúnga.

Einatt hýrum augum vann
auðs á renna jarðir,
ei til handa annað kann
enn að brégða gjarðir.

---

[1]) *hreytir strái*, eitt handrit.

Við þeim glæp sig vari fólk,
sem vill að sínu búa:
honum fyrir ferskri mjólk
og feitu spaði' að trúa.
Eitt hans merki vitum vær,
víst ei forgleymandi:
ákaflega' hann allur rær
eins á sjó og landi.
Stundum klúr í orðum er,
augun hörð sem tinna. —
Ef hann fyrir einhvern ber
eigi þeir sem finna.

* * *

Sporin styrðu fjaðra fljót
forlát, systir góða!
borin hirðir blaði mót
þau bætist kost við glóða.

## 88. FYRSTI APRÍLIS.

Eptir einu handriti.

Af rökkur-svefni reisumóðan
rak mig á fætur kvæða-norn,
biðjandi hjartans grepp sinn góðan
að gjöra fyrir sig drápukorn;
eg tók um síðir undir það,
efnið hana þó finna bað.

Hún kvað það vera kapítula
úr kroníkunni á Parnassó,
um frægðir Óðins Fimbulþula,
og fólksins sem með honum bjó:
eg yrði' að fylgja' á eptir sèr
uppá klæðast og flýta mèr.

Eg klæddist strax á kjól og vesti,
krullaði mitt hið lausa hár,
og sendi drenginn eptir hesti,
á lagði skjótt minn jarpa klár,
skaut mèr á bak sem skjótast gat,
skáldgyðjan fyrir aptan sat.

Hún keyrði títt með hempulafi,
hesturinn gjörði' ei nema jós;
síðast að veifa tók hún trafi,
í taglið hèlt, sem önnur drós;
fákurinn náði' að feta beint,
fram hèldum við, þó gengi seint.

Og komum loks að einu fjalli,
ei sá eg þar við neina kynd;
eg meina spakir menn það kalli
Músa heiðinskan lærdóms-tind;
yfir mig gekk, það segi' eg satt,
að sjá hvað það var feikna bratt.

Efst voru björg og hamrar háir,
hyllur aðgreindu kletta-mót,
en fyri neðan aðrir smáir,
urðir síðan og lausagrjót;
furðaði mig þó allmjög eitt:
allt þetta smælki var ferskeytt.

Eg kenndi, þegar birti betur,
bóka-raðir, þar kletta hèlt;
skriðurnar voru skruddu tetur,
er skurðgoðin höfðu niður fellt;
látínu-kver mèr sýndust sum,
sá eg það glöggt á spjöldunum.

Við stigum síðan blakk af baki,
batt eg hann þar við lítinn stein,
á var gyðjunni ógna svaki,
ei þótti mèr hún spora-sein;
erfiðan feril áttum þó
upp eptir bröttum Parnassó.

Loksins við, eptir lánga mæði.
lentum hæst uppá klettunum;
við vorum orðin bjöguð bæði
af basli þessu', og fótahrum;
eg vildi drekka' úr einum læk,
en það var keita furðu stæk.

Lúinn og mæddan ljóða-gyðja
leiddi mig inní dymman sal,
eg dirfðist helga drós að biðja:
dreipið þèr nú á þyrstan hal
dálitlum sopa, systir mín!
sárt lángar mig í brennivín!

Hún kvað það ei fyrir hendi vera,
höstugt gaf mèr í fyrstu svar;
eg tók mig nokkuð illa' að bera,
æjandi ræskti kverkarnar;
inn kom þá krús með eitthvað vott.
eg drakk af henni', og þótti gott.

Eg hresstist skjótt af þessu þambi,
það var og ekkert sulhumauk;
í mig kom svosem ögn af drambi,
ýgldi mig við og belginn strauk;
heimti síðan af helgri drós:
að hafa til pappír, blek og ljós.

Eg bað hana mèr efnið inna,
ei mætti' eg lengi dvelja þar;
hún kallar strax til systra sinna,
sú kom þar inn, er skruddu bar,
mèr var sem bækling þekkti' eg þann,
þetta var Soðbúrs-kroníkan.

Bók eg þessari brádt upp fletti,
brillurnar setti' á nasir mèr,
hún glotti við, og brýrnar bretti
bendti mèr til hvar skrifað er:
"Seytján hundruð sjötígi þrjú
sèra Jón vildi reisa bú."

Hèr skaltu, kvað hún, útaf yrkja!
(ei man eg, hvort hún sagði: *þèr*)
við skulum systur starf þitt styrkja;
stökk þá blóðið í nasir mèr,
æsti minn huga bræðin bráð,
bað skollann taka svodann háð.

Hljóp eg svo burt í fyrtum fúlum,
fannst ekki til um þeirra gis
og heitti' af ákefð brautar-súlum,
búið var annars mesta slis;
ofan komst þó á slètta slóð,
Sleipnis-arfi þar hundinn stóð.

En eg hann varla aptur þekkti,
á honum meinti nýjan haus,
umbreytíng sú mig allmjög blekkti,
eg varð að mestu rænulaus;
hann hafði fengið látúns lit
líkan gyllíng, um öll sín vit.

Þá sá eg strax hvað þessu olli:
það var eitt *látinskt* glósna kver,
sem fengið hafði' að festar þolli,
fákurinn þar við neri sèr,
öðrum til sýnis upp það tók,
*Amo* lærði' eg af þeirri bók.

Eg man ei par af öðrum orðum,
eru þó mörg á kveri því;
Grani minn, sem þeir geltu forðum
gat ei lært nema *amavi;*
*amo, amabo, amabam,*
allt kann eg það, og *puellam.*

Nú lèt eg jór, þó latur væri,
leggja fram það hann hafði til,
það var allt eins og fluga færi
foröð yfir og djúpan hyl;
unz heim að bænum átti skammt,
aldrei datt eg af baki samt.

Heim kominn strax eg hvílu gisti,
huxandi slíkt hvað merkti gis;
í almanakið líta lysti,
las þar: dag fyrstan Aprílis;
nú sá eg hvernig Nornin þykk
narrað hafði mig eins og gikk.

Ei skal eg framar Apríl hlaupa
upp þann heiðíngska Músa-stig,
svo vegna hús og kúa kaupa
kvæða nornir ei spotti mig;
nú hafa loksins málið mist
Músikarinn og Skjaldrar list.

## 89. HAMFÖRIN.

Ort til bræðranna Páls og Halldórs, Hjálmarssona, eptir að séra Jón hafði lokið af útleggíngu Paradísarmissis. — Eptir fjórum handritum.

Hèr þrýtur þögul bið
því nú er á mèr gáll;
hyggnir menn, heyri þið,
Halldór og bróðir Páll!
eg er uppnuminn orðinn
og skynsamari' enn nokkurr Njáll.

Æ hefir meingi meint
mig vera fróðan litt,
svo varla geti greint
til gagns að svart og hvítt,
og við Hornstrandir haldi
að heimsins lykti veldi vídt.

En kæmist út á prent
öll mín lífsaga ný
mart yrði mönnum kennt
sem móti stríðir því:

nú um tólf ára tíma
hamförum verið hef eg í.
Blindan mann bar mèr að,
beizlaði' hann mig sem jór,
eg mátti strax af stað
um storð og upsa kór;
helvíti' og himin allan
og Kaos hann í króka fór.
Einnegin eilífð þá,
sem áður var enn jörð,
steinblindur seggur sá
í sinni ráðagjörð;
það hlaut eg gegnum gana;
gömlum mannklár var reið sú hörð.
Englanna sterka stríð
staðizt eg varla fèkk,
áköfust orrahríð
yfir mig hreint þá gekk;
eg hljóp á fjöll af fælni,
hinn blindi samt á baki hèkk.
En þegar andskotinn
ofan datt kollahnýs
hvarf allur hugur minn;
með hvin og hýsna frís
brá eg upp bakhlut mínum,
og biltist niðr' í Paradís.
Hann hèlt sèr fast í fax,
(furðar mig hvað hann sat);
eg ekki staðið strax
styrður af falli gat

og mun þess menjar bera:
fèkk eg ólukku' í lærið *Lat.*[1]
Samt hlaut eg lánga leið
að lötra, varla fær,
unz þessi ríngulreið
raktist á enda' í gær[2];
hann mèr þá slippum sleppti,
og sló í kaup mitt halta lær.
Aldrei hans nafn eg nam,
nè því rètt eptir tók,
fyrrenn í felldum ham
fann þessa reisubók:
maðurinn Milton heitir,
þvílíkar sem mèr þrautir jók.
Eptir slíkt ferða flakk,
fáks húð nær af mèr rann,
saman við pappírs pakk
pistil eg nokkurn fann
með sæmdan mínu nafni,
þú hafðir ritað, Halldór! hann.
En hvað mèr brá í brún
að brotnum lási skrár,

---

[1]) "*Lat*" kalla eg mitt halta og seinfæra lær; annars er þetta orðatiltæki: *að fá ólukku í lærið*, haft eptir einum dönskum kaupmanni, sem var skakkur í læri, og sagði alltíð þegar hann stóð upp: "*Jeg har saadan Ulykke i mit Laar!*". Skáld.

[2]) 21 Marts 1805.

þar geymdar hafði hún
handa mèr eina' og þrjár[1]
gáfur, sem bræðra beggja
sást á manngæzku heiður hár.
En hvernig gat fyrir gjöf
greiðst af mèr skyldug þökk
á meðan átti töf
í essi sál mín dökk,
og utan heims og innan
einsog hraðfara hryssa stökk.
Burt skal því ganta-gáll
og gamans-mælgin hin:
hljótið nú, herra Páll!
og Halldór, bezti vin!
blessun og blídt þakklæti
af Bæsár gömlum hempu-hlyn.

## 90. SMÁATVIK.

**Eptir einu handriti.**

Fjórelleft var orðin öld
útaf móður brunni,
þá sunnudags þreif mig kvöld
þriðja' í Aðventunni.[2]

[1]) Það voru 4 bánkaseðlar.
[2]) 1744 13 Dec. í Selárdal.

Verið hefir viðlíkt þá
víst á Lúcíu messu
skildagi mèr settur sá,
sem á ári þessu.

Fjórelleftur fyrst eg bar
fót í Bæsár haga[1],
síðan hef' eg þrammað þar
þrjátigi nýjársdaga.

Sunnudagur sami og hinn
sá var kirkju-verka,
sem eg var hèr settur inn
í sæti Bæsár klerka.[2]

Svo er nú um sama skeið
sjón og heilsu minni
allri hrundið á þá leið,
innan skamms að linni.

Er sem við mitt æfispil
annarr glöggur vaki,
annist það, og ætli til
eptir því eg taki.

---

[1]) 44 ára 1788 kvöldið fyrir 1sta Sd. í Aðv.
[2]) 14 Decbr.

## 91. VÍSUR UM SJÁLFAN SIG.

**Þessa vísu orti Jón Þorláksson um sig úngur, er hann týndi húfunni sinni. — Eptir einu handriti.**

Týnt hefir húfu sinni sá
seggur Jón frá Teigi;
hana aldrei hitta má
hèr þó útaf deyi.

**Þegar Jón Þorláksson heyrði að honum var fædt launbarn, kvað hann þetta. — (Eptir einu handriti.)**

Altènd segja eitthvað nýtt
ítar lyndisglaðir:
hvað er í frèttum? hvað er títt?
hvort er eg orðinn faðir?
Holdið mitt í hægum sess
hopaði sèr til vansa,
nú er eg kominn á náðir prests,
nýtt er mèr að dansa.

Lukkutjón þá að fer ört
ekki' er hægt að flýja;

betur hefði guð minn gjört
að gelda mig enn vígja.[1]

---

Betra' er að vera hátt með haus
hengdur uppá snaga,
enn að ríða eystnalaus
alla sína daga.[2]

---

Þessi vísa er tekin eptir einu handriti.

Óborinn til eymdarkífs,
ellegar dauður væri eg,
ef að bæði lykil lífs
og lásinn sjálfur bæri eg.

---

Vísa þessi er tekin eptir einu handriti.

Hvenær mun eg hress í lund
hreifa þánka-fjöðrum? —

---

[1]) Þessi vísa er einstök á tveim handritum (auk þess sem áður var nefnt að hefir allar vísurnar), og er annað tekið eptir eiginhandar-riti.

[2]) Líkligt er að vísa þessi sè einstök og ekki áföst við enar fyrri.

gefst mer engin gamanstund,
þá gleðin hossar öðrum.

---

Þessi vísa er eptir þrem handritum.

Vín eg sver og víf frá mèr og vonda reiði;
góður bið eg guð mig leiði
svo geti' eg dugað þessum eiði.

---

Þessi vísa er tekin eptir einu handriti.

Aldrei hefir *Musa* mín
mynnst við *Bacchum* sèr til gagns;
hún varð *muta* og misti sín,
meðan neytti skemdar-agns.

---

Einusinni var Jón Þorláksson að yrkja; þá kvað hann til konu sinnar. — Eptir einu handriti.

Þörf er ekki þig að kveðja,
þóað nú sè mál að gleðja
af stökum vökum sturlað geð;
ó mín allrabezta beðja!
berðu þig nú karlinn gleðja
bökuðum köku-bleðli með!

---

Eittsinn heimtaði sèra Jón sokka sína með vísu þessari; hann heyrði þá strokkhljóð um morguninn. — Eptir tveim handritum.

Stökkva' á fætur strax eg vil
störfin þörf að fremja; —
meydjákninn er tekinn til
trèklukkuna' að lemja.

Eittsinn var sèra Jón að drykkju með öðrum mönnum; þá stóð hann upp og sagði: "eg ætla nú út á merina mína"; þá sagði einn af hinum: "ætlarðu á hana?" — hann svaraði: — (Eptir tveim handritum.)

Eg fer á allt sem fyrir mèr verður
og feila mèr ekki' að neinu;
hvort það er merr eða menjagerður
mig gyldir það einu.

Þetta kvað sèra Jón við aldamótin 1799—1800 (sbr. Fyrri Deild bls. 273). — (Eptir tveim handritum.)

Hverr var eg þá upp kom öld,
enda nú sem hefur?
hvað mun eg við hinnar kvöld,
ef herrann fleiri gefur?

Þessi vísa er eptir einu handriti.

Veit það gjörr
sá er veröld bygði
og föðurliga
fyrir hyggur:
hvað börnum hans
bezt um varðar
einstakliga
og öllum samt.

Þessi vísa er eptir einu handriti.

Varat eg þar
er vèlum spennti
og mannorði beit
maður annann:
nema andmóðigur
illum hug
flýðag þann
flokk enn arga.

Þetta kvað séra Jón einusinni hjá vin sínum, Þorláki bónda í Skriðu. — Eptir tveim handritum.

Hèr er bæði heitt og bjart og hóflig kæti,
næstur mèr er svanninn sæti,
sómi' er það og eptirlæti.

Þetta kvað séra Jón gestkomandi yfir máltíð. — Eptir einu handriti.

Enginn veit hvað eptir fer
þá útum bygð má keifa;
þó eg springi þar eg er
þá skal eg ekki leyfa.

Þetta kvað séra Jón eittsinn yfir kjötfati á Skriðu. — Eptir tveim handritum, og er annað eiginhandar-rit.

Laungum á eg þátt í því,
að þykja góður bitinn;
kjöti getinn er eg í,
útaf kjöti slitinn,
kjötlaus fell þó frá;
þegar eg rís aptur upp
ei mun kjöt að fá,

geymið þèr mèr heitan hupp[1],
hólpinn er eg þá.

---

Þegar sèra Jón heyrði að honum var fæddur dóttursonur (Jón Eyjólfsson, sonur sèra Eyjólfs Gíslasonar og Guðrúnar, dóttur sèra Jóns og Margretar Bogadóttur, fæddur 13 Apr. 1814) orti hann visur þessar. — Eptir þrem handritum.

---

Eg nú framar allri von
ellibelgnum kasta,
umsteyptur í Eyjólfsson
á ári sjötugasta.
Beinin, mæld af steingeit[2], stutt,
stórum hlutu lækka,
uxamerkið[3] undir flutt
eiga þau nú að hækka.
Háveturinn, hætt er við,
(hvað sem vori líður)
þenna gamla Þorláks nið
þekkir ei að síður.
Öll sè blessuð æfi þín,
ástkærasti nafni!
önnur betri auðna' enn mín
að þèr heillum safni!

---

[1]) sbr. vísurnar til Þorláks á Skriðu, bls. 465—66.
[2]) Því sèra Jón var fæddur undir steingeitarmerki.
[3]) Jón Eyjólfsson er fæddur undir uxamerki.

Himna-föðurs eilíf ást
annist þig og geymi,
okkur síðan unni' að sjást
í öðrum betra heimi!

---

Þetta skrifaði sèra Jón Magnúsi Stephensen, 1810, útaf starfi sínu við að íslenzka Messíasdrápu Klopstokks. — Eptir tveim handritum og Sunnanpósti 1835, bls. 131.

---

Hæstu flugrastir arnar á
ómöguligt er gamals hana,
þó eptir henni fýsist flana,
fjöðrum magnlitlum upp að ná;
að minnsta kosti' í mun þó er,
ef mætti sjá þann leiðarenda,
þótt veikir sèu vængirnir,
við hann, en ekki fyrri, lenda.

---

Vísa þessi er ort 1812, og er tekin hèr eptir fjórum handritum, en eitt þeirra er eptir eiginhandar-riti, og er vísan kölluð þar "Hjónavers".

---

Fátæktin var mín fylgju-kona
frá því eg kom í þennan heim;
við höfum lafað saman svona
sjötýgi vetur, fátt í tveim; —

hvort við skiljum nú hèðan af
hann veit, er okkur saman gaf.

---

Þessi vísa er eptir einu handriti.

Lýgigjarnt er sagt að sè
sèrhvert hold
hèr á fold,
en eg, fyrir utan spè,
undan tek
*lóm*[1] og *mig* —
því lærin okkar beggja
laungum sönnu spá um komu seggja.

---

Þessi vísa er tekin eptir einu handriti.

Hæði þèr ekki herrans þjón!
um heltina þó eg kvarti;
hægri fóturinn heitir Jón,
hitt er hann Kolbeinn svarti.

---

[1]) Það er kunnugt að lómur er kallaður veðurspár sjófugl, og er sagt þegar hann skrækir hátt: "Nú tekur lóminn í lærið"; þessu snýr sèra Jón til sín, og lætur sem giktartak í læri sínu spái gestkomum.

Vísu þessa orti sèra Jón um heimsókn þeirra Rasks og Hendersons. — Eptir þrem handritum.

Kerlíng sèr nú á nafna,
í nýjúngagirni jafna,
er fýsti svín að sjá.[1]
Innlendir eptir hrækja
þeim aðrar þjóðir rækja:
veldur því vinsemd? — já!!

[1]) Þegar Magnús prestur Einarsson, faðir Skúla landfógeta og Sigriðar, móður Geirs biskups, var prestur í Húsavík í þingeyjar sýslu, var kerlíng nokkur afar gömul í Mánáreyjum á Tjörnesi; kerlíng var forn í skapi og ekki trúrækin mjög, og hafði ekki sótt kirkju um 20 ár, en einn sunnudag um vorið verður hún úfjáð um kirkjuferð, og lætur flytja sig til kirkjunnar með mikilli fyrirhöfn. Þegar prestur sá hana varð hann mjög glaður við, og þakkaði guði hversu hann hefði linað steinhjarta kerlíngar, og veitt henni krapt til að komast til guðs húss, og fór um það mörgum fögrum orðum við kerlingu. Hún kvað heilsufar sitt vera mjög þúngt, og engu lèttara enn áður, "en eg hefi heyrt, heillin góð! að kaupskipið væri komið, og með því væri nýstárligar skepnur og mjög fagrar, sem sè kallaðar *svín*, og lángaði mig til að sjá þær af öllu hjarta". — Síðan er ekki getið að prestur hafi hælt trúrækni kerlingar.

Vísa þessi er tekin eptir tveim handritum.

Kvíði' eg fyrir kvöl og húngri,
kastar að mèr hugraun þúngri;
sjálfur þó eg svelti' í hel
skaði nokkurr skeður eigi, —
skelfíng er að hinir deyi,
sem lifað gæti lengi' og vel!

Vísa þessi er ort "við undarligan viðburð", að vinur sèra Jóns varð honum mótfallinn. — Eptir þrem handritum, og er eitt eptir eiginhandar-riti.

Höggur sá er hlífði fyrr,
hví er skipt um sinni? —
Eg má ekki kúra kyrr
í kramar-vesæld minni,
svo er ótraust allt;
hefir þó aldrei hjartað mitt
hugsað þángað kalt; —
hverjum fylgir sinni sitt,
sumra mjög er valt.

Þessi vísa er tekin eptir tveim handritum, og er annað eptir eiginhandar-riti; hún mun vera ort útaf því, að vinur sá sem kvartað var yfir í fyrri vísunni hefir snúizt aptur.

Tvennslags eru túngurnar,
til að slá og hugga. —
Allt er heiðskírt einsog var
áður enn dundi skrugga.

Vísur þessar eru teknar eptir fimm handritum.

Nóg er lifað, ef væri vel,
við þetta kalda hreysi;
hvern dag eg nú og tíma tel
til þess að snjóinn leysi.
Þeir, sem ofskipað þykir rúm
þar eg enn limu hræri,
grèti lítt þó í grafar húm
grind þessi komin væri.[1]
Þó mundi varla þeirra kinn
þar af feitari verða;
húðina sèr í skæða-skinn
skil eg ei gagn að herða.

[1]) Þetta lýtur að presti einum, sem menn ætluðu að sitja mundi uppi með brauðið eptir andlát skáldsins

Visur þessar eru eptir einu handriti.

---

Lagst er fyrir í lamasess og látinn dugur,
allur er mèr horfinn hugur,
hamur þessi' er vanmáttugur.
Horfin er mèr heyrn og sjón á hægra vánga,
fætur hafa gleymt að gánga,
gjörir það mèr æfi lánga.
Munn að eins og mund eg get til matar bifað,
ekki dáið, ekki lifað,
ekki setið, þenkt, nè skrifað.

---

"Heilsufar Bæsár-Skalla". Eptir tveim handritum.

---

Höfuð er veikt, en hjartað smeikt,
holdið sleikt af beinum,
gjörvallt hreykt, á gáng-tól lieykt,
giktar steikt af meinum.

---

Þessar vísur skrifaði sèra Jón Árna Helgasyni stiptprófasti, 1818. — Eptir einu handriti.

---

Bezt er að sè heill og hress
hann, sem byggir skálda sess;
kunna menn að krefja þess
að karar-göltur yrki vess?

Höfuð víst og hjarta þarf
hann sem iðkar ljóðastarf,
ellin þegar að þeim svarf
óðarmegnið frá þeim hvarf.

---

Að eg lifi tvö ár til
tómt mál hygg eg verða,
ómeðal því ætla vil
að mèr slíkt að herða.
Hugsan mín er flestu frá
foldarvastri snúin,
Miltons sjónar megn er þrá
mèr úr brjósti flúin.
Efni mèr í grind um grind,
greydýr fyrir að naga,
vantar tennta meitils mynd
og manninn til að saga.

---

Þetta er kveðið til Geirs biskups Vídalíns 27da Jan. 1818, og er tekið eptir einu handriti, afskript af eiginhandar-riti sèra Jóns.

---

Brádt mun liðin tíma töf
til þess að mig hýsi gröf,
finnst mèr, sem á fremstu nöf
fjörið sè og krapta gjöf.
Góðan staf, sem guð og þèr
gáfuð fyri skemmstu mèr,

fleiru með, sem eptir er,
yðar gæzku fel eg hèr.
Inn til þess að æfin dvín,
andinn rýmir fjötur sín,
brennheit sú skal beiðni mín:
blessaður sè Vídalín!

## 92. BUSTARFÚSI.

Kvæði þetta var ritað Magnúsi prófasti Erlendssyni, og er svo fyrir mælt að það skuli kveða á bæjabustum þegar Bæsárskalli fellur frá. — Eptir fjórum handritum.

Hvínandi hvirfilbylur
hverfur af þekju brátt,
óminn þó eptir skilur,
af því hann blès svo hátt
og lèt í friði fátt;
heimskum og hörundsárum
hann varð metnaðar-dárum
óvildarefni þrátt.

Í veifun vindhananna
við þennan leiða gust
opt fyrir eyrum manna
ýlustrá blönduðust,
mæðandi marga hlust;
minning hans mun þó gella,

meir enn nokkur hávella
á hverri bæjarbust.
Allir þeir, sem ei þola
þykkjulaust sannleikann,
ef nokkur andar gola,
þótt engan snerti mann,
heldurenn hvern annann,
eptir þeim orðum hlusti:
af Bæsár kvæða gusti
engan meir kala kann.
Menn vona loptið lygni,
fyrst linnir þessum gný,
án þess að af því rigni
einum vatnsdropa ský,
sem þar er enginn í;
ef annarr gustur gengur
gelur hann varla lengur,
allrasízt ama-frí.

## 93. KALDEGGIN.

Þessar vísur eru eptir tveim handritum, og er annað eptir eiginhandar-riti.

Frosið er við fræða-damm,
frjófgun tekur halla,

kemur því á klaka fram
kaldegg Bæsár-skalla.
Skruggur hafa skellt í lás
skemtun fylgju minnar,
sneipt er flúin hún og hás
heim til ættar sinnar.
Margur kvartar meira' enn eg,
minna til þó kenni,
laus við Bæsár lemstraveg,
líð eg snart frá henni.
Fór eg híngað fótum tveim
fljótur nokkurnveginn,
en nú kemst eg ekki' á þeim
einn spöl, nema dreginn.
Hánga mèr á herðum laun
hartnær þrjátígi' ára:
þreyta, slit og þánkaraun,
þörf og heltin sára.
Hefða' eg ekki líkn og lið
lind af betri hlotið,
líf mitt, Bæsár vesöld við,
væri laungu þrotið.
Samvizkan þó segir mèr,
sannað hygg eg geti,
hvorki þar til orsök er
óhóf mitt nè leti.
Hvað mun valda þessu þá?
þartil mætti svara:
því eg vandist aldrei á,
öðrum sitt að spara.

Líka hefir lukku sæld,
láns er skiptu kvarðar,
ekki verið meiri mæld
mèr á vegum jarðar.
Jeg ber tóman húðar-hams,
hitt í vind er fokið;
enda mun nú innan skamms
ætlun minni lokið.
Ekkert verk eg unnið get,
ekki þenkt nè skrifað,
ekki riðið, farið fet,
fjöri sleppt nè lifað.
Ekkert liggur eptir mig
utan ljóða bögur,
þótt á kroppnum sýni sig
sjötigi ár og fjögur.
Eg mun samt við æfilok,
allt fyrir mæðu þessa,
hèrvist mína' og hennar ok
hjartaglaður blessa.

---

Þessar vísur eru eptir tveim handritum, og er annað eptir eiginhandar-riti.

---

Kveð eg þig, kæra
kvæða-dís mín!
síðasta sinni
er við sjást munum;

lengi lifðum við
leikfull saman;
þú fer nú fyrri;
far þú! eg kem.
Rógur ráðgjafi
rak þig á flótta,
lausmáll og lastmáll
og lygafullur;
heldur þú honum
hefnist ekki?
*þess verður getið*
*sem gjört er.*
Enginn hlutur er
auðveldari
enn að fá öðrum
ávirðíngar;
en á sjálfum sèr*
saur að lasta
tjáir torveldast
Thales að sè.
*Fár veit* á foldu
*hverju fagna skal*,
til mun vont verða
þó við förum;
skyndiliga sker
okkar skilnaður,
þó sjást mörg merki
að mök við áttumst.
Mörg fóstur mislit,
mèr sem fæddir,

aldrei áttu við
Íslands hvítu,
og þó enn síður
upp frá þessu,
nær allt er orðið
einskær prýði!! —
Enda var okkur
eignað stundum
það sem annarr ól
enn svartari,
og þá fyrst frètt
eptir faðerni
þegar vaxinn var
vafá-gepill,
en við ófrægð
á öllum þíngum.
Bernskir til blóra
eru bezt fallnir;
á þjót skal þorna
hvað á þræl vöknar.
Aldrei er ofdýngt
á hinn leiða,
og þótt hann einnig
undir kafni.

## 94. GRAFSKRIPT.

Kveðin 5ta Nóvember 1788, síðustu nótt sem Jón Þorláksson var í Galtardal. Grafskript þessi er prentuð áður í Klausturpósti 1819, bls. 191, og í formála við Miltons Paradísarmissi, Kh. 1828. Hèr eru fjögur handrit samanborin þaraðauki.

Leikhnöttur lukkunnar
liggur í þessum reit;
mjög þeim hún mislynd var,
meir þó opt köld enn heit;
hvílu, sem þráði þrátt,
þversynjað honum var,
og rór á engan hátt
unnt, nema þessarar.

Það er Jón Þorláksson
þessa sem byggir gröf,
bíðandi' í blíðri von
betra lífs eptir gjöf.
þenk maður! þú sem ert,
þvílíkur var hann hèr;
þú verður, það er bert,
þvílíkur sem hann er.

Eiga mun apturkvæmt
annað hann lífs á skeið,
því skal af þèr ei dæmt
það sem hann gjörði' og leið.

Búst við því koma kann!
kætst ei af því sem er!
þú veizt ei, heldur enn hann,
hvað lukkan ætlar þèr.

## 95. BARNAGÆLA.

Eptir kvæðasafni ens íslenzka bókmentafèlags, VIII, 37.

Eg gekk einusinni
útí fögrum lund
um mæta morgunstund,
að lètta lundu minni.
Sá eg þar sitja eina
silki únga hlíð,
sú var fögur, fríð,
sinnti lítt um sveina.
Settist eg hjá svanna,
siðlát var hún þá,
nipur, nett og smá,
blíðu vildi' ei banna.
Spurði' eg hana' að heiti;
hún mèr ansar þá:
"mitt hèr nafnið má
ráða rekkur teiti:
*Meiðast móðu klæði*
*meður víðum mar,*
*ægis þök optar*
*afla mönnum mæði.*"
Náði' eg nafnið ráða,
þó nógu gengi tregt;
hún var hlaðin spekt
og blóma dýrra dáða.
Eyju eðalsteina
eg þá spyrja fer:

hverja' hún hefði sèr
hèrna skemtun hreina.
Aptur auðgrund tjáði:
"eg hefi gaman nóg
að aka aldin plóg
eins af lopti' og láði.
Þá himin-festíng fríða
fæ eg horfa á
mèr flýgur í þánka þá
frelsarans forsjón blíða.
Eg er nú inn gengin
undir tjaldið frídt,
gulligum glansi prýdt,
en áður var eg engin.
Hèr er lyst að líta
lifandi fugla smá
fríðri foldu á
og allt sem eg vil nýta.
Þá röðull heims upp rennur
ríkum blóma með
fríðkar foldar beð,
blómgast en ei brennur.
Blómstur fögur blika,
breiða' út ljóma sinn,
fríðu fíólin
við hæga kylju kvika.
Skaparinn mèr skenkti
skrautið þetta allt
til yndis æ, ávallt,
svo þarum opt eg þenkti."

Eg við lagði eyra,
únga spurði snót,
mjúkt sem bar viðmót:
"áttu' nú ekki meira?"
Innti svanni' óbistur
aptur á sanri stund:
"annann á eg lund
er það Jesús Kristur.
Eik sú lífsins eina
á sig plantaði
mig í mjúklyndi
við skírnar sáinn hreina.
Skrúðann skenkti fríða
skæra rèttlætis,
eg er svo ætíð viss
um hans elsku blíða.
Undir þeim eg þreyi
þýðum ástar lund,
vært í vöku' og blund,
eins þó útaf deyi."
Þá eg þetta heyrði
þókti' ei æfin laung;
hjá fríðri falda spaung
allvel eg þá eyrði.
Stopult opt er yndi
einn þá nýtur góðs —
að kom fóstra fljóðs
hrædd í hæru vindi.
"Hvað ertu hèrna' að gera?"
hadda mælti gná,

"hal svo gömlum hjá;
sómir ei svo að vera."
Þreif hún þá með skyndi
þrifna uppí fáng,
heim svo herti gáng,
gránaði geð í lyndi.
Eg hugði kæru kyssa,
komst á hálfa leið,
sízt þá svanninn beið,
hímdi' eg eptir hissa.
Eptir úngu sprundi
ennis-særður leit,
(hreppti hjartað smeit)
lötraði heim úr lundi.
Grábaks túna gefni,
er gjörði hrella mig,
vel má vara sig
að hart ei á henni hefni.
Óska góðs eg vildi
úngri bauga grund,
sem eg sá í lund
og skjótliga við mig skildi.
Hljóti hrínga nanna,
hvar sem lifa má,
heiður og hylli þá
guðs og góðra manna!
Dygð og bezti blómi
breiðist hana á,
og allt hvað meyna má
prýða' að rekka rómi.

Ef kæran kynni' að hljóta
kraka-sáða bíng,
frúr sè forlysting
að láta lýði' af njóta.
Auðug víst svo verði
í verkum dygðanna,
hverskyns hugljúfa,
ólán auð ei skerði.
Sèrtu, svanna prýði!
sèrtu hvervetna
fögnuður foreldra,
ljúf við alla lýði!
Vertu baugsól bjarta
í blóma síblessuð,
og ætíð innsigluð
á guðs sonar hjarta!

## 96. PÍKNAKLÖGUN.

Eptir tveim handritum.

Á, á, á!
nú vil eg nokkuð fá!
hver mun fríðari hrínga ná
hýru sína vilja ljá?
á, á, á!
nú vil eg nokkuð fá!
svo sèu glaðar
sætur velsiðaðar,

öruggar, ákafar
og stórhugaðar;
á, á, á!
nú vil eg nokkuð fá!
E, e, e!
einhverr mèr ögn gefe!
systrum mínum sèð hefe
svoddan látna gæfu' í tè;
e, e, e!
einhverr mèr ögn gefe!
svo eru glaðar
sætur velsiðaðar,
öruggar, ákafar
og stórhugaðar;
e, e, e!
einhverr mèr ögn gefe!
Í, í, í!
pilltarnir poti í!
gleðjast munum gott af því,
geðug hressíng finnst þar í;
í, í, í!
pilltarnir poti í!
svo sèu glaðar
sætur velsiðaðar,
öruggar, ákafar
og stórhugaðar;
í, í, í!
pilltarnir poti í!
Ó, ó, ó!
finndu mig fríða þó!

midtis þó að eg sè mjó
meira kann eg vaxa þó;
ó, ó, ó!
finndu mig fríða þó!
svo eru glaðar
sætur velsiðaðar,
öruggar, ákafar
og stórhugaðar;
ó, ó, ó!
finndu mig fríða þó!

Ú, ú, ú!
æ, pilltur! að mèr snú!
vertu fix og flýt þèr nú!
fín mèr þykir skemtan sú;
ú, ú, ú!
æ, pilltur! að mèr snú!
svo eru glaðar
sætur velsiðaðar,
öruggar, ákafar
og stórhugaðar;
ú, ú, ú!
æ, pilltur! að mèr snú!

Æ, æ, æ!
aldrei eg stúdent fæ;
hvar þvílíka hitti' og næ
hljóða' eg upp og segi æ;
æ, æ, æ!
aldrei eg stúdent fæ.
Svo eru glaðar
sætur velsiðaðar,

öruggar, ákafar
og stórbugaðar;
æ, æ, æ!
aldrei eg stúdent fæ!

## 97. GLORÍA Á SPRENGIKVÖLD.

Sèra Jón gisti eittsinn á Hrafnagili, og var fyrir saung við hússlestur; hann tók þá rángt lag við sálm, en Rannveig dóttir prófasts hló að; nokkru síðar sendi hann henni vísur þessar, (sbr. vísurnar til Guðlaugar Magnúsdóttur, bls. 474). — Eptir tveim handritum.

*Lag sem við pikuskræk.*

*J.* Ha, ha!
hèr er gott að verma sig!
*R.* æ, bja!
aldrei skal það fyrir þig;
vertu kyrr!
*J.* við þín má eg koma brjóst?
*R.* :|: svei þèr fyrr!
*J.* Sveið mèr þegar að mèr hlóst. :|:
*R.* En þó,
nú er síðan næsta lángt;
eg hló
af því lagið tókstu rángt.
*J.* Hæ, hæ!
hèr mun varla skilið slètt.

*R.* :|: Æ, æ!
*J.* Er nú ekki byrjað rètt? :|:
*R.* Tvei, tvei!
tóbakslöginn með í burt!
*J.* Ó nei!
eg vil sjaldan kyssa þurt.
*R.* Faðir minn
finna skal á eptir þig!
*J.* :|: Faðir þinn
vorkennir þó vermdir mig. :|:

## 98. ÓSK TIL STÚLKU.

Eptir einu handriti.

FÁÐU heiður, fríðust auðar tróða!
fljóta bót því hljótir móti skjótum
vanda, reynd þó vendi sprund um strindi,
veitist teitri neyt um sveitar reita
gæfa', og yfir göfugri lofið svifi!
gagnað, fagnað, hagnað magni bragnar!
þrjóti grátur, þraut og vítin sútar!
þannig ann eg mannvitsgrannur svanna.

Þessi vísa er eptir einu handriti.

Þú, vífið elskuverðugast!
þú, við hvers auga
blíðan baug
:|: mín bindur von :|:
og fró þig fast;
æ, að því
svo himininn hlýi
hagi til
okkur við:
að áður liðið
árs er bil
leikum saman
geðs með gaman
giflu spil!

## 99. KJÓLLINN OG HEMPAN.

Hempa af stúlku var heingd útá staf í snjóskafl til þurks á Syðri-Bægisá, en kjóll af prestinum á Ytri-Bægisá; um það kvað séra Jón vísur þessar. — Eptir tveim handritum.

KJÓLLINN mænir kosta rýr,
kæra þýðast hempu vill;
honum bakinu' hún að snýr
heldur stygg og viðmóts-ill.

*Kjóllinn.*

Hvað því veldur, hempukorn!
hatar þú og sturlar mig.

*Hempan.*

af því þú ert orðinn forn,
en aðrir nýrri bjóða sig.

*K.*

Fyrri var eg árum á
ekki neinu verri' enn þeir.

*H.*

Það er nú ekki' á þèr að sjá,
þú ert varla' að gagni meir.

*K.*

Meðferð veldur meir' enn slit
mínum skemmdum, heillin góð!

*H.*

Hæfur hvorki' í státs nè strit,
stúlkna hempum þig ei bjóð!

*K.*

Ó, hvað mundi' eg unna þèr,
yndis breiddur móti sól,
ef þú gætir eptir mèr
annann sniðið minni kjól.

*H.*

Láttu svoddan heimskuhjal
heyrast framar ei til þín!
af þèr þráður aldrei skal
augu koma fyrir mín.

*K.*
Fári sorgar ferst eg í,
fyrst þú þannig reynist mèr;
*H.*
lítið mun eg þjást af því,
þú ert farinn hvort sem er.

## 100. VIÐ FLÖSKUNA TÓMA.

Eptir einu handriti.

Þig hef' drukkið upp eg,
eigandanum þökk seig,
mig sem ángurs við veg
veigar gladdi með teig!
Glóir víst þín glerbrá,
glýja sèst ei þarí,
þó er hún, sem þig á,
því lángt framar sjón-hlý.
Munn að kyssa mèr þinn
*manna* reikna það kann,
en þunn er sælan hjá — hinn —
hann veit það, sem á þann.
Grana klyfja rjóð rein
Rínar fegur sól skín;
hana fengi mörg mein
mín ef væri Kristín.

Lifi jafnan vænt víf!
vafið drottins náð af,
yfir dauðann hans hlíf
hafi fyrir vegstaf!

## 101. BRÚSARNIR.

*Kona af næsta bæ sendi sonu sína tvo með tvo mjólkurbrúsa til Jóns Þorlákssonar; þá kvað hann. — Eptir tveim handritum.*

Brúsarnir tveir, —
brosti mèr hugur þá upp komu þeir,
nærri því sprúngnir af nýbæru-saft,
nærandi brjóstið með þverrandi krapt;
þó var enn sætari huggæzkan hlý
:|: sem hana lèt í. :|:
Brúsarnir tveir, —
betur samt fellur mèr glerið enn leir;
man eg í fyrra hvað munnfríð *hún* var
og mjúk við öldruðu kampgranirnar;
er þó flest svipur hjá auðgrundar sjón,
:|: er ekki svo, Jón? :|:
Bræðurnir tveir, —
brjóstið allt dansar, eg segi' ekki meir, —
falliga smíðaðir þeir sýna það:
þar hafa sniðugir borið sig að.

Eg stari á ykkur, og stend einsog flón,
:|: Stephán og Jón! :|:

## 102. TIL STÚLKU.

Eptir einu handriti.

Orða fyrst sem á að muna
Yður þakka' eg sendínguna
forþènustu fyrir og bón;
eigin dygðar alúð sagði:
að þèr svo að fyrra bragði
gleðja skylduð gamlan Jón.

Styggist ei þó stafkarl nefni
stúlku sína' og brúðar efni,
laungum nokkuð gamangjarn;
það mun gánga til svo tíðast:
tvisvar, bæði fyrst og síðast,
gamall maður gjörist barn.

Mèr, sem neyti feigra fóta,
fyrirmunað er að njóta
hèr í lífi hjónabands;
hins má lángtum heldur vona,
að herrann vilji' að eiginkona
einhvers verðið ektamanns.

Gæfan yður, góði svanni,
giptast láti vænum manni!
eignist prúðan ýngissvein!
ást vil eg til yðar bera,

eins og barnsins skal hún vera,
saklaus, stöðug, sönn og hrein.
Sá sem ræður himni' og heimi
heill þá okkur báðum geymi
að við megum sælli sjást!
þar, sem englar skærir skína,
skal eg faðma stúlku mína
heilagri með himin-ást.

## 103. KOSSINN.

Eptir einu handriti.

Fallegan núna fèkk eg koss
fyrir mjög lítið vik;
það var stúlkunni þekkur kross,
þó á sèr sýndi hik,
en mèr mjúklætis hýru-hnoss,
heppnum það augnablik,
svona það gánga ætti oss
við ertínga-glens og stryk.

## 104. MANSAUNGSVÍSUR.

Eptir einu handriti.

SORGARBÁRA ýfir und,
elda rasta njórunn!
freyju tára fögur hrund
falleg ertu Jórunn!

Við erum, stúlka! bæði börn,
bý eg loks hjá vífi
þegar eg verð eins og örn
úngur í hinu lífi.

Þegar Jóni Þorlákssyni var neitað um stúlku sína eptir að þau höfðu átt barn saman, orti hann stökur þessar — Eptir tveim handritum.

Þ-o-n-a, þona
þenna fæddi svein
stutt og stóreygð ein
k-o n-a, kona.
Þ-o-r-a, þora
þó mun eg enn óspar:
í mitt fyrra far
b-o-r-a, bora.

Þ-o-l-a, þola
það mun verða sá,
er vill mig vífi frá
b-o-l-a, bola.

---

Vísu þessa kvað sèra Jón einusinni til Guðríðar, konu Ögmundar. — (Eptir einu handriti.)

Skal mèr auðnast að skíra þann
er skapar Ögmundur sporaðan?
lifi eg þá og leik mèr bress, —
en lángt mun verða' að bíða þess. —
Förum og smíðum nú í nótt
nefið á drenginn marghlykkjótt,
og líkamans skrifli lángt og mjótt!

## 105. VEILRÆÐI.

Eptir þrem handritum.

Af æðri þèr þótt órètt kannir
ei skaltu mögla grand um það!
hefn þess heldur á minna manni
meir enn tvöfalt, þá svo ber að;
láttu þá ríku ríða þèr,
ríddu sjálfur þeim vesæll er!

Þareð sannleikur meðal manna
í mesta forakt kominn er,
og mein hans vegna margir kanna:
minnstu, að honum burtskúfir;
lát hjartað aldrei sáttar-sið
nè samtök hafa munninn við!

Skjót ei þángað, sem boga bendir!
birt aldrei sama' og hugsar þú!
kápunni eptir veðri vendir;
vertu allteins og milna sú,
hverrar gángur ei hindrast má,
hvaðan sem vindur stendur á!

"Ærligheit mikil í mèr búa"
orðtak sè þitt og vanastef!
einhverr ef vill því ekki trúa
andskotann þá til vitnis kref,
það er: gef honum þína sál,
í þèr ef finnist nokkurt tál!

Fýsi þig stolins fjár að afla
forgefins slíkt ei byrjað sè;

steldu, svo frammúr kunnir krafla
og kaupa þig frá snörunni!
því heingíngar gista eugir ól
utan smá-þjófa greylig fól.

Burtkasta' ei mútu boðnu gjaldi!
bjóð' þinni konu að hirða slíkt!
svo þitt órofið særi haldir;
samvizkan þessa krefur ríkt.
Eigið-gagn þitt og elska sè
allt hvað þú gjörir drífandi!

Samvizka þín ef vakna vildi
vara þig strax, og hana svæf!
auðnu og velferð opt það gyldir;
eld þann í tíma niður kæf!
ef náir hún að festa fót
fæst ei upptekin hennar rót.

Öllu framar þú auð að safna
æ skyldir meta, hvar sem fæst!
ábatanum er heimska' að hafna,
með hverju móti sem hann næst:
því frjálst og stolið pund er pund —
peníngar liggja ei á grund.

## 106. BARDAGINN VIÐ LJÓSIÐ.

Prentað eptir tveim handritum.

Júppíter, frægstur faðir heima,
fyrri enn hnettir tóku' að sveima
og fyrrenn nokkur upphófst öld
hátt sat á tróni hátign glæstum,
og hóf svo mál með krapti stærstum:
"nú sè óskapnaðs ælikvöld!"

Hár Júppíter af himni lítur,
hans þóknun birtan fyrst þá hlýtur,
hann kvað: "Ljósið er harðla gott! —
nátthrafninn Íslands, ný hávella,
nöldrar þá dymmt, en þókti hvella:
"ónei! myrkrið er yfrið gott!"

Heyra Júppíter mögl það mundi,
mjög þúngt hann blès, og þruma dundi
sjöföld, af leiptri ljós varð nótt;
þá skalf náttkrumma niðmyrkt hjarta —
nú endar leiptur, túngl skín bjarta, —
strax sór hann: "Ljós er svart og ljótt!"

Einn sumardag hèr eptir skeður:
öllum fegurðar glansa meður
hululaus sól á hauðrið skein;
einn snígill, fjör sem hèr af hlýtur,
horn-skop-augum til sólar gýtur,
ymur: "þín eru not ei nein!"

Þá vel vill", mælti' hann, "má víst litið;
mitt dæmi, pöddur, yður nýtið!

mót himna drottníng hef eg stríð;"
hreykir hann sèr, þó hár ei væri,
hans skugga á sem flest að bæri;
"sjáið!" kvað hann, "eg sigur bíð".

Illkvittni' alfaðir enga líður;
"endi sumar!" hann styggur býður,
"og verði harður vetur senn!
hornauga sól á hauðrið líti,
hverr dagur sèr að kvöldi flýti,
dynji köföld á dýr og menn!"

Snígilinn hörkufullan fyrnar,
flökti hans önd við heljardyrnar,
hann iðrar; jörð hann aumkar nú;
hann tórir, unz að aptur sumrar
og sól hann hressir, strax þá kumrar:
"fyrir mèr óttast enn mátt þú!"

Góð og vond dæmi mikils megna;
menn skiptu sèr í tvennt þess vegna:
aðrir Júppíters unntu sið,
nýta upplýsíng náðu' útbreiða
nátthrafns og snígils hinir leiða
hylltust dæmi, ljós hatast við.

Æ er Júppíter einn og sami,
upphefð, lofstýr og dýrðarframi,
þeim honum líkjast, veitist víst;
en þruma straung að hinum ríður,
hefnd, smán og myrkur þeirra bíður;
gott ljós sá hatar, hlýtur sízt.

## 107. ÁRAGÆLA EN SKAMMA.

Eptir tveim handritum.

Afi dauðans, erkifjandi,
ekki fúnu myrkra-bandi
(svosem prestum segist frá)
fyrir kergju' og kjapta þvaður
kagbundinn og forsiglaður
sendur var í vítis-gjá.

Þó hann nú sè Sóti svartur
samt var hann í fyrstu bjartur
ljósi reifður *Lucifer*,
honum ljóminn himins glansa
heldurenn ekki kom í vansa,
síðan ljós hans sjónir sker.

Í æsku var hann ári kargur,
í ærugirni soltinn vargur,
guð af rælni verða vill;
en það fór allt út um þúfur,
ofan valt í myrkra gljúfur
háðúng síðklædd herfan ill.

Strax þegar úr roti rýkur
ræfils skömmin sneypta, strýkur
eitraðan í höggorms ham;
í þeim hempu-larfa ljóta
löguðum eptir Myrkra-sóta
veslíngs Evu vèla nam.

Skelmis gleði skömmin nýtur,
skilur strax: að þá hans bítur

nöðrukjaptur, nálgast hel;
hótun straung uuz bug hans brýtur:
að böggorms kollur, fjandans mítur,
ætti' að mælast einsog mèl.

Síðan Árr þá brakför bitti
hýrist æ í myrkra-pytti,
þó í grimmar glyrnur hans
glóri svo af grímu skugga:
geigvænligum fyllist ugga
hègiljufullt hjarta manns.

Djarfir á því deyfða ljóni
dirfðust menn á voru fróni
nokkrir dans að drýgja sinn;
hartnær sundur bræið tróðu,
helzt var djúpt á ráði góðu,
undir lá þar aumínginn.

Beygður var nú Óðinn illa,
örðugt því að gekk að spilla
heillum manna brotta þeim;
verur helgar honum ama,
horfið var hans ríki frama —
hjálp þá fèkk af heiglum tveim.

Hjartað sló af hræríng blíðri,
heita náðu aðstoð fríðri
þeim í bóndabeygju var,
hugprúðari hverri ýmu [1]
höfðu báðir fjandans grímu
nafnalausir níðíngar.

---

[1]) *ýma*, tröllkona.

Slokinn fjandans augna eldur
upp tók nú að glæðast heldur,
helblár stax upp glossi gaus;
klær út þandi held'renn hendur,
að hjarta kreysti liðveitendur,
mjúkt þá kysti marinn haus.

Með fagurgala Fjandinn skæður
fljótt þá nefnir sína bræður;
strax þeir hjartans auðmýkt í
af oflætinu oddinn brjóta,
og sèr varpa skjótt til fóta
þeim heiðurs-nafni hreifði því.

Flaðra tóku Fjandans vinir
"faðir!" sögðu, "þínir synir
enn vèr nefnumst ár og síð;
upp skal bæta, á ef vantar
að vèr sèum verstu fantar,
öll komandi æfi tíð."

Satan heilt þeim hyggst að leggja:
heyrðust svör í einu beggja:
"gættu að hvað gjörir þú!
hirtu ei oss hrekki' að kenna,
hyggjumst vèr þèr enn að renna,
happa ráð vor heyrðu nú!

Unnt er þèr ei, utan að fæla
og að tögla stöku hæla,
skömm er að þú skaðar lítt;
en vèr hvössum höggorms tennum
heiptugliga rífa nennum
hverseins nafnið heiðri prýdt.

Fyrnum eitur-gusum gjósum
geislum móti sólar ljósum,
leynumst þó í leðju pitt;
af oss grafinn eiturbrunnur,
er hávellu sperti munnur,
ari spýr og illum kvitt.

Þó er nokkuð, oss sem amar
öllum, faðir! blutum framar:
demantstólpi, stærri' enn fjöll,
ljóma vafinn himna hæða,
hundrað ljósa náir glæða,
stækkar við vor áhlaup öll.

Á oss hik samt ekkert rennur
allar þó að brotni tennur
á þeim steini' úr okkar kjapt;
al-slèttgóma alla daga
einsog mýs við skulum naga
kerti leið, sem ljós fá skapt.

Og þótt laun vèr engin fáum,
og ei nokkurn skaða náum,
króna smánar unnt oss er;
með þá hjartans huggun neyta:
að höfum keppst sem verst að breyta,
lifa' og deyja viljum vèr."

Ó, þèr þoku-álfur dymmu!
ó, þèr nöðrur heiptargrimmu!
yðar smán sè þreföld þrenn!
vors lands sæmd þó viljið kefja
vort land yður skömm skal vefja
unz þèr verðið aptur menn.

En þú, föðurlandsins ljómi!
lif og skín, og vert vor sómi,
villumyrkrum vertu hel!
á þinn legstein harðan höggvi
harmatár, sem aldir glöggvi:
"hann var ljós og lýsti vel".

## 108. VILLU VITRAN.

Eptir þrem handritum, og er eitt eiginhandar-rit.

Eg var einusinni
úti seint á ferð;
nú er í nýju minni
nótt sú þánka-verð;
skúraveður skýmulaust
niða- villti -myrkri mig,
sem mest kann verða' á haust.
Lèt eg lángt af vegi
lúinn slarka jór,
þartil þóttist eigi
þekkja hvað eg fór,
steig eg þá af baki blakks,
snaraði mèr á víðan váng
og vildi bíða dags.
Leið eg draums í dvala,
döpur varð mèr ró,

hulinn heyrða' eg tala
hóp, í fjarska þó,
virtist mèr í lopti lið;
einn var þó sem yfir tók
allan hinna klið.
 Öskran ógurlegri
upp hann fyllti lopt;
saunglist semdu fegri
sinn þótt belgðu hvopt
verstu ljón í veröld öll,
og þau síðan æptu' í rot
ótal hamra tröll.
 Skildist mèr sem mælti
myrkra furstinn þar,
árinn ofsa stælti
allrar bölvunar,
ólmur mjög í heiptar ham,
afarstríðum augnaverk
yfir kvarta nam.
 Illa sagðist eira
ef hann misti sjón;
það, og miklu meira
myrkra-veldis tjón,
kvaðst hann eiga' að kenna þeim
síum ljóss, er sendust inn
sinn í stjórnarheim.
 Sínum þoku-þegnum
þángað stefnir hann,
og af móði megnum
mælir friðarbann

öllum þeim, sem elski ljós,
en þeim, sem því amist við,
allra djöfla hrós.

"Sjáið þèr" hann sagði,
"sjálfir hættu þá
oss er búin að bragði,
brjótist ljósið á;
myrkrið er vor maktar stoð,
aðalkraptur, element
og átrúnaðar-goð.

Sjáið þèr nú þegar
þessa skíran vott,
upptök annarsvegar
oss ei boða gott;
aldin hjátrú útaf deyr;
gjörníngum og galdra list
gegna fáir meir.

Neitað er af öldum
innblæstri frá mèr,
og að af vorum völdum
verkist neitt það sker;
draugagángur dofnar mjög;
særíngum ei sætir þjóð,
svo eru krenkt mín lög.

Efi berst á báða
bekki', en trú er rög,
skoruð skal til ráða
skynsemid vanheilög;
sól er látin sitja kyr,

en jörðin á að hlaupa' í hríng,
sem heyrt er aldrei fyr.
  Hins, á hæð ríkjanda,
hafin verður dýrð,
fram yfir foldar landa
frægð, en mín er rýrð;
loks mun hreifð sú kenníng kífs:
að hann geti uppreist dýr
öll til betra lífs.
  Þarfyrir, þoku synir,
þèr sem hatið ljós,
mínir mæta-vinir,
myrkurs- háðir -kjós!
farið nú sem fyrst af stað!
áður skinið skaðar meir,
skemmið og drepið það!
  Ausið ljóss á lýði
leðju hverskonar!
lemjið, svo þeim svíði,
svipum háðúngar!
Heimdalls látið geysa geir!
launið þeim svo ljósaburð
að lysti' ei til hans meir!"
  Öskrar ólmur fjandi,
öllum blöskrar slíkt,
upp þaut óteljandi
eitthvað, mýi líkt,
enginn svara þorði þó,
utan hrosshaus hærugrár,
er hempu svarta dró.

Hann lèt háfa vella
hálfkjökrandi raust,
auðmjúk orða-rella
út á þann veg brautst:
"verði svo sem vilji þèr!
yðar háleitt herra-boð
haldið skal af mèr".

Yðar vel eg vitni
vil eg njóta þess:
manngi meir að svitni
möttli klæddur prests
trúrri þjónkan yðar í,
enn þessi slitin hæru-há,
hún síðan fyrst var ný.

Hermið: hvort eg eigi
hef með fremstu dáð
lífs á laungum vegi
lærdóm yðar og ráð
opt hvervetna studt og styrkt,
einnig víðfrægt yðar dýrð
útum ríkið myrkt!

Hefi' eg ei um aldur
alla hjátrú kennt;
lygar gjört og galdur
að guðdómligri ment;
sanna speki niður níðt;
jafnan hvítt hið svarta sagt,
svart það í raun var hvítt?

Síur sóma-kríngar
(sem þèr vitið glöggt)

ítrar upplýsíngar
allar hef' eg slökkt,
þó að, dulinn þessum ham,
hennar vegna' eg hafi sýnzt
himins þjóna gram."

Myrkra sjóli sagði
satt, það hinn fram bar,
honum hól til lagði,
heitið einnig var
verðlaunum og ástar yl,
ef hann reyndist upp frá því
einsog þángað til.

"Ef þú", innti fjandi,
"einsog hefir gjört,
út spýr eitur grandi'
og æsir myrkur svört
upplýsíngu góðri gegn,
æ svo lengi' að endist þèr
aldurs tíð og megn.

Ef þú elli þinni,
æru' og nafni prests,
undir umsjón minni
offrar mèr, til þess:
að smána lærða merkismenn
og sem tarfur töðu', í skarn
trampa vísdóminn.

Fratir þú, svo fjúki
fyrir enga sök,
og þess án, að brúkir
allraminnstu rök

greindarlaust, en hárbeitt háð,
á en skæðu birtu-börn,
baldin mèr og smáð.
  Loksins, ef þú eltir
ólmur þennan her,
ef þú gín og geltir
grönum ýgldum hèr,
einsog Serbers[1] umboðsmann:
embætti skalt eiga víst
eptir liðinn hann.
  Enginn ætla' eg gæti
einmynntur, sem þú,
haldið Serbers sæti,
sá með höfuð þrjú
glíkt þèr varla glymja kann,
enginn heimur þyldi þig
ef þú værir sem hann."
  Klerkur kátur þakkar,
knèfallandi þar,
til af hjarta blakkar
happs, er lofað var,
og nú þegar innsiglað,
því sèra nefndi Serber hann
Satan þá í stað.
  Hættu þeir nú hjali;
hèr kom annarr fram,
tómlátur í tali,
teygði blóðgan hramm,

[1]) þ. e. *Cerberus.*

hún-drottnarans hoflæknir,
hjúgnefurinn buktar sig
og Bölverks augu smyr.
Þarvið svía sagði
sviðann hvarmasteins
*Lucifer*, og lagði
lof á beiti fleins;
lýsir hann sinn virta-vin,
enginn betur hafi' enn hann
hindrað ljóssins skin.
Tjáir hinn og telur
trúlyndur hvað sè,
og hve mjög önn hann elur
í athöfn sèrhverri
fyrir veldi' og virðíng hans
*Lucifer* það segir satt
og sæmdar gefur ans.
Hlóð á vín sinn hóli,
hjartkærastan sèr,
myrkra svartur sjóli,
og sjálfur vitni ber
um dugnað hans í myrkra ment;
engum manni' í sinni sveit
sè hún jafn-vel hent.
Hann með beittum bíldum,
brennivíns kássu-smekk,
mauki' af margskyns ýldum,
möldum hunda-þrekk,
ljóss hafi drepið margan mög,

útrýmt þarmeð upplýsíng
og eflt sitt ríki mjög.
"Þú hefir þaraðauki" —
það voru Fjandans orð —
"híld hvar með og manki
máttir ei af storð
lærdóm reka' og ljóssins börn,
látið spott og leirugt níð
líka tjá oss vöru.
Eigin æru þinni,
allri dygð og trú,
optar enn einusinni
offrað mèr hefir þú;
haltu sömu hegðun fram!
fólk meiðandi felldu þig
í fúlan sveipu damm!
Láttu leprur þunnar
leirburðar og níðs
straum með stólpípunnar
steypa fjöri lýðs
og heiðri þess sem hatar mig!
því meir sem þú hrekur hann
hefja skal eg þig.
Tjá þig eins við anda',
og upplýsíng sem mest:
böðul, fólskan fjanda,
foreyðandi pest,
sem það ert við limu' og líf;
þó þú tapir þinni sæmd
þeirra samt ei hlíf!

Happ eg hyggst þèr veita,
heiður ríkis vors!
hèr í lífi' að heita
heimsins *vice-mors*,
æru-titill þinn skal það!
síðan böðull muntu minn
í mínum höfuðstað."

Sleit við þetta þíngi
þegar dagur rann,
illum útsynníngi
einnig slota vann;
feginn varð eg friði þeim,
hafði mig á klár og kreik
og komst um síðir heim.

Þeir sem vilja villu
varast leiks við þrot,
draums af dæmi illu
dragi sèr þan not:
forsjáliga' að taka til,
því af illum undanleik
illt má verða spil.

## 109. JÚPPÍTER.

Í "Daglegri bæn" í "Vinagleði", bls. 322, sem Magnús Stephensen hefir snúið úr ensku eptir Pópa, stendur í fyrsta versi: "vor guð! Jehóva! Júppíter!" — Á þessu hneixluðust margir, sem ekki vildu láta nefna guð sinn saman við guð heiðingja. Það er og að sjá sem séra Jón Þorláksson hafi einnig hneixlazt á þessu, og kastaði hann fram stöku þessari. — Eptir einu handriti, með hendi Rasks.

Júppíter var kóngur í Krít —
kysstu' á rass og jettu skít!

## 110. UM SÁLMABÓKINA.

Breytíngar þær sem gjörðar voru í sálmum þeim, sem teknir voru úr grallaranum í nýju sálmabókina, urðu margar óvinsælar; þar á meðal var breytíngin á messuupphafs sálminum á uppstigningardag: "Í dag þá hátíð höldum vér" (Nr. 92 í sálmab.). Séra Jón Þorláksson hefir einkum hneixlazt á því, að svo er sagt: "Hverr sem trúir fær fögnuð þann, fyrir því sig til búa kann: hold í gröf hvíla lúið", og orti útaf því vers. — Eptir tveim handritum.

*Lag: Í dag þá hátíð höldum vér.*

Hvað vantrúuðum verður af
vottar oss saungur bóka:

hold lúið ei þeir hvíla' í gröf,
sem Höfðabrekku-Jóka[1];
í hvassviðrunum, einsog fis[2],
á uppstigníngardag sèrdeilis,

---

[1]) Höfðabrekku-Jóka er alkunnug gömul apturgánga á Íslandi, sem margar sögur fara af. Svo segja sumir að Jórunn hafi heitið kona, sem bjó á Höfðabrekku í Mýrdal; hún var svarri mikill og skapill. Sonur hennar átti barn í lausaleik og líkaði henni stórilla; lètst hún aldrei mundu fyrirgefa honum þvílíka ódæðu, heldur kvaðst hún mundu hafa líf hans dauð eða lifandi. Nokkru síðar andaðist Höfðabrekku-Jóka, og gekk þegar aptur og sótti að syni sínum; honum var þá ráðið að fara út í Vestmannaeyjar og vera þar full 20 ár, og fara aldrei til lands á þeim tíma. Þessu ráði hèlt hann um 19 ár, en á 20ta ári brá hann af og fór til meginlands. Þegar hann steig á land á Eyjasandi var Jóka móðir hans þar komin, tók hún hann þegar og þreif hann á lopt og færði niður við fjörunni svo hart, að hann var jafnskjótt dauður. Síðan gekk hún í burtu. Þennan atburð sáu allir skipverjar, og sögðu þeir að Jóka væri troðin upp að knjám af laungum erli. Þegar Jóka hafði unnið verk þetta mætti hún Magnúsi presti á Heiði; hann var margvitur; hann mælti: "skólítil ertu nú orðin, Jóka!" segir hann. "Nefuðu það ekki, Mángi!" segir hún; síðan lèt hann hana fylgja sèr að jarðkerinu á Grænafjalls afrètt, og kom hann henni þar fyrir. Sumir segja að Eirekur prestur á Vogsósum hafi kyrsett Höfðabrekku-Jóku við hver einn, og haldi hún þar trefilsenda, en annarr endi trefilsins sè fastur í hverinum.

[2]) sjá Nr. 125 í sálmabókinni.

um ýmsar álfur fjúka.
Hananú þá, hananú þá!

---

Þessar vísur er eptir þrem handritum, og er eitt afskript af eiginhandar-riti.

---

Esthers bók nefnir aldrei guð,
en þótt í Ritníng standi;
en þú, af sálmum uppstöppuð,
ei greinir neinn sè fjandi;
ályktan mín skal af því sú:
að þið systurnar, hún og þú,
seljist í sama bandi.
Hananú þá, hananú þá!

Nær vissu þèr svo heimskan hest:
hann mundi fyrir sverja
þegar fram keyrður másar mest,
menn sèu til, sem berja? —
en vorrar aldar vitríngar
votta: djöflar ei sèu þar,
nær þeir helzt á þeim erja.
Hananú þá, hananú þá!

---

## 111. RUSTASNEIÐ.

Sèra Jón Þorláksson kvað þetta til prentsmiðjunnar á Leirárgörðum og forstjóra hennar, þegar hann sá að sálmum þeim sem hann hafði sent til messusaungsbókarinnar hafði verið breytt að honum fornspurðum, og er svo fyrir mælt að sýngja skuli vísur þessar með sama lagi og 64ða sálm í messusaungsbókinni; þær eru teknar hèr eptir fimm handritum, og er eitt afskript af eiginhandar-riti.

Farvel Leirgerður, drambsöm drilla,
drottnunargjörn og öfundsjúk!
þú skalt ei fleiru frá mèr spilla,
freyddu sem bezt af þínum kúk!
heyrðu, hvað nett eg seinast sýng:
svei þinni hrakdóms-uppfræðíng!

Skáldskapur þinn er skotbent klúður,
skakksettum höfuðstöfum með,
víðast hvar stendur vættar-hnúður,
valinn í fleig, sem rífur trèð;
eitt rekur sig á annars horn,
einsog graðpeníng hendir vorn.

Optliga millum orða tveggja
opna hljóðstafir djúpa gjá;
ef þú færir nú einsog Sleggja,
annað skaðræðis-tröllið frá,
og sykkir niður sjálf á kaf,
sálm mætti gjöra þar útaf.

Hann væri nettast súnginn svona:
*Sjá! hversu ángra eymdin fer;*

*hún sökk — var kátliga sköpt kona —*
*harð-kjaptur þeig! slíkt undrast gjör!*
*allt framstykkið var aptan á;*
*datt öfugt — ó, tjón! hryggjumst! — dó.*
Þú mátt nú sjá í þessum speigli
þína skáldskapar rètta mynd,
súptu betur á Sigtýs leigli
og sogaðu' ekki í þig vind!
það kann að gjöra rembíngs raun,
ropana meiri' og illan daun.

## 112. GERÐUFALL.

*"Heyrir til 55tu dæmisögu í eddu."*

Vísur þessar eru teknar eptir þrem handritum.

Leirdraugs á landamæri
lækjum streymdu brækur;
meirt varð hryssu hjarta,
hjó Þjálfi Mökkurkálfa;
jóði gaut jötunsmíði
jafnframt, Leirgerði' að nafni,
það var fálunegg föður;
fæddist dóttir af ótta.
Óx úr felmturs-flyxu
flagð á augabragði,

haus sat baktil á búki,
blint varð framm að þramma;
Leir-dóttir, gjörð við Garða-
-grjótuna, misti fóta,
öll í æðru polli
elli-frí varð mella.
Leirburðar-gjár við Garða
Gerðufall því er kallað,
gleipendum hjá, nær gapa
grafir milli hljóðstafa.
Forði mèr falli Gerðu
Fræðadísir vísar!
og í merar-neggs mýri
Mökkurkálfa' að sökkva.

## GREPPSSÁLMUR.

Þegar "Rustasneiðin" kom suður, fèkk Magnús Stephensen sèra Arnór Jónsson til að yrkja á móti, og kvað hann þá vísur þessar. — Eptir tveim handritum.

*Sælir, minn frægi sèra greppur!*
*sem eigið barn með hverjum straum,*
*hvers marg-skammrifni hempu-leppur*
*hátignar þáði tvennan saum,*
*og hvers enn göptu götin forn*
*ef garpar bæru' ei vel sín horn.*
*Þú, sem úr enskum hrút sem hægast*
*hagliga skaptir Móyses,*

*og hornum sæmdir, hverjum nægast*
*hefir að býta, allt eg les*
*sem skrifað stendur, hverr mun haus*
*hèreptir fiunast stiklalaus?*

*Hyrníngar þessir þegar gánga*
*til þín, graðúnga-jaðarr minn!*
*kannske þeir óvart kunni' að stánga*
*kollóttan hnífla-föðurinn,*
*svo einn sig reki' á annars horn,*
*einsog graðpeníng hendir vorn.*

*Þú, sem mig skírðir skammar nafni,*
*skíra Leirgerði nýskeð vannst,*
*úr þíns dratthala hára-safni*
*óhróðrar-þátt mèr lángan spannst,*
*og þú, sem skautst í skálda tal*
*fyrir skammir, klám og hæðnis gal!*

*Þú, sem af Túllíns skýlu skapar*
*(skoðaðu handaverkin þín!)*
*hið æðsta* blomm, *því árar hrapa*
*og illir menn í skömm og pín;*
*sú var þèr hjartkær happa-sjón*
*hatarinn vægðar, sèra* Flón!

Í-Ón *þeir sukku allir saman,*
*Aldjeflið gapti vídt sem gjá,*
*eilífðar* blomm *hið æðsta gaman*
*álítist, sagði' hann,* bægi-sá;
*hvað mun þá eilífð eiga mest*
*ef ekki það vèr höldum bezt.*

*En hvernig færi', ef sæng og sæti*
*sjálfur hrepptir í víðri gjá,*

*ósamt því hjartans eptirlæti*
*að eiga Sleggju þaðan í frá,*
*svo hennar munnur harðkjapt þinn*
*hnykkti um eilífð, járnhaus minn!*

*Ef sköll þá gerði ofboðs lengi*
*að bakhlut Sleggju framhlutinn,*
*segða jeg eitthvað að þèr gengi*
*og þætti líkast: fransósinn*
*lastagrein þína blað með bert*
*burt hefði sniðið framanvert.*

*Þó mætti fleira þessu valda,*
*þyknaði' ei Sleggja' á rèttum stað:*
*kannske' í skáldríngli kynnir halda*
*konan þín fljóðið væri það,*
*sem forðast þirftir, af því er*
*ei þín ráðskonan barnager.*

*Því skal mig furða þó að velli*
*þitt svarta gall um leturs traf,*
*ef eg tek frá eða' undan felli*
*eitt orð hjá þèr, eða jafnvel staf,*
*hverr skygnir heiðríkt hnatta-ból?*
*hverr endurgyllir fagra sól?*

*Ó, erkiþirill! veðurvana*
*þú verða kannt, ef þeytir opt*
*skeggbrodda þinna grettu granu,*
*að gjósa blöðrur hátt í lopt,*
*svo öllum þeirra í og hjá*
*opni sig við og mikil gjá.*

*Hvað þú í dag til himins hefur*
*og hrósi þínn níðir verst:*

*þú etur traudt, en aldrei sefur*
*áður það lasti prýðir bezt;*
*því vondra last ei veldur smán,*
*en vondra lof er heiðurs rán.*
*Farvel að lyktum froðu-snakkur!*
*fylltu þinn strokk og næturdall!*
*að veita nöfn ei vertu' of frakkur,*
*óvorðinn því að hærukall*
*þú ber þig fleiri börn að fá,*
*enn börn og nöfnin standist á.*

---

*Heyrið Apollíns hóru-úngar!*
*hafi þèr nokkurn sóma' af því:*
*að illa vanin yðar túnga*
*útsmánar aðra kvæðum í?*
*það lágt-þeinkjandi sýnir sál*
*sèr níð og klám að leggja' í mál.*[1]

---

[1]) það segja menn, að Hákon Jónsson, sem síðan var prestur á Eyri í Skutulsfirði, hafi ort þessa vísu og skrifað neðan-við Greppssálminn.

## 113. SVAR TIL LEIRGERÐAR OG MÖKKURKÁLFA.

*"Óvandari er eptirleikurinn."*

**Brag þennan orti sèra Jón áður enn hann vissi hverr ort hafði Greppssálm, og hefir hann því óvörum nídt hèr meðfram saklausan mann.[1] — Bragurinn er tekinn hèr eptir þrem handritum.**

Mèr lízt hundsropi meira verður
enn mærðar-spýja þessa svíns;
þú kapalhjörtuð Kæsisgerður,
köfnuð í hlandi föður þíns!
þig og hann mesta skálda-skít
skoðaðu hversu' eg fyrirlít.
Ferhyrnings-drilla, full með lýgi,
fjandans kjörin að skaka strokk!
þó að faðir þinn meira mígi
magnist það allt í þínum skrokk!
börn mín, sem laugst í bríxla draum,
bölfi þèr æ með hverjum straum!
Að eg fyrst hafi skírt þig, skessa!
með skammar nafni, lýgur þú,

[1]) Vísur þær sem Gröndal orti þegar hann heyrði að níðið kom á saklausan mann, eru prentaðar í kvæðasafni hans (Viðey 1833) bls. 162. — Vísur hans um Kvillanus-blesa (bls. 161) eru og ortar útaf kveðskap þessum.

því að andskotans íþrótt þessa
iðkað hefir þú fyrrenn nú;
Leirgerðar upp ef leitar hver,
loppan er hætt við brenni' á þèr.

Blessaður veri manns þess munnur,
sem makligt heiti fyrst þèr gaf,
en þinn, að lýgi-þvogli kunnur,
þar skyldi drekka bölfun af,
svo þrennan Loka þiggi saum
þver skammrifinn með hverjum straum!

Og þú maguhæddi Mökkurkálfi!
sem meigst út þessum heimsku-bjór,
en ef nú kemur annarr Þjálfi
Aldjeflis þig að leiða' í kór?
sjáðu þá til að sýngir nett,
svo kjaptshögg verði' ei að þèr rètt!

Þú stærir þig af hornum háum,
hæðandi stiklaleysi mitt;
við hníflum samt þig vara smáum,
að verði' ei fóta-kefli þitt,
því rètt um svírann, minnir mig,
markaði Þjálfi stíft á þig.

En — máske þèr sè haus með hornum
og hali vaxinn eptir það,
á bókum hef eg fundið fornum
Fjandans bílæti svo málað;
arnar klær eru þrykktar þar,
þú, sem nauts hefir klaufirnar!

Uppá það mynd þín aldrei rotni,
og örskammt sè til hana' að þvo,

á Kæsisgerðar kollu-botni
kýs eg hún jafnan standi svo,
með stóra *sleggju'* og stæltan *pál*
í staðinn fyrir vit og sál.

Þau eru víst til þinnar iðju
þörfustu tól, en einkum hann,
nær sem þú þarft að smjúga' í smiðju
að smána nokkurn saklausan,
heldurðu þó, að hann ei sè
harðla nærgaungull sleggjunni?

Ske má þú takir það til þakka,
og þyki maklig starfa-laun;
fyrst svo er hægt með *páli'* að pjakka
pýngjunni slíkt er minni raun;
hann sè þèr jafnan handvörn trú,
honum spèfugl og kokkáll þú!

Hverr mun tilfallinn horn að erfa
Himinbrjóts-uxa, nema þú:
ætlarðu niður allt að sverfa
upphæða tjald, og gjöra' úr kú?
þú jötunuxa-jaðarr minn!
jafngerr og Miðgarðsormurinn.

Þú ert sá annarr Lyga-loki
sem lastar það sem vel er gjört.
þín öfundsýki, heimska' og hroki,
heldurðu verði þaraf björt;
þú ei að vísu þeinkir smátt,
þó allt á gamla Satans hátt.

Hann gat engan á himni vitað
heiðri tignaðan nema sig,

því varð hans skart með leðju litað,
líkt á eg von að hendi þig;
veri þèr kjóll hans velkominn,
vice-satan og leirhaus minn!

Hvað villtu tala' um Túllíns kvæði,
takandi nafn hans þèr í hvopt?
þú ættir fyrir það tilræði
þirils skeggbroddum flengjast opt!
Hverr skilur heimsku þvætting þinn?
þú ekki sjálfur, leiruxinn!

Enda fýsir mig ekki' að hræra
í eina kássu vont og gott;
endur-þjálfaður áttu' að læra
að engri sálu hjargar spott;
en þú fæst lítt um þetta mál,
þussinn, sem hefir enga sál.

*Þín* eitur-*túnga* versta vitni
verður á móti sjálfum þèr,
ætlar þú skömmin ekki bytni
öllu heldur á þèr enn mèr,
ef "vondra last ei veldur smán
en vondra lof er heiðurs rán"?

Þú marghataði miguhrútur!
meinarðu þá að góður sèrt?
sem neggi merar niðurlútur
níðir það sem er heiðurs vert,
og dauðra manna dýrmæt verk
drepur með þinni eiturkverk.

Ei nenni' eg til þess kvis að kveðja:
Kúludalsár að ratir veg;

um hitt eg þori vel að veðja:
víst áttu fleiri börn enn eg,
hvort nokkuð þeirra' er hórgetið
helzt ykkur Sleggju kemur við.

Hèr vil eg ekki tal um teigja
nè taka þinna lasta próf;
en hvort mun skömm eða sæmd að segja
saklausan föður kinda-þjóf?
mega svo biðja' um myskun þar,
og míga' af skelk í buxurnar.

Ólmastu þá og míg úr máta
sem mest þú getur, heimsku svín!
undan þèr skal eg aldrei láta
unz þú lærir að skammast þín —
mætari var eg, manstu það?
af mèr þá keyptir skeinisblað.

Mikið skarn ertu, Mökkurkálfi!
makar þá verst er skeina þig;
ef þig ei skellir einhverr Þjálfi
áður enn lýkur, furðar mig.
"Illt er að klást við kollóttan",
kenna vil eg þèr málshátt þann.

Þú meintir, *pál* í mund ef tækir
mundi' eg skjótt húíga fyrir þèr;
eigðu nú gullið, sem þú sækir
og sigurinn í greipar mèr!
þótt á hann sjóðir þrefalt stál
þinn mun eg aldrei hræðast *pál*.

Allt Ísland skal mèr vitni vera,
sem veit um okkar beggja ljóð,

og þèr til smánar skírt úr skera
skilinn hvorr okkar á þann hnjóð:
að skotizt hafi' í skáldatal
fyrir skammir, brixl og hæðnis-gal.
Þá gól eg ljóð, sem þóttu fögur,
þægan berandi skáldasmekk:
nær þin skrapagrind mjó og mögur
makaði sig í hlandi' og þrekk,
en síðan hefir aðra meir
atað þinn fúli kjaptaleir.
Ef þú heldur mig skrökva' og skruma,
skoðaðu beggja handaverk! —
þótt með rothöggum þaggir suma
þín smán er ei að síður sterk; —
svo hángi titill æ þèr á
erkilygara hèðan í frá!
Þú slorhakkandi Sleggju-maki!
sleiktu nú allan leirburð þinn!
ætla eg skömm sú yfir taki,
að hann er sagður hórgetinn
slorkálfur þeirra Sleggju' og Páls
en sletti-skerfur þinn ófrjáls.
Falli svo til þú fáir kláða,
(fransós mun hèr ei koma við)
á ykkur Pál má bera báða
balsamið úr þeim vafa-nið,
berja svo vel hinn breiska stað,
bezt er með *sleggju'* að gjöra það.
Þegar nú kyssist þú og Sleggja
þjóhnöppum með, sem tíðum sker,

aptari kjaptar ykkar beggja
óskast að verði samfastir!
það væri hjartkær happa sjón
að horfa' á ykkur, stóru flón!
Æ! sèrtu þá um alla daga,
(áhríns-mál hið eg verði það!)
aðal-koppur og erki-þvaga
allra, sem eg hef kokkálað!
sèu þeir engir, sofðu rótt
í svívirðíngu dag og nótt!
Enn er til ærið nóg að nefna:
næturdalls-osta-búnað þinn;
hvað marga sem að í villt efna
ósnert við skakna-fjölda minn;
til dæmis nöfn þó taki' eg fá
talan stendst 'ekki' að heldur á.
Satan, Belzibub, þorkell þunni,
Þorgarður, Loki, Skraparot;
Opingjá, Rússa, Klaufi, Klunni,
Klassekkur, Strimpa, Vammaskot,
Músagn, Skáldýnkur, Miðgarðsáll,
Mökkurkálfi og Sleggju-Páll.

* * *

Heyri þèr, sálir háttþeinkjandi!
hvað vel forskuldar sá það nafn:
sem í gjörvöllu lepur landi
logið alþýðu kjapta-safn,
eys svo spott-brixlum yfir þann
sem ekki þeinkir líkt og hann?

Hverr mun forþèna: froðusnakkur
'framar að heita', enn slíkur þegn,
sem í þaunkunum svo er skakkur:
að sèr tileinkar annars megn,
en vanmegn sitt hjá öðrum sèr,
aldrei þekkir svo hverr hann er;

Sem stundar hreina ment að myrða,
svo mentarleysið geðjist þjóð;
og fjálsan smekk vill fyrirgirða,
svo froðan skuli þykja góð,
en vondan hleypur vargshami í
vilji nokkurr ei hrósa því?

Þeir sem Apollíns ættar þulu
algjörla víta, svari því:
hvort hóru-úngar heita skulu
(honor auribus!) legg þeim í
allir, sem drambið inn í hann
ekki trað, heldur náttúran?

Hvort þann Apollíns hóru-únga
(hiante rictu) kalla má,
hverjum ei vefst um tönnur túnga
nær tala beiskan sannleik á,
er ljósið aldrei segir svart
sökum hræsni, nè myrkrið bjart?

En, hverjir munu þá ekta-synir
Apollíns vera þar á mót? —
máske vísdómsins herrar hinir,
sem háð og brixli tíðka ljót,
klaga sáran um klám og níð
en klæmast sjálfir þó í gríð!

## 114. SKOP OG ALVARA.

**Ort útaf Greppssálmi; það er tekið hèr eptir þrem handritum. Svo er að sjá sem "skopið" sè ort fyrst þegar greppssálmurinn hefir komið í hendur sèra Jóni, en "alvaran" þegar svarið var búið.**

### *Skop.*

Ó! hvað prýðir Íslands þjóð
upplýsíngin syðra!
þar eru smíðuð þessi ljóð,
þú mátt sýngja, Viðra![1]

Hygg eg enginn hefði' á þig
haugað *slíku* níði,
vildi' drengur vanda sig,
vesæl tík, án prýði!

Ekki' er kyn, þó hamist hún,
hól ef miður vöndum,
háleitt skin af hennar brún
hèr sem viður stöndum.

Manstu til, að mærðarsmið
menn hafi týjað betur
fyrir spil svo fjölleikið
ferna' um níu vetur?

Það skal vera þessari' öld,
þó minn óður slitni,
hennar mèr um gefin gjöld
göfugt hróður-vitni!

---

[1]) Tík á Bægisá.

Og að hrella mæðumann,
mein sem taka' að huga,
sèr, í elli, saklausan,
sýnir stakan huga.
Víst mun grepp, sem bjó til brag,
böl ef lógar gleði,
fyrir svo heppið frægðarslag
fróun nóg í geði.
Kæmi senn á eptir eins
aldar gegn-þakklæti,
einkis kenna mundi meins
maðurinn vegna kæti.
Skyggi nokkur ömun á
auðnu hag, meðan lifir,
hygg að okkur, halur! þá,
og hafðu brag þinn yfir!

*Alvara.*

Níðið, sem það verk til vann,
víst eg goldið játa,
en engan vilda' eg mennskan mann
með því skemmdan láta.
Engu síður þínu þykkt
það varð inni' að halda,
ófreskjan í Edddndikt
af því hlaut að gjalda.
Betur kjörin sýndist sú
saurnum við að taka,
hvern þèr sjálfum hafðir þú
háði náð að baka.

Vera manns er vænni' enn svo,
virt ef er að rèttu,
en loginn draug ei þarf að þvo,
þó hann mæti slettu.
Það var rètt við hæfi hans,
heimsku' að stofna slíka, —
en ekki nokkurs ærumanns, —
og eiga gjöldin líka.
Fyrst þú hafðir fóstri sleppt
föðurlausu þínu,
annann fèkk það aðal hreppt
af yfirvarpi mínu.
Einnig nafn fyrir ó-kírt jóð
er, sem bezt að verður,
— hafi mèr verið hin fullgóð —
að heita Lifjagerður.
Sleggjan er hin sama, sem
sendir í Lifjagerði,
aptur með hana eg því kem,
að hún sjálfs þíns verði.
Erfiðandan ei eg vil
áhaldinu svipta,
heldur um annað hjálpa til,
svo hafi þau til skipta.
Er því páll, sem eg til fann
eptir jötuns standi,
uppdiktaður eins og hann,
engan mann snertandi;
Mökkurkálfa maklegt skrúð,
mund svo tóm ei væri,

og til að spilla hauðurs húð
hentugt þræls verkfæri.
. Hafi nokkur ósek önd
á því náð sig steita,
ljúfur rètti' eg henni hönd,
og hjásneiðíngar leita.
Ófreskjan, sem aldrei var.
ekki reiðist kvæði,
Mökkurkálfi mun ei par
mynda sig til bræði.
Maður niðrar sjálfum sèr
sinn þá níðir líka;
þèr þú spilltir meir enn mèr
meingjörð viður slíka!
Hafi' eg drjúgum missèð mig,
mátti nóg til, sannað;
en að ljúga lýtti þig,
ef lítið dróg um annað.
Argur er sá sig engu ver,
öll gjöf launum tekur,
vorkenna því máttu mèr,
minna var eg sekur.
Níð, sem hinum óð er í,
á hann Mökkurkálfur;
ekkert snertir þig af því,
en þennan áttu sjálfur!
Hvernig gat eg hefnd fyrir spott
hagað betur minni?
þèr eg skyldi gjöra gott,
gæti' eg nokkru sinni.

Hættu nú að hrekja mig!
hreldum skyldir vægja!
lærðu samt að þekkja þig!
þá læt eg mèr nægja.

Verk þín, maður! verða sett
vog á nákvæmasta,
ástundaðu' að allt sè rètt,
svo engum tjái' að lasta.

Verkin manna, vorðin forn,
veltast þrátt úr gyldi;
enginn fann svo öflug horn,
að alda-máttinn þyldi.

Ef þú níðist enn á mèr
auðs og krapta snauðum,
að því verður engin þèr
æra, lífs nè dauðum.

Kveðskap mínum einhvers á
ýmugust eg merki,
eptirlátið þeim mun þá:
því að hætt sè verki.

Svo mátt þú, og aðrir eins,
yrkja drápur slíngar
þjóð og ljóðament til meins
og mestu svívirðíngar.

Af mèr framið illa margt,
ósæmandi ræður,
fánýtt kveðið, framar enn þarft,
fyrirgefið bræður!

## 115. ÓSJÓNIN.

Þegar sèra Jón var búinn að heyra hverr höfundur væri Greppssálmsins kvað hann vísur þessar, og eru þær teknar hèr eptir þrem handritum.

Mynd bar fyrir mig í nótt:
mannsskrokk uppúr hesti;
sentárum[1] það segir drótt,
samt bar þetta skrímslið ljótt
arnar-haus og yfirhöfn af presti.

Hún var eins og hengd á staur
há af jarpri meri,
útkvoluð með arnar saur,
allur vall af honum gaur,
sem hann spjó, og sjálfur á sig neri.

Eg nam spyrja' að heiti hrók,
hryllti þó við bjálfa;
en hann taglið óðum skók,
undan því svo mæla tók:
"síra Arn-aur, suga Mökkurkálfa".

"Hverr hefir yður myndað múk?"
mèr varð enn að frètta,

---

[1]) "Einn centaurus (mannhestur) hefir heitið Arneus (sjá Sorani Lexicon við orðið centaurus); sè *Arneus* stytt, og enn framfært einsog í þýzku, en *s* í endanum gjört að *r*, einsog almennt er í íslenzku við latínsk mannanöfn, þá verður þessi Arneus = Arnaur, þ. e. leirburður, verkið fyrir meistarann, adjunctum pro subjecto." Skáld.

"hátign engin hörð nè mjúk
hendur ber að arnar-kúk".
Aptur skrímslið uppá svarar þetta:
"Mökkurkálfa mund ónaum
mèr bjó heiðursklæði,
fæði' eg honum fyrir saum
folald eitt með hverjum straum,
etum við þau öll og getum bæði.
En mèr verður ekki lètt
eptir slíka fylli,
upp og niður af mèr rètt
endeminu læt eg slett,
lepran gengur landshornanna' á milli.
Eptir fyl er ójetið
eitt, hún Lifjagerður,
okkur bæði býður við
að bíta' í fjandans óhræsið,
fullt ígyldi Fenrisúlfs hún verður."
Í því sá eg annann draug,
ota páli' og sleggju,
uppúr gömlum hesthús-haug
hann kom að, og skrímslið saug,
bilt varð mèr og bölvaði hvorutveggju.
Bykkjan þá í burtu strauk,
brá upp fálu-sköllum,
úr prestshempunni púður rauk
púkans líkt sem eitur-bauk,
nam hún staðar niðr' á skítárvöllum.
Lemur hún sinn lenda-þrekk
lángskeptri með sleggju,

öllum hvimleið, engum þekk
utan Mökkurkálfa smekk,
sjúgi hann þá saurataða hneggju!

## 116. LEIRGERÐAR-VÍSUR.

Vísur þessar eru teknar eptir tveim handritum, og eru þær í öðru kallaðar "kritik Leirgerðar".

Pontoppídan og prúðan klerk
páska með sigur-róm,
og Bárðar nið í bænar-serk,
bið eg, ef hafið tóm,
blunds að afleggja böndin sterk,
bregðið á ykkur skóm:
að heyra' um ykkar heiðurs-verk
hávísan auladóm!

Mætti nú túngan mælsku-fróð
mannsins í Reykjadal,
og sá Kross-skóla lagaði ljóð,
Leirgerðar nema tal,
fá mundi sá þeim hnaðar hnjóð
hnyttiligt góflu-val;
nýtan mann aldrei nefnir þjóð
þann níðist á dauðum hal.

Þessi vísa er tekin eptir einu handriti.

Ætla' eg verði ei svo lèttur púngi
á Leirgerði' er flagarinn dettur úngi;
erði kletta
merði metta
fergði fetta
serði nett er súngið.

Þessi vísa er tekin eptir einu handriti.

Lucifer Leirgerði
loks að sínu geði
bráður barnað gat,
vona eg skrímslið verði,
Vina- fæddist -gleði,
hefir í rumpi hrat;
hún um landið hèr ganförum ratar,
hún ólærða' og lærða sauri atar,
hún þó peðri, heyrum það eitt hatar:
hún síns pápa sæmd einasta glatar.

Þessi vísa er og eptir einu handriti.

Lutheromastix lærði,
líkur í uppfræðíngu

sjálfum *Zoilo*[1],
leiða lækníng færði
landsins vanþekkíngu,
mein það mörgum bjó;
steinsótt hann ef stríða kann að finna:
stólpípuna víðu drambseminnar
reki' í enda uppfræðíngar sinnar
ataða feiti sjálfshrósunarinnar.

---

Um sama leiti sem "ósjónin" er ort hefir séra Jón íslenzkað "draug" Gellerts (sjá Fyrri deild, bls. 302—306). Með útleggingu þeirri hefir hann skrifað vísu þessa. — (Eptir tveim handritum.)

---

Þèr ef fælist þennan draug
þá er mátinn bezti:
honum ljóð að lesa þaug
ljót og klúr,
niður úr
sem láku, fúlan líkt við súr,
úr leirgum Arnaur pr-besti.

---

[1]) *Zoilus* var einn af bókfræðíngunum í Alexandersborg á Egiptalandi.

*Þessa vísu hefir sèra Jón ort útaf sama tilefni.* — Eptir einu handriti.

Þjóð ef fælist þennan draug,
þá er gott til ráða:
ljóð að honum láti þaug
lesin hátt
hverja nátt,
gagn sem annað gjöra fátt:
Greppssálmana báða.

---

Þegar "Arnaur greppur avanceraði úr presti í prófast" segir sèra Jón að vísu þessari hafi "óvart rignt ofaní sig". — *Eptir einu handriti.*

Prestur setti saman,
svei mèr, ef eg lýg!
vondsligt vísnagaman
og vann ei fyrir gýg;
prófastsdæmi fyrir það fann;
nær sem verri býr til brag
biskup verður hann.

*þessi vísa er eptir einu handriti.*

Ef þú villt avancera
og verða prófastur,
þá skaltu þig að bera
þó ei sèrt hagmæltur:
að spinna saman spottbrag þann,
sem yfirgengur alla,
um einhvern saklausan.

Vísa þessi er tekin eptir tveim handritum.

Norðurlandi níð ef í
nefnist, drápsök það er,
en prestar syðra púðra því
privilegeraðir.

Vísur þessar eru teknar eptir tveim handritum og segir í öðru að þær sè "til Mökkurkálfa".

Þú ert haldinn lærður loginn.
litlu betri' enn skólasmoginn,
sem til flúðir lepps í leit;
þrekkataðan þig að skeina
þekkja færstir æru neina;
þurki hverr upp það hann skeit!

Þekkist gjörla þú af spotti,
þvílíkast sem tóa' af skotti,
grensmogin þar grísum bar;
hafðu ráð mín: hættu' að yrkja!
hinir munu þig annars kyrkja
skóla-smognir skáldrefar.

## 117. BRAGARBÓT.

Þegar "svarið til Leirgerðar" og "ósjónin" voru komin suður, lèt Magnús Stephensen hóta sèra Jóni stefnu og embættis-missi, og orti þá sèra Jón kvæði þetta sèr til friðar. — Eptir þrem handritum.

Húm nálgast, hallar degi,
híngað til förnum vegi
hugsjúkur hygg eg að;
misgengin mig þar græta
mörg spor, sem þarf að bæta,
gjört ef eg gæti það.
Viljann mig vantar ekki,
vanmáttugan eg þekki
til þessa mjög svo mig:
þar svo er margt og mikið
misgjört og útaf vikið
ráðvendnis rèttum stig.
Traustan á himni hæsta,
hvar sök mín er hin stærsta,
á eg árnaðarmann;

um það eg ekkert víla:
ein sú fullkomin skýla
brot mín öll bæta kann.

En bræðra meðal minna
mann veit eg ei að finna
sem friði fyrir mig,
og fáráðs forsvar taki;
fleiri trúi' eg ásaki
og bista sýni sig.

Æ, hvað eg yrði feginn,
áður enn skilur veginn,
sem von er verði brádt:
ef vita mig eg mætti
menn alla við, sem grætti,
kominn í kæra sátt.

Athvarf má aldrei heita,
upp sèr til skjóls að leita
ófrjálslig undanskot,
og öðrum um að kenna;
ei má nú heldur grenna
enn forðum framin brot.

Og með annarra dæmum,
enn þótt hneixlunarnæmum,
að vilja verja sig,
og eigin afbrot fegra,
enn þá er heimskulegra;
ei kvitta má það mig.

Sèrhverr, við glæp sem gengur,
góður er sagður drengur,
ef vottar auðmjúkt geð;

það, sem illt var að vinna,
verra lángt er að tvinna
þrálátri þrætni með.
Eg vil því ekki fresta
að taka ráðið bezta,
það eina sem eg sè,
og biðja bljúgur friðar,
bræður! að sèrhverr yðar
láti mèr líkn í tè.
Allt, hvað eg ofgjört hefi:
orð og verk, fyrirgefi
hverr, sem varð mein að mèr!
hneixlis- og hneisu-ræður
hneppið í gleymsku, bræður!
mín hjartans ósk það er.
Ofmargt er af mèr kveðið,
sem ýfir frómum geðið
og lofsverk lýtir björt;
illt fyrir illt að gjalda
ókristiligt má halda,
þó hefi' eg þetta gjört.
Allt hvað eg yrkja gerði
öllum að góðu verði,
það sem er þar til hent;
en hitt, sem hagfelt miður
heldur fellir enn styður,
eyðist, í eldi brennt!
Ágætur Íslands sómi
uppfræðíngar lærdómi
nýkveiktum eflist af;

en margur það ei þekkti,
þetta mig líka blekkti,
sem illan ávöxt gaf.

Það eg hef lasts með ljóðum
letra-stól amað góðum,
iðrast eg eptir mest,
mig varðar ekki' um aðra,
sem ofmargt kannske þvaðra,
minn kýs eg bættan brest.

Yður, þèr Íslands *stóri*
upplýsíngar forstjóri,
krónu rètt kenndur við!
kóróna lærdóms lista!
Landsrèttar Dómsvald fyrsta!
fremstan eg forláts bið.

Verk yðar vel sèr hrósa,
vil eg sem flest þau kjósa,
en aldrei annað tèð;
alið þann aldar heiður
og verið mèr ei reiður!
ánægður-eg þá kveð.

Einu með orði' að segja:
allt, hvarum bar að þegja,
en mistalað af mèr
sæmd nokkurs hefir hallað,
hèr með skal aptur kallað,
jafnt því sem ekkert er.

Hagsæld og heilsa taptar,
hörfandi sinnis kraptar
nærstaddri nástund spá;

senn tæmist önn og iðja
ár sextugasta' og þriðja
mèr komnum aldurs á.
  Sèrhverjum, sem mig styggði
saklítinn, eða hryggði,
meðdeilist mín uppgjöf;
eg, bræður! engan klaga,
unnið mèr rórra daga,
og árnið góðs í gröf!
  Hvort eg er lífs eða liðinn,
láti guð heill og friðinn
allsherjar vera vörð!
vísinda dýrkun dýra,
og drottna, sem þeim stýra,
vel blessi vorri jörð!

## 118. SKÁLDAÓSK.

Þessa vísu er sagt að Jón Þorláksson hafi kveðið, þegar hann hafði lesið kvæði eptir Gunnar prófas Pálsson, sem kallað var Grímufletta. — Eptir einu handriti.

Skæða hreppi skömm og smán
skjalarinn ýmu glettu!
item hreppi auðnu-rán
autor Grímu-flettu!

## 119. GUSTAFS SAGA.

Eptir einu handriti.

Gustaf reyndi gæfubrest,
gikkja úngur framdi hnykk,
rusta knúði' hann raupið verst,
að rykkja' byssu grimmt með skikk.
Holla kysti hrínga þöll
hýr Charlotta lyndis-skír,
sollinn vonda varast snjöll
vír dró engan pretta-rýr.
Herkjur kenndi hann og þjark
hóranna í leiðum kór,
sterkar gjörðu stífið spark,
stór þó háskinn burtu fór.
Úti silfur einatt lèt,
engin leið fannst önnur geng,
sútum haldinn sífelt grèt,
svengíng leið með þorsta feng.
*Marqvis* honum manndóms verk
mætur sýndi víst ágæt,
en harka böðuls hótin sterk
bæti bölva færðu' ósæt.
Hertekinn varð heldur snart
hann þá Tyrkja vonda fann,
bert hann þessir berja hart
og banna' að dýrka guð sannan.
En hann reyndist, eg það finn,
aldyggur, sem eitt mannval,

kennir svo, að kvalmennin
kala sefa', en bæta tal.
Kvala þoldu heiptugt hel
hrópandi til guðs með óp,
talar snót ein snotur vel,
snópa' ei hirti, burtu hljóp.
Flýði *Gustaf* fljóðið með
og fannst til Kapteins Rósenkrantz;
síðan skírast svanni rèð,
til sanns var *Katrín* nafnið hans.
Kapteinn festi kirtlanipt,
kvelur bilta þann í hel;
aptur varð hún Gustaf gipt,
gelur margur: það fór vel!
Áður höfðu eignazt auð,
af því sem Charlotta gaf,
gáðu sína' að grenna nauð
grafar til, svo endast skraf.

* * *

Saga Gustafs sýnir sig
sögunum betri flestum mjög:
að laga rusta' af lasta stig,
lög upphvetja tára hög.

## 120. KVÆÐAVAL.

Eptir einu handriti.

Eg heyri sagt að Buslubæn
bæði sè þörf og nóguvæn,

líka af hreinum lærdóm bygð
ljóðasmíðið um Beisivigð,
Bósarímur og Andraóð
elskar stórliga hver ein þjóð;
svoddan fræði þó sèu hèr
sýnist ei vert að bjóða þèr.

## 121. NÍÐSKÁLDA UPPHAF.

Eptir tveim handritum.

Ari nokkurr órór,
er með lepru sal fer[1],
spar á var úr Boðn bjór
berast lèt því af sèr:
Að hann kynni kænt ráð
kveðskapar til, ósèð,
í mjaðarstað hafi ment fjáð
meðal annað fundið.
Dróttin hèlt það dýrmætt
(dettur margur um prett);
þótti varla þó sætt
þetta mauk, nè kaup lètt.
Bauð hann mönnum bland tjáð,
bað og margur um það,
auðsætt lætur heyrt háð
hvaðan ari fekk tað.

[1]) þ. e. sem selur lepru.

Borða firðar fúl spörð,
furðanliga tálsmurð;
orða þarvið öll skörð
urðu full með leirburð.
Sèð er ei nè sannað
síðan ræðist af lýð
eða kveðist annað
en íðil-spott og hrakníð.
Stafað hafa styrdt lof
stef á brèf um prentvef;
skraf er drafað um of
ef eg hef af gulnef.

---

## 122. UM SKÁLDSKAP.

Vísur þessar eru teknar eptir tveim handritum.

SKÁLDUM fylgir öfund opt,
er því verr og miður,
hverr vill sínu halda' á lopt
en hinna kefja niður.
Held eg þó sè heimsku grein
hèrum fast að keppa,
víst er sæmra brunnið bein
að bítast um fyrir seppa.

Þetta er ort "við Pópes Tilraun". — Eptir tveim handritum.

Sá sem girnist lýtalaus
lærdómsrit að smíða:
Yxnadals úr heimskum haus
hafa skal til þess kjaptaraus.
Nú þó vanti nokkur örk
nýja bók að fylla,
þá má fá á Þelamörk
þartil nógan lygabörk.
Hefði Pópe hèrgreind faung
haft í "tilraun" sína:
betur þá við búra saung
bókin ætti, þeigi raung.

Þetta er ort "eptir Inqvisitiónina um kveðskapinn" og tekið hèr eptir tveim handritum.

Hann, sem ræður himni' og jörð,
hugsun minni játi:
aldrei skáld í Eyjafjörð
uppfrá þessu láti!
Hávellur, sem herma róg
höfðíngjum í eyru,
þær munu gala, það er nóg,
þörf er ekki' á meiru.

Vísur þessar eru kallaðar "Passi með yxna kú til Þorláks í Skriðu" og eru látnar eiga skyldt við vísur þær sem hèr eru næst á undan; þær eru teknar hèr eptir þrem handritum og er eitt afskript af eiginhandar-riti.

---

Hjálpi þèr mèr, heillavin!
hèr er los í skinni;
látið gamla graðúngs sin
gagnast Rjúpu minni![1]

---

Þessi vísa er tekin eptir tveim handritum.

---

Hèr er slátur nauta nóg,
nú er Rjúpa[2] hnigin;
efni fengist enn í róg,
ef einhverr væri lýginn.

---

[1]) Hèr bæta tvö handritin við vísu þeirri sem síðar er rituð: "Heimskugyðjan hefir sjálf", o. s. frv. — sjá bls. 620.

[2]) "*Rjúpa* var útlifuð gamalkýr, útaf saklausu gamni höfð fyrir lyga-rógs efni af illgjörnum og nautheimskum hávellum." Skáld.

Þessi vísa er tekin eptir einu handriti.

Hygginn vigtar, hrekkvís sigtar hvert fis orða;
skensinn figtar skrafs með korða;
skáldið diktar eyrum forða.

## 123. UM ÖFUND, ILLS HÖFUND.

Kvæði þetta er áður prentað í Klausturpóstinum 1821, bls. 166—168; hèr eru tvö handrit samanborin.

Að mèr sveif í svefni
svipill einhver vofa,
Öfund, eða hvað?
þess eg hiklaust hefni,
hún skal ekki sofa
framar fyrir það;
ef sig nokkurr á því kynni steita,
Öfundar það læt eg verkun heita,
hennar ólund hófs má enginn leita;
horgrindin vill aðra sèr jafnfeita.
Öfund Fjandann felldi,
Fjandinn gjörði manni,
maður mönnum tjón;
stækjan af þeim eldi,
ólifjan og banni
útjós yfir frón;

mannkærleikann meinvættur sá drepur,
merg úr öllu fólks-samneyti lepur,
iðnir, dáð og útrèttíngar glepur,
af hans blástri fárligum svo nepur.
  Örgust allra klækja,
eðli manns sem spilla,
skrýmslið Öfund er;
allir aðrir sækja
eptir því að fylla
laungun lagna sèr.
Sjálfs-elskan hin saurgaða þá elur;
sá mann vegur, hórast, lýgur, stelur,
ánægju sèr í því mesta telur,
Öfund meðan forgefins sig kvelur.
  Öfund illum huga
annarr hverju fagnar
gjörir sèr að sút,
einsog eiturfluga
aldinvökva magnar,
sem hún sýgur út;
fjandligt eptir föður sínum apar
fóstrið hèr, og vont af góðu skapar;
aldrei kætist, utan þegar hrapar
einnhverr sá, er hamíngjunni tapar.
  Eins er túngu' og eyra
undir lögðum banni,
horfnum heilla dáð,
tamt að tala' og heyra
tillagt góðum manni
logið last og háð;

baktal, rógur, brixl og heiptar-sinni
brynjast allt og þjónar Öfundinni:
hún er sjálf með hor og vesældinni
húngruð, þúng og sein, í fölu skinni.

Undireins og flennir
Öfund skarni sínu
línserk annars á:
hún með biki brennir
brimólgandi pínu
eigin iður flá;
hún er böðull, sjálfri sèr refsandi,
sárs frumkvöðull, oss er veitti Fjandi,
ormastöðull, eiturs fylltra grandi,
elti röðull hana burt úr landi!

Ó, hvað illu veldur
Öfund fyrr og síðar,
meðal manna kyns,
ó, að fengist felldur
fjandi sá í víðar
auðnir afgrunnsins!
hún, þó kyndist ótal þúsund ofnar,
át þó hennar kverkar gjöri dofnar,
aldrei vermist, aldrei seðst nè sofnar,
sjálf hún unz af maðkafylli klofnar.

Engum vil eg vísa
veg að inni ljótu,
Öfund i sem býr,
nè með ljóðum lýsa
leiðri hellisgjótu,
út sem eitri spýr;

hygg eg engan hennar fýsi vitja,
hjá að gista, nè til borðs að sitja,
höggormana sèr til neyzlu nytja,
og nöðruslátrið ofaní sig britja.
Heldur vil eg vera
vesælastur manna
og við Öfund frí,
enn í brjósti bera
böls uppsprettu sanna,
sem er Öfund í;
hvar eg lengi verið gæti glaður,
gæfist enginn hèr á jörðu staður;
það er hnoss að vera mikill maður,
minnsti kross þó verðir öfundaður.
Hirðum ei að elta,
ó, þú litla Músa!
skrímslið lengri leið;
látum geyja og gelta
greyið illskufúsa
móts við mána skeið;
hennar bæli, forsmánina, flýjum!
forðum okkur meinvættarins spýjum!
þeir sem vilja þeim sig kynna stýjum,
þarum lesi skáldið Óvidíum!

## 124. HEIMURINN.

Þessi vísa er eptir einu handriti.

Hvert þèr venda villtu
vinur! heims í ranni,
allt er fullt með fár;
háfir biðu biltu,
búið er undirmanni
ánauð, ok og dár;
fèð er valt, en frá því sárt að deyja,
fátækur af eymdinni má segja,
þannig gipta börn og annir beygja,
bágt er einnig konulaus að þreyja.

Þetta er kölluð "Skáldsins seinasta vísa", og er tekin hèr eptir einu handriti.

Eva fèkk við eyra sèr
eiturnöðru forðum,
það var lymskur Lúcifer,
laumaði skemmdar orðum
hann í hennar brjóst;
illur draumur af því varð,
er til verra drógst;
synd og dauði gengu' í garð
og grimman skópu þjóst.

Þessi vísa er eptir einu handriti.

Heimurinn er tvístrent tól —
til þess mátti' eg finna' í gær; —
hann á bæði fjandlig fól
og falleg hjörtu, guði kær.

Þessi vísa er eptir tveim handritum, og er annað afskript af eiginhandar-riti.

Grimmt ránglæti' og glæpafans
gengur vítt um svæði. —
Eldi gefðu andskotans
attestin mín bæði!

## 125. LÍFSREGLUR.

Eptir einu handriti.

Höggvast ef þú heyrir tvo,
hjálpaðu þeim sem olli!
af solli
hendurnar ei þarf að þvo,
því Rèttvísin breytir svo
og skæður Skolli.

Opt og tíðum eg hefi spurt
þú otir góma-rapti;
hugsaðu þó, að hent er furt
hissugum aptra kjapti!

## 126. FALL HÓLA.

Eptir tveim handritum.

*Hundar hátt góla* —
hallmæla sjóla
fyrir fall Hóla
og færðan burt skóla;
en ef óp fóla
upp kann að róla
sal yfir sóla!

## 127. NÝ TILSKIPAN.

Ort útaf skipun amtmanns og sýslumanns um tarfa. — Eptir þrem handritum.

Nú er haldið Niflúngs boð,
nú er bænda standi
óhilandi styrktar stoð
stofnuð hèr í landi.

Bezta veit eg bæi þrjá
brögnum tjóns að varna:
Niflheim fyrstan nefna má,
Nöðrufell og Hjarna.
Kannske' hinn fjórði komi' í leik
og kauðum stytti gaman,
kippi frá þeim stórri steik,
og steypi því öllu saman.
Heimskugyðjan hefir sjálf
hèr til varið starfi,
og alið þennan aplakálf
undan gömlum tarfi.[1]

## 129. SJÚKDÓMASKÍRSLA.

Sèra Jóni Þorlákssyni var skipað, einsog öðrum prestum, að senda hèraðslækninum skírslur um sjúkdóma, en sèra Jón hefir annaðhvort verið illa viðlátinn eða ekki gætt að hvert gagn af slíku má verða, og litið einúngis á fyrirhöfn sína. Hann sendi þá til prófasts þessa "þènustusamlega Indberetning". — Eptir þrem handritum.

Hrútur dó af hrossasótt í hitt eð fyrra;
höfuðsótt drap hest í fyrra;
haltur er eg sem í fyrra.

[1]) Þessa vísu hefir eitt af handritunum ekki hèr við, heldur við vísurnar um Rjúpu, bls. 612.

Því er eg svo spora-spar að spýta' í kálfa?
ef þeir fæða sig ei sjálfa,
sæki næríng þeir til álfa!

Prófóstum og Prestum ei eg prýði meina:
*Ara*, þó hann skipi, að skeina;
skyldu tel eg það ei seina.

Var hann, er, og verða mun, þótt veröld þverri,
(svo enginn kemur annarr verri)
*inutile pondus terræ.*

Ef eg framar áreitist af Ara kröfum
skal eg fletta' upp larfa löfum
og lesa rètt með fullum stöfum.[1]

## 129. HÝÐÍNGARNAR.

Vísur þessar eru ortar útaf því, að sýslumenn og hreppstjórar skyldu hýða sakamenn ef ekki fengist aðrir til.
Eptir þrem handritum.

Ögmundur fèkk engin gjöld,
ófrómastur drengja;

[1]) Með "skírslu" þessari hefir sèra Jón ritað prófasti:

"Hjartanlegustu ástar þakkir fyrir tilskrifið, dropana, pappírinn aptur og aptur etc. etc. etc.

En for resten enga þökk fyrir Ara pligtarbeið!
Hafðu nú, prestur minn! hvern þú vilt
af nólkunum þessum báðum!"

nú er komin önnur öld,
alla má nú flengja.
  Firðar báru skjóma' og skjöld,
skæran fyrr í hendi,
en vor göfug yfirvöld
eru prýdd með vendi.
  Hreppstjórunum heiður ber,
hýða þeir svo blæðir,
þeirra mestur einn þó er:
að hann slær og græðir.[1]

## 130. KAUPIN.

Vísur þessar eru eptir einu handriti.

Nú á tímum lystugt leikur
lukkan suma við,
þeirra forstand arðinn eykur
eptir fornum sið.
  Föðurleifð að farga sinni,
nær falar Achabs-son,
hyggið vottar hjartans sinni,
happs ef þykir von.
  Ljóst var ekki lukkuslakur,
lánið elti rekk:

[1]) Þetta er meint til Gríms á Espihóli, sem kallaður var græðari, faðir Gríms djákna að Möðruvöllum.

þá Kúból stóra' og Kolbeins akur
í kaupa-hluta fèkk.
Dómara var sannur sómi
að semja gjörníng þann;
rèttarins svo byr og blómi
breiddist heims um rann.
Sá hefir marga hildi háða,
að hjálpa rèttri sök,
fylgi lèt ei fyrir ráða
að flækja sannleiks rök.
Grætur dygð, en gleðjast klækir,
gjöld eru synda þètt,
þar fákænn ver, en falskur sækir,
og fylginn situr rètt.

## 131. KAUNA-JOBS VÍSUR.

Sumir hafa yfirskript yfir vísum þessum: "sigtkunstin í Eyjafirði". — Eptir einu handriti.

Sínum til í kýlum kennir
Kauna-Job, ef nokkurr rennir
augunum í áttir hans;
sjálfir að sèr böndin bera,
birtandi sig heimska vera,
er sigta túngu sèrhvers manns.
Uppá það gaf ágætt dæmi
ærumaðurinn sár-viðkvæmi,

kýli verst er kenndi sín;
samvizkan því blökk í bragði
bisti sig og þannig sagði:
"Lamba-þjófur! og leit til mín".
Sá sem gjarnan sigtar aðra,
sispúandi eins og naðra,
öllu snúa' á versta veg:
skal hann ekki skilið eiga —
skal hann nokkuð forðast meiga —
að hann sigtist, einsog jeg?

## 132. UM HÖFÐÍNGJA.

Vísa þessi er ort um krit milli Amtmanns og Biskups útaf Presti. — Eptir tveim handritum.

Illa semur A og B,
oddvitunum í stafrofi;
dauft öl af því drekkur P,
sem dansar með þeim síðari.
Ekki er kyn, þótt eitthvað fari' í ólestri.

Þessi vísa er eptir einni afskript af eiginhandar-riti.

Látum kátir ærast Á!
ekki B það hrekkja má,
en vèr skulum eyru ei því ljá,
og enga bera hugarþrá!
Á mun rata' í arga skömm, það er mín *spá*.

Þegar Castenskjold amtmaður og Thorarensen riðu fram hjá kirkju um embættisgjörð orti sèra Jón þetta. — Eptir tveim handritum.

Skrykkjótt gengur opt til enn
eins og fyrr með köflum;
en grátligt er þá góðir menn
gjöra sig að djöflum.

## 133. PRESTAHATARINN.

Vísur þessar eru eptir tveim handritum.

Enn er klerkum dreift við dans
og Dóegs skenkt af keri,
því á skilið þakkar-ans
Þ . . . r *Misokleri*[1].

[1]) þ. e. prestahatari.

Falliga stólinn stígur í
stolltur presta-svertir,
illa fer að ansar því
enginn, sem það snertir.
Flest oss presta stínga strá,
stríð er að líða þetta,
þurka purkur okkur á
aur og saurinn pretta.
Heldur vil eg hundvesæll
hússgángs-maður vera,
en áklagaður þvögu-þræll
Þ . . . r *Misoklera.*[1]
Spyrst: það fyrsti spreytíngjans
sprettur pretta-digur
viti á skitu' í höldum[2] hans
og hundligar undirmigur.

---

## 134. ÁRFERÐIÐ.

Kveðið um vorið 1811. — Eptir tveim handritum.

---

Stríðar hendur vitja vor,
velir kenndir brotna,

---

[1]) Í stað þessara þriggja vísna hefir annað handritið vísur þær sem teknar eru eptir *Plautus*, og prentaðar í fyrri deild bls. 397—98.

[2]) *höld*, þ. e. buxur.

tíðar fjendur: hafís, hor,
híngað sendir, drottna.
Þrykkja tekur einnig öld
annað þessu verra:
gikkja frekur vansi, völd
vorra pressu-herra.
Holtin veita bezta björg;
börnin Eyjafjarðar
soltin leita matar mörg,
mæður deyja hjarðar.
Snúðu drottinn vendi við!
vægðu börnum þjáðum!
búðu sprottinn fólki frið!
flýttu vörnum þráðum!

## 135. HERAÐAHÆTTIR.

Þessi vísa er eptir einu handriti.

Friður og blessan fylgjast að,
forsorgendur jarðar,
þau eru burt úr prætu-stað
þotin Eyjafjarðar.

Vísa þessi er ort eittsinn þá sèra Jón reið framhjá Efstalandi, og er tekin hèr eptir tveim handritum.

---

Nú er gengið Norðurlandi; —
nú eru gjafa-menn fyrir-bí; —
skal þá enginn feigur fjandi
fjaðrir hafa klippt af því?

---

Þessar vísur eru ortar neðanvið brèf til Magnús prófasts Erlendssonar og teknar hèr eptir tveim handritum.

---

Fátt er nú um frèttaval,
finn eg ei neitt að skrifa;
illindin í Yxnadal
aptra mèr að lifa.
Furðar mig að fiskkyns er
fólkið upp til dala,
ætlar það, ef enginn sèr,
allt megi gjöra' og tala.

---

Vísa þessi, um Þelamerkur-bændur, er tekin eptir þrem handritum.

---

Þóttinn hefir þessa gjört
Þelamerkur-hausa:

öllum lærðari', annaðhvört,
eða hreint vitlausa!

---

Þessi vísa er eptir einu handriti.

---

Hvernig meinar þú sè þá
Þelmerkínga prestur
þeim ef geðjast að honum á?
aurapúki mestur,
heimskur, fólskur, flár,
óþakklátur, illbreytinn,
ágjarn, lýginn, þrár,
og þess í milli þjófgefinn —
þá er hann hreinn og klár.

---

Þessi vísa er eptir tveim handritum.

---

Þelamerkur þjóðin frakka
þusti gjörvöll fram að Bakka,
flokkurinn á flugi var
til að sækja sálar-fylli
svo hann komst ei bæja' á milli,
gubbaði fullar göturnar.

---

## 136. ALLSHERJARVIKAN.

Eptir tveim handritum.

Kóngarnir í Kráklingshlíð
kunna rètt að stika:
aldur heims og eilíf tíð
ein er hjá þeim vika.

## 137. TIL ILLÞURKUDÍSAR.

Eptir einu handriti.

Nú sèr það á að vantar vín,
veldur það því, Illþurka mín!
að þinni verður aumu sál
ekki tildrukkin heilsu skál;
sèrtu þá æ í sömu kvöl
sjóðheitt þambandi píslaröl!
þartil á öðru verður völ.

## 138. KVENNBÚNAÐURINN.

Þegar konur fóru að kasta faldinum íslenzka og taka upp hatt og klæðasnið eptir útlendum, kvað sèra Jón stökur þessar. — (Eptir tveim handritum, og hefir Rask borið annað saman við eiginhandar-rit).

Faldinn svans og hattinn hrafns
hægt er saman að bera;
þann, sem tekur þá til jafns,
þenki' eg galinn vera.

* * *

Kátlig art er kvenna skart
koldökkvara' enn torfa;
allt er svart, sem áður bjart
á var gaman að horfa.

## *VIÐBÆTIR.*

### 1. SÁLMUR UM AUÐSVEIPNI VIÐ GUÐ.

Sálmur þessi er lagður út úr dönsku, og er prentaður hèr eptir einni afskript af eiginhandarriti.

*Lag: Ris upp, mín sál! og bregð nú blundi.*

Við þig, minn guð! eg vel mèr uni,
vilji þinn elskast skal af mèr;
mín hjartans þökk í hæðir bruni
hvað fyrir, sem þín gæzka lèr;
lengur ei vilji minn er minn
með því hann kýs að vera þinn.

Ef sóttar beð mèr villt í varpa,
vil eg; ef þjakar örbirgð sár,
eg vil, þó rati' í ánauð snarpa;
eg vil, þó hljóti' að fella tár;
eg vil, þó dauðinn æði til;
allt sem þú villt, minn guð! eg vil.

Viljir þú mig til himins hefja,
hjartkæri guð! það kýs eg mèr,
skuli mig plágur vítis vefja
veit eg það aldrei girnd þín er;

svo viljir leyfa þú ei það
þoldi minn Jesús dauðans bað.
Hans dauði sannar hvað þú vildir:
heilagur girnist þú eg sè;
eg girnist og, en eigi mildir
óvinir hamla því að ske.
Mótþróinn smeygist ofmjög inn,
óviljinn gjörist herra minn.
Æ! tak svo hvað helzt guð þèr gefur,
gott eða strídt, mitt brjóst ánægt!
vík, eigið geð! því hitt mig hefur
handfest, eg vel hvað guði' er þægt;
honum þitt offra hjarta skalt!
hvað drottinn vill, þú girnst ávallt!

## 2. SALMUR ÚTAF LAUNGUN TIL EILÍFS LÍFS.

Sálmvers þessi eru lögð út úr dönsku og prentuð hèr eptir einni afskript af eiginhandar-riti.

Mín sál af laungun uppfyllt er
æ meðan dupts ber líki:
Jesú! að gleðjast þar hjá þèr
í þínu himnaríki,
þèr helgra sveit þar þjónar öll,
í þessa sælu dýrðar höll
nær leyfa villt eg víki.

Hvar sjúkdóms, böls og sorgar mein
sèr munu' í gleði venda,
en mig áreita meir ei nein,
mín þerruð tár fá enda,
glaður svo mína grafar-leið
geng eg í burt frá tímans neyð,
svo fæ í sælu' að lenda.

## ÖÐRUVÍSI.

Sál mín af laungun uppfyllt er
æ meðan lífs hèr þreyi,
Jesú! að frammi fyrir þèr
fögnuð þíns ríkis eygi,
þèr helgra sveit hvar þjónar öll,
í þá upp stíga dýrðar höll
nær leyfa munt eg megi.

Hvar sjúkdóms, böls og sorgar mein
sèr munu' í gleði venda,
afþerruð tár og eymdakvein
aldrei mig framar henda;
glaður svo mína grafar-leið
geng eg í burt frá tímans neyð
og sælan öðlast enda.

## 3. BÆNARVERS.

Prentað eptir einni afskript af eiginhandar-riti.

Einka myskun Adams sona!
eg þess frelstur bið og vona,
gef mèr trausta trú á því:
sèr í gröf þá hold skal halla
hugga mína sál og kalla
paradísar unun í!

## 4. GRAFSKRIPT EPTIR KRISTÍNU OG SÍMON BECH.

Börn Sigurðar Símonarsonar á Bakka í Yxnadal. Grafskript þessi er ort 1798 og er prentuð hèr eptir einni afskript af eiginhandar-riti.

*Lag: Hvar mundi vera hjartað mitt.*

Við guðs hús þetta sofa sætt
systkin tvö, drottni þekk,
í faðmi Jesú kyst og kætt,
Kristín og Símon Bech;
helgra samkvæmi' á himnum mætt
hvort um sig barn inngekk;
syndar og böls í vaðli vætt
veröldin þau ei fèkk.

## 5. ÚTFARARMINNÍNG

**Jóns Jónssonar á Hálsi, sett yfir sæti hans í Bakkakirkju ár 1791. — Eptir einni afskript af eiginhandarriti.**

---

Sjá hèr! að sæti tómt
syrgir þann heyrði til
guðrækið geð og frómt,
glóandi' af trúar-yl;
sá það í brjósti bar
beið marga rauna-skúr,
Jón nefndur Jónsson var
Jesú hirðmaður trúr.

Líkaminn sína sæng
sofendum byggir hjá
guðs undir verndar-væng,
volæði numinn frá,
með sætan sigurhljóm
sál er inn gengin hans
himinsins helgidóm,
hendi lukt frelsarans.

Guð gefi', að annarr eins
æ byggi þetta rúm,
með elsku hjarta hreins
handfestur við Jesúm! —
Gefi guð öllum oss
að megum samsýngja
eptir afstaðinn kross
eilíft hallelúja!

---

## 6. VEGABRÈF FYRIR BÓK.

Parve, nec invideo, sine me liber ibis in urbem!
Hei mihi! quod domino non licet ire tuo.
*Ovidii tristium I, 1.*

Þú, litla bók! til borgar gengur
heina leið, án öfundar keims
af mèr, sem heima lúri lengur,
lítt vitandi af dómum heims
sem yfir þig fellast einsama;
ó, mættum verða samfara!

# REGISTUR

*yfir ljóðmæli séra Jóns Þorlákssonar eptir upphafsstafaröð.*

## LEIÐRÈTTÍNGAR OG VIÐURAUKAR.

(Til fyrri deildar að nokkru leiti frá Herra etazráði Finni Magnússyni.)

Í FYRRI DEILD. Bls. 145 ath. gr., 1775 l. 1755. Bls. 243: *Glaðværðin* mun vera snúin úr Þýðversku en ekki eptir Frankenau. Bls. 244: *Kvennareglur*, eptir dönsku kvæði. Bls. 247: *Vindrykkjan* er í leik nokkrum dönskum eptir N. T. Bruun. Bls. 311, l. 13: on, l. son. "*Sá föðurlausi*" er úr leik nokkrum sem Th. Thaarup hefir ort á dönsku; svo er og næsta kvæði þar á eptir. Bls. 359, *Álfur og Lýna* eru og í leik einum sem heitur Eirekur eygóði. Bls. 378, *Klögunarsaungur negra* er úr leik, sem Th. Thaarup hefir ort. Bls. 379, *Harmakvak Næturgalans* er ekki eptir séra Jón Þorláksson, heldur hefir Johnsonius lagt það út, og er það prentað áður í ritum ens íslenzka lærdómslista fèlags X, 273. Bls 393, l. 7: Í brèfi einu hefir sèra Jón sagt svo til: að leiðrètta skuli upphaf á einni vísu í kvæði v. Bars um demantinn:

Læt eg segulstein lakastan,
ljótur hversu sem vera kann,
hjá stærsta demant val mitt við
virðingar eiga forsæfið, o. s. frv.

Bls. 398, l. 12: aminam, l. animam. Bls. 404, Herz varð síðast Doktor í guðfræði og biskup á Jótlandi. Bls. 468: F. H. Guldberg hefir ekki verið kennari við listaháskólann heldur við skóla skotliðsforingjanna; hann er prófessor að nafnbót og er sonur Guldbergs þess sem áður var með að steypa Struensee og réði mestu í Danmörku þaðanaf og þángaðtil 1784. Sonur hans var frægur málafærslumaður við hæstarétt og andaðist í vetur er var.

Í SÍÐARI DEILD. Bls. 139: Erfiljóð þessi munu vera rángt árfærð, og er líkligra þau sé ort 1791; í upphafsstöfum versanna má rekja nafnið: Símon Sigurðsson Bekk. Í 4ðu línu yfirskriptarinnar á að bæta " við eptir orðið *Sigurinn*. Bls. 217, l. 17: Lædómur, l. Lærdómur. Bls. 259, 14: prest, l. prests. Bls. 261, 10: tèk, l. tek. Bls. 329, 15: friðartjöld, l. friðart. Bls 333, 19 er *þel* ofaukið. Bls. 339—346 hefir villzt um tölur á kvæðunum, og á að lesa 4, 5 og 6, ístaðinn fyrir 5, 6 og 7. Bls. 349: 1775, l. 1774. Bls. 404, 24: *þann* er *kallaður* var, l. *það* er *kallað* var. Bls. 436, 18: þann, l. það.